# FORNALDAR SÖGUR NORDRLANDA

EPTIR

## GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AF

## C. C. RAFN, P. D.,

Prófessor, Riddara af Danabrógsorðunni, Sekretéra hins konúngliga norræna fornfræða-félags, heiðrslimi, orðu- eða bréfligum limi hins skandínaviska lærdómslista-félags, hins íslenzka bókmenta-félags, hinnar kgl. svensku vitterhets-, sagnafræða- og fornfræða-akademíu, hinnar kgl. svensku stríðsvísinda-akademíu, hins kgl. skandínaviska sögufræða-félags í Stokkhólmi, hinnar kgl. írsku akademíu í Dýflini, hins enska fornfræða-félags í Nýakastala við Tínarelfu, hins kgl. þýzka félags í Konúngsbergi, hins þýzka túngufræða-félags í Berlín, Danavinafélagsins við Dóná, ásamt fornfræða-, bókmenta- og föðurlands félaganna í þrándheimi, Björgvin, Kristjaníu, Gautaborg, Oðinsey, Altónu, Mítá, Stettín, Breslá, Hohenlauben, Görlitz, Leipsig, Saxahöll, Minden, Munster, Vísbaðen, Vurzborg og Fríborg.

FYRSTA BINDI.

KAUPMANNAHÖFN, 1829.



# FORMÁLI.

Söguflokkr sá, af hverjum þetta it fyrsta bindi nú birtist, er tilætlað at innihalda skuli íslenzku sögurnar, er greina frá atburðum þeim, er orðit hafa hèr á Norðrlöndum, áðr enn Island bygðist á 9du öld, eðr með öðrum orðum, fyrir tímabil það, er áreiðanligar sagnir eru frá hafðar. Hinar sögurnar, sem viðkoma seinni tímum, hefir Hið Konungliga Norræna Fornfræða Felag tekizt á hendr að útgefa undir nafni Fornmanna sögur og Islendinga sögur. Enar síðartöldu, eigi þær að meta sem sannar sagnabækr, eru hinum miklu mætari. Eiga þó hinar engu að síðr skilið, að fornfræðamenn og fornaldarvinir gefi að þeim stóran gaum. Þær eru og sín á milli af ýmsum toga spunnar, því sumar eiga uppruna sinn að telja til enna gömlu norrænu þjóðarkvæða, og geyma þær lifandi mynd af forfeðra háttum, atbúnaði og trúarhugmyndum í fornöld; sumar á annann veg, sem færðar eru í letr þá fyrst, er Islendíngar höfðu gefið sig nokkuð við útlendum æfintýrum, bera dapurt skin af athöfnum forfeðranna og venjum aldar þeirra. Enar síðasttöldu, sem þó eru minnstr hlutinn þessa söguflokks, helzt þær sem verða í 3ðja bindinu, eru að diktunar fegrðinni til lítils metandi, og að frásögninni að mestu leiti óáreiðanligar, en eiga samt skilið að útgefast málsins vegna og aldrsins, er flestar eru 5 eða 6 hundruð ára gamlar. Hinar fyrrtöldu þarámót eru agætar að diktunarandanum, líka hágnýttar og til grundvallar lagðar við skrásetníng mætra sagnabóka af Norðr-

landa merkustu sagnariturum, t. d. Þormóði *Torfasyni (Torfæus)*, *Súhm*, *Schönning* og *Geijer*. Að sönnu eru frásagnirnar um svá gamla atburði í sèrhverju atriði ekki með öllu fullvissar eðr áreiðanligar, en þó munu optast skírar menjar og vitni fyrir aðalefninu, að satt sè; og en ýkjuliga meðferð, sem opt er viðhöfð í frásögninni, er samkvæm fornaldar anda, en sagan leiðir oss fyrir sjónir styrkustu dæmi um forfeðranna skrumlausu mannkosti, storráðan drengskap og bjargskorðaða trúfesti.

Téð ágæti, er greindum sögum er eiginligt, sem og skin það, er frá þeim berr yfir eldri bókmentir gjörvalls nyrðra hluta vorrar heimsálfu, hefir og áunnið þeim í Utlöndum marga, þá er að þeim dást og stunda þær af kappi. Meðal Þjóðverskra hafa enir lærðu fornfræðaiðkendr *Graeter*, *Grimm* og þó öllum fremr *F. H. von der Hagen* gjört löndum sínum kunn og þeim i skaut lagt téð fornrit; hefir og hið fræga skáld *F. de la Motte Fouqué* látið ena norrænu frömugu andagipt ávarpa aptr fjarlægar þjóðir í kappakvæðum þeim enum merku, er hann ort hefir. I formála sínum fyrir *Altnordische Lieder und Sagen* kveðr enn nafnkunni *von der Hagen* svo að orði: „Auðsèð er, hversu þessar sögur eru mikilvægar, og að þær út af fyrir sig, vegna þess frásagnarháttar, sem auðkennir þær, eru ágæt og snillilig rit, munu einkanliga Völsúnga og Ragnars loðbrókar sögur sanna; báðar þær eiga saman, og eru ásamt með Hervarar sögu einhverr hinn frægasti og mætasti af norrænum kappadiktum." I formálanum fyrir *Nordische Heldenromane*, sem innibinda þýzkar útleggíngar af sögum þessum, kveðr enn sami þýzki fræðimaðr svo að: „Gömlu fræðin föðurlands vors hafa nú algjörliga snúið stefnu sinni norðr á við, og benda með djúpsærri þýðíng, eins og segulnálin, að uppruna sínum. Báðar Eddur og margar sögur eru hjá oss nýútgefnar, og það bæði aðaltexti og útleggíng; mun og það jafnan meir og fram-

ar verða viðrkennt og kunnugt látið, hversu nákomin en gamla norræna og en fornþýzka kvæðasmíði er frá rótum, og það á margan hátt." Metandi og dæmandi atkvæði um söguflokk þenna gjörvallan má finna í *P. E. Müllers Sagabibliothek*, 2 *Bindi*.

Utgefarinn hefir áðr látið mikinn hluta þessa söguflokks útgánga á dönsku útlagðan og kallað *Nordiske Kæmpe-Historier, eller mythiske og romantiske Sagaer, efter islandske Haandskrifter fordanskede*, 1-3 *Bind*, *Kbhavn* 1821-1826, 8blf. Utleggíngunni var bæði hèr á Norðrlöndum og í Utlöndum með velvild tekið, og vann hún sèr álit þeirra, er skyn báru á; hún var metin í *Dansk Literaturtidende*, 1821, bls. 395-400, 1822, bls. 753-756, 1824, bls. 337-347, *Literatur- og Kunstblad*, 1821, bls. 1-4, 6-8, 11-12, 14-16, *Tilskueren*, 1821, bls. 681-694, *Tilskuerne*, 1822, bls. 174, *Revue encyclopédique* 1827, Maií, *Ergänzungsblätter zur Allgemeinen Literatur-Zeitung*, 1823, bls. 301-306, og í *Götting. gelehrte Anzeigen*, 1826, bls. 1540-1544; endar þessi enn síðastnefndi bókardómr á þann hátt, at hvetja utgefarann til að láta aðaltexta allra þeirra sagna útgefinn, og hefir nú verið viðleitað að láta þessu framkvæmt, eins og fyrri hafði ásett verið. Ný útgáfa á dönsku útgengr nú undir nafni NORDISKE FORTIDS SAGAER, EFTER DEN UDGIVNE ISLANDSKE ELLER GAMLE NORDISKE GRUNDSKRIFT OVERSATTE.

I broddi fylkíngar gánga hèr í bindi þessu enar snotru og inndælu frásagnir um enn fræga Danakonúng Hrólf kraka og ena hraustu kappa hans. Þvínæst fylgir sá sagnabálkr, er á fyrri öld hefir víðast gengið, og meðal vorra daga fornfræðavina er helzt að undrum hafðr, eru það frásagnirnar af Sigurði Fáfnisbana og ættmönnum hans. I þessum menjum ennar hinnstu fornaldar lýsir sèr bezt hið inndæla háleiti ennar norrænu goðafræði í hugfángandi enn þótt ógnarligum myndum. Því er svâ varið, sem einhverr enn mesti listavitríngr Þýzka-

lands *J. P. F. Richter* með tilliti til *Sigurd der Schlangentödter* (Sigurðar Fâfnisbana) *de la Motte Fouqués* ferr orðum um: „það er veldi, sem fullt er með ísaslot, frerahöf og jökla, mannfólkið þar er eikiskógr í stormviðri"; eðr einsog Síra *Grúndtvig* kveðr at í formálanum fyrir ritlíng sínum *Optrin af Norners og Asers Kamp*: „Iskappar, sem gánga fram, og þegar þeir bráðna, er það sem skýafall." Sigurðr Fâfnisbani, er í kvennlegginn átti ætt sína til Danmerkr að rekja, er og enn frægasti meðal þýzkalands fornaldarkappa, sem um er kveðið þar ásamt hetjum þeim, er honum fylgðu, og kallaðr *Sigfrid*, í því fegrsta af þýskalands fornkvæðum *Nibelungenlied*, sem þó er miklu ýngra og að innri umvöndun og ásigkomulagi lángt á eptir Eddukvæðum vorum, sem saga þessi er upprunnin af; svo kemst og Síra *Grúndtvig* að orðum á nefndum stað, til að sýna mismun á þeim og enum þýzku diktum: „Er allt í þeim alvara, allt er dulmælt, hetjuligt og sem járnreifat; ýkja ekki skáldin gömul æfintýr til skemtunar, heldr stara þeir með ógn og viðkvæmni á það eð mikla sjónarspil, er þeir afmála." Eptir Ragnars sögu ok sona hans, er á við þá ena umgetnu sögu, einsog líka söguþáttrinn af Norna gesti, kemr það merka brot um hinn víðfræga bardaga á Brávelli, og þá enar skáldligu fögru frásagnir um Heðinn og Högna, ásamt Hervarar sögu og Heiðreks konúngs.

Að þessu hèr töldu í því skyni, að sýna mál það, er meta berr þessar sögur eptir, og þá kosti er þær að því móti hafa til að bera, skal nú greint frá reglum þeim, er við hafa verið hafðar við útgáfu þessa, og þar eptir skal geta enna eldri utgáfna og útleggínga af sögum þeim, er þetta bindi inniheldr, og loks hver handrita atfaung hafa hèrvið hagnýtt verið.

Til grundvallar við útgáfuna hafa jafnan lagðar verit góðar skinnbækr, þar sem til voru, og að öðru leiti var jafnvel frá sögunni sagt í þeim og öðrum handritum;

en þegar hins vegar var, hafa beztu afskriftir á pappír, og sem helzt báru menjar þess, að vera fyrstu afskriftir af góðum skinnbókum, til grundvallar lagðar verið. Orðamunrinn er víðast ýtarliga tekinn, þar sem fleiri góðar og gamlar skinnbækr voru til af nokkurri sögu, enn sú er prentuð var eptir, en síðr af pappírshandritunum, nema þar sem meiníng eða fágætu orði varðaði, eða til upplýsíngar þótti um handritið; en allóvíða er þess getið, sem fjölorðara finnst stundum eða fáorðara og ómerkiligt, og ráða má víða viðbætt að vera af látgæði eðr ok vangá afskrifenda, nema stundum þar sem meiníngin var eigi skýlaus; en allt er slíkt gjört með meiri umhyggju eptir því sem sögurnar eru merkari. Þar sem engin skinnbók var til, þótti rèttast að taka orðamuninn nokkuð ýtarligar enn ella úr pappírshandritunum; en þegar ljósliga mátti sjá, að einhver þeirra var skrifuð eptir skinnbók eðr öðru handarriti því, er brúkað var, er þeirra að aungvu getið við samburðinn, nefnast þau samt í formálanum meðal handritanna. Helzt er lítt merkum orðamun, er finnst í eldri útgáfum saganna, sleppt. Kapítula skiptum er haldið annathvort eptir prentuðu útgáfunum eðr handritunum, þó er þar út af brugðið, þegar ekki þótti hlýða við efnið, sem stundum var, að hafa kapítula skipti. Fyrirsögnum fyrir kapítulunum er sleppt í flestum sögum, því óvíðast eru þær í handritunum, og þegar svo berr til, sjaldan læsiligar í skinnbókunum, og eru opt ekki nema ítrekuð fyrstu orð í kap., sem seinna eru yfirmáluð. Þau einstök orð, sem stundum hafa úr gleymzt í þeim bókum, er til grundvallar hafa lagðar verið, eru án frekari athugasemda innskotið milli 2ggja strika ( ). Um rèttritunina má þess geta, að hún er löguð eptir beztu skinnbókunum, þar sem þeim berr saman við aðrar góðar gamlar skinnbækr í rèttritunarmátanum og við sig sjálfar; að öðru leiti er rèttritunar

reglum þeim fylgt, er getið er í formálum Fornmanna saganna.

I þeirri uppskrift, er nú fylgir yfir handarrit þau, er hagnýtt hafa verit við útgáfu bindis þessa, er bókstafrinn, sem við sèrhvert stendr meðal tveggja strika ( ), merki það, sem handritið er teiknað með í orðamuninum. Öll handritin, sem einskis annars er við getið, eru úr Arna Magnússonar handrita safni *(Bibliotheca Arna-Magnæana)* á sívala turni í Kaupmannahöfn. Eru það og allt pappírs handrit, sem ekki er annars við getið.

1. SAGAN AF HROLFI KONUNGI KRAKA OK KÖPPUM HANS, bls. 1 - 109. Saga þessi er áðr prentuð með svenskri og látínskri útleggíngu í *Björners Nordiska Kämpadater, Stockholm, 1737., Fol.*; frásögnin er og færð í letr á látínu af *Þormóði Torfasyni (Torfæus)* í hans *Historia Hrolfi Krakii, Hafniæ* 1705. 8; efnið til *Oehlenschlägers Helge og Hroars Saga, Kbhavn.* 1814, 1817 og til *Hrolf Krake, et Heltedigt* í hans *Nye poetiske Skrifter, Kbhavn* 1828, 12, er og tekið af þessari sögu að miklu leiti.

Bækrnar, sem hagnýttar hafa verið við þessa útgáfu eru:

1. Til grundvallar er lagt pappírshandarritið Nr. 9 í arkarf. *(A)*, sem Síra *Jón Erlendsson* í Villíngaholti, er ritaði fyrir Biskup Mag. *Brynjúlf Sveinsson* í Skálholti sögubækr lengstum, hefir skrifað; má þess geta hèr, að handarrit, svo mörg sem hans eru, munu einhver hin áreiðanligustu og vel skrifuð, flestöll með hálfsettri skírri hendi, má það og ráða af ýmsu, að flest munu þau skrifuð eptir skinnbókum; tèð handrit mun og vera elzt þeirra er við hönd voru.

2. Nr. 11 í arkarf. *(D)* með fljótaskrift og hendi Síra *Jóns Gissurssonar.*

3. Nr. 12a í arkarf.; endar með Svipdagsþætti,

og tekr Nr. 12 b í arkarf. þar við, sem hitt endar, bæði með látinu letri (*E*).

4. Nr. 591e í 4blf (*F*) með fljótaskrift úr bók sem *Arni Magnússon* hefir fengið frá Síra *Olafi Gislasyni* á Vopnafirði.

5. Nr. 283 í 4blf. (*G*) með settletri.

6. Nr. 284 í 4blf. (*H*).

7. Nr. 285 í 4blf. (*I*) með hálfsettu letri.

8. Nr. 109 í 8blf. (*K*) með hálfsettu letri.

9. Nr. 4 í arkarf. úr Viðbætirnum (*Additamentis*) (*M*). Tèð handarrit frá 2 til 9 líkjast mjög svo *A*, þó eru *I* og *K* helzt frábrugðin.

10. Nr. 10 í arkarf. (*C*), víkr helzt útaf með að sleppa stöku greinum, er sjá má merki til í byrjun sögunnar, hvar þess er getið, en mest mun því af gáleysi skrifarans úr sleppt.

11. Kálfskinnsbók í Konúngsins stóra bókasafni (*L*), rituð af *Birni* prófasti og presti *Þorleifssyni* að Odda 1692, og tileinkuð Konúngi; sleppr ýmsum atriðum, er af vangá má sjá að hafa úrfallið; nýgjörvíngs orð eru líka sett fyrir önnur betri, t. d. selskab f. föruneyti, svo bókin er flestum hinum lakligri.

12. Þaraðauki var *Björners* útgáfa viðhöfð (*B*); hún er nokkuð fjölorðari sumstaðar, en það, sem er umfram hin handritin, er að öllu ómerkt og ósnjallt.

Sögunni þótti rèttast að skipta í 7 þætti, sem og er gjört, þó *A* ekki hefði skipt nema við suma, en nú er þeim háttað einsog í *B* og *L* og fl. og fyrirsögnin er tekin úr *L*. Þess má hèr og geta, að æfi Böðvars bjarka er líka serílagi færð í frásögn, og er svonefnd Saga Böðvars bjarka til í 2 pappírs handritum í Arna M. handritasafni Nr. 286 í 4blf. en hún er lítils metandi, og mun vera diktuð eigi fyrr enn á 15du öld, bera og eigi annars merki 2 vísur, sem í henni finnast. *Björner* hefir útgefið ágrip hennar í *Kämpadaterne*.

2. BROT BJARKAMALA ENNA FORNU, bls. 110-112. þau eru áðr prentuð með látínskri útleggíngu í *Bartholini Antiquit. Dan., Hafniæ* 1689 *4to*, bls. 178-182, og á *dönsku* útlögð *í Sandvigs Danske Sange af det ældste Tidsrum, Kbhavn*, 1779, 8, bls. 11, líka á þýzku *í Volckslieder*, bls. 175 og flg. og í *Sämtliche Werke der schönen Literat.*, 8 Th., bls. 421 af *Herder*: hefir og *Stephanius* í nótunum við *Saxa* útlagt þau. Fyrsta brotið er auk þess útgefið og útlagt í öllum útgáfum Olafs sögu helga í Heimskrínglu, og það annað er prentað í *Resens* og *Rasks* útgáfum af Snorra eddu; á látínu má það kenna í Saxa 2 bók, og enn er útleggíng á dönsku af fyrsta brotinu í *Syvs Kæmpeviser*, 4 *Deel*, bls. 392.

Fyrstu 2 vísurnar eru úr Olafs sögu ens helga, og eru teknar úr skinnbókarbroti góðu og gömlu, líkl. rituðu á öndverðri 14 öld, af sögunni í Nr. 325 (7) í 4blf, (O); þarvið eru samanbornar téðar vísur úr sögunni, Kap. 220, í Heimskrínglu (*H*); ok orðamunrinn *D* og *F* er tekinn þaðan. Hinar 3 vísurnar eru úr Snorra Eddu skáldskaparmálum, og eru teknar úr Eddu-kálfskinnsbókinni (*K*) í Konúngsins stóra bókasafni á 32 blaði; hún er allra Eddubóka ágætust; en orðamunrinn er tekinn eptir *Rasks* útgáfu af *Snorra Eddu ásamt Skáldu og þar með fylgjandi ritgjörðum, Stokkh.* 1818. 8blf. bls. 154 - 5; þýðir *O* Orms Eddu í A. M. handritasafni, en *U* Uppsala Eddubók. Síðustu tvö vísubrotin eru tekin úr *Bartholini Ant. Dan.* á fyrrn. st., því þó hann kveði svo að orði, að þau séu úr Eddu, eru þau þar nú eigi að finna, að vísu eigi í þeirri enni prentuðu.

3. VÖLSUNGA SAGA, bls. 113-234. Saga þessi er áðr prentuð með svenskri og látínskri útleggíngu í *Björners Nordiska Kämpadater, Stockholm* 1737, í arkarf. Texti *Björners* er aptr prentaðr með nokkrum

agizkuðum leiðrèttíngum í Prof. *F. H. von der Hagens Altnordische Lieder und Sagen, welche zum Fabelkreis des Heldenbuchs und der Niebelungen gehören; Zweite Sammlung, Breslau* 1814-1815, 8 *blf.* 4ða bindið af hans *Nordische Heldenromane* inniheldr líka þýzka útlegging af sögunni, og hún er þar kölluð: *Volsunga Saga oder Sigurd der Fafnirstödter und die Niflungen.* Rúnakvæði Brynhildar er á dönsku útlagt af *Abrahamson (eldra)*, og er prentað sem viðbætir aptan við *Nyerups Udsigt over Nordens ældste Poesie og dens Literatur, Kbhavn* 1798, 8 blf.; það er líka einsog allar vísurnar í sögunni prentað og útlagt í öllum útgáfunum og útleggíngunum af Sæmundar Eddu, og má það bæta upp með greinum úr sögunni, sem við kvæðin þar vantar, til þess efni þeirra verði skiljanligt og nái saman, einsog Próf. *Rask* hefir aðfarið í *Sæmundar Eddu*, er *Afzelius* hefir útgefið í Stokkhólmi 1818. Sjá og þá dönsku útlegging af Prof. *Finni Magnússyni: Den ældre Edda, en Samling af de nordiske Folks ældste Sagn og Sange ved Sæmund Sigfusson,* 4 *B.*, bls. 54 og flg. Efni sögunnar hefir Síra *N. F. S. Grúndtvig* farið yfir í ljóðmælum í hans *Optrin af Norners og Asers Kamp*, og *Baron de la Motte* Fouqué í hans *der Held des Nordens.*

Hagnýttar bækr við útgáfuna:

1. Til grundvallar er lögð kálfskinnsbók úr handritasafni ens konúngl. stóra bókasafns (*A*), skírt og allvell ritað, og að því sem ráða má af rèttritun og útliti skrifuð ofarliga á 14du öld í byrjun 15 aldar. Biskup Mag. *Br. Sveinsson* sendi Fridrek Danakonungi þridja téða bók fyrrum, en hún týndist skömmu síðar, og fannst fyrst aptr í króki á Konstakammerinu arið 1821; er hennar ýtarligar getið í Krákumála útgáfu, bls. 83-84. Fylgir og þarmeð einsog bindi þessu eyrgrafin líking (Facsimile) af einni blaðsíðu í bókinni, sem hefir niðrlag Ragnars sögu loðbrókar og upphaf Krákumála.

Bókin inniheldr Völsúnga sögu og söguna af Ragnari Loðbrók og sonum hans, ásamt Krákumálum; Völsúnga endar þar við kap. 43, og tekr Ragnars saga við með þeim kapítula, þó hann megi eptir efninu eigi viðskila verða við Völsúnga sögu; má vera að þetta sè af því orðið í skinnbókinni, að þegar sá, er ritaði, bætti fyrirsögnum kapítulanna við á eptir, hafi honum yfirsèzt, hvernin ástóð efninu, þegar ekkert auðkenni var meira við söguskiptin, enn ella við hina kapítulana, er þetta þá leiðrètt í útgáfunni. Flest hin handritin, er brúkuð hafa verið, binda líka báðar sögurnar saman, og kalla strax upphafliga sögu af Ragnari Loðbrók og mörgum öðrum konúngum merkiligum, (og sonum hans, sum), og merki eru til, að öll handrit, þau sem við hafa verið höfð, sèu upprunnin af skinnbókinni, því bæði er það að fyrsta blaðs innihaldið í henni, sem máð hefir verið, og líkliga einsog enn er að miklu leiti öldúngis ólæsiligt, er afbakað í öllum og styttra, þó handarritin framvegis víðast fylgi skinnbókinni nákvæmliga, og líka er sumstaðar eyða í þeim fyrir því, er óglöggt var í bókfellinu, ok það hið þriðja, að orð, sem óskír eða ógreinilig eru og hafa verið í því, standa afbökuð og meiníngarlaus í handritunum, t. d. í 2 kap. goðin fyrir Frigg; í 9 kap. meiníngarlaust, ok mann er heitir í liðinu fyrir ok mân hèr hittast í liðinu, í 27 kap. vantar frumver; í 23 kap. í öllum hlaupa fyrir hnípa; í 35 kap. vantar fóru ok, til þess meiníng verði í, er það dauft og bundið í skinnbókinni; þessu og mörgu fleira hefir nú við ýtarligri gætni, er við var höfð, betr tekizt að lesa í bókfellinu. Mörg slík einstök, einkum þau síðast nefndu orð, er á hefir verið vilzt, eru í sjálfri skinbókinni ógreiniliga skrifuð, og lítr svo út, sem sá, er ritaði hana, hafi sjálfr eigi getað lesið þau, og myndað þau því eptir öðrum, er fyrir honum voru; þaraf

ma því leiða, að þessi skinnbók sè afskrift af eldra bókfelli; er það enn því til staðfestíngar, að í 32 Kap., þar sem þess er getið, að Guðrún fór á skóga og til Hálfs konúngs, er á tveim stöðum í stað nafns hennar skrifað Grani, en það er í öðru sinni aptr leiðrètt, en í hinum staðnum er því gleymt; hefir afskrifarinn þar orðið að lesa rángt úr G fyrst, en síðan ráðið í, hvernin lesa átti, af efninu, því annars gat honum eigi í hug komið, að láta Grana þar viðgetið. Eigi hefir leikr maðr skrifað bókina, því yfir blaðsíðu einni í 30 kap. stendr með sömu hendi og rauðum stöfum: *dextra scriptoris benedicta sit omnibus horis.* I rèttritun bókarinnar er það helzt afbrugðið, að víða er *h* ofaukið eptir samhljoðendr, einkum eptir *g* og *t*, t. d. Sighe, vargh, gerfilighr, hríngh, úth o. s. frv., *ea* stendr víða fyrir *ja* í orðum, t. d. sea f. sjá og sá, seálfr f. sjálfr; *x* stendr víða fyrir *ks*, t. d. í lox, Hjálprex, þó þetta, einsog *z* í líðanda orðfalls endíngunni megi eigi álíta öðruvís enn skammstöfun; *fu* er opt brúkað fyrir *f*, t. d. gerfuiligr, æfui, lifua; *æ* opt f. *e* elligar *è*, t. d. bæð, f. beð, bæzt f. bezt, ræðu f. rèðu; *ei* opt f. *è*, t. d. leikf. lèk, heit f. hèt; er og víðast sett *g* á millum, þar sem *ja* kemr eptir *y* í orði, t. d. flygja, deygja, meygjar, frygja, f. flýa, deyja, meyjar, frýa. Fyrirsagnir kap. eru skrifaðar með rauðu, en eru víðast máðar og auk þess ómerkar.

2. Pappírs handarritið Nr. 6 í arkarf. (*H*), sem Síra *Jón Erlendsson* hefir skrifað, gengr *A* næst, og er líkliga ritað eptir henni. Ur þessu handarriti er það tekið í byrjun sögunnar, sem ekki varð lesið af fyrsta skinnbókarblaðinu.

3. Nr. 7 í arkarf. (*C*), með hendi *Ásgeirs Jónssonar*, skrifara *Þormóðar Torfasonar* sagnaritara.

4. Nr. 1006 í arkarf. (*D*), úr eldra handritasafninu á Konúngsins stóra bókasafni.

5. Nr. 2 í arkarf. *(E)*.

6. Nr. 3 í arkarf. *(F)*

7. Nr. 8 í arkarf. *(G)*, með settletri; er þar útá spázíunni orðamunr ýtarliga tekinn úr handarriti í 4blf. með hendi *Sigurðar Jónssonar* á Knör, mun það vera Nr. 281 í 4blf., þarsem orðamunrinn er því öldúngis samhljóða.

8. *Björners* útgáfa *(B)*, sem víða sleppir greinum, og er afbökuð helzt að því sem óvalin og ósvinnu orð eru sett víða í stað meir vandaðra í hinum handritunum, og það mest eptir því sem á söguna líðr; en vísurnar eru allar teknar úr Sæmundar Eddu, og að vísu eigi úr sjálfri sögunni. Téðri utgáfu líkjast helzt, þó lítt merk sèu,

9-10 Nr. 281 í 4blf. *(I)* og Nr. 5 í arkarf. *(K)*.

4. SAGA AF RAGNARI KONUNGI LODBROK OK SONUM HANS, bls. 235-299. Saga þessi er áðr prentuð og útlögð í *Björners Nordiska Kämpadater* eins og sú undanfarna; *Björners* höfuðtexti er aptr prentaðr í Prof. *F. H. von der Hagens Altnordische Sagen und Lieder, Zweite Sammlung*, og útlögð af honum í ritsafninu *Nordische Heldenromane, 5 B. Breslau* 1828. Aðr er sagan utlögð á þýzku af *Karl Viktor v. Bonstetten*, og stendr í hans *Neue Schriften, 2 Th. Kopenhagen* 1800 frá bls. 201. *I Bibliothéque universelle des Romans, à Paris* 1784, 2 *Vol.* bls, 43 og flg. stendr æfintýri, er kallast *Regner Lodbrok*, en kemr óvíða saman við söguna. En það er þó athuganda, sem fyrir framan stendr umgetið, að það sè samhljóða handriti, er geymist í Konúngsins bókasafni þar, og nefnist Ragnars saga loðbrókar. Nokkrum hluta sögunnar, er viðkemr Aslaugu, er skáldliga fyrirkomið af *de la Motte Fouqué*, og er þriðl

bálkrinu í hans ágætu þríþættu *Sigurd der Schlangentödter*, *Sigurds Rache* und *Aslauga*, tilsamans kallaðri *Der Held des Nordens*. Vísurnar úr sögu þessari eru áðr útgefnar í *Nordiske Kæmpe-Historier*, Ie. bls. 177-252, aptan við sjálfa söguna eptir bókfellinu *A* með fleirum orðamunum, enn nú þótti þörf á aptr að ítreka; hefir nú og sumstaðar lesizt betr skinnbókin; þar voru þá hagnýttar við orðamun afskrift úr Etatsráðs *Thorlacíussar* handritasafni í 4blf. og önnur úr Etatsráðs *Kalls* safni líka í 4blf., sem nú finnast meðal handrita hans í því konúngl. stóra bókasafni, var og brúkuð *Magni Olavii Enodatio cantilenarum quarundam*, Nr. 762 í 4blf., hvarí standa 1sta, 3ðja, 4ða og 5ta vísan, sem hann með mikilri yfirlegu hefir skrifað eptir handriti, er af sliti og blettum var lítt læsiligt orðið, en sè eitthvað nýtt í orðamun þeim, er úr tèðum handritum er tekinn, og ekki er hèr getið, má hann sjá á greindum stað.

Bækrnar, sem hagnýttar hafa verið við útgáfuna, eru:

1. Til grundvallar er lögð skinnbókin, en sama og við Völsúnga sögu, sem þar var lýst.

2-10. Bækrnar, sem um var getið við Völsúnga sögu, og þar var lýst, en engin af þeim nema *B* greina Ragnars frá Völsúnga sögu.

11. *Nr.* 282 í *4blf.* *(L)*, sem ekki inniheldr nema Ragnars sögu; bók þessi ferr mjök nærri *B*, og fremr enn nokkur önnur, en er ógreiniliga skrifuð, og *Arni Magnússon* hefir þannig lýst henni framaná: „þetta exemplar er hið versta grei."

5. KRAKUMAL, bls. 300-310. Ekkert af ennm gömlu norrænu sögukvæðum hefir jafnopt verið útgefið og prentað sem þetta, því að öllu með töldu eru til af því 30 ýmisligar prentaðar útgáfur og útleggíngar á danska, látínska, þýzka, hollenzka, enska,

franska og ítalienska túngu. Helztu útgáfurnar eru: í *Worms Danica Litteratura antiquissima*, *Hafniæ* 1636, 4blf., og aptr 1651 í arkarf. og *Johnstones Loðbrókar Qviða, or the Deathsong of Lodbroc*, 1782, 8blf., báðar með látínskri útleggíngu og en síðari þaraðauki með enskri; enn fremr útleggíngar *Sandvigs* á dönsku í *Danske Sange af det ældste Tidsrum*, *Kbhvn.* 1779, 8blf. líka *F. D. Graeters* á þýzku í *Nordische Bluhmen* 1789, og 2ur útgáfa 1812, líka í hans *Gedichten*, bls. 291-314; og loks *W. Herberts* á ensku í *Miscellaneous Poetry*, Vol. 2. Af því ný aptrfundna skinnbókin, sem fyrr var getit, líka ýmislig handrit gáfu efni ýmissra leiðrèttínga í nýrri útgáfu kvæðisins, tók sèr þessa sagnaflokks útgefari fyrir hendr að búa hana, og er hún prentuð með þessum titli: KRAKUMAL, *sive epicedium Ragnaris Lodbroci, Regis Daniæ*; *Krakas Maal, eller Kvad om Kong Ragnar Lodbroks Krigsbedrifter og Heltedöd, efter en gammel Skindbog og flere hidtil ubenyttede Haandskrifter med dansk, latinsk og fransk Oversættelse, forskjellige Læsemaader, samt kritiske og philologiske Anmærkninger, Kbhvn* og *London* 1826, 8. Við tèða útgáfu voru vandliga hagnýtt öll handrit og útgáfur, er fengist gátu, og skal því þeim vísað þartil, er ýtarligar vilja kynna sèr þetta merka kvæði; en í þessari útgáfu er eigi tekin nema helzti orðamunrinn, sem nokkurs þótti varða, og eru til þess viðhafðar auk:

1. Skinnbókarinnar, *(A)* sem endar í 22 vísunni,

2-7. áðrtaldar bækr *B*, *C*, *D*, *E*, *F*, *H*, sem kvæðið stendr í, og er niðrlagið, sem við skinnbókina vantar, tekið úr *(H)*; þarðauki sèrilagi:

8. Nr. 761 í *4bl*. *(M)*, afskrift af kvæðinu með hendi *Arna Magnússonar*.

9. Nr. 738 í 4blf., er inniheldr Eddu, eða samtök fornra æfintýra og dæmisagna, eru þarí einnig rúmar 16 fyrstu vísur kvæðisins.

10. Utgáfa kvæðisins áðrgreind af *Worm (W)*; mun hún vera einasta bókin af kvæðinu, sem við var höfð, er ekki sè kannske upprunnin af bókfellinu *A*. Þess má hèr geta, að í *B* og *W* stendr 8da vísan (eptir niðrröðuninni hèr) á undan enni 7du, líka 20asta *í H, C, E, F, M, U, B, W* á undan enni 19du, ennfremr að bæði niðrlags stefin í 14du vísunni eru flutt í ena 20ustu í *W* og *B*, og þau tilsvarandi úr henni þángat; og loks, að 16du vísuna vantar í *A*, er henni líkliga annaðhvort gleymt, því þar *stóð á blaðaskiptum*, elligar hún hefir staðið í því, er farizt hefir aptanaf.

6. SÖGUÞÁTTR AF NORNA-GESTI, bls.311-342. Þáttr þessi er áðr prentaðr með svenskri og látínskri útleggíngu *í Björners Nordiska Kämpadater*, er og útgefinn í Sögu Olafs konúngs Tryggvasonar, Skalh. 1689, 4blf., 2 p. bls. 132-146. Höfuðtexti *Björners* er aptr prentaðr í Prof. *Fr. H. von der Hagens Altnordische Sagen und Lieder, Zweite Sammlung, Breslau* 1815, og útlagt á þýzku í hans *Nordische Heldenromane, 5 B., Breslau* 1828. Síra *Grúndtvig* hefir snúið honum á dönsku í *Heimdal, en Nyaarsgave for* 1816.

Hagnýttar bækr við útgáfuna:

1. Til grundvallar er lögð skinnbókin Nr. 2845 í litlu 4rablf., úr handritasafninu á enu konúngliga stóra bókasafni (*A*); hún inniheldr þaraðauki fleiri sögur af flokki þeim, er hèr útgefst, sem á sínum stöðum mun við getið, og þaraðauk Bandamanna sögu, Orms þátt Stórólfs sonar og Rauðúlfs þátt. Bókin er allvel skrifuð og regluliga, en þó með skjálfandi hendi. Rèttritunin er hvorki mjög gömul nè heldr nýgjörvíngslig, og er ekkert við hana sèrligt að athuga hèr, nema ef vera skyldi þat, að stundum tvöfaldast hljóðið í orðum, þótt það annars sè einfaldt, t. d. ú t t i og ú t t f. ú t i og ú t. Eptir útliti bókarinnar og öðrum

rökum þikkir hún vel vera mega frá byrjun 15du aldar. Norna-Gests þáttr byrjar á fyrri síðu 15da blaðs, og endar á 21 blaðs aptari síðu; Nr. 348 í 4blf. er afskrift af þættinum eptir hèr taldri bók.

2. Flateyjarbókin á enu stóra konúngliga bókasafni, á 177-183 dálki (*F*), ferr nærri *A*; eptir henni eru afskríftirnar Nr. 57 og 65 í arkarf. og 567 (9) í 4blf. ritaðar.

3. Skinnbókin Nr. 309 í 4blf. (þ), er lítt merk; þar byrjar þáttrinn á 23 bls. 4ða dálki, og endar á 25 bls. 2. d., hún fylgir *F* nærri orðrètt.

4. Skinnbókin Nr. 62 í arkarf. (*S*); er brot af Olafs Tryggvasonar sögu; í henni hefst þáttrinn á 29 blaðs 2ðrum dálki, og endar á 31 blaðs 3ðja dálki; og er helzt í henni nokkur merkr orðamunr, sem hinar bækrnar ekki hafa; hún er smátt, enn allvel skrifuð, og mun rituð seint á 15du öld. I enum þrem síðast töldu bókum er þáttrinn bálkr úr Olafs sögu Tryggvasonar, mun hann og svo í fyrstu ritaðr, en eigi innskotið seinna, sem mörgum öðrum þáttum, í sögu hans.

5. *Björners* útgáfa (*B*); berr að mestu saman við *A*, *F* og þ.

6. Nr. 202 iα, pappírshandrit með rithönd *Jóns Gissurssonar* (*G*); að líkendum er hún þó skrifuð eptir *A*, því í 6ta kap. er þar eyða í henni, sem í *A* er mjög máð, og sumar skrifvillurnar úr *A*, t. d. I n d í a f j a l l i, f. M u n d í a f j a l l i standa í henni. Af útaldri bók er Nr. 202iβ aptr afskrift.

7. ÞATTR AF RAGNARS SONUM, bls. 343-360. Þáttrinn er áðr útgefinn ásamt þættinum af Upplendíngakonúngum í *Langebeks Scriptores rerum Danicarum medii ævi*, *T.* 2, bls. 266-286, og er þar nefndr *Fragmentum Islandicum de Regibus Dano-Norvegicis*

*ab Ivare Vidfadme ad Haraldum Blaatand*; með látínskri útleggíngu af *Jóni Olafssyni* frá Svefneyjum. Sama skinnbókin, Nr. 544 í 4blf. (*A*), sem *Langebek* hefir farið eptir [og látið meðfylgja eyrgrafið prentað sýnishorn af, er og lögð til grundvallar við þessa útgáfu þáttanna; en af því þeir ekki eiga saman, sem bæði efnið sýnir, og líka eru glöggar menjar um í bókfellinu, er hèr ætlað hinum þættinum af Upplendínga konúngum stað í 2ðru bindinu, er viðvíkr fremr Noregi. Bókfellið er eitthvert hið ágætasta og í eldra lagi, og er útlit og stafasetníng hennar nóg rök til, að eigi sè ýngra enn frá byrjun 14du aldar, þat er greiniliga og hvervetna regluliga skrifað, og fylgir beztu bókfella rèttritun, en þessa má þó geta, sem helzt er afbrugðið: œ er brúkað fyrir *æ* þar sem hljóðið er leidt af *ó*, t. d. b r œ ð r u m; o r, h o n f. ú r, h ú n, endíngin *o* f. *u*, *om* f. *um*; *v* er hvervetna viðhaft f. *u*; fyrir *ss* er víðast skrifað rs, t. d. þ e r s i, o r s f. þ e s s i, o s s; *j* er opt skotið inn milli *g* og *a*, þar sem ekkert aðblástrs hljoð nú heyrist, t. d. ú v í g j a n f. ú v í g a n; *s* er brúkað í niðrlagi orða fyrir *st*, t. d. k v e ð s, s t ó ð s, r è ð s, t í ð s, f. k v e ð s t o. s. frv.; líka *x* fyrir *gs* og stundum *ks*, t. d. *dax, rixtr* f. *dags, ríkstr*. Bókfellið er víða máð af elli, og hefir sumstaðar verið uppskírt aptr. Hjá *Langebek* (*L*) eru ýmislig orð skakkt lesin, er þeirra helztu í orðamununum viðgetið, og í niðrlagin eru púnktar settir fyrir nokkur, sem eigi hefir hann framúr komizt, og þó farið lengra en afskriftin, sem til er Nr. 307 í 4blf. Við seinasta orðið, sem hann lesið hefir N o r e g s fyrir N o r e g i, er við sett: *Cetera vix legi possunt*, má þaraf ráða, að hann einsog fleiri síðan, hafa ætlað nokkuð vantaði aptan við þátt þenna; nú er það eigi, og varð hvert orð loks lesið með yfirlegu, og til merkis um, að þáttrinn sè þar úti, má það tilfæra, að með annarri, en þó jafn gamalli hendi koma strax á ofan nokkrar spár á látínu um veðrlag af ársins fyrstu dögum: þannig: *Si*

*prima feria fuerit kalendas januarii hiems bonus, ver ventuosus, estas sicca et vindemia bona, boves crescunt, et mel abundat, et vituli moriuntur. Si secunda*, o. s. frv. Mitt á blaðsíðunni kemr þaráofan nokkuð um tunglkomu á íslenzku; þarnæst aptr á látínu um veðrafar.

8. SÖGUBROT AF NOKKRUM FORNKONUNGUM I DANA OK SVIAVELDI, bls. 361-388. Brot þetta er áðr útgefið með svenskri útleggíngu af *I. F. Peringskjöld*, og kallast: *Sögubrot af nokkorum fornkóngum i Dana ok Sviaveldi, eller Sagabrott handlande om nogra forna konungar i Swerige och Danmark samt om Bråvalla-Slaget, Stockholm* 1719 *4blf.* Mestan hluta brots þessa hefir Síra *N. F. S. Grúndtvig* snúið á dönsku, og kallað *Saga om Halfdans Sönner og Harald Hildetand* í *Dannevirke*, 1 *B.*, bls. 356-392. Frásögnin af Brávallabardaga er sérílagi prentuð með látínskri útleggíngu og skíríngargreinum af *C. E. Norman* í magísterdispútazíu, *Gripsvaldæ* 1815. Af sögunni er og efni dregið til ennar snotru sögu af *Samsöe*, er nefnist *Halfdans Sönner, en Fortælling i* hans *Efterladte digteriske Skrifter, udg. ved Rahbek* 3. *Opl. Kbhavn* 1805 8blf., 1 B. bls. 71-130.

Bækr þær, sem hagnýttar hafa verið, eru:

1. Til grundvallar eru lögð 6 bókfells blöð í 4blf., sem geymast meðal handritanna í arkarformi Nr. 1eβ (*A*); eru þau brot af ágætri kálfskinnsbók, sem eigi mun seinna skrifuð enn í byrjun 14du aldar eða kannske á ofan verðri 13du öld, eptir því sem útlit og réttritun tilbenda; hún er einhver snotrlegast, greiniligast og regluligast skrifuð skinnbók af þeim, sem fyrir hafa borið á íslenzku. Til þess þikkir merki sjá mega, að hún sé eptir annarri eldri skrifuð, er það helzt á því byggt, að í 9da kap. er eyða fyrir 2 eða 3 orðum, sem í vanta meinínguna, en

skírt skrifað fyrir framan og aptan, verðr þetta eigi ráðið öðruvís, enn að sá, er reit, hafi þar eigi getað lesið orð, er fyrir báru í bókinni, er eptir var skrifað, og látið því audt standa; svo þikkir og í öðrum stað, sem hafi hann myndað eptir orð, er eigi gati hann lesið til vissu, því þar eru stafirnir ógreiniligir, er aldrei berr við *ella*; talið orð er S ö g j a, sem kannske hefir verið K ö g j a í eldri bókinni. Hvað mikið vantar framan við eða aptan við blöð þessi, má eigi vita; hitt er líkligt, að í miðjuna vanti eigi meir enn 2 blöð eða opnu, því bæði eru líkendi til þess af efninu, og líka eru sjaldan fleiri enn 8 blöð í einu lagi samföst í skinnbókum í 4rablf. Hjá skinnbókarblöðunum liggja nokkurjar athugasemdir með *Arna Magnussonar* hendi, sem virðast að benda til þess, að hann hefir haldið þetta brot af S k j ö l d ú n g a s ö g u; sú er helzt merkust, að þar getr, að „Skjöldúnga saga stendr í Möðruvalla klaustrs máldaga i visitatíubók Olafs Hóla biskups circa 147." Skinnbókarbrotið hefir *Arni Magnússon* allt með eigin hendi afskrifað (Nr. 1 d*a* í arkarf.) svo vandliga, að aungvum bókstaf í skinnbókinni er brjálað í handriti hans; hefir því og þessi útgáfa verið samanborin við það til ýtarligri vissu um, að bókfellið rètt væri lesið, var þess og einkum þörf á fyrri síðu fyrsta blaðs og enni síðari þess efsta, því þau eru nú bæði mjög svâ leit og dauf orðin; en þar sem efi var um rèttan lestur stöku orðs, er þess í athugasemdunum viðgetið. I rèttritun bókfells þessa er eigi allfátt nokkuð frábrugðið: t. d. œ. optast f. *æ* í orðum, þar sem undirstöðuorðið hefir *ó* hljóðið, t. d. b r œ ð r, bæði í gjaffalli í eintíli og í föllunum í fleirtíli, d œ m a, h œ g r, k œ f a, k œ m i, m œ t i r, n a f n b œ t r, óh œ f t, s œ m d a r, v â p n f œ r r, ennfremr: f œ z (f œ ð s t) f r œ k n i, h r œ d d-astr, œ r i t, œ z t i (œðsti) œ r n a r, œ r e n d i, og nöfnin B l œ n g r, H r œ r e k r s l œ n g v a n d b a u g i, H r o k k e l l h œ k j a og K œ n u g a r ð r; *œ* fyrir e i g i; e k brúkast hvervetna f. *kk*; h o n f. h ú n, og ekki bundið, þ optast

f. ð (stúngið), líka kemr það stundum eptir *l. m. n.* t. d. dulþu, dreymþi, ynþi, vanþi, sæmþar. Af þessu broti eru og til nokkrar aðrar afskriftir, en allar eru nokkuð umhverfðar, og þar meir, sem bókfellið er dauft: eru það:

2. Nr. 1a meðal arkarf. bóka *(B)*, handrit Síra *JónsErlendssonar* í Villíngaholti, og því frá miðri 17du öld; það ferr nokkuð næst.

3. *Nr.* 1*b* í arkarf. *(C)*.

4. *Nr.* 1*c* í arkarf. *(D)*.

5. *Nr.* 1*dβ* í arkarf. *(E)*.

6. *Nr.* 1*eð* í arkarf. *(F)*.

7. *Peringskjölds* útgáfa *(P)*; mest víkr þó *P* frá orðum bókfellsins, og það einsog hinar helzt á fyrstu og síðustu máðu síðunum, og það bæði í einstöku orðum og frásögninni, þó atburðirnir sèu jafnan hinir sömu; sleppa þó *P* og sum taldra handrita stundum greinum úr og afbaka nöfn gjörsamliga, t. d. *Ursína í P, E,* fyrir *Visma*, o. s. frv. En þó nú svo sè, má eigi annað vera, enn allar þessar bækr sèu upprunnar af bókfellinu *A*, þar sem allar byrja á sama stað og það, enda því nær og einnig; hafa líka allar sömu eyðu í miðri frásögninni, þar sem blöðin vanta í bókfellið. Það er eigi ætlanda, að allar þær sèu afskriftir í 1sta lið af *A*, sízt sú er Síra *Jón Erlendsson* skrifað hefir, þó næst gángi hún; heldr mun það að brotið hefir opt gálausliga verið afskrifað af slíkum, er eigi hafa gefið gaum að öðru enn efninu; handrit þessi og *P* eru því einskis virði hjá *A*, og óþarfi virðtist að hrúga saman öllum orðamun þeirra og því er við einstöku vandskilin orð einúngis tilfærðr orðamunr þeirra, sem eigi má álíta öðruvís enn tilraunar getgátur þeirra, er viðáttu, að greiða úr því, er flókið var eða vandskilið. En það má læra af þessum afbökunum, að þeir villast ærið mjög, er hefja skóggángs

sök á hendr sjálfum sögunum, af því nýgjörvíngs orð eða still berzt fyrir á millum í þeim.

9. SÖRLA - ÞATTR, bls. 389-407. Þáttr þessi er áðr útgefinn af *Rudbeck*, og nefnist: *Historia duorum Regum Hedini et Hugonis, ex antiqua lingua Norvegica per D. Jonam Gudmundi in Latinam translata*; *opera et studio Ol. Rudbeckii, Upsal.* 1697 arkarf.; er og prentaðr í Skálholts útgáfunni af Olafs sögu Tryggvasonar, 2 p. bls. 49-58. Fyrstu 2 kapít. eru einnig prentaðir, og nefnast: *Um Brísingamen* aptan við *Rasks* útgáfu af Snorra Eddu ásamt Skáldu. Efnið til Samsöes *Hildur, en Fortælling* í hans *Saml. Skr.* 1 *D. bls.* 35-70, er líka tekið úr þessum þætti.

Bækr þær, er hagnýttar hafa verið, eru:

1. Til grundvallar er lögð Flateyjarbókin *(F)*, hvar þáttr þessi er bálkr í Olafs sögu Tryggvasonar (á 140-144 dálki), og nefnist *Sörla Þáttr*; er honum þar í hnýtt, af því sagan kemr þar við Olaf konúng, er einn manna hans, Ivar ljómi, gerði enda á álögum Hèðins og Högna. Handritin Nr. 56 í arkarf., og Nr. 587e í 4rablf. eru upprunnin af Flateyjarbók, og voru því eigi viðhöfð.

2. *Rúdbecks* útgáfa *(R)*, líkliga eptir ýngra handriti og lítt merku, í henni eru og margar prentvillur.

10. HERVARAR SAGA OK HEIDREKS KONUNGS, bls. 409-512. og bls. 513-533. Sagan er áðr útgefin með svenskri útleggíngu og mörgum skíríngargreinum á látínu af *O. Verelius*, Upsala 1672 í arkarf.; og þarnæst með látínskri útleggíngu af *Stepháni Björnssyni* á Kammerherra *Súhms* kostnað, *Hafniæ* 1785 í 4blf. Tèðrar útgáfu texti er saman settr eptir hugþótta úr mörgum handritum, sem hvert hefir sína meðferð á sögunni, þó helzt sè handritinu *(A)*, sem síðar

nefnist, fylgt; en útgefandinn hefir auk þess umbreytt mörgu á þann hátt, sem í aungvum finnst handritanna. Eptir *Verellusar* texta hefir hofprestrinn *Afzelius* útlagt söguna að nýu á svensku, og útgefið með því, er merkast var af skíríngargreinum *Verelíusar* í *Stokkholm* 1811, 8blf. Prof. *Graeter* hefir fært aðalefni sögunnar í letr og kallað: *Tyrfing oder das Zwergengeschmeide* í *Bragur* 1, 2 og 7 B.; og Síra *Grúndtvíg* hefir snúið efninu á dönsku í *Idunna*, en *Nyaarsgave for* 1811, 8blf. I enni svensku *Idunna 9da deild, Stokkh.* 1822 bls. 38-118, er ritlíngr nokkur sögu þessari viðkomandi, er kallast: *Om Krigen på Samsö, et historiskt geographiskt Bidrag til Nordens Fornskundskab i Anledning af Hervörs sagan.* Sögukvæðin eru hèraðauk útlögð á dönsku þýzku, frönsku og ítaliensku, og prentuð í ýmsum ritsöfnum.

Bækr þessar hafa hagnýttar verið við útgáfuna:

1. Til grundvallar er lagt pappírshandritið Nr. 345 í 4blf. (*A*), skrifað 1694 og með hálfsettri hendi og hvorki regluliga né greiniliga; en því var það brúkað hèr, að það er fyllst allra handritanna, og eigi að málinu hinum lakara, en þó er eigi ólíkligt, að sú meðferð sögunnar, sem það inniheldr, sè af þeim eldri, sem hinar munu vera, upprunnin. Gáturnar eru teknar úr Kaupmannahafnar útgáfunni, en í henni voru þær prentaðar eptir handriti, sem Conferentzráð *Erichsen* þá átti (*E*), en nú fekkst ekkert handrit, sem þær hafði þannig; en því voru þær hèr heldr prentaðar á þann hátt, að likendi þikkja til, að eins spúrsmáls gáturnar enn eru víðast hvervetna í ljóðum, muni og andsvörin þannig verið hafa, mundi og trauðliga ella eptir svo lánga tíma bera saman ráðníngar orðunum, sem enn gerir, en ráðningar ljóðin mega eins hafa afbakazt og með sum hinna hefir tilborið. Orðamunrinn, sem *A* hefir við tèðar gátur, er greiniliga tilfærðr.

2. Skinnbókin Nr. 2845 í litlu 4blf. (*M.*) í handritasafninu á enu stóra kgl. bókasafni, sem áðr er lýst við Norna-Gests sögupátt. Sagan er þar á 12 síðustu bókarblöðunum, en aptan við í hana vantar nokkuð, og endar hún ofarliga í 16da kap. Inngángrinn til sögunnar, eða 4 fyrstu kap. í *A* eru í stuttu ágripi í henni, og víðast ferr hún styttra yfir enn *A*, þó bregðr og útaf því sumstaðar, helzt í 14da kap., er *M* þar fyllri að orðum og frásögn. Af þessari meðferð sögunnar eru sprottin pappírshandritin Nr. 202k og 193a í arkarf., líka 355, 359a, og 591k í 4rablf., og líkligast öll eptir téðri skinnbók rituð, þó víða séu þau úr stað færð og afbökuð, þar sem öll enda undir eins og hún, og þóttu því eigi hér hagnýtandi.

3. Nr. 192 í arkarf. (*J*). Handarrit þetta, ritað af Síra *Jóni Erlendssyni* í Villíngaholti með settaskrift, byrjar á inngángi sama og *A* að 4ða kap., en þeirri meðferð sögunnar, sem hann er úr tekinn, hefir eigi lengra fylgt verið; þó líkligt sé að þessi meðferð sögunnar hafi öll verið *A* samhljóða, er það þó eina kannske til mótsagnar, að fyrirsögn handrits þessa er: Hervarar þáttr enn gamli, svo þar af mætti ráða, að Heiðreks saga hefði eigi verið þar ásamt, en líkara er að fyrirsögnin sé seinna smíðuð, og án þess að þartil sé litið. Þar sem inngángs brot þetta dettr niðr í *J*, byrjar sagan aptr með inngángi þeim, sem *M* hefir, og haldast þau handrit í hendr frameptir þángað sem *M* nær, og eru að meiníngu hvervetna og að orðum allvíðast samhljóða. En því hefir sá, er ritaði *J*, og líkliga hafði bæði *A* og *M* meðferðina af sögunni fyrir sér, sleppt *A* meðferðinni, þegar inngánginum var lokið í henni, en *M* byrjuð, að sú en síðar nefnda ber með sér, að hún eldri væri, þar sem hún eigi var jafnfjölyrdt, var og kannske betra handrit fyrir af enni síðari. Orðamunarins millum *A* og *J* og *M* er helzt í byrjunni ýtarliga getið, að lesandinn geti

gjört sèr skíra hugmynd um handritin, en úr því er hans eigi getið nema þar sem miklu varðaði í atburða frásögninni. Samhljóða *J* eru handritin Nr. 203 í arkarf. og 359b, líka 582 í 4rablf.

5. *Verelíusar* útgáfa, mun vera skyldust *J* og *M* meðferð sögunnar, en víkr þó víða frá, einkum í þeim bálkinum, er frá Örvar-Oddi segir, og virðist hún þar vera löguð eptir Örvar-Odds sögu. Orðamunrinn er víðast ómerkr, þó nógr sè. Þess má geta, að í Kaupmannahafnar útgáfunni er víða orðamunar og viðbætirs í frásögninni getið af *V*, sem eigi stendr í henni.

Sú elzta og að öllu en bezta meðferð á sögunni er til í broti hennar í skinnbókinni Nr. 544 í 4blf. (*Skb.*), sem við þáttinn af Ragnars sonum var frásagt. Af því þessi meðferð sögunnar er hinum svo ólík, en skinnbókin ágæt, þótti vel verðugt, að láta brot þetta fylgja sjálfri sögunni, og er það því aptast í bindi þessu prentað orðrètt eptir skinnbókinni með smám bókstöfum. Bókfellið er mjög máð og helzt á síðustu blaðsíðunni, en þó tókst að lesa það allt. Nr. 354 í 4blf. er afskrift af tèðu sögubroti, en mörg orð eru þar ólesin.

Við útgefníng þessa gjörvalla söguflokks, er einkum vegna fjölda handritanna hefir krafið mikinn og erviðissaman starfa, hefir útgefarinn notið góðrar liðveizlu af innfæddum Islendíngi, Cand. Phil. Þorsteini Helgasyni. Hefir hann einnig af fyrsta bindi lagfært þau tvö prófförk, en Cand. Theol. Þorgeir Gudmundsson þá einu af öðru bindi.

Loks skal þess hèr getið, að aptan við þriðja bindi söguflokks þessa, mun samið registr yfir manna og staða nöfn, er fyrir verða í öllum þrem bindum.

Kaupmannahöfn, þann 28da Jan. 1829.

---

# SAGA

AF

# HRÓLFI KONÚNGI KRAKA

OK

# KÖPPUM HANS.

## Hèr byrjar sögu Hrólfs konúngs kraka ok kappa hans.

### Fróða þáttr.

Madr hèt Hálfdán[1], en annar Fróði, bræðr tveir ok konúngasynir, ok stýrði sínu ríki hvörr þeirra; [Hálfdán konúngr var hýrr ok hægr ok góðlyndr, en Fróði konúngr var enn mesti rifbaldi[2]. Hálfdán konúngr átti þrjú börn, tvo syni ok eina dóttur, hèt hún Signý; hún var elzt ok gipt Sævil jarli[3]. Þetta bar til tíðinda, er synir hans voru þá úngir, hèt annar Hróar, en annar Helgi; Reginn hèt fóstri þeirra, ok unni hann sveinunum mikit. Ein ey lá þar skamt frá borginni, bjó þar í einn karl, er Vífill[4] hèt, hann var aldavinr Hálfdánar konúngs; hunda tvo átti Vífill karl, hèt annar Hopp[5], en annar Hó. Karl var gagnauðugr, ok kunni margt í fornum kvæðum[6], ef á hann var leitat. Nú er þar til at taka,

1) Háldán, *B, L allstaðar.* 2) Fróði var hýrr ok hægr, gæfr ok góðlyndr, þó var Hálfdán enn betr skapi farinn, *C.* 3) *leiðrètt, þannig sem flest handritin hafa framvegis, þó öll hafi hèr* Sævar. 4) *þannig hvervetna B og hin;* Virfill, *líkliga rángt lesið úr* Vívfill, *A allstaðar.* 5) Hoppr, *C, L.* 6) *þannig, A, G;* fræðum, *H, J, B, K, L;* brögðum, *E;* listum, *C.*

at Fróði konúngr sitr í ríki sínu, ok öfundar hann fastliga bróður sinn, Hálfdán konúng[1], at hann skyldi stýra Danmörk einn, en þótti sinn hluti ekki hafa orðit svâ góðr; því safnar hann saman múg ok margmenni, ok heldr til Danmerkr, ok kemr þar[2] á [náttar þeli[3], brennir þar allt ok brælir. Hálfdán konúngr kemr lítilli vörn við, er hann höndum tekinn ok drepinn, en þeir flýja, sem því viðkoma; en allr borgarmúgrinn varð at sverja trúnaðareiða Fróða konúngi, elligar [lèt hann pína þá[4] ýmisligum píníngum. Reginn, fóstri Helga ok Hróars, kom þeim undan ok út í ey til Vífils karls, hörmuðu þeir mjök skaðann; sagði Reginn þá mundi fokit í flest skjól, ef Vífill gæti eigi geymt þá fyrir Fróða konúngi. Vífill segir: hèr er við ramman[5] reip at draga, en kvað skylda mikil til, at hjálpa sveinunum; svâ tók hann við þeim, ok lèt í eitt jarðhús, ok voru þar optarst [á nætr[6], en á daginn viðruðu þeir út um skógarrunna karls, því eyin var hálf skógi vaxin, [ok skiljast þeir svâ við Reginn[7]. Reginn átti miklar eignir í Danmörk, börn ok konu, ok sá Reginn sèr eigi annat sýnna, enn gánga til handa Fróða konúngi, ok sverja honum trúnaðareiða. Lagði Fróði konúngr nú allt Danmerkr ríki undir sik með sköttum ok skyldum, [gengu þar flestir

---

1) sakir vinsælda ok, *bætir við C.* 2) á mánaðar fresti ok, *b. v. B.* 3) óvart, *C.* 4) hótar hann þeim, *C.* 5) röm, *L.* 6) *b. v. C.* 7) *vantar í C.*

nauðugir til, því Fróði konúngr var allra manna óvinsælastr[1], ok svâ líka skattgildti hann Sævil[2] jarl. Eptir allt þetta unnit hægist Fróða konúngi lítit, at hann finnr ekki sveinana Helga ok Hróar; setr hann nú geislúng[3] fyrir þá á allar síður, nærri ok fjærri, [norðr ok suðr, austr ok vestr[4], heitir þeim stórgjöfum, sem sèr kann nokkut segja til þeirra, en þeim, sem þeim leyna, ýmisligum píníngum, ef þat verðr uppvíst, ok þikist enginn kunna at segja konúngi til þeirra. Þá lætr hann sækja völvur ok vísindamenn um allt landit, [ok lætr þá kanna landit upp ok ofan, eyjar ok útsker, ok finnast þeir eigi; ok nú lætr hann sækja galdramenn, sem eptir öllu geta rýnt því, sem þeir vilja[5] en þeir segja honum, at eigi munu þeir á landi fæddir, en þó muni þeir eigi fjærri konúnginum. Fróði konúngr segir: víða höfum vèr þeirra leitat, ok þiki mèr þat sízt von, at þeir sèu hèr nærri, en ey er [hèr nálægt[7], [þar er vèr höfum ekki þrátt[8] um leitat, ok nærri engin bygð í, nema einn fátækr karl býr þar[9]. Leitið[10] þángat fyrst, sögðu galdramenninnir[11] því mikil þoka ok hulda liggr yfir eyju þeirri, ok verðr oss ekki þángat auðsèt um hýbýli karls þess, ok ætlum vèr hann forvitra[12], ok eigi

1) v. í C. 2) *þannig B, J, K;* Sævar, *A og hin.* 3) gistíngar, *C, E, L;* gyslíngar, *K.* 4) *v. í. C.* 5) ok kunna þeir ekki neitt til þeirra at frètta, *C.* 6) meginlandi, *C.* 7) *b. v. C.* 8) *v. í. C.* 9) sem rær til fiski, *b. v. C.* 10) leitum, *C.* 11) vísindamenninnir, *C.* 12) *v. í. C.*

allan þar, hann er sèn. Konúngr sagði: þángat skal þá enn leita, ok þiki mèr undr, at fiskikarl[1] einn fátækr skal halda sveina þessa, ok þora svâ at halda mönnum fyrir oss.

2. Þat var einn morgin snemma, at karlinn Vífill vaknar við ok mælir: margt er kynligt á ferð [ok flug[2], ok miklar fylgjur ok máttugar eru híngat komnar í eyna; standið upp Hálfdánar synir, Hróar ok Helgi, ok haldið ykkr í skógarrunnum mínum í dag! Þeir hlupu í skóginn. Nú fór þetta eptir því, sem karl gat til, at sendimenn Fróða konúngs komu á eyna, ok leita þeirra hvervetna, sem [þeim kemr í hug[3], ok finna hvergi sveinana. Þeim sýnist karl vera heldr skuggaligr, fara þó í burt við svâ búit, ok segja konúngi, at þeir kunni þá ekki at finna. Illa munu þèr leitat hafa, segir konúngr, ok er karl þessi margkunnugr, ok farið nú í stað aptr sömu leið, svâ at karl verði sízt viðbúinn [til at bregða þeim undan, ef þeir eru þar[4]. Þeir verða nú at gjöra svâ, sem konúngr bauð, fara nú aptr í annat sinn til eyjarinnar. Karl mælti við sveinana: ekki er ykkr til setu búit, haldið til skógar sem skjótast; sveinarnir gjörðu svâ. Eptir þat þustu konúngsmenn at, ok báðust ransóknar, ok lætr karl allt opit fyrir þeim standa, ok finna þá hvergi um eyna, [hvar sem þeir leita[5], ok fara svâ aptr við svâ búit, ok

[1]) karl, *C.* [2]) *v. í. C.* [3]) þeir kunna, *C.* [4]) *v. í. C.* [5]) nè í hýbýlum karls, *C.*

segja konúngi. Fróði konúngr segir[1]: nú skal ekki [með laufsegli lengr fara at[2] við þenna karl, skal ek fara sjálfr til eyjarinnar þegar á morgin; ok svâ var nú gjört, at konúngr fór sjálfr. Karl vaknar ok heldr mæðiliga, ok sèr nú enn, at skjótt muni verða til ráða at taka; hann mælti við þá bræðr: þið skuluð kannast við, ef ek kalla hátt Hopp ok Hó, hunda mína, hlaupið þá til jarðarhúss ykkar, ok hafið þat at marki, at þá mun ekki friðr kominn í eyna, ok fordið þið ykkr þar, því Fróði, frændi ykkar, er nú sjálfr í leitinni, en hann leitar eptir lífi ykkar með allskyns vígvèlum ok brögðum, ok sè ek nú ekki, hvert ek mun geta haldit ykkr. Karl ferr þá til strandar, ok er þá komit konúngsskipit; hann lætr sem hann sjái þat eigi, ok læzt [skima at fè sínu svâ hvatliga[3], at hann lítr aldrei til konúngs nè manna hans. Konúngr býðr mönnum sínum at handtaka karl, ok svâ var gjört, ok var hann leiddr fyrir konúng. Konúngr mælti: þú ert mikill bragðakarl, ok mjök slægligr; segðu mèr, hvar konúngssynir eru, því þat veiztu. Karl segir: heilir svâ, herra! haldið mèr ekki, því vargrinn vill rífa í sundr fè mitt. Karl kallar þá hátt: Hoppr ok Hó! hjálpið fènu, fyrst ek má ekki forða því. Konúngr mælti: hvat kallar þú nú? karl segir:

---

[1]) ok lætr þá heyra hörð orð af sèr, at þeir leita ekki hit glöggligasta, *b. v. B.* [2]) með daufleika, l. f. at, *C*; senda sveina lengr til, *L.* [3]) skunda svâ hart, *C.*

hundar mínir heita svâ, en leiti þèr nú, herra! sem yðr líkar, en ekki vænti ek þess, at konúngssynir finnist hèr, ok mjök undrar mik, at þèr ætlið, ek muni halda mönnum fyrir yðr. Konúngr sagði: þú ert víst bragðakarl, en ekki munu þeir þó í öðru hirðast mega uppfrá þessu, þótt þeir hafi hèr áðr verit, ok væri makligt, at þú værir af lífi tekinn. Karl segir: þèr egið [þat nú undir yðr[1], hafi þèr þá heldr eyrindi átt í eyna, heldr enn at fâra svâ búnir. Konúngr sagði: eigi kann[2] ek at láta drepa þik, en þó ætla ek, at þat sè misráðit[3]; ferr konúngr nú heim við svâ búit. Karl hittir nú sveinana, ok segir nú, at þeir megi eigi lengr þar vera: vil ek senda ykkr til Sævils[4], mágs ykkar, ok munuð þið verða frægir menn, ef þið lifið lengi.

3. Hróar var þá 12 vetra, en Helgi 10, hann var þó þeirra meiri ok fræknari. Þeir fara nú í burt, ok nefndist annar þeirra Hamr, en annar Hrani, hvar sem þeir komu, eða fundu menn at máli. Sveinar þessir komu til Sævils jarls, ok voru þar viku, áðr enn þeir ræddu um þarvist sína við jarl; hann sagði: lítit mannkaup ætla ek í ykkr vera, en ekki spara ek mat við ykkr um stundarsakir. Þar eru þeir um hríð, ok eru heldr ódælir; ekki verðr þat vitat, hvaða mönnum þeir eru, eða ætt þeirra; ekki

---

[1]) nú ráð á því, *C.* [2]) nenni, *B*, C *og hin.* [3]) víst ráðit, at þú munir af þeim vita, *C.* [4]) *þannig A*, *B*, *D*, *E*, *F*, *G*, *J*, *K*, *hèðan af*; Sævars, *C*, *H*, *hèr og framvegis.*

grunar jarl þá, enda gjöra þeir honum aungan kunnugleika um hagi sína. Þat segja sumir menn, at þeir muni með geitum vera fæddir, ok dára þá, því þeir voru jafnan í kuflum, ok tóku aldrei ofan kuflshöttuna, ok ætluðu þat margir, at þeir mundu hafa geitr; þeir eru þar uppá þriðja vetr. Ok eitthvört sinn býðr Fróði konúngr Sævil jarli til veizlu, ok er honum þar helzt grunr á, at hann muni halda sveinana fyrir tengda sakir. Jarl býst nú til ferðar, ok er fjölmennr; sveinarnir bjóðast til at fara með honum; jarl kvað þá eigi fara skyldu; Signý, kona jarls, var ok íferðinni. Hamr fær sèr eitt ótamit [trippi at ríða[1], er Helgi var reyndar, hleypir nú eptir liðinu, ok horfir aptr til hala, ok lætr sèr alla vega heimskliga. Hrani, bróðir hans, fær sèr reiðskjóta annann eins, ok horfir rèttleiðis. Jarlinn sá nú til, at þeir fara eptir sèr, ok fá eigi ráðit við reiðskjótana, hlupu flókatrippin aptr ok fram undir þeim, ok rekr ofan kuflhöttinn af Hrana. Þetta getr at líta Signý, systir þeirra, ok kennir hún þá þegar, ok grætr mjök sárt. Jarl spyrr því hún gráti; hún kvað þá vísu:

Öll er orðin
ætt skjöldúnga
lofðúngs lundar
at limum[2] einum;
bræðr sá ek mína

[1]) hross til reiðar, *D, E.* 2) lýlum, *L.*

á berum sitja,
en Sævils rekka
á söðluðum.

Jarl sagði: mikil tíðindi[1] ok lát eigi upp koma; hann reið þá aptr til þeirra, ok bað þá aptr dragast, segir mikla smán at þeim í góðra manna föruneyti[2]; voru þá sveinarnir báðir gángandi. En því mælti hann svâ, at hann sá við, svâ eigi mátti af hans orðum ráða, hvaða sveinar þeir væri. Þeir skotta nú við utan, ok vilja ekki aptr snúa at heldr, ok ríða nú í síðara lagi; koma þeir nú til veizlunnar, ok hlaupa aptr ok fram eptir höllinni; ok eitt sinn berr þá þar at, sem Signý, systir þeirra, var; hún mælti til þeirra heldr lágt: verið ekki í höllinni, því lítill er þroski (ykkarr); þeir gefa ekki gaum at því. Fróði konúngr hefr uppi þat mál, at hann vill láta leita at sonum Hálfdánar konúngs, ok segist þeim muni mikinn sóma veita, sem sèr kann at segja til þeirra. Völva ein var þar komin, sem Heiðr hèt; hana bað Fróði konúngr at neyta listar sinnar ok vita, hvat hún kynni at segja til sveinanna; gjörði hann þá gilda[3] veizlu í móti henni, ok setti hana á seiðhjall einn háan. Konúngr spyrr þá, hvat hún sæi til tíðinda[4], því ek veit, sagði hann, at nú mun margt fyrir þik bera, ok sè ek nú mikla gæfu á þèr, ok svara mèr sem skjótast, seiðkona! Hún

---

1) eru þetta, *b. v. C.* 2) selskap, *L.* 3) mikla, *C.* 4) sveinanna, *C.*

slær þá í sundr kjöptunum ok geispar mjök, ok varð henni þá ljóð á munni:

Tveir eru inni[1],
trúi ek hvorugum,
þeir er við elda
ýtrir sitja.

Konúngr mælti: hvort eru þat sveinarnir, eða þeir, sem þeim hafa bjargat? Hún svarar:

Þeir er í Vífilsey
voru lengi,
ok hètu þar
hunda nöfnum,
Hoppr ok Hó.

Ok í því kastaði Signý til hennar gullhríngi; hún varð glöð við sendínguna, ok vill nú afbregða; því varð nú svâ? sagði hún, ok er þetta lygð ein, er ek segi, ok villist nú mjök spádómr minn allr. Konúngr mælti: þik skal pína til sagna[2], ef þú vilt eigi þiggja hit bezta, ok veit ek nú eigi gjörr enn áðr í svâ miklu fjölmenni, hvat þú segir, eða því er Signý ekki í sæti sínu, ok kann vera, at hèr ráði vargar með úlfum. Konúngi var sagt, at Signý væri sjúk orðin af reyk þeim, sem af ofninum legði. Sævill jarl biðr hana sitja upp ok bera sik hraustliga, því margt kann at verða sveinunum til lífs, ef þat á til at vilja, ok láttu sem sízt finna á þèr, hvat sem þèr þikir, því vèr megum ekki athafast at svâ búnu at hjálpa þeim. Fróði

1) menn, *B*, *C*; nú, *L*. 2) hin arma, *b. v. C.*

konúngr herðir nú at seiðkonu fast, ok biðr hana segja et sanna, ef hún skuli ekki pínd verða; hún gapir þá mjök, ok verðr erfiðr seiðrinn, ok nú kvað hún vísu:

Sè ek hvar sitja
synir Hálfdánar,
Hróar ok Helgi,
heilir báðir;
þeir munu Fróða
fjörvi ræna;

nema þeim sè fljótt fyrirfarit, en þat mun eigi verða, sagði hún; ok eptir þetta stiklar hún ofan af seiðhjallinum, ok kvað:

Ötul eru augu
Hams ok Hrana,
eru[1] öðlíngar
undra djarfir.

Eptir þat hlupu sveinarnir út, ok til skógar með mikilli hræðslu; kendi Reginn, fóstri þeirra, þá, ok þótti mikit um. En þat heilræði kendi völvan þeim, at þeir skyldu forða sèr, þá hún hljóp utar eptir höllinni; ok nú biðr konúngr menn uppspretta[2], ok leita eptir[3] þeim. Reginn slökkr nú öll ljósin í höllinni, ok heldr nú maðr á manni, því at sumir vildu, at þeir kæmust undan, ok með þetta komust þeir til skógar. Konúngr mælti: nærri gengu þeir nú, ok munu hèr vera margir í ráðum [ok brögðum[4] með þeim, ok grimm-

[1]) þeir, *b. v. C.* [2]) uppstanda, *C.* [3]) at, *C.* [4]) *v. í. C.*

liga skal þessa hefna, þegar tóm er til; en drekka munum vèr nú mega kveldlángt, því þeir munu því hafa fegnir orðit, at þeir hafa í burt komist, ok munu nú fyrst leita at forða sèr. Reginn gengr at byrlamönnum, ok bar á þá ölit með ákafa ok margir aðrir með honum, vinir hans, svâ at þar fèll hverr um þveran annann niðr sofandi.

4. Þeir bræðr sitja nú í skóginum, sem áðr er sagt, ok er þeir höfðu verit þar um hríð, gjöra þeir at líta, at maðr ríðr þángat at þeim heiman frá höllinni; þat kenna þeir allglöggt, at þar er kominn Reginn fóstri þeirra, verða þeir honum fegnir, ok heilsa honum vel. Hann tekr ekki kveðju þeirra, en víkr hesti sínum heim aptr þaðan at höllinni; þeir undra þetta, ok ræða um með sèr, hvörju þetta muni gegna. Nú snýr Reginn til þeirra hestinum í annat sinn, ok lætr ófrýnliga[1], sem þá ok þá muni hann at þeim vinna. Helgi segir: skynja þikist ek, hvat er hann vill; fór hann nú heim til hallar, en þeir eptir. Því lætr fóstri minn svâ, segir Helgi, at hann vill ekki rjúfa eiða sína við Fróða konúng, ok vill því ekki við okkr mæla, en þó vill hann gjarnan hjálpa okkr. Lundr einn stóð nærri höllinni, er konúngr átti, ok sem þeir komu þar, þá mælti Reginn við sjálfan sik: ef ek ætti stórar sakir við Fróða konúng, skylda ek brenna upp lundinn; ekki mælti hann fleira.

[1]) ófríðliga, *C, L.*

Hróar mælti: hvat mun þetta[1]? þat vill hann, segir Helgi, at við förum heim til hallarinnar, ok berum at eld nema at einni útgaungu. Hvat munum við þat mega, úngmenni tvö, (segir Hróar), slíkt ofrefli sem fyrir er. Svâ skal vera þó, sagði Helgi, ok munum við eitthvert sinn verða til at hætta, ef við skulum hefnt geta harma okkra; ok svâ gjöra þeir. þessu nærst er Sævill jarl útkominn ok allir hans menn; hann mælti þá: aukum nú eldana, ok veitum lið sveinum þessum; er mèr engi vandi við Fróða konúng. Fróði konúngr átti tvo smiði, er völundar voru at hagleik, ok hètu báðir Var. Reginn heimti út lið sitt at hallardyrum, vini sína ok tengdamenn.

5. Fróði konúngr vaknar nú í höllinni, ok blès við hátt ok mælti: draum hefir mik dreymdan, sveinar! ok ekki byrligan, mun ek segja yðr hann: mik dreymdi þat, at mèr þótti vera kallat á oss, ok var mælt svâ: nú ertú kominn heim, konúngr! ok þínir menn; ek þóttist svara ok heldr styggt[2]: heim hvert? þá [bar kalli[3] svâ nærri mèr, at ek hafða veðrit[4] af þeim, sem kallaði; heim til heljar! heim til heljar! sagði sá, sem kallaði, ok við þat vaknaði ek; ok í þessu heyra þeir utar til hallardyra, at Reginn fóstri kvað vísu:

---

1) þýða, *b. v. C, L*; skraf at skilja, *b. v. B*; ega, *b. v. J.*
2) stutt, *C.* 3) var kallat, *C.* 4) vindstæðit.

Reginn er úti
ok rekkar Hálfdánar,
snæfir[1] andskotar[2],
segið þat Fróða!
Var sló nagla,
ok Var höfðaði,
en var[3] vörum
varnagla sló.

Þá mæltu konúngsmenn, sem inni voru, at þetta væri lítil tíðindi, þó at Reginn væri úti, eða konúngssmiðir smíðuðu, hvert sem þeir gjörðu nagla eða annat smíði. Konúngr mælti: þikir yðr þetta engin tíðindi? eigi mun oss at því verða, nú mun Reginn hafa sagt oss fyrir nokkurn ótta, ok hefir hann gjört mèr varúðar bendíng, ok mun hann oss slægvitr ok brögðóttr; gengr konúngr þá til hallardyra ok sèr, at ófriðr er úti fyrir, tekr þá höllin öll at loga. Fróði konúngr spyrr, hverr fyrir eldinum rèði. Þeir sögðu, at honum rèði fyrir Helgi ok Hróar, bróðir hans. Konúngr býðr þeim sætt fyrir sik, ok bað þá eina ráða þeirra í milli, ok ferr þetta óskapliga í millum vor frænda, at hverr skal vilja vera banamaðr annars. Helgi segir: enginn má þèr trúa, ok muntu okkr síðr svíkja enn Hálfdán, föður minn? ok nú skaltu þess gjalda. Fróði konúngr snèri þá frá hallardyrum ok til jarðhúss munna síns, ok ætlaði svâ til skógar at forða sèr; ok sem hann kemr

1) sæfir, C; snæ fyrir, L. 2) andskota, L. 3) vær, C.

í jarðhúsit, er þar Reginn fyrir ok ekki mjök friðligr; snýr konúngr þá aptr[1], ok brennr þar inni, ok margt lið með honum. Þar brann inni Sigríðr, móðir þeirra bræðra Helga ok Hróars, því hún vildi ekki útgánga. Þeir bræðr þökkuðu góða liðveizlu Sævil jarli, mági sínum, ok Reginn fóstra sínum ok öllum lýð, ok gáfu mörgum góðar gjafir, ok tóku svâ ríkit undir sik ok alla fjárhluti, sem Fróði konúngr hafði átt, lönd ok lausafè. Þeir voru ólíkt skapi farnir bræðr; Hróar var maðr hýrr ok hægr, en Helgi hermaðr mikill, ok þótti allt meira til hans koma, ok leið nú svâ fram um hríð; ok endar hèr nú Fróða þátt, en uppbyrjast frá Hróari ok Helga, Hálfdánar sonum[2].

## Helga þáttr.

6. KONÚNGR hèt Norðri, hann rèð fyrir nokkrum[3] hluta Englands, hans dóttir hèt Ögn. Hróar var löngum með Norðra konúngi, honum til landvarnar ok styrktar, ok var með þeim en mesta vinátta, ok um síðir gekk Hróar at eiga Ögn, ok settist þar at ríki með Norðra konúngi, mági sínum; en Helgi rèði fyrir Danmörk á föðurleifð þeirra. Sævill jarl rèði fyrir ríki sínu ok þau Signý; Hrókr hèt son þeirra. Helgi konúngr Hálfdánarsson í[4] Danmörk

[1]) ok í höllina, *b. v. C.* [2]) Illt fylgir ákafa raungum, en heill fylgir hlýðninni laungum, *b. v. B.* [3]) miklum, *C.* [4]) rèði fyrir, *C.*

var[1] ókvæntr. Reginn tók sótt ok deyr; þat þótti mönnum mikill skaði, því hann var vinsæll.

7. Fyrir Saxlandi rèð í þann tíma ein drottníng, er Ólöf hèt; hún var á þá leið, sem herrkonúngar, fór hún með skjöld ok brynju, ok girð sverði ok hjálm á höfði; þannin var henni háttat: væn at yfirliti, en grimm í skapi ok stórmannlig; þat var mál manna, at sú væri beztr kostr í þann tíma á Norðrlöndum, er menn höfðu spurn af, en hún vildi þó öngan mann eiga. Helgi konúngr frèttir nú til drottníngar þeirrar enu stórlátu, ok þótti sèr mikill frami í aukast, at fá þessarar konu, hvort sem henni væri þat [viljugt vel eða miðr[2]; ok einhvörju sinni fór hann þángat með miklu herliði. Hann kom þar við land, er þessi hin ríka drottníng rèði fyrir, ok kemr þar á óvart; hann sendi menn sína heim til hallar, ok biðr at láta segja Ólufu drottníngu, at hann vill þar veizlu þiggja með sínu liði. Sendimenn segja þetta drottníngu, ok kom þetta á hana óvart, ok var enginn kostr liði at safna; tók hún [þá þennan af, sem betr var[3], at hún býðr Helga konúngi til veizlu með öllu liði sínu. Helgi konúngr kemr nú til veizlunnar, ok skipar hásæti hjá drottníngu; drekka nú bæði samt um kveldit, ok skortar þar ekki neitt, ok fann enginn ógleði á

[1]) mjök mikill afreksmaðr, en þá þó, *b. v. B.* [2]) með eða móti, *C*; v. eða ei, *J.* [3]) þat ráð, *C*; þ. þann einn af s. h. mátti gegna, *D*; þat til bragðs, *E.*

Ólufu drottníngu. Helgi konúngr mælti til drottníngar: svâ er háttat, sagði hann, at ek vil, at við drekkum brullaup okkart í kveld, er hèr nú ærit fjölmenni til þess, ok skulu við bæði byggja eina rekkju í nótt. Hún sagði: ofbrátt, herra! þikir mèr at þessu farit, en eigi þikir mèr annar maðr kurteisligri enn þú, ef ek skal þat verða upp at taka, at þýðast karlmann, enda vænti ek, at þèr vilit þat eigi með svívirðíngu gjöra; konúngr sagði, at henni væri þat makligt fyrir dramblæti sitt ok stórlæti, at við búum nú bæði saman slíka stund, sem mèr líkar; hún sagði: kjósa munu[1] vèr hèr fleiri vora vini, ok get ek nú ekki atgjört, ok munu þèr hljóta at ráða, ok munu þèr sæmiliga til vor gjöra. Var þá drukkit fast um kveldit, ok lengi á nótt fram, ok er drottníng allkát, ok finnr enginn annat á henni, enn hún hyggi allgott til ráðahagsins; ok um síðir er honum fylgt til sængr, ok var hún þar fyrir. Konúngr hafði drukkit svâ fast, at hann fèll þegar sofandi niðr í hvíluna; drottníngin neytir nú þessa, ok stíngr honum svefnþorn; ok sem allir menn eru í burtu gengnir, þá stendr drottníng upp; hún rakaði þá af honum hárit allt ok neri í tjöru, síðan tók hún eitt húðfát, ok lèt þar í koma nokkr klæði; eptir þat tekr hún konúnginn, ok reifar hann innanní þessu húðfati; síðan fær hún til menn, ok lætr flytja hann til

[1]) mundum, *hin.*

sinna skipa; hún vekr þá upp menn hans, ok segir, at konúngr þeirra sè til skipa kominn, ok vili sigla, því nú sè kominn góðr byr. Þeir hlupu upp, hverr sem skjótast mátti, ok voru ölóðir, ok vissu ógjörla, hvat þeir höfðust at; svâ komu þeir til skipa, ok sáu hvergi konúnginn, en eitt húðfat sáu þeir þar komit ógurligt; vilja þeir nú forvitnast, hvat í er, ok bíða svâ konúngsins, ætla hann muni koma nokkut síðarr; en þá þeir hafa leyst, finna þeir þar í konúng sinn svívirðiliga leikinn; hrýtr þá í burtu svefnþorninn, ok vaknar konúngr eigi við góðan draum, ok er nú í illu skapi til drottníngar. En í annann stað er þat at segja, at Ólöf drottníng safnar liði um nóttina, ok skortar ekki fjölmenni, ok sèr Helgi konúngr sèr nú ekkert færi á [hana at leita[1]. Þeir heyra nú lúðragáng ok herblástr[2] á landit upp; sèr konúngr, at sá muni vera vænstr, at halda í burt sem skjótast, er þá ok góðr byrr; siglir Helgi konúngr nú heim í sitt ríki með þessa sneipu ok svívirðíng, ok unir nú stórilla, ok hugsar opt, hvörsu hann megi fá á drottníngu hefnt.

8. Ólöf drottníng sitr nú í ríki sínu um hríð, ok hefir hennar ofsi ok ójafnaðr[3] aldrei verit meiri enn nú; hefir hún nú á sèr varðhöld sterka eptir veizluna, sem hún gjörði Helga konúngi. Þetta spyrst nú víða um lönd; þikir öllum hin mestu ódæmi, er hún skyldi hafa

[1]) sín at hefna, C. [2]) vopnabrak, C. [3]) hofmóðr, C.

spottat slíkan konúng. Ok eigi miklu síðarr heldr Helgi [skipi sínu[1] úr landi, ok í þessari ferð kemr hann [skipi sínu[2] við Saxland, þar sem Ólöf drottníng á atsetu, hefir hún þar mikit fjölmenni fyrir; hann leggr skipi sínu í einn leynivog, ok mælti síðan við lið sitt, at þeir skyldu hans þar bíða til hinnar þriðju sólar, en fara þá leið sína, ef hann kæmi þá eigi aptr. Hann hafði með sèr kistur tvær, fullar af gulli ok silfri; hann fær sèr vondan búníng yztan klæða; síðan ferr hann leið sína til skógar, ok varðveitir þar fèt, gekk síðan í burt, ok í nánd við höll drottníngar; hann hittir einn þræl hennar[3] fyrir sèr, ok spyrr hann tíðinda [burt úr landi. Hann segir frið góðan þrællinn[4], ok spyrr hverr hann væri; hann lèzt vera einn stafkarl, en þó hefir mèr til handa borit mikill fjárfundr[5] í mörkinni, ok lízt mèr ráðligt, at sýna þèr, hvar fèt er; gánga nú aptr til skógar, ok sýnir honum fèt, ok þikir þrælnum mikils vert, hvort happ hann hefir sókt. Hvörsu fègjörn er drottníng? segir stafkarl; þræll segir, hún væri kvenna fègjörnust. Þá mun henni líka, segir stafkarl, ok mun hún þikjast þetta fè eiga, er ek hefi hèr fundit, því þetta mun land hennar; skal nú ekki gjöra happ sitt at óhappi, ok skal eigi

1) skipum sínum, *D*, *E*. 2) *v. í B, C, D.* 3) *v. í C;* er henni þjónar, *B.* 4) úr landinu. þrællinn segir þar frið góðan, *B.* 5) fjársjóðr, *C.*

leyna fè þessu, ok skal drottníng skapa mèr af þann hlut, sem hún vill, ok mun mèr þat bezt gegna, eða hvört mun hún vilja þat tilvinna, at sækja híngat fèt? þat ætla ek, segir þrællinn, ef með leynd er at farit. Hèr er men ok hríngr, er ek vil gefa þèr, segir karl, ef þú kemr henni einni híngat í skóginn, en ek skal setja þar ráð við, ef henni mislíkar[1] til þín. þessu ráða þeir ok kaupa; ferr hann nú heim, ok segir drottníngu, at hann hafi fundit fè mikit í skógi, svâ þat er margra manna sæla, ok biðr hana skyndiliga fara með sèr eptir fènu. Hún segir: ef þetta er satt, sem þú segir, þá mun þèr verða at þessari sögn gæfa, ella höfuðbani[2]; en þó áðr at ek hefi reynt þik at trúlyndum manni, þá mun ek trúa þessu, er þú segir. Hún sýnir nú þat, at hún sè fègjörn, ok ferr með honum á launúngu á náttarþeli, svâ enginn maðr veit, nema þau tvö. Ok er þau koma í skóginn, er Helgi þar fyrir, ok grípr hana höndum, ok segir þá vera skapligan fund þeirra at hefna sinnar svívirðíngar. Drottníng sagðist hafa illa breytt við hann, ok vil ek þat nú allt bæta við þik, ok gjörðu til mín brúðkaup sæmiligt! Nei! sagði hann, eigi skal þèr þess kostr, skaltu fara til skipa með mèr, ok vera þar þá stund, sem mèr líkar, því ek nenni eigi fyrir metnaðar sakir at hefna þèr öngu, svâ illa sem ek var leikinn ok háðugliga. þèr

[1]) kunn at mislíka, *B.* [2]) höfuðskömm ok bani, *B.*

munuð nú ráða verða at sinni, sagði hún. Konúngr hvíldi hjá drottníngu margar nætr; ok eptir þat ferr drottníng heim, ok er henni nú þvílíkt hefnt, sem nú var sagt, ok unir hún stórilla við hag sinn.

9. Eptir þat heldr Helgi konúngr í hernað, ok var ágætr maðr. Ok er stundir liðu fram fæðir Ólöf barn, þat var mær; hún leggr á barn þat alla óstund. Hún atti hund þann, er Yrsa hèt, ok þar eptir kallaði hún meyna, ok skyldi hún heita Yrsa; hún var væn at áliti; ok sem hún var 12 vetra gömul, skyldi hún gæta hjarðar ok aldrei annat vitast, enn hún væri karls dóttir ok kellíngar, því drottníngin hafði svâ leynt með þessu farit, at fáir menn vissu, at hún hafði barn átt ok fætt. Svâ ferr nú fram, þartil at mærin er 13 vetra; þá varð sá atburðr, at Helgi konúngr kom (þar) við land, ok forvitnar at hafa tíðindi af landinu; hann hefir eina stafkarls gjörfi; hann sèr við skóg einn marga hjörð, ok þar gætti ein kona úng at aldri, ok svâ fríð, at hann þikist ekki hafa sèt fríðari konu; hann spyrr, hvat hún heiti, eða hverrar ættar hún sè. Hún segir: eg em karlsdóttir, ok heiti ek Yrsa. Óþrælslig augu hefir þú, sagði hann, ok rennir hann þegar ástarhug til hennar, ok sagði, at þat væri makligt, at stafkarl ætti hana, fyrst hún er karls dóttir[1]. Hún bað hann þat eigi gjöra, en

[1]) ok skyldi hann eiga hana, *b. v. B.*

hann tekr hana [sem áðr[1], ok hefr sik[2] til skipa, ok siglir síðan heim í sitt ríki. Ólöf drottníng varð fláráð[3] við þetta, ok eigi heilbrjóstuð, þá er hún vissi; lèt hún sem hún vissi[4] hvat um var, ok gjörði þat í hug sèr, at þetta mundi [Helga konúngi vera[5] til harms ok svívirðíngar, en til einskis frama nè yndis. Helgi konúngr gjörir nú brullaup til Yrsu, ok ann henni mikit.

10. Helgi konúngr átti hríng, er mikil ágæti fylgdi, ok þeir bræðr vildu hann báðir eiga, ok Signý, systir þeirra. Hróar konúngr kom eitt sinn í ríki Helga konúngs, bróður síns; gjörir Helgi konúngr prýðiliga veizlu í móti honum. Hróar konúngr mælti: þú munt vera okkarr meiri maðr, en fyrir þá sök, at ek hefi staðfest mik í Nordimbralandi[6], þá ann ek þèr vel þessa ríkis, er við egum báðir, ef þú vilt miðla mèr nokkru lausafè; vil ek fá hrínginn þann, sem beztr gripr er í þinni eigu, ok við vildum báðir eiga. Helgi sagði: eigi sómir annat, frændi! enn þú egir hrínginn víst. Við þessi ummæli [þeirra gleðjast báðir, fèkk Helgi konúngr Hróar konúngi, bróður sínum, nú hrínginn[7]; ferr nú Hróar konúngr á burt ok heim í ríki sitt, ok sezt um kyrt.

11. Þat bar til tíðinda, at Sævill, mágr

1) þó, *B.* 2) hana, *B*; með sèr, *C.* 3) *þannig hin*; fáráð, *A.* 4) ekki, *b. v. B, C, D, F, J.* 5) Helgi konúngr verit hafa, *B, D*; Helgi k. v. hafa henni, *F.* 6) Norðúmbralandi, *hèr og framvegis C*; Norðrlöndum, *L.* 7) *þannig B*; þá *A og hin.*

þeirra andaðist, ok tók Hrókr, sonr hans, ríki eptir hann; hann var grimmr maðr ok harðla ágjarn. Móðir hans segir honum mikit frá hríngnum, er þeir bræðr áttu, ok þótti mèr, sagði hún, ekki ósannligt, at þeir bræðr minntust okkarr um nokkut ríki, því vèr studdum þá í hefndum eptir föður vorn, ok hafa þeir ekki minnst þess við föður þinn nè mik. Hrókr sagði: þú segir dagsanna, ok er slíkt fyrnafullt, ok nú skal ek eptirleita við þá, hvörn sóma vorn þeir vilja gjöra þar fyrir. Ferr hann síðan á fund Helga konúngs, ok krefr hann þriðjúng ríkis í Danmörk eða hríngsins góða, því hann vissi þá ekki, at Hróar átti hann. Konúngr sagði: þèr mælið allfrekliga til ok geisistórliga; unnu vèr ríkit með hetjuskap, svà at vèr lögðum vort líf í veð, með atstuðníng föður þíns ok Regins fóstra míns, ok annarra góðra manna, er oss vildu lið veita; nú viljum vèr þèr víst laun á gjöra, ef þú kannt at þekkjast, vegna frændsemi okkrar, en svâ mikit hefir mik kostat ríki þetta, at þat vil ek fyrir öngan mun missa; en Hróar konúngr hefir nú tekit við hríngnum, ok vænti ek, at hann sè ekki lauss fyrir þèr. Við þetta ferr Hrókr í burt, ok unir allilla við, sækir nú á fund Hróars konúngs; hann tók við honum vel ok sæmiliga, ok er hann með honum um hríð. Ok eitt sinn, er þeir fara fyrir land fram, ok láu á firði einum, þá mælti Hrókr: þat þætti mèr þèr sómi, frændi! at þú gæfir í

mitt vald hríngi nn góða, ok minntist svâ vorrar frændsemi. Konúngr sagði: svâ hef ek mikit tilgefit, at fá hríng þenna, at ek vil hann fyrir öngan mun láta. Hrókr segir: þá munt þú lofa mèr at sjá hrínginn, ok er mèr á honum en mesta forvitni, at vita, hvort hann er slík gersemi, sem sagt er. Þat er þèr lítil veizla, segir Hróar, ok skal þat víst láta eptir þèr, ok fèkk honum hrínginn. Nú hugði Hrókr at hríngnum um stund, ok kallaði ekki mega ofsögn frásegja, ok hef ek önga gersemi sèna slíka, ok er þat en mesta vorkunn, at ykkr þiki allgóðr hríngrinn; mun þat nú bezt ráð, at hvörgi okkarr njóti, ok enginn annarra; fleygir síðan af hendi hríngnum ok útá sjóinn, sem lengst mátti hann. Hróar konúngr mælti: þú ert alllillr maðr; hann lèt síðan fóthögga Hrók, ok flytja svâ til ríkis síns; varð hann skjótt heill maðr, svâ at grèri fyrir stúfinn; þá safnar hann sèr liði, ok vill hefna sinnar skammar; hann fær mikit lið ok kemr við Norðimbraland[1] á óvart, þar sem Hróar konúngr var á veizlu, heldr fámenntr. Hrókr leggr þegar at, ok tókst þar harðr bardagi, ok er mikill liðsmunr, fellr þar Hróar konúngr, en Hrókr leggr undir sik landit; hann lætr gefa sèr konúngsnafn; síðan bað hann Agnar, dóttur Norðra konúngs, er áðr hafði átt Hróar konúngr, frændi hans. Norðra konúngi þótti nú fallit til sín mikit vankvæði, því hann var

[1]) land, *L.*

þá maðr gamall, ok lítt [fallinn til at vera í baráttu[1]; sagði nú Ögn, dóttur sinni, hvar komit var, ok lèzt eigi vilja teljast undan at halda uppi bardaga, þótt hann væri gamall, ef þetta væri eigi á móti hennar skapi. Hún sagði með harmi miklum: víst er þetta í móti mínum vilja, en þó ek sè, at líf þitt liggr við, þá vil ek honum eigi frávísa með því móti, at frest sè gjört nokkurt, því ek er með barni, ok verðr þat mál fyrst at greiðast, ok á þat barn með mèr Hróar konúngr. Nú er þetta mál borit fyrir Hrók, en hann vill frestit tilgefa, ef hann skal þá auðvelligar komast at ríki ok ráðahagnum; þikist Hrókr hafa mjök framast í þessari ferð, er hann hefði feldan svâ frægan konúng, ok ríkan unnit[2]. En í þessum svifum sendi Ögn menn á fund Helga konúngs, ok bað svâ at láta segja honum, at hún mundi eigi koma í rekkju Hróks, ef hún væri sjálfráð ok ónauðug, fyrir þá sök, at ek er með barni Hróars konúngs. Sendimenn fóru, ok sögðu svâ, sem boðit var. Helgi konúngr sagði: þetta er vitrliga sagt hennar vegna, því hefna mun ek Hróars bróður míns; en Hrók grunar þetta ekki.

12. Ögn drottníng fæðir nú son þann, er Agnar hèt, hann var snemma mikill ok efniligr. En er Helgi konúngr spurði þetta, safn-

[1]) færr til bardaga, *C*; fallinn eðr færr til at vera í bardaga, eðr baráttu, *B*. [2]) *v. í B, C, K.*

ar hann liði, ok ferr á fund Hróars; tekst þar bardagi, ok svâ lýkr, at Hrókr verðr handtekinn. Þá mælti Helgi konúngr: þú ert allillr höfðíngi! en því [mun ek eigi[1] drepa þik, at þèr er meiri skömm at lifa við harmkvæli[2]; síðan lèt hann brjóta fótleggi hans ok handleggi, ok sendi hann svâ aptr í ríki sitt, at hann var til einskis færr. En er Agnar Hróarsson var 12 vetra, þóttust menn ekki hafa sèt þvílíkan mann, ok um alla atgjörfi var hann fram yfir aðra menn; hann gjörðist hermaðr svâ mikill ok frægr, at hans er víða getit í fornum sögum, at hann hafi mestr kappi verit at fornu ok nýu. Hann spurðist eptir, hvar fjörðr sá væri, sem Hrókr hafði slengt hríngnum utanborðs; margir höfðu eptir honum leitat með allskonar vígvèlum ok náðu honum eigi. Ok svâ er sagt, at Agnar kemr skipi sínu á þenna fjörð, ok mælti: þat væri nú snarræði at sækja eptir hríngnum, ef menn hafa hèr glögg mið á; menn sögðu honum þá, hvar honum hefði verit á sjóinn kastat. Síðan býr Agnar sik til, ok [kafar í djúpit[3], ok kemr upp ok hefir eigi hrínginn; ofan fór hann í annat sinn, ok hefir eigi náð honum, [er hann kemr upp[4]; nú mælti hann: slagliga[5] er nú eptirsókt, ok fór svâ niðr í þriðja sinn, ok kom þá upp með hrínginn; af þessu varð hann ágætliga frægr, ok

---

[1]) nenni ek ekki at, *B.* [2]) ok örkumsl, enn at deya, *b. v. B.* [3]) sækir í djúpit, eðr kafaði, *B.* [4]) *b. v. B.* [5]) slægliga, *C;* slemliga, *B;* slæmliga, *D,* E, *L.*

frægri enn hans faðir, Hróar konúngr; sitr nú í ríki sínu um vetrum, en í víkíngu á sumrin, ok gjörðist frægr maðr, ok meiri enn hans faðir. Þau (Helgi konúngr ok) Yrsa unnust mikit, ok áttu einn son, þann er Hrólfr hèt, er mikill mætamaðr varð síðan.

13. Ólöf drottníng spyrr, at þau Helgi ok Yrsa unntust mikit, ok una vel ráði sínu; þat líkar henni ekki vel[1], ok ferr á fund þeirra; ok sem hún kom þar við land, sendir hún orð Yrsu drottníngu; ok sem þær hittast, býðr Yrsa henni heim til hallar með sèr; hún kveðst þat eigi vilja, kveðst öngan sóma eiga at launa Helga konúngi. Yrsa mælti: óvirðugliga gjörðir þú til mín, er ek var með þèr, eða kanntu nokkut at segja mèr frá ætt minni, hvör hún er? því mik grunar, at eigi sè svâ, sem mèr er tilkennt, at ek væri ein karls dóttir ok kellíngar. Ólöf sagði: ekki er þess örvænt, at ek kunni[2] at segja þèr nokkut þar af, var þat mitt mesta erindi híngat, at ek vildi kunngjöra þèr þat, eða unir þú vel við ráðahaginn? Já, segir hún, ok má ek vel viðuna, því ek á enn ágætasta konúng ok enn frægasta. Ekki er svâ gott við at una, sem þèr þikir, segir Ólöf, því hann er faðir þinn, en þú ert dóttir mín. Yrsa mælti: mína ætla ek móðurina versta vera ok grimmasta, því þetta eru þau ódæmi, er eigi munu fyrnast um aldr. Helga hefir þú goldit

[1]) stórilla, *C.* [2]) eigi, *b. v. C.*

at í þessu, segir Ólöf, ok reiði minnar, en nú vil ek bjóða þèr til mín með sæmd og virðíngu, ok gjöra til þín í alla staði eptir því, sem ek kann bezt. Yrsa segir: eigi veit ek hvornin þat gefst, en eigi mun ek hèr vera, þegar ek veit þessi ódæmi sem áliggja; hún hittir síðan Helga konúng, ok segir honum, hvörsu þúngliga er tilkomit. Konúngr sagði: ærit grimma áttu móðurina, en þat vilda ek, at svâ búit væri; hún kvað ekki svâ búit vera mega, at þau sèu samvistum þaðan ífrá. Ferr Yrsa nú með Ólufu drottníngu, ok er í Saxlandi um hríð. Svâ bítr þetta á Helga konúng, at hann lagðist í rekkju, ok var allókátr. Ekki þótti þá annar kostr betri enn þat, sem Yrsa var, en þó gjörðust konúngar seint til at biðja hennar, ok bar þat mest til, at aldrei þótti örvænt, (at) Helgi kæmi eptir henni, ok lèti sèr misþóknast, ef hún væri gipt öðrum.

14. Aðels hèt konúngr, ríkr ok ágjarn, hann rèði fyrir Svíaríki, ok sat at höfuðborginni Uppsölum; hann spyrr til þessarar konu Yrsu, ok býr síðan skip sín; hann ferr á fund þeirra Ólufar ok Yrsu. Ólöf gjörir veizlu í móti Aðels konúngi, ok tekr við honum með allri list ok kurteisi[1]; hann biðr Yrsu drottníngar sèr til eginkonu. Ólöf svarar: spurt muntu hafa slíkan málavöxt, sem er á hag hennar, en ekki [setjum vèr hèr syn[2] fyrir, með hennar ráði. Er nú mál-

[1]) blíðu, *C.* [2]) sitjum vèr hèr nú, *C;* setjum v. h. nei, *E.*

it borit upp fyrir Yrsu; hún sagði svâ: kallaði [eigi góðu[1] at skipta, því þú ert óvinsæll[2] konúngr. Þetta gengr þó fram, hvort sem hún hefir haft þar um orð fleiri eða færri, ok ferr Aðels í burt með hana, ok er ekki at þessu kvaddr Helgi konúngr, því Aðels þóttist þeirra meiri konúngr. Ekki varð Helgi konúngr varr við þetta, fyrr enn þau koma heim til Svíþjóðar; gjörir þá Aðels konúngr virðugligt brullaup til hennar. Ok nú spyrr Helgi konúngr þetta, ok verðr nú við hálfu verr, enn áðr; hann hvílir í einni útskemmu ok ekki fleiri manna; Ólöf er nú burt úr sögunni; þannin ferr nú fram um hríð.

15. En einn jólaaptan er þess getit, þá Helgi konúngr er kominn í rekkju, ok var veðr íllt úti, at komit var við hurðina, ok heldr ómátuliga; honum kom nú í hug, at þat væri ókonúngligt, at hann lèti þat úti, sem vesalt var, en hann má bjarga því; ferr hann nú ok lýkr upp dyrunum; hann sèr, at þar er komit eitthvat, fátækt ok tötrugt; þat mælti: vel hefir þú nú gjört, konúngr! ok ferr þat síðan inní skemmu. Konúngr mælti: ber á þik hálm ok bjarnfeldi[3], svâ at þik kali eigi. Þat mælti: veittu mèr rekkju þína, herra! ok vil ek hjá þèr hvíla, því líf mitt [er í veði[4]. Konúngr segir: rís mèr hugr við þèr, en ef svâ er, sem þú segir, þá ligðu hèr við stokkinn í klæðum þínum,

1) þá góðum, *C.* 2) *þannig hin;* óvins, *A.* 3) hey, *C;* ok hey, *b. v. B.* 4) liggr við, *C.*

ok mun mik ekki saka; hún gjörir nú svâ; konúngr snýr sèr frá henni. Ljós brá[1] í húsit; ok er stund leið, varð honum litit um öxl til hennar; þá sèr hann, at þar hvílir kona svâ væn, at eigi þikist hann aðra konu fríðari sèt hafa; hún var í silkikyrtli; hann snýr sèr þá skjótt at henni með blíðu. Hún mælti: nú vil ek fara í burt, segir hún, ok hefir þú leyst mik úr miklum nauðum, því þetta var mèr stjúpmóður sköp, ok hefi ek marga konúnga heimsótta[2], enda [lægðu nú eigi með lýtum[3]; vil ek nú hèr ekki lengr vera. Nei, sagði konúngr, enginn er þess kostr, at þú farir svâ skjótt, ok munu við eigi svâ skilja; skal nú gjöra til þín skyndibrullaup, því mèr lízt vel á þik. Þèr hljótið at ráða herra! sagði hún, ok svâ hvíldu þau þá nótt; en um morguninn tekr hún til orða: meðr lostum hefir þú nú til mín gjört, en þat skaltu vita, at við munum barn eiga; gjör nú, sem ek mæli, konúngr! vitjaðu barns okkar annann vetr í þetta mund at naustum þínum, eða muntu gjalda, ef þú gjörir eigi svâ; eptir þetta fór hún í burt. Helgi konúngr er nú nokkut kátari enn áðr; líða nú stundir fram, ok gefr hann at þessu öngan gaum. Ok á þriggja vetra fresti verðr þat til tíðinda, at þar ríða 3 menn at því sama húsi, sem konúngr sefr í, þat var um miðnætti; þeir

[1]) brann, *C*, *B*, *L*. [2]) ok hefir enginn við mèr orðit, *b. v. B*. [3]) legðu mèr nú eigi þetta til lýta, *B*; ligðu eigi hjá mèr með lýtum, *C*; legðu n. e. m. l., *J*; legðu nú eigi með lýtum á mik, *D*, *L*.

fóru með meybarn, ok settu þat þar niðr hjá húsinu. Kona sú tók til orða, er með barnit fór: þat skaltu vita, konúngr! sagði hún, at ættmenn þínir munu þess gjalda, er þú hafðir þat at öngu, sem ek bauð þèr, en þú nýtr þess, er þú leystir mik úr nauðum, ok vittu þat, at mær þessi heitir Skuld, hún er okkar dóttir; eptir þetta riðu þessir menn í burt. Þetta hafði verit ein álfkona; aldrei varð konúngr varr við þessa konu síðan. Skuld vex þar upp, ok er brátt grimmúðug[1] í skaplyndi. Þat er sagt eitthvert sinn, at Helgi konúngr býr ferð sína úr landi, ok ætlar svâ at hyggja af harmi sínum; Hrólfr, sonr hans, er eptir; hann herjar nú víða, ok vann mörg stórvirki.

16. Aðels konúngr sitr nú at Uppsölum; hann átti 12 berserki, ok voru þeir honum til landvarnar ok við öllum háska ok ófriði. Helgi konúngr býr nú ferð sína til Uppsala, at ná í burtu Yrsu; hann kemr þar við land; ok sem Aðels konúngr spyrr þetta, at Helgi konúngr er þar kominn við land, þá spyrr hann Yrsu drottníngu, hvörsu hún vill láta fagna Helga konúngi; hún segir: þú sèr þar ráð fyrir, en þú veizt þat áðr, at enginn er sá maðr, at mèr sè meiri vandi við heldr enn hann; ok þat sýnist Aðels konúngi af, at bjóða honum til veizlu, en ekki ætlar hann, at þetta skuli prettalaust vera. Helgi konúngr þekkist þetta, ferr til veizlu með 100 manna, en fjöldin er við skip niðri; Aðels

[1]) *þannig F;* grimm, *E;* grimmauðug, *A og hin.*

konúngr tekr við honum báðum höndum. Yrsa drottníng ætlar at sætta konúngana, ok gjörir hún allt sæmiliga til Helga konúngs. Helgi konúngr verðr svâ feginn drottníngu, at hann lætr hjá sèr líða allt annat, vill hann við hana tala allar þær stundir, sem hann má nýta, ok sitja svâ at veizlu. Þat bar til tíðinda, at berserkir Aðels konúngs komu heim; ok þegar þeir voru við land komnir, ferr Aðels konúngr at finna þá, svâ ekki verða aðrir vísir; hann biðr þá, at fara á skóg þann, sem í millum borgar er ok skipa Helga konúngs, ok bað þá þaðan hlaupa at Helga konúngi, er hann færi til skipa sinna: mun ek ok senda lið til fulltíngs við yðr, ok skal þat koma á bak þeim, svâ þeir verði í klofanum, því ek vil nú um trútt vinna, at Helga konúng reki eigi undan, því ek skil, at hann hefir þá ást á drottníngu, at ek vil eigi hætta á tiltæki hans. Helgi konúngr sitr nú at veizlunni, ok er vandliga leyndr þessu vèlræði ok svâ drottníngin. Yrsa drottníng segir Aðels konúngi, at hún vill, hann gefi Helga konúngi stórmannligar gjafir, [gull ok gersemar; hann heitir því[1], en ætlaði sjálfum sèr reyndar. Ferr Helgi konúngr í burt við þetta, ok fylgir Aðels konúngr ok drottníngin honum á götu, ok skiljast þau nú drottníngin ok konúngarnir heldr líkliga. Ok eigi miklu síðarr, enn Aðels konúngr hafði aptr horfit, urðu þeir Helgi

[1]) ok svâ gjörir Aðels konúngr, at hann gefr Helga konúngi gull ok gersemar, *B.*

konúngr varir við ófrið, ok brestr þegar bardagi. Helgi konúngr gekk vel fram, ok barðist hraustliga, en fyrir ofrefli því, sem í móti var, þá fèll þar Helgi konúngr með góðan orðstýr með mörgum sárum ok stórum, [ok kom sumt liðit á bak þeim Aðels konúngs, ok urðu svâ á milli steins ok sleggju[1]. Yrsa drottníng varð ekki fyrr vör við, enn Helgi konúngr var fallinn, ok lokit var bardaganum; þar fèll með Helga allt þat lið, sem upp hafði gengit, en hitt flýði heim undan í Danmörk[2]; ok lýkr hèr þætti Helga konúngs.

17. Aðels konúngr hrósaði nú sigri, ok þóttist mjök hafa framast, er hann vann konúng svâ ágætan, sem Helgi var, ok svâ víðfrægr. Yrsa drottníng mælti: eigi er einsætt at hælast svâ mjök, þótt þú hafir svikit þann mann, sem mèr er mestr vandi við, ok ek unna mest, ok fyrir þetta hit sama verð ek þèr aldrei holl, ef þú átt við venslamenn Helga konúngs: berserkjum þínum ræð ek þegar bana, er ek má, ef nokkrir eru svâ vaskir, at þat vill gjöra fyrir mínar sakir ok sinnar snildar. Aðels konúngr bað hana, at heitast ekki við sik nè berserki sína, því þat skal þèr eigi duga: en ek vil bæta þèr föðurdauðann stórmannligum gjöfum, með miklum fjárhlutum ok góðum gersemum, ef þú kannt at þekkjast. Drottníng sefast við þetta, ok þiggr sæmdir af konúngi; hún er þó óhæg síðan í

[1]) *v. í C.* [2]) með harmi miklum, ok tóku landsmenn Hrólf, son hans, til konúngs yfir sik, *b. v. F.*

skapsmunum; ok opt sat hún um þat, at gjöra berserkjunum mein ok svívirðu; aldrei finna menn, at drottníng yrði allkát síðan, eða í góðu skapi eptir fall Helga konúngs, ok meira varð ósamþykki í höllinni, enn áðr hafði verit, ok ekki vildi drottníng sæma við Aðels konúng, ef hún skyldi ráða. Aðels konúngr þóttist nú stórum frægr gjörast, ok þikir nú sá mestr maðr vera, er með honum er ok hans köppum; sitr hann nú um hríð í sínu ríki, ok hugsar enginn muni reisa rönd við sèr ok sínum berserkjum. Aðels konúngr var hinn mesti blótmaðr ok fullr af fjölkýngi[1].

## Svipdags þáttr.

18. Einn bóndi er nefndr Svipr; hann bjó í Svíþjóð fjærri öðrum mönnum; hann var ríkr at fè, ok hafði verit hinn mesti kappi ok eigi í öllu þar hann var sèðr, ok kunni hann margt fyrir sèr; þrjá átti hann syni, sem hèr eru nefndir, hèt einn Svipdagr, annar Beigaðr[2], þriði[3] Hvítserkr, hann var þeirra elztr; allir voru þeir miklir fyrir sèr, sterkir, ok vænir at áliti. Ok er Svipdagr var 18 vetra gamall, sagði hann svâ til föður síns einn dag: dauflig er vor æfi, at vera hèr við fjöll uppi í afdölum ok

---

1) ok göldrum. Ok endar hèr nú annann part eðr þátt þessarar historíu, sem kallast Bræðra þáttr, af þeim Helga ok Hróar Hálfdánar sonum, b. v. *B.* 2) *þannig fleirst;* Beigurðr, *hèr A, E, G;* Beiguðr, *D.* 3) Serkr eðr, *b v. B.*

óbygðum, ok koma aldrei til annarra manna nè aðrir til vor, væri hitt meira snarræði, at fara til Aðels konúngs, ok ráðast í sveit með honum ok hans köppum, ef hann vildi við oss taka. Svipr karl svarar: ekki sýnist mèr þetta ráðligt, því Aðels konúngr er grimmligr maðr, ok ekki heill, þótt hann láti fagrt, en menn hans öfundarfullir ok þó miklir fyrir sèr, en víst er Aðels konúngr ríkr maðr ok frægr. Svipdagr segir: hætta verðr á nokkut, ef menn skulu fá frama, ok má þat eigi vita, fyrr enn reynt er, hvar gipta vill til snúast, ok víst vil ek hèr eigi sitja lengr, hvat sem annat fyrir liggr. Ok sem hann var í þessu ráðinn, þá fèkk faðir hans honum öxi mikla, væna ok bitrliga; hann mælti þá við son sinn: vertu óágjarn við aðra, láttu eigi stórliga, því þat er íllt til orðs, en ver hendr þínar, ef á þik er leitat, því þat er mikilmannligt, at dramba lítit yfir sèr, en gjöra mikil afdrif, ef hann kemr í nokkra raun; hann fær honum öll herklæði vöndut, ok góðan hest. Svipdagr ríðr nú í burt, ok at kveldi kemr hann at borg Aðels konúngs; hann sèr, at leikar eru úti fyrir höllinni, ok sitr Aðels konúngr á miklum gullstóli, ok berserkir hans hjá honum. Ok sem Svipdagr kemr at skíðgarði var borgarhliðum læst, því þat var þá siðr, at biðja leyfis inn at ríða; Svipdagr hefir ekki starf fyrir því, brýtr þegar upp hliðit, ok ríðr svâ í garðinn. Konúngr mælti: þessi maðr ferr ógætiliga, ok

hefir þess aldrei fyrr verit freistat, kann vera, at hann eigi mikit undir sèr, ok varðaði eigi þótt hann reyndi þat; berserkir ýgldust þegar mjök, ok þótti þeim hann láta heldr stórliga. Svipdagr ríðr fyrir konúng, ok kveðr hann vel, kunni hann á því góða list. Aðels konúngr spyrr, hverr hann væri; hann segir til sín[1]; konúngr kannast skjótt við hann, ok [ætluðu allir hann mundi vera [hin mesta[2] kempa[3], ok mikils háttar[4]. Leikrinn var eigi at síðr drifinn; sezt Svipdagr á trè eitt, ok horfir á leikinn; berserkir líta illa til hans; ok nú mæla þeir til konúngs, at þeir muni freista hans; konúngr segir: þat hygg ek, at hann sè ekki lítill fyrir sèr, en vel þiki mèr, þótt þið reynið, hvort hann er slíkr, sem hann þikist. Síðan drífa menn inn í höllina. Berserkir gánga til Svipdags, ok spyrja, hvort hann sè kappi nokkr, er hann lætr svâ stórliga; hann sagðist vera slíkr, sem nokkrr þeirra einn; ok við þessi orð hans óx þeim móðr ok kapp, en konúngr bað þá vera kyrra um kveldit. Berserkir ýgldust, ok grenjuðu hátt, ok mæltu til Svipdags: þorir þú at berjast við oss? ok þarftu þá fleira í frammi at hafa, enn stóryrði ein ok dramblæti, ok vilju vèr reyna, hvorsu mikit þar er fyrir, sem þú ert. Hann segir: því vil ek játa, at berjast við einn í senn,

---

1) ok svâ til föður síns, *b. v. hin.* 2) lítil, *L.* 3) kappi, *B, F.* 4) *v. í L; F hefir í stað þess frá fyrra* [: kvað hann mundi enn mesti kappi, sem hann ætti kyn til.

ok vita svâ, ef meira vildi atvinnast. Konúngi þótti allvel, þótt þeir reyndu með sèr. Yrsa drottníng mælti: þessi maðr skal hèr velkominn! Berserkir svöruðu henni: vissu við þat fyrir, at þú vilt oss alla í helju, en heldr erum vèr máta meiri, enn vèr föllum við orð ein, eða illan vilja. Drottníng sagði, at ekki yrði[1] at því, at[2] konúngr reyndi þat, hvat hann ætti, þar sem þèr eruð, er hann trúir svâ mjök á yðr. Sá berserkr, sem fyrir þeim var, mælti: ek skal setja þik ok semja dramb þitt, svâ at vèr skulum óhræddir vera fyrir honum.

19. Ok um morguninn tókst þar hörð hólmgánga, ok skorti þar eigi stór högg; sáu þat allir, at þessi hinn komni kunni sverði at beita með miklu afli, ok hrökkr berserkrinn allr undan fyrir honum, ok drepr (Svipdagr) hann þar; ok þegar vill annar drepa hann ok hefna hans, ok fær hann slíka för; ok eigi lèttir hann fyrr, enn hann hefir drepit þá fjóra. Þá mælti Aðels konúngr: mikinn skaða hefir þú mèr gjört, ok þess skaltu nú gjalda, ok bað menn uppstanda ok drepa hann; í annann stað fær drottníng sèr lið, ok vill veita honum, ok kvað konúng mega þat sjá, at miklu meira ágæti væri at honum einum, enn öllum þeim berserkjum; kemr nú drottníng griðum á með þeim, ok þikir öllum Svipdagr vera mikill afreksmaðr. Sitr hann nú á bekk annann, gagnvart konúngi, með ráði Yrsu drottníngar; ok sem náttar, litast hann

[1]) mundi, *C.* [2]) þótt, *B.*

um, ok þikist enn ofllítit hafa atgjört við berserki, ok vill egna til fundar við þá, ok þikir honum þat líkligt, ef þeir sjá hann einnsaman, at þeir muni snúa[1] at honum; ok þat gekk eptir því, sem hann ætlaði, því þegar berjast þeir; ok þá kemr konúngr at, er þeir höfðu barist um hríð, ok skilr þá. Eptir þat gjörir konúngr berserki útlæga, þá sem eptir voru, er þeir báru eigi af einum manni allir, ok lèzt eigi fyrr vitat hafa, at þeir væri svâ litlir fyrir sèr nema í orðum einum drembiligum. Þeir verða nú í burt at fara, en heitast nú at herja á ríki Aðels konúngs; konúngr lèzt aldrei hirða um heitíngar þeirra, ok kvað önga dáð í bykkjum þeim; fara þeir nú í burt með skömm ok svívirðíng. Aðels konúngr hafði þó eggjat þá raunar í fyrstunni, at gánga at honum ok drepa hann, þá þeir sæi Svipdag einn gánga úr höllinni, ok hefna sín svâ, at drottníng yrði ekki vör við; Svipdagr hafði þó drepit einn, þá konúngr kom til at skilja þá. Aðels konúngr biðr nú Svipdag veita sèr eigi minna lið nú, enn áðr, er honum veittu allir berserkir, allra helzt at drottníng vill, at þú sèrt í staðinn berserkjanna; þar er nú Svipdagr nokkra hríð.

20. Nokkru síðarr er konúnginum sögð hersaga, at berserkir hafa þá fengit sèr lið mikit, ok herja á land hans. Aðels konúngr biðr nú Svipdag at rísa[2] í móti berserkjum, ok kallar þat vera hans skyldu, ok kveðst skyldi fá honum

[1]) veitast, *C.* [2]) fara, *C;* ríða, *B.*

svâ mikit lið, sem hann þyrfti. Ekki er honum um þat, at vera fyrirmaðr hersins, en vill fara með konúngi þángat, sem hann vildi. Konúngr vildi ekki annat, enn hann sè fyrirmaðr. Svipdagr segir: þá vil ek þiggja 12 manna líf af yðr, þá ek vil; konúngr segir: því vil ek játa þèr. Eptir þat ferr Svipdagr til orrostu þessarar, en konúngr sitr heima; hann hefir mikit lið. Svipdagr lèt gjöra herspora ok kasta niðr, þar sem orrostustaðrinn var markaðr, ok með mörgum öðrum brögðum lèt hann þar umbúa. þar tekst orrosta ok harðr bardagi, ok hrökk fyrir mjök lið víkínga, ok fá þeir íllt af, er þeir kenna hersporanna. þar var drepinn berserkr einn ok fjöldi liðs, en þat flýði til skipa, sem eptir lifði, ok svâ í burt. Svípdagr kemr nú heim til Aðels konúngs, ok á nú sigri at hrósa; Aðels konúngr þakkar honum vel sinn framgáng ok landvörn. Yrsa drottníng mælti: víst er þat rúm betr skipat, er slíkr drengr sitr í, sem Svipdagr er, enn þá berserkir þínir skipuðu þat; konúngr sannar þat. Berserkir safna nú liði aptr, þeir sem undan komust, ok herja enn á ríki Aðels konúngs; ok enn skorar konúngr á Svipdag at gánga í móti þeim, ok kvaðst mundu fá honum frítt lið. Svipdagr ferr til orrostu, ok hefir nú þriðjúngs minna lið enn berserkir; Aðels konúngr hèt at koma til móts við hann með hirðina. Svipdagr hafði þá enn skjótara brugðit við, enn berserkir hugðu; ok nú hittast þeir, ok

tekst þar hörð orrosta. Aðels konúngr safnar liði, ok hafði ætlat at koma[1] í opna skjöldu berserkja.

21. Þar er nú til at taka, at Svipr karl er; hann vaknar einn tíma af svefni sínum, ok blæs mæðiliga, ok mælti til sona sinna: þurfa þikist nú Svipdagr liðs við, bróðir ykkarr, því hann heldr bardaga ekki lángt hèðan, ok á við mikinn liðsmun, ok mist hefir hann auga sitt annat, ok hefir þó mörg sár önnr, en fellt hefir hann 3 berserki, ok nú eru eptir aðrir 3. Þeir bræðr bregða við skjótt, ok vopna sik, fara síðan þángat, sem orrostan er, ok höfðu víkíngar lið hálfu fleira. Svipdagr hafði mikit af sèr gjört, ok er þó þá sárr mjök, ok úr honum annat augat; er þá drepit lið hans at handamáli, en konúngr kemr ekki til liðs við hann. Ok sem þeir bræðr hans koma til orrostu, þá gánga þeir vel fram, ok þar at, sem berserkir eru fyrir; svâ fór leikr með þeim, at berserkir falla þar allir fyrir þeim bræðrum; snýr nú skjótt mannfall í lið víkínga, ok þeir, sem lífit þágu, gengu á hendr þeim bræðrum. Ok eptir þetta fara þeir á fund Aðels konúngs, ok sögðu honum þessi tíðindi; konúngr þakkar þeim vel þrekvirki þetta. Svipdagr hafði fengit tvö sár á höndum; hann hafði mikil sár á höfði, ok var einsýnn alla æfi síðan; liggr hann um hríð í sárum þessum, ok græddi Yrsa drottníng hann. En þá hann var orðinn

[1]) ok hjálpa þeim, ef þörf gjörðist, ok vildi svâ koma, *b. v. B.*

vel heill, þá sagði hann konúngi, at hann vildi í burtu þaðan: vil ek sækja heim þann konúng, er meiri sóma vill til vorr gjöra, enn þú, konúngr! illa hefir þú launat mèr landvörn, ok slíkan sigr, sem vèr höfum yðr unnit. Aðels konúngr bað hann heima[1] vera, ok lèzt mundu gjöra allvel til þeirra bræðra, ok kvaðst aunga skyldu meta framyfir þá. Svipdagr vill ekki annat, enn ríða burt, ok mest fyrir þat, at Aðels konúngr kom eigi fyrr til bardagans, enn lokit var, því hann var tvískiptr í, hverr sigrinn hlyti, Svipdagr eða berserkir, þvíat konúngr var þar í skógi einum, ok horfði þaðan á leik þeirra, ok átti kost at fara, þegar hann vildi, en honum þótti raunar ekki máli skipta, þótt Svipdagr fengi ósigr ok stýngi niðr nösum.

22. Nú búast þeir bræðr í burt, ok stoðar ekki at hamla þeim. Aðels konúngr spyrr[2] eptir, hvört þeir ætli at fara; þeir kváðust ekki svâ ráð hafa gjört fyrir því: en skilja munum vèr at sinni: vil ek nú kynna mèr annarra manna siðu ok konúnga, en eldast eigi hèr í Svíþjóð. Þeir gánga nú til hesta sinna, ok þakka drottníngu vel þann sóma, sem hún hafði gjört til Svipdags[3]; stíga nú á hesta sína ok ríða alla sína leið, þartil er þeir koma til föður síns, ok spyrja hann ráða, hvat upp skal taka: eða hvat skulum vèr afsnúa? hann kallaði þat mestan frama,

[1]) kyrran, *C.* [2]) opt, *b. v. B.* [3]) þakkar drottning ok þeim fyrir liðveizluna, *b. v. B.*

at vera með Hrólfi konúngi í Danmörk ok köppum hans, ok þar er yðr vænast til nokkrs frama, til at stöðva yðvarn ofsa, því ek hefi þat sannspurt, at þángat sèu komnir enu mestu kappar á Norðrlöndum. Hvörnin er honum háttat? segir Svipdagr. Faðir hans segir: svâ er mèr sagt frá Hrólfi konúngi, at hann sè örr ok stórgjöfull, trúfastr ok vinavandr, svâ at hans jafníngi mun eigi finnast; hann sparar eigi gull nè gersemar nær við alla, er þiggja vilja; hann er lágligr at líta, en mikill at reyna ok torveldr, manna fríðastr, stórlátr við ómilda, en ljúfr ok hógværr við vesæla, ok við alla þá, sem ekki brjóta bág í móti honum; manna lítilátastr, svâ at jafn blítt svarar hann fátækum sem ríkum; svâ er hann mikill ágætismaðr, at hans nafn mun[1] eigi fyrnast á meðan veröldin er bygð[2]; hann hefir ok skattgildt alla konúnga þá, sem at eru í nánd honum, því allir vilja honum fúsir þjóna. Svipdagr segir: hèr hefr þú þá sögu at segja, at ek em ráðinn í, at fara á fund Hrólfs konúngs ok allir vèr bræðr, ef hann vill taka við oss. Svipr bóndi mælti: þèr munuð ráða ferðum yðar ok athöfnum, en bezt þætti mèr, at þèr væruð heima með mèr; þeir kváðu, at ekki mundi þess tjá at leita[3]; síðan báðu þeir föður sinn vel lifa ok svâ móður, en þeir fara leið sína áburt, ok allt þar til, er þeir komu á fund Hrólfs konúngs

[1]) uppi ok, *b. v. C.* [2]) varir, *C.* [3]) letja, *B, C, L.*

Svipdagr gekk þegar fyrir konúng, ok kvaddi hann; konúngr spyrr, hverr hann væri; Svipdagr segir honum nafn sitt, ok svâ allra þeirra, ok kveðst hafa verit með Aðels konúngi um hríð. Hrólfr konúngr mælti: hvar fyrir fórstu híngat, því ekki er mikil vinátta á milli Aðels [ok vorra manna[1]. Svipdagr sagði: veit ek þat, herra! þó vil ek leitast við at gjörast yðarr maðr, ef kostr er á, ok vèr bræðr allir, en þó mun yðr þikja lítit koma til vor. Konúngr segir: ekki hafða ek þat ætlat, at gjöra mèr vini af mönnum Aðels konúngs, en fyrst þèr hafið sókt á minn fund, þá mun ek taka við ykkr, þvíat ek hygg, at sá hafi betr, er ykkr vísar ekki frá, þvíat ek sè, at þið eruð gildir garpar[2]; hef ek spurt at þið hafið mikla frægð unnit, drepit berserki Aðels konúngs, ok unnit mörg þrekvirki önnr. Hvar vísar þú mèr til sætis? sagði Svipdagr; konúngr segir: sitið hjá þeim manni, er Bjálki heitir, ok látið liggja[3] 12 manna rúm innar fyrir[4] ykkr. Heitit hafði Svipdagr Aðels konúngi at koma til hans, áðr hann færi í burt. Nú gánga þeir bræðr til rúms þess, sem konúngr hafði vísat þeim. Svipdagr spurði Bjálka, því þau rúm skyldi auð liggja innar frá þeim. Bjálki segir, at þeir sitì þar berserkir 12 konúngsins, þá þeir kæmi heim; þeir voru þá í hernaði: Skúr heitir dóttir Hrólfs konúngs, en önnr Drífa. Drífa var heima með

1) ok mín, *B.* 2) kappar, *C.* 3) vera autt, *B.* 4) upp frá, *B.*

konúnginum, ok allra kvenna kurteisust[1]; Drífu var vel til þeirra bræðra, ok þokkaði allt heldr vel fyrir þeim. Svâ fór nú fram um sumarit, ok allt þar til berserkir komu heim um haustit til hirðarinnar; ok eptir siðum sínum þá gengu þeir fyrir hvern mann, þá þeir komu í höllina, ok spurði sá, er fyrir þeim gekk[2], hvert sá teldist jafnsnjallr honum, sem fyrir sat, ok leituðu menn sèr þar ýmsra atkvæða um þat, sem þeim þótti bezt sóma, ok mátti þat þó heyra á orðum hvörs, at þá þótti sik mikit vanta á, at vera jafnsnjalla; ok nú gengr hann fyrir Svipdag, ok spyrr, hvort hann þættist[3] jafnsnjallr. Svipdagr sprettr upp, ok bregðr sverði, ok kveðst í öngan stað ósnjallari enn hann. Berserkr mælti: högðu þá í hjálminn; Svipdagr gjörði svâ, ok beit ekki á, ok síðan vildu þeir berjast; Hrólfr konúngr hljóp í milli þeirra, ok sagði þeim skyldi þat ekki hlíðast, ok skyldu þeir heita jafnir þaðan í frá, ok báðir mínir vinir; ok eptir þat sættust þeir, ok eru jafnan á einu ráði, liggja í hernaði ok hafa sigr, hvar sem þeir komu. Hrólfr konúngr sendi nú menn til Svíþjóðar á fund Yrsu drottníngar, móður sinnar, ok bað hana at senda sèr fè þat, sem Helgi konúngr hafði átt, faðir hans, ok Aðels konúngr hefði tekit til sín, þá er Helgi konúngr var drepinn. Yrsa kvað þat makligt, þó hún kæmi því til áleiðis, ef henni væri þat möguligt: en ef þú leitar sjálfr

[1]) fríðust, *C.* [2]) var, *B.* [3]) teldist, *C.*

eptir fènu, þá skal ek þèr holl í ráðum, son minn! en Aðels konúngr er maðr svâ fèágjarn, at hann hirðir aldrei, hvat hann vinnr til þess, ok svâ bað hún segja Hrólfi konúngi, ok sendi honum þarmeð sæmiligar gjafir.

23. Hrólfr konúngr liggr nú í hernaði, ok dvelst nú fyrir þat, [at hann fari[1] til fundar við Aðels konúng; hann kemr nú undir sik miklum afla, ok alla konúnga, sem hann finnr[2], þá gjörir hann[3] skattgilda undir sik, ok bar þat mest til, at allir enu mestu kappar vildu með honum vera ok aungum öðrum þjóna, því hann var miklu mildari at fè, enn nokkrir konúngar aðrir. Hrólfr konúngr setti þar höfuðstað sinn, sem Hleiðargarðr heitir, þat er í Danmörk, ok er mikil borg ok sterk, ok meiri rausn ok hoffrakt[4] var þar, enn nokkrs staðar, ok í öllu því, sem til stórlætis kom, eða nokkr hafði spurn af. Hjörvarðr hèt einn ríkr konúngr, hann fèkk Skuldar, dóttur Helga konúngs, en systur Hrólfs konúngs; þat var gjört með ráði Aðels konúngs ok Yrsu drottníngar ok Hrólfs, bróður hennar. Ok eitthvert sinn bauð Hrólfr konúngr Hjörvarði mági sínum til veizlu; þat var einn dag, er hann var at veizlunni, at svâ bar til, at þeir voru úti staddir konúngarnir, at Hrólfr konúngr brá brókabelti sínu, ok fèkk Hjörvarði konúngi á meðan sverð sitt; ok sem Hrólfr konúngr hafði

[1]) til sumars; kvelst hann í huganum fyrir þat, at hann vill sem snarast, *B.* [2]) ok þar nálægir voru, *b. v. B.* [3]) pliktuga ok, *b. v. B.* [4]) hoffphract, *C.*

brugðit um sik aptr brókabeltinu, tók hann aptr við sverðinu, ok mælti til Hjörvarðs konúngs: þat vitu við báðir, sagði hann, at þat hefir lengi verit mælt, at sá skal vera undirmaðr annars jafnan síðan, er tekr við sverði annars, á meðan hann bregðr brókabelti; skaltu nú vera undirkonúngr minn, ok þola þat vel, sem aðrir. Hjörvarðr varð þessu ákafliga reiðr, ok verðr þó at láta svâ standa; ferr heim við svâ búit, ok unir illa við sinn hlut, seldi þó skatt Hrólfi konúngi eptir því, sem aðrir hans undirkonúngar, þeir sem honum áttu hlýðni at veita; ok endar hèr Svipdags þátt.

## Böðvars þáttr.

24. Þar er nú til máls at taka, at norðr í Noregi fyrir Uppdölum rèð sá konúngr, er Hríngr hèt; hann átti þann son, er Björn hèt; þat er nú sagt, at drottníng andaðist, ok þótti þat mikill skaði konungi ok mörgum öðrum útífrá. Landsmenn[1], ráðuneyti hans[2], báðu hann kvongast aptr, ok þat verðr, at hann sendir menn suðr í lönd at biðja sèr konu; en á móti þeim komu andviðri mikil ok stórir stórmar, ok verða nú at snúa stöfnum ok halda undan veðrinu; ok þar kemr máli, at þá rekr norðr á Finnmörk, ok voru þar um vetrinn. Þeir fóru einn dag á land upp, ok komu at húsi einu, þar sátu inni tvær konur, vænar at áliti; þær fögnuðu þeim vel, ok spurðu, hvaðan þeir væri atkomnir? Þeir sögðu allt um ferðir sínar, ok hvat at er-

1) ok, *b*, *v*. *B*, *D*, *J*; *v*. *í*. *E*; landsins *C*. 2) *v*. *í*. *C*.

endum var; þeir spurðu, hvaða konum þær væri, eða fyrir hvörja sök þær væri komnar þar einmana ok svâ lángt frá öðrum mönnum, svâ fríðar konur ok vænar. Sú eldri sagði: til alls berr nokkut, sveinar! vèr erum hèr fyrir þær sakir, at einn ríkr konúngr bað dóttur minnar, en hún vildi ekki eiga hann, en hann hèt henni afarkostum aptr ímót, ok því hef ek hana hèr í leyni, á meðan faðir hennar kemr ekki heim, því hann liggr í hernaði. Þeir spurðu, hverr hennar faðir væri; móðir hennar sagði: hún er dóttir Finna konúngs. Þeir spurðu, hvat þær hèti; sú eldri sagði: ek heiti Íngibjörg, en Hvít heitir dóttir mín, er ek frilla Finna konúngs; ein mær var þar at þjóna þeim. Konúngsmönnum leizt vel á þær, ok þat er ráðagjörð þeirra, at leitast eptir, ef Hvít vildi fara með þeim ok giptast Hríngi konúngi; bar sá þetta mál upp fyrir hana, sem fyrir konúngserendum var. Hún svaraði þessu ekki fljótt, en veik þó til forsjá móður sinnar. Svâ er, sem mælt er, at úr hvörju vandræði verðr nokkut at ráða, sagði móðir hennar, ok þiki mèr illa, at faðir hennar er gjörðr fornspurðr at þessu, en þó verðr á þetta at hætta, ef hún skal at nokkoru nær vera; eptir þetta býst hún til ferðar með þeim. Síðan fóru þeir leið sína, ok fundu Hríng konúng, ok þegar frèttu sendimenn eptir, hvort konúngr vildi eiga þessa kvinnu, eða færi hún aptr sömu leið. Konúngi leizt vel á vífit, ok gjörði þegar brullaup til

hennar, vill hann ekki gefa gaum at, þótt at hún sè eigi rík[1]; er konúngr nokkut við aldr, ok fanst þat brátt á dróttníngu.

25. Karl einn átti bú þar skamt frá konúngi; hann átti sèr konu ok dóttur eina barna, er Bera hèt, hún var á úngum aldri ok væn at áliti. Björn konúngsson ok Bera karlsdóttir lèku barnleikum saman, ok fèlst vel á með þeim. Karl var auðugr at fè, ok hafði lengi legit í hernaði á únga aldri, ok var enn mesti kappi. Þau Bera ok Björn unnu hvort öðru mikit, ok hittust þau jafnan; liðu nú svâ stundir fram, at ekki verðr til tíðinda; þroskast Björn konúngsson mikit, ok gjörist hann bæði mikill ok sterkr; hann var vel mannaðr um allar íþróttir. Hríngr konúngr var löngum úr landi ok í hernaði, en Hvít var heima, ok stjórnaði landi; ekki var hún vinsæl af alþýðu, en við Björn lèt hún allblítt, en hann þektist[2] þat lítt. Ok eitt sinn, er konúngr fór heiman, ræddi drottníng við Hríng konúng, at Björn, sonr hans, skyldi heima vera með henni til landstjórnar[3]; konúngi þótti þat ráðligt; gjörðist drottníng nú ríklunduð ok drambsöm[4]. Konúngr sagði syni sínum Birni, at hann skuli vera heima, ok gæta lands með drottníngu; Björn sagði sèr lítit um þat vera,

[1]) síðan er leitat þessa málstaðar við konuna, en hún var til þess fullráðin, *b. v. B.* [2]) þáði, *C.* [3]) landvarnar, *C.* [4]) drambgjörn, *C.*

ok sagði, at sèr sé stórilla til drottníngar; konúngr sagði, at hann skyldi eptir vera; ferr konúngr nú úr landi með miklu fjölmenni. Björn gengr nú heim eptir viðtal þeirra föður hans, ok þótti mjök sinn veg hvorum þeirra; hann gekk til rúms síns, ok var heldr fákátr[1], ok var rauðr sem blóð; drottníng gengr til tals við hann ok vill gleðja hann, ok mælti til vináttu við Björn; hann bað hana í burtu fara; hún gjörir svà at sinni. Opt kom hún þó at máli við hann, ok sagði, at þat væri vel fallit, at þau bygði eina rekkju, á meðan konúngr væri í burtu, ok kallaði miklu betri þeirra samvistu, enn þat hún ætti svâ gamlan mann, sem Hríngr konúngr var. Björn tekr þessu máli þúngliga, ok sló hana kinnhest mikinn, ok bað hana dragast í burt, ok hratt henni frá sèr. Hún kvaðst þessu óvön, at hún væri hrökt eða barin: ok þiki þèr betra, Björn! at spenna heldr karlsdóttur, ok er þèr þat makligt, sem von er á, ok svívirðiligra, enn njóta minnar ástar ok blíðu, ok væri þat ekki fjærri, þótt nokkut kæmi ímót þrá þinni ok heimsku; hún lýstr nú til hans með úlfhandska, ok segir, at hann skyldi verða at einum hýðbirni ólmum ok grimmum: ok nýta þèr þó önga fæðslu aðra, enn fè föður þíns; skaltu drepa þat þèr til matar, meirr enn dæmi sèu til, ok aldrei skaltu úr þessum álögum fara, ok skal þèr þessi minníng verri enn engin.

26. Eptir þat hverfr Björn í burt, ok veit

[1]) skapþúngt, *F.*

enginn, hvat af honum verðr; ok er menn sakna Björns, þá er hans farit at leita[1], ok finst hann hvergi, sem líkligt er. Frá því er nú at segja, at fé konúngs er drepit niðr at handamáli, ok einn grábjörn legst á þat, bæði mikill ok grimmligr. Eitt kveld berr þat til, at karlsdóttir sèr þenna enn grimma björn; björn ferr at henni, ok lætr allblítt við hana; í þessum birni þikist hún kenna augu Björns konúngssonar, ok forðast hún þat lítt; dýrit gengr þá frá henni, en hún ferr eptir því, ok allt til þess þat kemr at helli nokkrum; ok sem hún kemr at hellinum, þá er þar maðr fyrir, ok heilsar Beru karlsdóttur; hún kennir, at þetta er Björn Hríngsson, ok verðr þar mikill fagnaðarfundr. Þar eru þau í hellinum um hríð, því hún vildi ekki skiljast við hann, á meðan hún á kost; hann kallar henni þat ósæmiligt, at vera þar hjá honum, því hann sè dýr um daga, en maðr um nætr. Hríngr konúngr kemr nú heim úr hernaðinum, ok[2] er honum sagt, hver tíðindi at til hafa borit, á meðan hann hefir verit í burt: hvarf Björns, sonar hans, ok þat annat, um þat mikla dýr, sem komit væri í landit, ok mest legðist á sjálfs hans fè. Drottníng eggjaði fast at láta drepa dýrit, en þó frestaðist þat um hríð; lætr konúngr sèr fátt um þetta finnast, ok þikir með undarligu móti vera. Einhvorja

[1]) nærri ok fjærri, *b. v. C.* [2]) er hann hefir sagt, hvör tíðindi við hafa borit í hans ferð, *b. v. C.*

nótt, er þau Bera voru í rekkju sinni ok Björn konúngsson, tók Björn til orða ok mælti: svâ grunar mik, at banadagr minn muni vera á morgun, ok munu þeir fá mik veiddan, enda þiki mèr ekki gaman at lífinu fyrir ósköpum þeim, sem á mèr liggjà, þó þat eina sè mèr til yndis, sem við erum bæði, en þó mun því nú bregða; hríng þenna mun ek gefa þèr, er undir vinstri hendi mèr er; þú munt sjá liðit á morgin, sem at mèr sækir, ok þá ek er dauðr, farðu til konúngsins, ok biðtu hann at gefa þèr þat, sem er undir bóg dýrsins vinstra megin, en hann mun því játa þèr; drottníngu[1] mun gruna þik, þá er þú ætlar í burt, ok mun hún gefa þèr at eta af dýrs slátrinu, en þat skyldir þú eigi eta, því þú ert kona eigi heil, sem þú veizt, ok muntu fæða sveina 3, er við munum eiga, ok á þeim mun þat sjá, ef þú etr af dýrs slátrinu, en drottníng þessi er hit mesta tröll; síðan far þú heim til föður þíns, ok þar muntu fæða sveinana; einn mun þèr þó vestr þikja; ok ef þú mátt eigi annast þá heima fyrir ósköpum þeirra ok ófyrirleitni, leiðtu þá í burtu, ok farðu híngat til hellisins með þá, hèr muntu sjá kistu með þremr gólfum; þat munu segja rúnir þær, sem þar eru hjá, hvat hverr þeirra skal eignast; vopn 3 eru í berginu, ok skal þat hverr hafa, sem honum er ætlat; sá sem fyrst kemr til, sonr okkar, skal Þórir heita, annar Elg-

[1]) drottníngar greyit, *B.*

fróði, þriði Böðvar, ok þiki mèr þess líkara, at þeir verði eigi litlir fyrir sèr, ok þeirra nöfn munu lengi uppi vera. Hann segir henni fyrir marga[1] hluti[2], ok steypist síðan bjarnarhamrinn yfir hann, ok gengr björninn svâ út, ok hún eptir honum[3], ok litast um, ok þá sèr hún koma mikit lið fram fyrir fjállsöxlina, ok fara margir hundar ok stórir fyrir liðinu. Björninn rennr nú frá hellinum ok með fjallinu fram; koma hundarnir ok konúngsmenninnir í móti honum, ok varð hann þeim torsóktr, meiddi hann marga menn fyrir þeim, áðr hann yrði sóktr, ok alla hunda deyddi hann. Þar kom, at þeir slóu hríng um hann, ok sveimaði hann þá innan um hrínginn[4], ok sèr, í hvert efni komit er, at hann fær eigi undan komist[5]; snýr hann þá þángat, sem konúngr stendr, ok þrífr þann mann, sem nærstr stóð honum, ok reif hann kvikan í sundr; þá var björninn svâ móðr, at hann kastaði sèr flötum niðr; hlaupa þeir þá skjótt at, ok drepa hann. Þetta sèr karlsdóttir; hún gengr at konúngi, ok mælti: villt þèr, herra! gefa mèr þat, sem undir vinstra bóg dýrsins er? konúngr játaði því, sagði þat eitt mundi þar vera, at honum mundi vel sóma at veita henni þat. Konúngsmenn höfðu þá flegit björninn mjök; Bera gekk þá at, ok tók í burt hrínginn ok varð-

[1]) óorðna, *b. v. C.* [2]) eptir þetta fór hann út, *b. v. B.* [3]) mjök sorganði, *b. v. B.* [4]) mannhrínginn, *B.* [5]) kemst hann þá enn út úr fylkíngunni, ok, *b. v. B.*

veitti, en eigi sáu menn, hvat hún tók, enda var þar ekki eptir leitat; konúngr spyrr, hver hún væri, því hann kendi hana eigi; hún sagði til sín, sem henni sýndist, ok annat enn var.

27. Konúngr ferr nú heim ok Bera í ferð með konúngi; drottníng var allkát, ok tók vel við henni, ok frètti, hver hún væri; hún sagði, sem fyrr, eigi hit sanna til. Drottníng gjörir nú veizlu mikla, ok lætr búa bjarnarslátrit til fagnaðar mönnum. Karlsdóttir er í skemmu drottníngar, ok náir eigi burt at fara, því drottníngu grunar, hver hún muni vera; ok þar kemr drottníng með disk vonum bráðara, var þar á bjarnarholdit, ok bað Beru neyta; hún vildi eigi eta; þetta eru fyrn mikil, segir drottníng, at þú trunsar[1] við fagnaði þessum, er drottníng sjálf virðist at bjóða þèr, ok tak við skjótt, ellegar skal þèr annar verri; hún bitar fyrir hana, ok þat verðr af leiknum, at hún etr þann bita; drottníng skerr þá annann, ok lætr í munn henni, ok þar kemr lítit korn niðr af þeim bita, ok sló þá[2] úr munni sèr, ok kveðst eigi meir mundu eta, þó hún píndi hana eða deyddi; drottníng mælti: vera kann, at nú dugi nokkut, ok hló at. Síðan fór Bera í burt ok heim til föður síns; hún hefir óhæga höfn meðferðar; hún sagði nú föður sínum alla málavöxtu um sitt ráð, hvernin háttat er; ok litlu síðarr tók hún sótt, ok fæddi sveinbarn, þó nokkut með undarligum hætti; þat var maðr upp, en elgr niðr

[1]) *þannig A, F, G;* trunsar, *hin.* [2]) þó, *B, C, D, J.*

frá nafla; hann er nefndr Elgfróði[1]. Annar sveinn kemr þar til, ok er kallaðr Þórir; hundsfætr voru á honum frá rist, ok því var hann kallaðr Þórir hundsfótr, hann var maðr fríðastr sýnum fyrir annat. Hinn þriði sveinn kom til, ok var sá allra vænstr, sá er kallaðr Böðvar, ok var honum ekki neitt til lýta; Böðvari ann hún mest; þeir renna nú upp sem gras; ok þá þeir eru at leikum með öðrum mönnum, eru þeir grimmir ok óvægir um allt, fá menn harðleikit af þeim; meiðir Fróði marga menn fyrir konúngi, en deyddi suma með öllu.

28. Svâ fór fram um hríð, þartil at þeir eru 12 vetra gamlir; þeir eru þá svâ sterkir, at öngir konúngsmenn stóðust fyrir þeim, ok mega þá ekki at leikum vera. Þá sagði Fróði móður sinni, at hann vill fara í burt, ok má ek ekki við menn eiga, því þeir eru ölmussur[2] einar, ok meiðast strax, þá við er komit; hún sagði honum ekki hent í fjölmenni fyrir óvægi sína. Móðir hans ferr nú með honum til hellisins, ok vísar honum til þess fjár, sem faðir hans hafði honum ætlat, því Björn hafði þat allt ákveðit, hvat hverr skyldi hafa. Fróði vildi taka meira, ok náði ekki, því þat var minst fèt, sem honum var ætlat; ok nú sèr hann, hvar vopnin taka fram úr berginu, tekr hann fyrst til hjaltanna, ok er sverðit fast, svâ hann náir því eigi; þá þrífr hann til öxarskaptsins,

[1]) Elgfróðr, *D*, *E*, *J*. [2]) ölmíslur, *C*; ölmusur, *D*, *H*, *J*; míslur, *F*.

ok er eigi lausara; þá mælti Elgfróði: má vera, at sá einn hafi ætlat, er gripum þessum hefir hèr komit, at vopnaskipti skuli fara eptir fjárskiptum öðrum; þrífr nú til heptisins, ok var þat þegar laust; þar fylgdi ein skálm heptinu; hann leit á skálmina um hríð, ok mælti síðan: ójafngjarn hefir sá verit, er þessum gripum hefir átt at skipta; leggr nú skálminni tveim höndum í bergit, ok vill brjóta hana sundr, en skálmin hljóp inní bergit, svâ at skellist við heftit, en þó brotnaði hún ekki at heldr. Þá mælti Elgfróði: hvat mun varða, hvörnin ek ferr með óþokkagrip þenna, því ekki er örvænt, at bíta kunni; eptir þat kvaddi hann[1] móður sína[2] at skilnaði. Fróði ferr nú á kjalveg einn, ok gjörist þar illvirkr[3] ok drepr menn til fjár sèr, ok smíðar sèr skála ok býst þar um.

29. Hríngr konúngr þikist nú vita, hvörjum kynstrum þetta muni gegna alltsaman, ok hefr ekki um þat[4] fyrir alþýðu, ok lætr þó vera kyrt jafnt sem áðr. Litlu síðarr beiðist Þórir hundsfótr at fara í burt, en móðir hans vísar honum til hellisins, ok svâ til þess fjár, sem honum var ætlat, ok segir honum til vopnanna, ok bað hann taka öxina, ok kvað hún svâ föður hans hafa fyrir mælt; síðan fór Þórir í burt, ok bað móður sína vel lifa. Hann þrífr fyrst til hjaltanna, ok er sverðit fast, þá tekr hann í heftit,

---

1) ekki, *b. v. F, J.* 2) ferr hann burt, *er hèr ofaukið í A, E, G.* 3) stigamaðr, *B.* 4) orð, *b. v. F, J.*

ok er öxin laus, því hún var honum ætluð; síðan tekr hann fèt, ok ferr leið sína ; hann leggr svâ leið, at hann ferr fyrst á fund Elgfróða, bróður síns; hann ferr inní skála hans, ok sezt niðr í sætit, ok lætr síga höttinn. Litlu síðarr kemr Fróði heim, ok lítr ekki hýrliga til hins komna manns, bregðr nú skálminni ok mælti:

Grenjar[1] skálm,
gengr úr slíðrum,
minnist hönd
hildar verka[2].

ok keirir niðr á stokkinn hjá sèr, ok gjörist mjök ólmr ok illiligr. Þórir kvað þá:

En ek læt víðs[3]
á vegi öðrum[4]
öxi mína
jafnt hljóð bera.

Ok þá duldist Þórir ekki lengr, ok kendi þá Fróða bróður sinn, ok bauð honum allt at helmíngi við sik, þat sem þá hafði hann samandregit, því þar skorti eigi auð mikinn; Þórir vill þat eigi þiggja; dvelst hann þar um hríð, ok fór í burt síðan. Elgfróði vísaði honum til Gautlands, ok sagði honum, at nýðauðr sè konúngr þeirra Gautanna, ok bað hann koma í ríki þeirra; hann sagði honum fyrir marga hluti: þat eru lög þeirra Gautanna, at þar er stefnt fjölmennt mót[5], ok stefnt þángat öllum Gautum; einn stórr stóll

---

1) grunar, *L.* 2) *þannig B, D, E, F, H, J, L;* verki, *A* og *hin.* 3) vígs, *F.* 4) *þannig A og hin; v. í. B, F.* 5) þíng, *B, C, L.*

er settr á mótit, svâ sitja mega í rúmliga tveir menn, en sá skal konúngr vera, er þat rúm fyllir, en mèr þikir, sem þú munir þat rúm ótæpt fylla; eptir þat skiljast þeir, ok mælir hvorr vel fyrir öðrum. Fór Þórir nú leið sína, þar til er hann kemr til Gautlands, til jarls eins, ok tók jarlinn honum vel, ok var þar um nóttina. Þat sagði hverr maðr, sem Þórir sá, at hann mætti vel vera yfir Gautum konúngr fyrir vaxtar sakir, ok sögðu, at færri mundu þar slíkir; ok þá komit er at þíngstaðnum, þá ferr þetta eptir því, sem Fróði, bróðir hans, hafði sagt honum fyrir. Höfundr einn var þar tilsettr, at skora þetta mál með sannindum; settust margir í þetta sæti, ok kallaði höfundr aungum sæma. Þórir gengr seinastr, ok sezt hann þegar í stólinn; höfundr mælti: þèr er sætit hæfiligast, ok muntu dæmdr til þessarar stjórnar; síðan gefa landsmenn honum konúngsnafn, ok er hann kallaðr Þórir konúngr hundsfótr, ok eru miklar sögur frá honum; hann var vinsæll, ok háði margar orrostur, ok hafði optarst sigr; sitr hann nú í ríki sínu um hríð.

30. Böðvar er heima með móður sinni; hún unni honum mikit; allra manna var hann gjörfugligastr ok fríðastr sýnum, ekki var hann mjök málkunnugr mönnum. Hann spyrr móður sína eitt sinn, hverr faðir hans væri; hún sagði honum líflát hans ok allan atburð, ok hvorsu hann varð fyrir ósköpum af stjúpmóður sinni.

Böðvar sagði: íllt egu vèr þessu flagði at launa. Þá sagði hún honum, hvornin hún var neydd af drottníngu, at eta af bjarnarholdinu, ok þat sèr nú á bræðrum þínum, Þórir ok Elgfróða. Böðvar mælti: eigi þætti mèr Fróða óskyldarr at hefna föður vors á þessu blauða[1] flagði, enn at drepa menn saklausa til fjár sèr ok gjöra illvirki, ok svâ þótti mèr Þórir fara undarliga í burt, at hann gjörði eigi skessu þessari nokkra áminníng, ok vænti ek þat sè bezt ráð, at ek [setì henni nokkra áminníng[2] fyrir vora hönd. Bera mælti: stiltu svâ til, at hún megi eigi fjölkýngi viðkoma, svâ þik megi skaða; hann kvað svâ vera skyldu. Eptir þat fara þau Bera ok Böðvar á konúngs fund, ok nú segir hún konúngi allt, hvornin háttat er, með ráði Böðvars, ok sýnir honum hrínginn, hvörn hún hafi tekit undan bógnum dýrsins, ok Björn sonr hans hafi áttan. Konúngr lèzt at vísu kenna hrínginn: hefir mik nærsta grunat, at þetta mundi af hennar ráðum vera um kynstr þessi öll saman, sem hèr hafa viðborit, en fyrir ástar sakir við drottníngu hefi ek látit kyrt vera. Böðvar mælti: lát hana nú í burt fara, ella munu vèr hefna á henni; konúngr kvaðst vilja bæta honum fè, eptir því, sem hann vildi, ok væri enn kyrt, ok gefa honum ríki til forráða ok jarlsnafn nú strax, en eptir sinn dauða konúngdóm, ok væri henni ekki gjört

---

[1]) *v. í. L.* [2]) gjöri henni minníngar kost, *L;* s. h. nokkrar skriptir, *B.*

til meins. Böðvar kveðst ekki konúngr vilja vera, heldr kvaðst hann vilja með konúngi vera ok honum þjóna: ertu svâ fánginn fyrir þessum óvætti, at þú heldr varla viti þínu nè rèttum konúngdómi, ok skal hún hèr aldrei þrífast uppfrá þessu. Böðvar var þá svâ ólmr við at eiga, at konúngr þorði ekki at fást við hann. Böðvar gengr til skemmu drottníngar, ok hefir í hendi skreppu nokkra; konúngr fór á eptir ok móðir hans; en er Böðvar kom í skemmuna, snýr hann at Hvít drottníngu, ok setr belg skorpinn[1] á höfuð henni, ok dregr at hálsinum fyrir neðan; setti hann henni síðan vángahögg, ok barði hana til heljar með ýmisligum píníngum, ok dró hana svâ um öll stræti; þótti mörgum eða flestum þar innan hallar þetta ekki verra enn hálfneitt, en konúngi stórilla, ok gat ekki atgjört; lèt Hvít drottníng svâ sitt arma líf; var Böðvar þá 18 vetra, er þetta var tíðinda. Litlu síðarr tekr Hríngr konúngr sótt, ok andast. Eptir þat tekr Böðvar þar við ríki, ok unir þar litla hríð; síðan stefnir hann þíng við landsmenn, ok talar þar á þínginu, at hann vill burtu fara, en hann gipti móður sína manni þeim, sem Valsleitr[2] hèt, hann var þar áðr jarl, ok sitr Böðvar í veizlunni, áðr enn hann ríðr.

31. Eptir þetta ríðr hann í burt einnsaman, ok ekki hefir hann með sèr mikit gull nè silfr, nè aðra fjárhluti, nema hann er vel búinn at

1) skroppinn, *C*; stóran, *L*. 2) Ulfleitr, *B*; Valgautr, *F*.

vopnum ok klæðum; hann ríðr nú sínum góða hesti fyrst til hellisins eptir vísan móður sinnar; verðr sverðit laust, þá hann tekr til hjaltanna; þat fylgdi því sverði, at aldrei mátti því bregða utan þat væri mannsbani; þat skyldi eigi undir höfuð leggja, ok eigi á hjalt reisa; eggjar[1] skyldi þrisvarsinnum á allri æfi sinni brýna[2], [ok eigi mátti bregða annat skeið, svâ var þat torsótt[3]; þenna mæta grip vilduþeir bræðr allir eiga. Böðvar sótti á fund Elgfróða, bróður síns; hann gjörði umgjörð at sverðinu af björk; ekki verðr tíðinda í ferð hans, fyrr enn hann kemr aptann dags at skála miklum, þar rèð fyrir Elgfróði. Böðvar leiðir inn hest sinn, ok þikist eiga at heimilu þat allt, er hann þikist þurfa. Fróði kemr heim um kveldit, ok rennir illa augum á hann; Böðvar ferr ekki at því, ok lætr hefjast við, svâ hestarnir eigast ok íllt við, ok vill hvorr reka annann af stallinum. Fróði tekr þá til orða: þetta er ofsamaðr mikill, er þorir at setjast hèr inn at ólofi mínu; Böðvar lèt slúta[4] höttinn, ok svarar öngu. Elgfróði stendr upp, ok bregðr skálminni, ok skellir síðan upp at heftinu, ok ferr svâ tvisvarsinnum; Böðvar bregðr sèr ekki við; í þriðja sinn bregðr hann skálminni, ok stefnir nú at honum, ok hyggr hann, at sá maðr kunni ekki at hræðast, er kominn var; ætlar [nú hann skuli undir sèr taka[5]; ok sem Böðvar sèr, í hvört efni komit er, vill hann eigi lengr

[1]) eggja, *F, J.* [2]) *þannig B, C, D; v. í A og hin.* [3]) þat hèt Laufi, *F.* [4]) síga, *C, L.* [5]) at kljúfa hann í herðar niðr, F.

bíða, stendr nú upp ok rennr undir hönd honum. Elgfróði var þess harðari undir höndum, ok eigast þeir við miklar sviptíngar, ok þá ferr ofan hattr Böðvars, ok þá kennir Fróði hann, ok mælti: velkominn frændi! ok höfum við helzt lengi þessar sviptíngar haft; ekki sakar enn til, segir Böðvar. Elgfróði mælti: varligar mun þèr þó enn, frændi! við mik at eiga, ef við skulum þat þreyta[1], ok muntu hèr enn aflsmunar kenna, ef við skulum eigast við, ok ekki hlífast við. Fróði bauð honum þar at vera, ok eiga allt hálft við sik; Böðvar vill þat eigi, ok þótti honum þat íllt, at drepa menn til fjár sèr; hann ferr nú á burt eptir þetta. Fróði fór á leið með honum, ok segir honum þat, (at hann) hafi mörgum manni grið gefit, þeim er litlir voru fyrir sèr, ok við þat gladdist Böðvar, ok sagði, hann gjörði þat vel: ok flesta skyldir þú í friði láta fara, [þó þèr þætti nokkut við þá[2]. Elgfróði segir: mèr eru allir hlutir illa gefnir, en þat er þèr eitt til[3], at fara á fund Hrólfs konúngs, því þar vilja allir vera hinir mestu kappar með honum, [þvíat stórlæti hans er miklu meira, rausn ok hugprýði, enn allra konúnga annarra. Síðan tók Fróði ok stjakaði honum[4]; þá mælti Fróði: ekki ertu svâ sterkr, frændi! sem þèr hæfir; Fróði nam sèr blóð í kálfanum, ok bað hann drekka, ok svâ gjörir Böðvar;

[1]) til lengdar, *b. v. C.* [2]) ef ek rèði, *C.* [3]) frama, *b. v. C.* [4]) *v. í. C.*

þá tók Fróði til hans í annat sinn, ok þá stóð Böðvar í sömu sporum; helzt ertu nú sterkr, frændi! sagði Elgfróði, ok vænti ek, at þèr hafi komit at haldi drukkrinn, ok þú munt verða fyrirmaðr flestra um afl ok hreysti, ok um alla harðfengi ok drengskap, ok þess ann ek þèr vel. Eptir þetta stè Fróði í bergit, er var hjá honum, allt til lagklaufa. Þá mælti Fróði: til þessa spors mun ek koma hvern dag, ok vita, hvat í sporinu er; mold mun verða, ef þú verðr sóttdauðr, vatn, ef þú verðr sjódauðr, blóð, ef þú verðr vopndauðr, ok mun ek þá hefna þín, því ek ann þèr mest allra minna[1].

32. Skiljast þeir nú, ok ferr Böðvar leið sína, til þess at hann kom til Gautlands, ok var Þórir konúngr hundsfótr eigi heima; þeir voru menn svâ líkir, at hvorugan mátti þekkja frá öðrum, ok ætluðu landsmenn, at Þórir mundi heimkominn, ok er hann þar settr í hásæti, ok þjónat jafnt sem konúngi at öllum hlutum, ok skipat í rekkju hjá drottníngu, því Þórir var kvongaðr. Böðvar vill eigi liggja undir þeirri blæju, sem hún hefir; þetta þótti henni undarligt, því hún hugði þat sannliga bónda sinn, en Böðvar sagði henni allt, hvornin háttat er; hún lèt þá ekki á sèr finna; ok svâ breyttu þau hvörja nótt, ok skröfuðust svâ við, fram til þess Þórir kom heim, ok verða menn þá at þekkja, hverr maðrinn er. Verðr þá fagnaðarfundr með þeim bræðrum; segir Þórir, at öngum mundi hann

[1]) *þannig A, G; manna, hin.*

svâ öðrum trúa, at byggja nærri drottníngu sinni. Þórir bauð honum þar at vera, ok hafa til helmínga við hann allt lausafè; Böðvar kveðst eigi vilja þat; Þórir bauð honum þá at fara með, sem hann vildi, eða fá honum lið; eigi vildi hann þat. Reið Böðvar á burt, ok fór Þórir á leið með honum, ok skilja þeir bræðr með vináttu ok þó með leynd nokkri[1]; ok er ekki sagt af ferðum hans, fyrr enn hann kemr fram í Danmörk, ok þartil hann á skamt til Hleiðargarðs.

33. Einn dag var væta mikil, ok verðr Böðvar votr mjök, ok mæðist fast hestrinn, ok gjörðist móðr undir honum, er hann reið mikit, en gjörðist geisiliga blautt ok þúngreitt; gjörðist mikit myrkr ok ofanfall á nóttinni; ok eigi finnr hann fyrr, enn hestrinn drepr fótum í hæð nokkra. Böðvar stígr af baki, ok leitast fyrir, ok skilr hann, at þar muni vera hús nokkut, ok finnr hann, at þar eru dyr á; hann lýstr á hurðina; þar gengr maðr út; Böðvar beiðist þar vistar um nóttina; húsbóndinn sagðist ekki vísa honum burt á náttarþeli, [en hann væri ókunnugr[2]. Bónda þikir maðrinn vera mikilúðligr allt þat, er hann má ásjá. Þar er Böðvar um nóttina í góðum beinleika; hann spurði margt frá afreksverkum Hrólfs konúngs eða kappa hans, eða hvorsu lángt væri þángat. Nei, sagði karl, þángat er

[1]) ok má hèr endast þessi þáttr, *b. v. B.* [2]) einkanliga ef honum eru vegir ókunnugir, *B.*

nú allskamt, eða ætlar þú þángat? já, sagði Böðvar, þat er ætlun mín; karl sagði, honum mundi þat vel hent, því ek sé þú ert mikill maðr ok sterkr, en þeir þikjast vera garpar miklir; ok við þetta grætr kelling hástöfum, þá þeir geta Hrólfs konúngs ok kappa hans í Hleiðargarði[1]. Hvat grætr þú fáráð kellíng? segir Böðvar; kellíng mælti: við karl minn áttum einn son, þann Höttr hèt, ok einn dag fór hann til borgarinnar at skemta sèr, en þeir glettust við hann konúngsmenninnir, ok þat stóðst hann illa; síðan tóku þeir hann ok settu í beina sorp; en þat er háttr þeirra um matmál[2], ok svâ sem af er ètit hvörju beini, þá kasta þeir til hans, fær hann af því stundum stór mein, ef á hann kemr, ok ekki veit ek, hvort hann er lífs eða dauðr; en þau laun vilda ek af þèr hafa fyrir minn beinleika, at þú kastaðir til hans minna beini heldr enn meira, ef hann er ekki dauðr útaf. Böðvar segir: ek skal gjöra eptir því, sem þú beiðir, ok ekki þikir mèr þat svâ garpligt, at berja menn beinum eða hata börn eðr smámenni; þá gjörir þú vel, sagði kellíng, því þín hönd sýnist mèr [sterklig, ok veit ek[3] víst, hann á öngan stað fyrir þínum höggum, ef þú vilt ekki hlífast við.

34. Síðan fór Böðvar leið sína til Hleiðargarðs, hann kemr til konúngs atsetu; Böðvar

1) *þannig B, D, H, J, K, L; v. í F;* Hlíðargarði, *hèr A og hin.* 2) máltíð, *B.* 3) svâ sterklig, at ek v., *C.*

leiðir síðan hest sinn á stall hjá konúngs hestum hinum beztu, ok spyrr öngan at, gekk síðan inní höllina, ok var þar fátt manna; hann sezt utarliga, ok sem hann hefir verit þar litla hríð, heyrir hann þrösk nokkut utar í hornit í einhvörjum stað; Böðvar lítr þángat, ok sèr, at mannshönd kemr upp úr mikilli beinahrúgu, er þar lá, höndin var svört mjök; Böðvar gengr þángat til, ok spyrr, hverr þar væri í beinahrúgunni; þá var honum svarat ok heldr óframliga: Höttr heiti ek, Bökki[1] sæll[2]! því ertu hèr? segir Böðvar, eða hvat gjörir þú? Höttr segir: ek gjöri mèr skjaldborg, Bökki sæll! Böðvar sagði: vesall ertu þinnar skjaldborgar; Böðvar þrífr til hans, ok hnikkir honum burt úr beinahrúgunni. Höttr kvað þá hátt við, ok mælti: nú viltu mèr bana, gjör eigi þetta! svâ sem ek hefi nú vel umbúist áðr, en þú hefir nú rótat sundr skjaldborg minni, ok hafða ek nú svâ gjört hana háfa utan at mèr[3], at hún hefir hlíft mèr við öllum höggum ykkar, svâ ekkert högg hefir komit á mik lengi, en ekki var hún enn svâ búin, sem ek ætlaði hún skyldi verða. Böðvar mælti: ekki muntu fá skjaldborgina gjörða lengr. Höttr mælti ok grèt: skaltu nú bana mèr, Bökki? Böðvar bað hann ekki hafa hátt, tók hann upp síðan, ok bar hann út úr höllinni ok til vatns nokkrs, sem þar var í nánd, ok gáfu fáir at þessu gaum,

[1]) bokki *og* Bökki, *ýmist í C.* [2]) minn, *jafnan í L.* [3]) ok sterka, at ek var þar óhultr inni, *b. v. B.*

ok þvoði hann upp allan. Síðan gekk Böðvar til rúms, sem hann hafði áðr tekit, ok leiddi eptir sèr Hött, ok þar setr hann Hött hjá sèr, en hann er svâ hræddr, at skelfr á honum leggr ok liðr, en þó þikist hann skilja, at þessi maðr vill hjálpa sèr. Eptir þat kveldar, ok drífa menn í höllina, ok sjá Hrólfs kappar, at Höttr er settr á bekk upp, ok þikir þeim sá maðr hafa gjört sik ærit djarfan, er þetta hefir tiltekit. Íllt tillit hefir Höttr, þá hann sèr kunníngja sína, því hann hefir íllt eitt af þeim reynt; hann vill lifa gjarnan, ok fara aptr í beinahrúgu sína, en Böðvar heldr honum, svâ hann náir ekki í burtu at fara, því hann þóttist ekki jafnberr fyrir högg-um þeirra, ef hann næði þángat at komast, sem hann er nú. Hirðmenn hafa nú sama vanda, ok kasta fyrst beinum smám um þvert gólfit til Böðvars ok Hattar; Böðvar lætr, sem hann sjái eigi þetta. Höttr er svâ hræddr, at hann tekr eigi mat nè drukk, ok þikir honum þá ok þá, sem hann muni vera lostinn; ok nú mælti Höttr til Böðvars: Bökki sæll! nú ferr at þèr stór hnúta, ok mun þetta ætlat okkr til nauða[1]; Böðvar bað hann þegja; hann setr við holan lófann, ok tekr svâ við hnútunni, þar fylgir leggrinn með. Böðvar sendir aptr hnútuna, ok setr á þann, sem kastaði, ok rètt framan í hann með svâ harðri svipan, at hann fèkk bana; sló þá miklum ótta

[1]) bana, *C.*

yfir hirðmennina. Kemr nú þessi fregn fyrir Hrólf konúng ok kappa hans upp í kastalann, at maðr mikilúðligr sè kominn til hallarinnar, ok hafi drepit einn hirðmann hans, ok vildu þeir láta drepa manninn. Hrólfr konúngr spurðist eptir, hvort hirðmaðrinn hefði verit saklauss drepinn. Því var nærsta, sögðu þeir; komust þá fyrir Hrólf konúng öll sannindi hèr um. Hrólfr konúngr sagði þat skyldi fjærri, at drepa skyldi manninn: hafi þið hèr illan vanda upptekit, at berja saklausa menn beinum; er mèr í því óvirðíng, en yðr stór skömm, at gjöra slíkt; hefi ek jafnan rædt um þetta áðr, ok hafi þið at þessu öngan gaum gefit, ok hygg ek, at þessi maðr muni ekki alllítill fyrir sèr, er þèr hafi nú áleitat, ok kallið hann til mín, svâ ek viti hverr hann er. Böðvar gengr fyrir konúng, ok kveðr hann listiliga. Konúngr spyrr hann at nafni; Hattargriða kalla mik hirðmenn yðar, en Böðvar heiti ek. Konúngr mælti: hvörjar bætr viltu bjóða mèr fyrir hirðmann minn? Böðvar segir: til þess gjörði hann, sem hann fèkk. Konúngr mælti: viltu vera minn maðr, ok skipa rúm hans; Böðvar segir: ekki neita ek, at vera yðarr maðr, ok munu við ekki skiljast svâ búit, við Höttr, ok dveljast nærr þèr báðir, heldr enn þessi hefir setit[1], ellegar við förum burt báðir; konúngr sagði: eigi sè ek at honum sæmd, en ek spara ekki mat við hann. Böðvar gengr nú

[1]) er hnútan drap, *b. v. B.*

til þess rúms, sem honum líkaði[1], en ekki vill hann þat skipa, sem hinn hafði áðr; hann kippir upp í einhvörjum stað 3 mönnum, ok síðan settust þeir Höttr þar niðr, ok innarr í höllinni enn þeim var skipat. Heldr þótti mönnum ódælt við Böðvar, ok er þeim enn mesti íhugi at honum.

35. Ok sem leið at jólum, gjörðust menn ókátir. Böðvar spyrr Hött, hvörju þetta sætti; hann segir honum, at dýr eitt hafi þar komit tvo vetr í samt, mikit ok ógrligt, ok hefir vængi á bakinu, ok flýgr þat jafnan; tvö haust hefir þat nú híngat vitjat ok gjört mikinn skaða, á þat bíta ekki vopn, en kappar konúngs koma ekki heim, þeir sem at eru einna mestir. Böðvar mælti: ekki er höllin svâ vel skipuð, sem ek ætlaði, ef eitt dýr skal hèr eyða ríki ok fè konúngsins; Höttr sagði: þat er ekki dýr, heldr er þat mesta tröll. Nú kemr jólaaptann; þá mælti konúngr: nú vil ek, at menn sèu kyrrir ok hljóðir í nótt, ok banna ek öllum mínum mönnum at gánga í nokkurn háska við dýrit, en fè ferr eptir því, sem auðnar, menn mína vil ek ekki missa; allir heita hèr góðu um, at gjöra eptir því, sem konúngr bauð. Böðvar leyndist í burt um nóttina; hann lætr Hött fara með sèr, ok gjörir hann þat nauðugr, ok kallaði hann sèr stýrt í bana; Böðvar segir, at betr mundi takast. Þeir gánga í burt frá höllinni, ok verðr Böðvar at

[1]) ok var ætlat, *b. v. C.*

bera hann, svâ er hann hræddr. Nú sjá þeir dýrit; ok því nærst æpir Höttr[1] slíkt, sem hann má, ok kvað dýrit mundu gleipa hann; Böðvar bað bykkjuna hans þegja, ok kastar honum niðr í mosann, ok þar liggr hann, ok eigi með öllu óhræddr; eigi þorir hann heim at fara heldr. Nú gengr Böðvar móti dýrinu; þat hæfir honum, at sverðit er fast í umgjörðinni, [ok nú fær hann brugðit umgjörðinni[2], svâ sverðit gengr úr slíðrunum, ok leggr þegar undir bægi dýrsins, ok svâ fast, at stóð í hjartanu, ok datt þá dýrit til jarðar dauðt niðr. Eptir þat ferr hann þángat, sem Höttr liggr; Böðvar tekr hann upp, ok berr þángat, sem dýrit liggr dauðt; Höttr skelfr ákaft; Böðvar mælti: nú skaltu drekka blóð dýrsins; hann er lengi tregr, en þó þorir hann víst eigi annat; Böðvar lætr hann drekka tvo sopa stóra, hann lèt hann ok èta nokkut af dýrs hjartanu; eptir þetta tekr Böðvar til hans, ok áttust þeir við lengi. Böðvar mælti: helzt ertu nú sterkr orðinn, ok ekki vænti ek, at þú hræðist nú hirðmenn Hrólfs konúngs; Höttr sagði: eigi mun ek þá hræðast, ok eigi þik uppfrá þessu; vel er þá orðit, Höttr fèlagi! (segir Böðvar), förum við nú til, ok reisum upp dýrit ok búum svâ um, at aðrir ætli kvikt muni vera; þeir gjöra nú svâ. Eptir þat fara þeir heim, ok

[1]) hástöfum, *b. v. C.* [2]) er hann vildi bregða því; Böðvar eggjar nú fast sverðit, ok þá brakar (bragðar) í umgjörðini, *B, C; b. v. D, E, J.*

hafa kyrtum sik, ok veit enginn maðr, hvat þeir hafa iðjat.

36. Konúngr spyrr um morguninn, hvat þeir viti til dýrsins, hvort þat hafi nokkut þángat vitjat um nóttina; honum var sagt, at fè allt væri[1] heilt í grindum ok ósakat. Konúngr bað menn forvitnast, hvort enginn sæi líkindi til, at þat hefði heim komit; varðmenn gjörðu svá, ok komu skjótt aptr, ok sögðu konúngi, at dýrit færi þar, ok heldr geist, at borginni. Konúngr bað hirðmenn vera hrausta, ok duga nú hvörn eptir því, sem hann hefði hug til, ok ráða af óvæit þenna; ok svá var gjört, sem konúngr bauð, at þeir bjuggu sik til þess. Konúngr horfði á dýrit, ok mælti síðan: aunga sè ek för á dýrinu, en hverr vill nú taka kaup einn, ok gánga í móti því? Böðvar mælti: þat væri nærsta hrausts manns forvitnisbót[2]; Höttr fèlagi! rektu nú af þèr illmælit þat, at menn láta, sem enginn krellr nè dugr muni í þèr vera; far nú ok drep þú dýrit! máttu sjá, at enginn er allfúss til þess annarra; já! sagði Höttr, ek mun til þessa ráðast. Konúngr mælti: ekki veit ek, hvaðan þessi hreysti er at þèr kominn, Höttr! ok mikit hefir um þik skipast á skamri stundu. Höttr mælti: gef mèr til sverðit Gullinhjalta, er þú heldr á, ok skal ek þá fella dýrit, eða fá bana. Hrólfr konúngr mælti: þetta sverð er ekki berandi [nema þeim manni, sem bæði er góðr drengr

[1]) í kyrðum ok, *b. v. C.* [2]) ok segir þat sè stórhugaðr maðr, sem þat þorir at gjöra, *b. v. B.*

ok hraustr[1]; Höttr sagði: svâ skaltu til ætla, at mèr sè svâ háttat; konúngr mælti: hvat má vita, nema fleira hafi skipst um hagi þína, [enn sjá þikir[2]? en færstir menn þikjast þik kenna, at þú sèrt hinn sami maðr; nú tak við sverðinu, ok njót manna bezt, ef þetta er vel unnit! Síðan gengr Höttr at dýrinu alldjarfliga, ok höggr til þess, þá hann kemr í höggfæri, ok fellr dýrit niðr dauðt. Böðvar mælti: sjáið nú, herra! hvat hann hefir tilunnit; konúngr segir: víst hefir hann mikit skipazt, en ekki hefir Höttr einn dýrit drepit, heldr hefir þú þat gjört; Böðvar segir: vera má, at svâ sè; konúngr segir: vissa ek, þá þú komst hèr, at fáir mundu þínir jafníngjar vera, en þat þiki mèr þó þitt verk frækiligast, at þú hefir gjört hèr annann kappa, þar Höttr er, ok óvænligr þótti til mikillar giptu; ok nú vil ek hann heiti eigi Höttr lengr, ok skal hann heita Hjalti uppfrá þessu; skaltu heita eptir sverðinu Gullinhjalta; [ok endar hèr þenna þátt af Böðvari ok bræðrum hans[3].

## Hjalta þáttr.

37. Nú líðr á vetrinn ok þartil, sem berserkja Hrólfs konúngs er heim von. Böðvar spyrr Hjalta um háttu berserkja; hann segir, at þat sè vandi þeirra, at gánga fyrir sèrhvörn mann, er þeir koma heim til hirðarinnar, ok fyrst fyrir konúnginn, ok spyrja, ef hann teldist jafnsnjall þeim, en þá segir konúngrinn svâ: vant er þat

[1]) nokkrum amlóða, *L.* [2]) *þannig D, J*; e. s. er, *C*; e. sjást má, *F*; er s. þ., *A, E, G.* [3]) *v. í. B.*

at segja, jafnhraustir menn sem þèr eruð, þar sem þèr hafið framit yðr í bardögum ok blóðsúthellíngum við ýmsar þjóðir svâvel í Suðrálfu heimsins, sem Norðrálfunni, ok svarar konúngr þessu þeim meirr af hugprýði, enn lítilmennsku, því hann þekkir sinni þeirra, (ok) þeir vinna konúnginum mikinn sigr ok mikit fè; þá gánga þeir þaðan, ok spyrja ens sama hvern mann, sem í höllinni er, en enginn þikist jafnsnjallr þeim. Böðvar segir: þat er lítit drengjaval hèr er með Hrólfi konúngi, at allir skuli bera bleyðiorð fyrir berserkjum. Nú hætta þeir þessu tali, ok hefir Böðvar nú verit eitt ár með Hrólfi konúngi, ok svâ kemr nú annar jólaaptann, at eitt sinn, at Hrólfr konúngr sat undir borðum, at spruttu upp dyr hallarinnar, ok gengu þar inn 12 berserkir, allir gráir af járnum[1], svâ sem á eina[2] ísmöl sæi. Böðvar spyrr Hjalta í hljóði, hvort hann þorir at reyna við einhvörn þeirra; já! sagði Hjalti, ekki við einn, heldr við alla, því ek kann ekki at hræðast, þótt ofrefli mitt sè mèr á móti, ok ekki skal einn þeirra skelfa mik. Nú gánga berserkir fyrst innar eptir höllinni, ok sjá þeir[3], at fjölgat hefir kappa Hrólfs konúngs, síðan þeir fóru heiman, ok hyggja vandliga at þeim komumönnum, ok [lízt þeim hann ekki lítill fyrir sèr[4] annar þeirra, ok er

[1]) at hárum, *B.* [2]) aðra, *B.* [3]) at fólkit horfir á þá ok *b. v. B.* [4]) lítast þeir þeim ekki litlir fyrir sèr vera, sèrdeilis, *B.*

sagt, at þeim hafi brugðit nokkut undarliga við, þeim, sem fyrir þeim gekk. Nú gánga þeir eptir vanda innar fyrir Hrólf konúng, ok spyrja hann sömu orða, sem þeir eru vanir; en konúngr svarar, sem honum þikir þar til horfa eptir vanda, ok gánga svâ fyrir hvörn mann í höllinni, en seinast gánga þeir fyrir þá fèlaga, ok spyrr sá, sem fyrir þeim er, Böðvar, hvort hann teldist jafnsnjallr honum. Böðvar segir, at hann teldist ekki jafnsnjallr, heldr[1] sniallari, hvat sem þeir reyndu, ok þyrfti hann ekki at jaga sik, sem aðra gyltu[2], sá fúll merarson, ok stökkr fram á berserkinn ok undir hann, [þar hann var[3] í öllum herklæðunum, ok rekr hann niðr bölvat[4] fall, svâ honum lá við beinbrot; Hjalti í annann stað leikr slíkt hit sama. Þá varð mikit óhljóð í höllinni, ok þótti Hrólfi konúngi horfast til stórs voða[5], ef sínir menn dræpist niðr; hleypr hann úr hásætinu ok at Böðvari, ok biðr, at láta allt vera kyrt [ok í góðan máta[6], en Böðvar segir, hann skuli lífit missa, nema hann telìst sèr minni maðr; Hrólfr konúngr sagði, þat væri auðgjört, ok lèt hann berserkinn svâ upp standa; ok svâ gjörði Hialti eptir konúngs skipan. Settust menn síðan hvörr í sitt sæti, en berserkir í sín með þúngri áhyggju; taldi Hrólfr konúngr fyrir þeim miklar fortölur, at þeir mætti nú sjá þat, at eigi væri neitt svâ

1) miklu, *b. v. B* 2) bykkju, *C;* geit, *L.* 3) ok grípr hann þar, *B.* 4) mikit, *C.* 5) vandræðis, *C.* 6) *v. í C.*

ágætt, sterkt eða stórt, at ekki mætti þvílíkt finna: fyrirbýð ek ykkr, at vekja nokkr vandræði í minni höllu, en ef þið bregðið út af þessu, þá skal þat gilda ykkar líf, en verið sem ólmastir, þá ek á við óvini mína at skipta, ok vinnið svâ til heiðrs ok sæmdar; hefi ek nú þat kappaval, at ek þarf ekki uppá yðr at synjast. Allir gjörðu góðan róm á máli konúngs, ok sættust svâ allir heilum sáttum, ok var svâ skipat mönnum í höllinni, at Böðvar var mest metinn ok haldinn, ok sat hann upp á hægri hönd konúnginum ok honum nærst, þá Hialti enn hugprúði, ok gaf konúngr honum þat nafn; því mátti hann hugprúðr heita, at hann gekk hvern dag með hirðmönnum konúngs, sem hann lèku svâ út, sem fyrr var frá sagt, ok gjörði þeim ekkert grand, en var nú orðinn miklu meiri maðr, enn þeir, en konúngi þótti vorkunn, þótt hann hefði gjört þeim nokkra minníng, eða drepit einhvern þeirra; en til vinstri handar konúngi sátu þeir bræðr þrír: Svipdagr, Hvítserkr ok Beigaðr[1], svâ voru þeir orðnir mikilsháttar, ok þa 12 berserkir ok annat drengjaval svâ, á báðar síður um allan kastalann, sem hèr eru eigi nefndir. Lèt konúngrinn þessa sína menn fremja allskyns leika ok listir, með allrahanda gamni ok skemtun, ok reyndist Böðvar allra mestr hans kappa, hvat sem[2] reyna þurfti, ok

[1]) *þannig B, F, J;* Beigaðr eða Beigaldi, *D;* Beigaldi, *hèr A, E, G, H;* Beigaldr, *C.* [2]) prófat var ok, *b. v. B.*

í svâ miklar virðíngar komst hann hjá Hrólfi konúngi, at hann eignaðist hans einkadóttur, Drífu; ok leið nú svâ fram um stund, [at þeir sitja at sínu ríki, ok eru allra manna frægastir[1].

## Af Aðels Uppsalakonúngi, ok Svíþjóðar ferð Hrólfs konúngs ok kappa hans[2].

38. ÞAT er nú sagt einhvern dag, at Hrólfr konúngr sat í sínum konúngliga sal, ok allir hans kappar ok stórmenni hjá honum, ok at hann hèlt eina kostuliga veizlu. Nú sèr Hrólfr konúngr á báðar hendr, ok mælti: mikit ofrefli er hèr saman komit í eina höll; þá spurði Hrólfr konúngr Böðvar, hvort hann vissi nokkurn konúng slíkan sem hann, ok stýri slíkum köppum. Böðvar segist eigi vita: en einn hlutr er sá, at mèr þikir hnekkja yðar konúngligri tign; Hrólfr konúngr spurði, hvörr hann sè. Böðvar mælti: þat skortar yðr, herra! at þer heimtið ekki föðurarf yðar til Uppsala, er Aðels konúngr, mágr yðar, sitr yfir með röngu. Hrólfr konúngr segir, at torsókt muni eptir því at leita, því Aðels er ekki maðr einfaldr, heldr fjölkunnugr, slægvitr, kyndugr, klókr, grimmúðigr ok enn versti við at eiga. Böðvar segir: þó sómir yðr, herra! at leita eptir yðrum hlut, ok finna Aðels konúng eittlivert sinn, ok vita, hvörnin hann svarar þessu máli. Hrólfr konúngr sagði: mikill

[1]) at ekki bar til tíðinda, *C*; ok endast hèr öldúngis frá Böðvari, svâ ok líka þáttr Hjalta hins hugprúða, *b. v. B.* [2]) *þannig, B.*

málstaðr er þetta, sem þú vekr upp, því þar egum vèr eptir föðurhefndum at leita, [er Aðels konúngr enn ágjarni ok prettvísi er, ok skulum vèr[1] á hætta; ekki mun ek þat lasta, segir Böðvar, at reyna um sinn, hvat þar er fyrir, er Aðels konúngr er.

39. Hrólfr konúngr býst nú til ferðar sinnar með 100 manna, ok auk kappar hans 12, ok berserkir 12. Ekki er sagt frá ferðum þeirra, fyrr enn þeir koma til eins bónda; hann stóð úti, er þeir komu, ok bauð þeim öllum þar at vera. Konúngr sagði: þú ert hraustr maðr, eða hefir þú nokkr efni til þess, því vèr erum eigi svâ fáir saman, ok er þat ekki smábónda at taka við oss öllum; hann hló ok mælti: já, herra! sagði hann, sèt hefi ek menn stundum ekki færri koma, þar sem ek hefi verit, ok ekki skal yðr skorta drykk, nè svâ annat, nætrlángt, eða þat, sem þèr þurfið at hafa; konúngr segir: þá munum vèr á þetta hætta. Varð bóndi glaðr við þetta; eru nú teknir hestar þeirra, ok unninn þeim beinleiki. Hvert er nafn þitt, bóndi? sagði konúngr; Hrana kalla mik sumir menn, sagði hann. Þar er svâ beint, at varla þikjast þeir hafa komit í beinnra stað, ok er bóndi allkátr, ok þess spyrja þeir hann einskis, at hann kynni eigi úr öllu at leysa, ok

[1]) ok er þat vor sæmd, at heimta þenna arf með stríði ok mannadrápi; er Aðels k. hinn ágjarnasti, drambsamasti ok prettvísasti, ok skulum vèr þó, *B.*

þikir honum hann vera enn óheilnskasti; tóku nú á sik svefn; ok er þeir vöknuðu, kól þá svâ, at þeim hristust tennr í höfði, ok hrukku upp allir saman, ok báru á sik klæði ok allt þat, sem til fèkst, nema kappar Hrólfs konúngs, þeir hlíttu þeim klæðum, sem áðr höfðu þeir; alla kól þá um nóttina. Þá spurði bóndi: hvorsu hefir ykkr sofnazt? Böðvar svarar: vel, segir hann[1]. Þá mælti bóndi við konúng: veit ek, at hirðmönnum þínum þikir heldr svalt[2] hafa verit í skálanum í nótt, ok þat var svâ, ok ekki mega þeir ætla sèr at standast þær þrautir, er Aðels konúngr at Uppsölum mun reyna við yðr, er þeim þótti þetta svâ erfiðt, ok sendtu heim, herra! hálft lið þitt, ef þú vilt halda lífinu, því ekki muntu með fjölmenni sigrazt á Aðels konúngi. Mikill ertu fyrir þèr, bóndi! sagði konúngr, ok þetta skal ráð hafa, sem þú leggr til. Fara nú leið sína, þá þeir eru búnir, ok biðja bónda vel lifa, en konúngr sendir aptr helmíng liðs síns; ríða nú leið sína, ok þegar[3] verðr annar bær fyrir þeim lítill; hèr þikjast þeir kenna enn sama bónda, sem þeir höfðu áðr hjá gist; þeim þikir nú undarliga við bregða; tekr bóndi enn vel við þeim, ok spyrr, því þeir komi svâ opt. Konúngr svarar: vèr vitum varla, hvörjum brögðum vèr erum beittir, ok máttu heita rèttr bragðakarl. Bóndi segir: eigi skal enn

[1]) Bóndi spyrr konúnginn, hvörnin hann hefði sofit; konúngr segir: vel, *b. v. B.* [2]) vindsvalt, *C.* [3]) sem kvöldaði, *B.*

illa við yðr taka. Þar eru þeir þá nótt aðra í góðum beina, ok tóku svefn á sik, ok vöknuðu viðþat, at þorsti var svâ mikill kominn á þá, at þeim þótti náliga óbæriligr, svâ þeir gátu varla hrært túnguna í höfði sèr; þeir stóðu upp, ok fóru þángat til, sem skaptker eitt stóð með vín, ok drukku þar úr. Um morguninn mælti Hrani bóndi: enn er svâ komit, herra! at þèr hlýði mèr, ok þikir mèr lítil þol í þeim mönnum, sem drekka verða um nætr; meiri raun munu þèr verða at þola, þá þèr komið til Aðels konúngs. Lusti þá á miklu illviðri, ok sitja þeir þar þann dag, ok kemr nóttin þriðja; en um kveldit var gjörðr eldr fyrir þeim, ok þótti þeim helzt heitt um hönd, sem við eldin sátu; flestir flúðu úr því rúmi, sem Hrani bóndi hafði skipat þeim, ok stukku allir frá eldinum út, utan Hrólfr konúngr ok kappar hans. Bóndi mælti: velja megi þèr, herra! úr liðinu enn, ok er þat mitt rað, at ekki fari nema þèr, ok kappar yðar 12, ok er þá nokkr von, at þèr komið aptr, en engin ellegar; svâ lízt mèr á þik, bóndi! sagði Hrólfr konúngr, sem vèr munum hafa ráð þín. Eru þeir þar 3 nætr; ríðr konúngr þaðan við enn tólfta mann, en sendi aptr allt sitt lið annat. Aðels konúngr hefir njósn af þessu, ok kallaði þat vel, at Hrólfr konúngr vildi hann heim sækja, því hann skal híngat víst erindi hafa, svâ frásagnar skal þikja vert, áðr enn við skiljum.

40. Eptir þetta ríðr Hrólfr konúngr ok kappar hans til hallar Aðels konúngs, ok flykkist[1] allr borgarmúgr upp í hina hærstu turna borgarinnar, at sjá prýði Hrólfs konúngs ok kappa hans, því þeir voru búnir skartsamliga, ok þikir mörgum mikils um vert um svâ kurteisa riddara; þeir ríða fyrst seint ok ríkmannliga, en þá er þeir áttu skamt til hallarinnar, þá lètu þeir hestana kenna spora, ok hleyptu þeim at höllinni, svâ at allt stökk undan þeim, sem fyrir þeim varð. Aðels konúngr lætr fagna þeim vel með allri blíðu, ok bauð, at láta taka hesta þeirra. Böðvar mælti: hyggið svâ til, sveinar! at hvorki bregði lagi sínu toppr nè tagl í hestunum, ok gætið þeirra vel, ok geymið hugalt, at eigi saurgist þeir! Þetta var þegar sagt Aðels konúngi, hvat vandliga þeir hefði fyrirmælt um hestageymsluna; hann sagði: harla mikit er um ofstopa þeirra ok dramb; hafið nú mitt ráð, gjörið sem ek býð: höggið úr rófurnar nær föllum við rass[2] upp, ok skerið úr toppana, svâ þar fylgi með ennileðrit, ok leikið þá út sem háðugligast í öllu þið getið, nema látið þá tóra at eins. Þá er þeim fylgt at hallardyrum, en eigi kemr Aðels konúngr í augljós. Þá mælti Svipdagr: mèr er kunnugt hèr fyrir, ok mun ek gánga inn fyrstr, því mèr er hinn mesti grunr á, hvörnin við oss mun tekit, eða fyrir mun búit; gjörum ekki orð á, hverr Hrólfr konúngr er, svâ Aðels

[1]) fylkist, *C.* [2]) lend, *C.*

konúngr þekki hann ekki úr flokki vorum; gekk þá Svipdagr undan öllum, ok þeir bræðr hans eptir honum, Hvítserkr ok Beigaðr[1], ok þá Hrólfr konúngr ok Böðvar[2], ok svâ hverr eptir öðrum, var þá ekki við sveina at metast, því horfnir voru þeir, sem þeim buðu til hallarinnar. Þeir höfðu hauka sína sèr á öxlum, ok þótti þat mikil prýði í þær mundir; en Hrólfr konúngr átti þann hauk, er Hábrók hèt. Svipdagr gengr nú undan, ok gætir vandliga at öllum hlutum; hann sèr mikla umbreytíng á víða; komust þeir yfir svâ marga ófæru, sem fyrir þá var sett, at eigi er hægt at greina, ok var þess erfiðar, sem innarr dró í höllina. Ok nú komast þeir svâ lángt í höllina allt þángat til þeir sjá, hvar Aðels konúngr rembist[3] í hásætinu, ok þikir hvorutveggjum mikils umvert, at hvorir sjá aðra, þó sjá þeir, at ekki er auðvelt enn, at gánga fyrir Aðels konúng, en þó eru þeir komnir hvorr svâ nær öðrum, at skiljast má tal þeirra. Þá tók Aðels konúngr til orða: ok þú ert nú kominn hèr, Svipdagr, fèlagi! eða hvert mun erindit kappans? eða mun ekki vera sem mèr sýnist:

Dalr er í hnakka,
auga er úr höfði,
ör er í enni,
[högg eru á hendi tvö[4];

1) *þannig fleirst*; Beigaði, *A*, *E*, *G*. 2) ok Hjalti, *b. v. C.*
3) rumdist, *B*. 4) högg eru tvö á höndum, *L*.

ok svâ er Beigaðr, bróðir hans, allr hnýttr. Svipdagr mælti svâ hátt, at allir máttu heyra: nú vil ek þau grið af þèr þiggja, Aðels konúngr! eptir því, sem ek átti skilit af yðr, fyrir þá 12 menn, sem hèr eru samankomnir. Aðels konúngr svarar: ek vil játa þessu, ok gángið inní höllina skjótt ok skörugliga með öruggu hjarta. Þat þikjast þeir skilja, at tálgrafir eru gjörðar um höllina fyrir innan þá, [ok mun eigi frítt at reyna, hvörnin fyrir er búit[1], en svâ mikil dimma var yfir Aðels konúngi, at þeir sáu óglögt í andlit honum; þat sjá þeir ok, at tjöldin, sem í kríngum höllina eru innan henni til prýðis, eru frambrotin, ok muni þar menn vera undir með vopnum; þetta var orða[2] sannara, at þar þusti brynjaðr maðr undan hvörju skauti, þá þeir höfðu komist yfir grafirnar, ok gjörði Hrólfr konúngr ok kappar hans þar ena hörðustu hríð, ok klufu fólkit í tennr niðr; fór svâ um stund, ok kennist ekki Hrólfr konúngr, hvar hann er, en fólkit fèll niðr öndvörpum[3]. Aðels konúngr þrútnar nú í hásætinu, þá hann sèr, at Hrólfs kappar brytja niðr sitt lið, sem aðra hunda, ok sèr hann, at ekki mun duga svâ leikit, stendr upp ok mælti: hvörju gegnir þetta hit mikla hark? ok eru þetta enu mestu mannfýlur, hvat þèr takið til bragðs, at þèr látizt leita á þvílíka afburðamenn, sem oss hafa heimsókt, ok

1) *v. í. C.* 2) orðum, *C, D;* orði, *hin.* 3) hrönnum, *B.*

hættið skjótt, ok setìzt niðr, ok tökum á oss fagnað, Hrólfr mágr! allir samt. Svipdagr mælti: lítt haldi þèr enn griðin, Aðels konúngr! ok fremdarlauss ertu í þessu. Setjast þeir síðan niðr eptir þat, Svipdagr inst, þá Hjalti hinn hugprúði, en Böðvar sitr saman ok konúngr, því þeir vildu eigi, at hann væri kendr. Aðels konúngr sagði: þat sè ek, at þið farið ekki at mannvirðíngu í ókunnu landi, eða því hefir Hrólfr mágr ekki fleira lið? Svipdagr sagði: þat sè ek, at þú sparir ekki at sitja á svikráðum við Hrólf konúng ok menn hans, ok eru þar lítil undr, hvort hann ríðr híngat fámennr eða fjölmennr, ok skildu þeir svâ tal sitt.

41. Eptir þat lèt Aðels konúngr ræsta höllina; voru þá í burtu bornir hinir dauðu, því margr var drepinn af Aðels konúngs mönnum, en fjöldi sárr orðinn. Aðels konúngr mælti: gjörum nu lángelda fyrir vinum vorum, ok veitum af alvöru[1] slíkum mönnum, svâ at oss líki öllum vel; eru nú menn fengnir til at kinda upp eldinn fyrir þeim. Hrólfs kappar sátu ávalt með vopnum sínum, ok vildu aldrei þau af höndum láta. Eldrinn tundraði skjótt, því þar var ekki tilsparat biki[2] ok þurrum skíðum. Aðelskonúngr skipar öðrumegin eldsins sèr sjálfum ok hirðmönnum sínum, en Hrólfi konúngi ok

[1]) alúð, *C.* [2]) beini, *B.*

köppum hans öðrumegin, ok sitja á lángstólum hvorutveggju, ok talast við alllíkliga sín á millum. Aðels konúngr mælti: ekki er ofsögum sagt af hreysti ykkar Hrólfs kappa ok harðfengi, enda þikist þèr hvörjum meiri, ok er ekki logit af mætti yðar; aukið nú eldana! sagði Aðels konúngr, því ek skil eigi glögt, hvat konúngrinn er, ok munu þèr eigi flýja eldinn, þótt ykkr megi nokkut volgna; ok svâ var nú gjört, sem hann sagði fyrir, ok vildi svâ verða vís, hvar et Hrólfr konúngr væri, því hann þóttist vita, at hann mundi eigi geta staðist hitann[1], svâ sem kapparnir, ok þótti sèr þá mundu verða auðveldara at ná honum, er hann vissi, hvar hann var, því hann vildi Hrólf konúng sannliga feigan. Böðvar skildi þetta, ok svâ þeir fleiri, ok hlífðu honum nokkut við hitanum, sem þeir máttu, en eigi svâ, at hann yrði kendr at heldr. Ok sem eldrinn gekk at þeim fastast, þá ætlar Hrólfr konúngr þat fyrir sèr, at minnast þess, er hann hafði áðr heitit, at flýja hvorki eld nè járn, ok sèr hann nú, at Aðels konúngr vill raun til þess gjöra, at þeir brenni þar, eða ella [efni eigi[2] heitstrengíng sína. Þat sjá þeir, at stóll Aðels konúngs er kominn [allt útúr hallar veggnum[3], ok svâ manna hans; nú gengr[4] fast at eldsneytit, ok sjá þeir, at bruninn fellr á þá, nema nokkut sè viðgjört; eru nú brunninn mjök á

[1]) brunann, *F.* [2]) gjöri, *B.* [3]) ųtar at hallar dyrunum, *B.*
[4]) eldrinn mjök nærri þeim, ok gengr, *b. v. B.*

þeim klæðin, ok kasta þeir þá skjöldunum á eldinn; þá mæltu þeir Böðvar ok Svipdagr:

Aukum nú eldana
at Aðels borg[1].

þreif þá sinn mann hvorr þeirra, þá sem haldit höfðu upp eldunum, ok fleygðu þeim út á eldana, ok mæltu: njótið nú verms af eldinum fyrir handaverk ykkar ok erfiði, því vèr erum nú fullbakaðir, bakið ykkr nú, því þið voruð svâ iðnir[2] at um stund, at elda fyrir oss; Hjalti þrífr hinn þriðja, ok fleygir honum á eldinn á sínum enda, ok svâ hvörjum þeirra, sem eldana æstu, þar brunnu þeir til ösku, ok varð þeim ekki bjargat, því enginn þorði svâ nær at koma. Eptir þetta unnit, tekr Hrólfr konúngr til orða:

Ei flýr sá eldinn,
sem yfir[3] hleypr.

Ok eptir þetta stikla þeir allir yfir eldinn, ok ætla nú at Aðels konúngi ok taka hann höndum; ok sem Aðels konúngr sèr þetta, forðaði hann sèr, ok hljóp at trènu, sem stóð í höllinni, ok var þat holt innan, ok svâ komst hann úr höllinni með fjölkýngi sinni ok göldrum; ok svâ kemr hann í sal Yrsu drottníngar, ok finnr hana at máli, ok tekr hún á honum hrakliga, ok mælir mörgum stórum orðum við hann: þú lèzt fyrst drepa bónda minn, Helga konúng, sagði hún, ok níddist á honum, ok heldr fènu fyrir þeim, sem átti, ok nú á svâ gjört ofan

[1]) konúngi, *B*, *C*; mönnum, *F*. [2]) ólmir, *C*. [3]) stökkr eðr, *b. v. B*.

viltu drepa son minn, ok ertu maðr miklu verri ok grimmari, enn nokkrir aðrir; nú skal ek alls viðleita, at Hrólfr konúngr nái fènu, ok muntu hljóta af óvirðíng, sem makligt er. Aðels konúngr sagði: þann veg mun hèr fara, at hvorugir munu trúa öðrum, mun ek ekki koma í augsýn þeirra hèðan ífrá; eptir þat skilja þau talit.

42. Gengr Yrsa drottníng þá á fund Hrólfs konúngs, ok fagnar honum afarvel; hann tekr ok vel kveðju hennar; hún fær til mann[1] at þjóna þeim, ok gjöra þeim góðan beina; ok sem þessi maðr kom fyrir Hrólf konúng, þá mælti hann: þunnleitr[2] er þessi maðr, ok nokkr kraki í andlitinu, eða er þetta konúngr yðarr? Hrólfr konúngr mælti: nafn hefir þú gefit mèr, þat sem við mik mun festast, eða hvat gefr þú mèr at nafnfesti? Vöggr svaraði: alls ekki hefi ek til, þvíat ek em fèlauss. Konúngr mælti: sá hlýtr þá at gefa öðrum, sem til á; hann dregr þá gullhríng af hendi sèr, ok gefr þessum manni. Vöggr mælti: gef þú allra manna heilastr, ok er þetta hin mesta gersemi; ok sem konúngr fann, at honum þótti mikils umvert, mælti hann: litlu verðr Vöggr feginn. Vöggr mælti, ok stè uppá stokk öðrum fæti: þess strengi ek heit, at ek skal þín hefna, ef ek lifi lengr, ef þú verðr af mönnum sigraðr. Konúngr svarar: vel ferr þèr, segir hann, en þó væri ekki til aðrir óvænni, enn þú. Þat skilja þeir, at þessi maðr muni

1) *þannig hin*, mem, *A.* 2) þíngleitr, *B.*

vera hollr ok trúr í því hinu litla, sem hann má, en lítils hyggja þeir hann muni orka mega, því maðrinn var auðvirðiligr; nú leynast þeir ekki fyrir honom; síðan ætluðu þeir at sofa, ok þóttust þeir vita, at þeir mundu mega liggja óhræddir í þeim herbergjum, sem drottníng hafði fengit þeim. Böðvar mælti: vel er hèr fyrir oss búit, ok vill drottníng oss vel, en Aðels konúngr vill oss svâ mikit íllt, sem hann má, þiki mèr mikit, ef vèr verðum at hafa svâ búit. Vöggr segir þeim, at Aðels konúngr sè enn mesti blótmaðr, svâ ekki finst dæmi til, blótar hann einum gölt, ok skil ek ekki, at slíkr óvinr megi verða, ok veri þèr varir um yðr, því hann leggr þar allt kapp á, at fyrirkoma ykkr með einhvörju móti. Meiri von þiki mèr, segir Böðvar, at hann muni muna oss þat, hvörnin hann stökk úr höllinni fyrir oss í kveld; svâ skulu þèr tilætla, segir Vöggr, at hann muni slægr ok grimmúðigr.

43. Þeir sofna eptir þat, ok vakna við, at gnýr svâ mikill er úti at heyra, at undir allt tekr, ok skjálfa þótti húsit, sem þeir láu í, svâ sem alsolla[1] lèki. Vöggr tók þá til orða: nú mun galtinn[2] kominn á gáng, ok mun sendr til hefnda við ykkr af Aðels konúngi, ok er þat svâ mikit tröll, at öngir mega þat standast. Hrólfr konúngr átti einn hund mikinn, er Gramr hèt, hann

---

1) *þannig A, E, F, G*; á solli, *B*; á þræði, *C, D, H*; á hjóli, *J*; á als oddi, *L*. 2) göltrinn, *hin*.

var með þeim, hann var mjök frábærr at hreysti ok sterkleik. Því nærst kemr þar inn tröll í galtarlíki, ok lætr aumliga í því illa trölli. Böðvar sigar hundinum á göltinn, ok lætr hann sèr ekki bilt verða, ok rèðst í móti geltinum; þar verðr nú atgángr harðfengr. Böðvar veitir hundinum lið, ok höggr til galta, en aldrei bítr á hans hrygg; svá er hundrinn Gramr harðr, at hann rífr hlustirnar af galtanum, ok þar með alla kinnfylluna, ok er þat allt í senn, at göltrinn[1] ferr þar niðr, sem hann er kominn; ok þá kemr Aðels konúngr at húsinu með mikit fjölmenni, ok slær þegar eld í húsit; ok við þetta verða þeir Hrólfr konúngr varir, at eigi mun þá enn[2] skorta eldneytit. Böðvar mælti: illr dauðdagi er þetta, ef vèr skulum hèr inni brenna, ok kjöra ek heldr at falla fyrir vopnum á slèttum velli, ok ill verða þá æfilok Hrólfs konúngs, ef svâ skal tilgánga; sè ek nú ekki annat ráð vænna, enn gánga svâ fast á, at undan gángi þilin, ok brjótumst vèr svâ burt úr húsinu, ef þat má leikast, en þat var þó ekki barnaspil, húsit var rammbyggiliga smíðat, ok hafi svâ hverr mann fyrir sèr, er vèr komum út, ok munu þeir þá enn skjótt blotna; þetta er þjóðráð, segir Hrólfr konúngr, ok þetta mun oss fullvel duga.

44. Nú taka þeir þetta til ráðs, at þeir hlaupa á þilin svâ hart ok heimsliga[3], at þau brotna í sundr, ok komast svâ út; er þá al-

[1]) fèll ok, *b. v. B.* [2]) skemta nè, *b. v. B.* [3]) hraustliga, *J.*

þakit stræti borgarinnar af brynjuðu fólki; tekst þar þá enn harðasti bardagi með þeim, ok gengr Hrólfr konúngr ok kappar hans grimmliga fram; verðr mjök rírt fyrir þeim liðit, mæta þeir aldrei neinum svâ stoltum nè dramblátum, at ekki verði at krjúpa fyrir þeirra stórum höggum. Ok í þessum harða bardaga kemr haukr Hrólfs konúngs fljúgandi úr borginni, ok sezt á öxl Hrólfs konúngs, svâ látandi, svâ sem hann egi miklum sigri at hrósa; Böðvar mælti: svâ lætr hann nú, sem hann hafi nokkurn frama unnit. Sá maðr skundaði til eins lopts, sem haukana átti at annast, ok þeir voru ígeymdir, ok þikir honum undarligt, at haukr (Hrólfs) konúngs er í burtu, en hann finnr dauða alla hauka Aðels konúngs. Lýkr með því bardaganum, at þeir drepa þar fjölda manna, ok stendst eigi neitt fyrir þeim; en Aðels konúngr [er þá horfinn[1], ok eigi þikjast þeir vita, hvat af honum er orðit[2]. Þeir biðja sèr griða, sem uppi standa af mönnum Aðels konúngs, ok veita þeir þeim þat. Eptir þetta gánga þeir til hallar, ok inní höllina djarfliga; þá spyrr Böðvar, á hvorn bekk Hrólfr konúngr vill sitja; Hrólfr konúngr svarar: á konúngspallinn sjálfan skulum vèr setjast, ok mun ek setjast í öndvegi. Aðels konúngr kom eigi í höllina, ok þóttist hann þúngt af bíða, ok mikla smán hafa fengit, hvörra bragða sem hann leitaði. Þeir

[1]) stenzt ekki, ok flýr þá í burtu, *B.* [2]) ok lyktar nú með því bardagann, *b. v. B.*

sátu nú um hríð með hvíld ok ró. Þá mælti Hjalti hinn hugprúði: mun ekki ráð, at einhverr viti hesta vorra, ok vita, hvort þá skortir eigi þat, sem þeir þurfa við; ok nú var svâ gjört; en þegar sá kom aptr, sagði hann hestana háðugliga útleikna ok skammfæra[1], ok sagði frá, hvörnin þeir voru útleiknir, svâ sem fyrr var sagt; ekki gaf Hrólfr konúngr sik at þessu, nema hann sagði, at allt færi á einn veg fyrir Aðels konúngi. Nú kemr Yrsa drottníng í höllina, ok gengr fyrir Hrólf konúng, ok kvaddi hann með list ok prýði; hann tók vel kveðju hennar. Hún mælti: eigi er þèr svâ fagnat, frændi! sem ek vildi, ok vera ætti, ok eigi skaltu hèr lengr dveljast, son minn! í slíkum ófagnaði, þvíat liðsdráttr er mikill um allt Svíaveldi, ok ætlar Aðels konúngr at drepa yðr alla, sem hann hefir viljat fyrir löngu, hefði hann því fram komit, ok hefir nú meira mátt auðna þín, enn tröllskapr hans; ok nú er hèr eitt silfrhorn, sem ek vil fá þèr, ok varðveittir eru í allir hinir beztu hríngar Aðels konúngs, ok sá einn, er Svíagrís heitir, ok honum þikir betri enn allir aðrir, ok þar með fær hún honum mikit gull ok silfr í öðru lagi; þetta fè var svâ mikit allt saman, at varla kunni einn[2] at virða. Vöggr var þar viðstaddr, ok þiggr mikit gull at Hrólfi konúngi fyrir sína dygðuga þjónustu. Drottníng lætr leiða fram hesta 12, alla rauða at lit, nema

[1]) skammfærða, *J*; *v. í C*, *F*. [2]) *v. í C*.

einn, sá var hvítr sem snjór, þeim skyldi Hrólfr konúngr ríða; þessir voru þeir, sem bezt reyndust af öllum Aðels konúngs hestum, allir albrynjaðir; hún fèkk þeim skjöldu ok hjálma ok herklæði, ok önnr góð klæði, sem bezt fundust, því eldrinn hafði áðr spilt þeirra klæðum ok vopnum; alla hluti fèkk hún þeim stórkostuliga, þá sem þeir þurftu at hafa. Hrólfr konúngr mælti: hvort hefr þú fengit mèr þvílíkt[1] fè, sem ek átti at rèttu, ok faðir minn hafði átt? hún segir: mörgum hlutum er þetta meira, enn þú áttir at heimta, ok hafi þèr hèr mikinn frama unnit ok þínir menn; búið yðr nú sem bezt, svâ eigi megi á yðr gánga, því þèr munuð enn reyndir verða. Eptir þetta stigu þeir á hesta sína. Hrólfr konúngr mælir ástsamliga til móður sinnar, ok skilja þau með blíðu.

45. Hrólfr konúngr ok kappar hans ríða nú leið sína ofan frá Uppsölum, ok þar um, sem heitir á Fýrisvöllum, ok sá Hrólfr konúngr, at gullhríngr mikill glóaði í götunni fyrir þeim, ok glumraði við, er þeir ríða yfir hann; því gellr hann svâ hátt, sagði Hrólfr konúngr, at honum þikir íllt[2] einsömlum, ok rennir hann af sèr gullhríngnum ok í götuna til hins, ok mælti: þat skal fyrirberast, at ek taki ekki upp gull, þótt á götu liggi, ok sè enginn minna manna svâ djarfr, at hann taki upp; því er honum hèr kastat, at hann skuli hepta ferð vora; þeir

[1]) annat þvílíkt, eðr þat, *B.* [2]) lángt, *C.*

hètu honum því, ok í því heyra þeir lúðragáng[1] um allar áttir; þeir sjá ógrynni liðs fara eptir sèr; þetta lið ferr svâ geist, at hverr hleypir slíkt allt, er hans hestr má aftaka. Þeir Hrólfr konúngr ríða rètt áfram et sama. Böðvar mælti: þessir sækja hart eptir, ok víst vilda ek, at nokkrir hefði erindi, ok þeir vilja víst oss finna. Konúngr mælti: gefum oss lítit at, þeir munu sjálfir dveljast; rèttir hann nú höndina til hornsins[2], þess sem gullit var í, ok Beigaðr reið með ok hèlt í hendi sèr; hann sáir nú gullinu víða í götuna, þar sem þeir ríða um alla Fýrisvöllu[3], svâ at göturnar glóa sem gull; en er liðit sèr þat, sem eptir ferr, at gullit glóir víða í götunni, þá hlaupa flestir af baki, ok þikist sá bezt leika, sem skjótastr verðr til upp at taka, ok verða þar enu mestu hrífsíngar[4] ok áhöld[5], ok hefir sá helzt, sem sterkastr er, ok sóktist því seint eptirferðin. Ok er þetta sèr Aðels konúngr, liggr honum við at gánga af vitinu, ok ávítar þá með hörðum orðum, ok segir, þeir taki upp et minna, en láti sleppa hjá sèr et meira, ok muni þessi fúla skömm á hvört land spyrjast, at þèr skuluð láta eina 12 menn rekast hèr undan oss svâ ótöluligum fjölda, sem ek hefi nú samandregit af öllum hèruðum Svíaveldis. Aðels konúngr hleypir nú undan öllum, því hann var reiðastr, en

[1]) um allt Svíaveldi ok, *b. v. C.* [2]) púngsins, *B.* [3]) Fýrersvöllu, *C;* Fýrrisvöllu, *L.* [4]) hnippíngar, hrispíngar, *B;* sviptúngar, *L.* [5]) hripsíngar, *L.*

múga[1] manns eptir honum. Nú sem Hrólfr konúngr sèr Aðels konúng þeyta nærst sèr, þá tekr hann hrínginn Svíagrís, ok kastar á götuna; ok sem Aðels konúngr sèr hrínginn, mælti hann: hollari hefir sá verit Hrólfi konúngi (enn mèr), sem honum hefir fengit þessa gersemi, ok eigi at síðr skal ek nú njóta hans, en eigi Hrólfr konúngr; rèttir nú til spjótskapt sitt, þar sem hríngrinn lá, ok vildi fyrir hvern mun ná honum; beygist nú mjök á hestinum, er hann stakk niðr spjótinu í buginn á hríngnum. Hrólfr konúngr sèr nú þetta, þá snýr hann aptr hestinum ok mælti: [svínbeygða ek nú þann, sem Svíanna er ríkastr[2]; en er Aðels konúngr ætlar at draga at sèr spjótskaptit ok þarmeð hrínginn, þá hleypir þar at honum Hrólfr konúngr, ok hjó af honum báða þjóhnappana allt niðr at beini[3] með sverðinu Sköfnúng, er allra sverða bezt hefir verit borit á Norðrlöndum. Hrólfr konúngr mælti þá til Aðels konúngs, ok bað hann halda þessari skömm um hríð: ok máttu nú kenna Hrólf kraka, hvar hann er, sem þú hefir lengi eptirsókt. Aðels konúng sækir þá mikil blóðrás, svâ hann ómættir af, ok verðr nú at snúa aptr við verr búit, en Hrólfr konúngr tók aptr Svíagrís; skilr þarmeð þeim at sinni, er þat ok ekki sagt, at þeir hafi fundizt síðan; drepa þeir ok alla þá menn, sem mest höfðu fram riðit, ok mest höfðu hætt í, því

[1]) *þannig A, D, E, F, G, J*; múgr, *C og hin.* [2]) svínbeygðu nú þann, sem svínum var ríkari, *L.* [3]) svâ allr rassinn hángði við, *b. v. B.*

ekki þurftu þeir lengi at bíða Hrólfs konúngs ok kappa hans, ok þóttist enginn þeirra ofgóðr at embætta þeim, ok mattist enginn þeirra við annann, þegar færit gafst.

46. Þeir Hrólfr konúngr ok hans menn fóru nú veg sinn, ok ríða þann dag nær allan; ok sem nátta tók, finna þeir bæ einn, ok komu til dyra; er þar fyrir Hrani bóndi, ok býðr þeim allan greiðskap, ok kallaði, at ekki hefði farit fjærri eptir því, sem hann gat til um ferðir þeirra; konúngr sannar þat, ok kallar hann vera óreykblindan. Hèr eru vopn, er ek vil gefa þèr, segir Hrani bóndi; konúngr mælti: ferlig vopn eru þetta, karl! en þat var skjöldr ok sverð, ok brynja. Ekki vill Hrólfr konúngr þjggja vopnin; Hrani bregzt við þetta nær reiðr, ok þikir gjörð til sín svívirðíng mikil í þessu; ekki ertu þèr svâ hagfeldr í þessu, Hrólfr konúngr! sagði Hrani, sem þú munt ætla, ok eru þèr jafnan eigi svâ vitrir, sem þèr þikist, ok tók bóndi á þessu hrakliga; varð nú eigi af nætrgreiðanum, ok vilja þeir nú ríða veg sinn, þó at nótt sè myrk. Hrani er óhýrligr undir brún at líta, ok þikist nú lítils virðtr, er þeir þágu eigi gjafir af honum, letr hann nú eigi at þeir ríði, sem þeim líkar; riðu þeir nú á burt við svâ búit, ok varð ekki af kveðjum. Ok sem þeir eru ekki lángt komnir, nemr Böðvar bjarki staðar; hann tók svâ til orða: eptir koma ósvinnum ráð í hug, ok svâ mun mèr nú fara; þat

grunar mik, oss muni ekki allsvinnliga tiltekizt hafa, at vèr höfum því neitat, sem vèr áttum at játa, ok munu vèr sigri hafa neitat. Hrólfr konúngr segir: þat et sama grunar mik, því þetta mun Óðinn gamli verit hafa, ok at vísu var maðrinn einsýnn; snúum nú aptr sem hvatast, segir Svipdagr, ok reynum þetta! þeir koma nú aptr, ok er þá horfinn bærinn ok karlinn; eigi stoðar hans at leita, segir Hrólfr konúngr, því þat er illr andi. þeir fara nú leið sína, ok er ekki sagt af ferðum þeirra, fyrr enn þeir koma í Danmörk í ríki sitt, ok setjast nú um kyrt. þat ráð gaf Böðvar konúnginum, at hann sè lítt í orrostum þaðan ífrá, lízt þeim þá líkara, at lítt mundi á þá leitat, ef þeir væri kyrrir, en lèzt hræddr vera um þat, hvorsu konúngrinn mundi sigrsæll uppfrá þessu, ef hann treysti nokkut á þat; Hrólfr konúngr segir: auðna ræðr hvörs manns lífi, en ekki sá illi andi; Böðvar sagði: þik vildum vèr sízt láta, ef vèr ættum at ráða, en þó hefi ek meiri grun, at skamt muni til stórra tíðinda fyrir oss öllum; hættu þeir svâ þessu tali, ok urðu þeir stórliga frægir af þessari ferð[1].

## Af Skuldar bardaga ok æfilokum Hrólfs konúngs kraka ok kappa hans[2].

47. Nú leið svâ lángar stundir, at Hrólfr konúngr ok kappar hans sátu með friði í Dan-

[1]) *ok lýkr hèr þessum þætti, af Aðels konúngi, b. v. B.* [2]) *fyrirsögninni b. v. B.*

mörk, leitaði enginn á þá; stóðu allir hans skattkonúngar í hlýðni við hann, ok guldu honum sína skatta, ok svâ gjörði Hjörvarðr, mágr hans. Nú var þat eitthvort sinn, at Skuld drottníng mælti við Hjörvarð konúng, bónda sinn, með þúngum anda: þat fellr mèr lítt, at við skulum gjalda skatt Hrólfi konúngi, ok vera nauðpínd undir hann, ok skal þat ekki vera lengr, at þú sèrt undirmaðr hans; Hjörvarðr segir: þat mun oss bezt gegna sem öðrum, at líða þat, ok láta allt vera kyrt. Þat er lítill[1] þú ert fyrir þèr, sagði hún, at þú vilt þola hvörskyns skammir, er þèr eru gjörðar; hann sagði: þat er ekki möguligt, at fást við Hrólf konúng[2], því enginn þorir móti honum rönd at reisa. Því eru þèr svâ litlir fyrir yðr, sagði hún, at enginn krellr er í yðr, ok hefir sá eigi jafnan, sem ekki hættir; nú má slíkt eigi vita fyrr, enn reynt er, hvort Hrólfi konúngi má ekki bella[3], nè köppum hans; en nú er svâ komit, sagði hún, at ek ætla hann muni með öllu sigrlauss, ok eigi þætti mèr fjærri at reyna þat, ok þótt hann sè mèr skyldr, þá skal ek honum ekki hlífa, ok því er hann einatt heima, at sjálfan hann grunar[4], at hann muni missa sigrinn; skal ek nú setja ráð til, ef bíta vildi, ok skal nú ekki afdraga allra bragða í at leita at yfirtaki; var Skuld en mesta galdrakynd, ok var út af álfum komin í móðurætt sína, ok þess

1) lítilfjörligr, *C.* 2) ok kappa hans, *b. v. C.* 3) fella, *D*; bellta, *F.* 4) sjálfkrafa, *b. v. C.*

galdt Hrólfr konúngr ok kappar hans; skal nú fyrst senda menn til Hrólfs konúngs ok biðja hann þess, at hann unni mèr at gjalda eigi skattinn á þremr árum hinum nærstu, ok þá mun ek gjalda hann allan í senn upp, eptir því sem hann á at rètlu; nú þiki mèr meiri von, at þetta bragð dugi, ok ef þetta gengst við, þá skulu vèr kyrru fyrir halda. Nú fara sendimenn í milli eptir því, sem drotníng beiddi; Hrólfr konúngr játar þessu um skattinn, sem beðit var.

48. Á þessari stundu safnar Skuld saman öllum þeim mönnum, sem mestir voru fyrir sèr, [ok öllu illþýði[1] af öllum nærstu hèruðum. Þessum svikum er þó leynt, svâ Hrólfr konúngr verðr ekki varr við, ok eigi grunar kappana neitt um þetta, því at þetta voru mest galdrar ok gjörníngar; setr Skuld hèr til enn mesta seið, at vinna Hrólf konúng, bróður sinn, svâ at í fylgd er með henni álfar ok nornir ok [annat ótöluligt[2] illþýði, svâ mannlig náttúra má eigi slíkt standast. En Hrólfr konúngr ok kappar hans hafa gleði mikla ok skemtun í Hleiðargarði, ok allskyns leika, þá er menn kunnu skyn á, þá frömdu þeir með list ok kurteisi; hverr þeirra hafði frillu til skemtunar sèr. Ok nú er frá því at segja, at albúit er liðit Hjörvarðs konúngs ok Skuldar, at þau fara til Hleiðargarðs með þenna [ótöluliga lýð[3], ok komu þar at jólum. Hrólfr

[1]) v. í. C. [2]) allt, C. [3]) mikla her, C.

konúngr hefir látit hafa mikinn viðrbúnað ímóti jólunum, ok drukku menn hans fast jólakveldit. Þau Hjörvarðr ok Skuld reisa tjöld sín utanborgar, þau voru bæði stór ok löng, ok með undarligum búnaði; þar voru margir vagnar, ok allir skipaðir at vopnum ok herklæðum. Eigi gaf Hrólfr konúngr gaum at þessu, huxar hann nú meira á stórlæti sitt ok rausn ok hugprýði, ok alla þá hreysti, sem honum bjó í brjósti, at veita þeim öllum, sem þar voru tilkomnir, ok hans vegr færi sem víðarst, ok allt hafði hann þat til, sem einn veraldligan konúngs heiðr mátti prýða. En ekki er þess getit, at Hrólfr konúngr ok kappar hans hafi nokkurn tíma blótat goð, heldr trúðu (þeir) á mátt sinn ok megin, því þá var ekki boðuð sú heilaga trú hèr á norðrlöndum, ok höfðu þeir því lítit skyn á skapara sínum, sem bjuggu í Norðrálfunni.

49. Þessu næst er þat at segja, at Hjalti hinn hugprúði gengr til húss þess, sem frilla hans er inni; hann sèr þá glöggliga, at eigi mun vera friðsamligt undir tjöldum þeirra Hjörvarðar ok Skuldar; lætr hann þó kyrt vera, ok lætr sèr ekki í brún bregða, legst nú með frillunni, hún var kvenna fríðust; ok sem hann hefir verit þar um hríð, sprettr hann upp, ok mælti til frillunnar: hvort þiki þèr betri tveir tvíelleftir eða einn áttræðr? hún svarar: tveir tvíelleftir þiki mèr betri, heldr enn áttræðir kallar. Þessara orða skaltu gjalda, sagði Hjalti, þín

hóra! ok gekk at henni, ok beit af henni nefit: kendu mèr um, ef nokkrir fljúgast á um þik, ok vænti ek, at flestum þiki lítil gersemi at þèr uppfrá þessu; illa gjörðir þú til mín ok ómakliga, sagði hún; ekki verðr við öllu sèt, sagði Hjalti. Hann þrífr síðan vopn sín, því hann sèr, at alþakit er í kríngum borgina af brynjuðu fólki, ok merki eru uppsett, skilr hann nú, at ekki þurfi at dyljast við lengr, at ófriðr sè fyrir höndum; hann leitar til hallarinnar, ok þángat, sem Hrólfr konúngr sat ok kapparnir. Hjalti mælti[1]: vakið, herra konúngr! því ófriðr er í garðinum, ok er meiri þörf at berjast, enn at spenna konur, ok þat hygg ek, at lítt aukist gull í höllinni við skattinn Skuldar, systur þinnar, ok hefir hún grimd Skjöldúnga, ok þat kann ek þèr at segja, at þetta er ólítill herr með hörðum sverðum ok hervopnum, ok þeir gánga í kríngum borgina með reiddum sverðum, ok mun Hjörvarðr konúngr óvingjarnligt erendi við þik eiga, ok eigi mun hann optarr hèðan ífrá ætla at krefja þik ríkis; þat er nú til, sagði Hjalti, at vèr munum stýra liði konúngs vors, er ekki neitt sparir við oss; efnum nú vel heitstrengíngar vorar[2], at vèr verjum vel enn frægasta konúng, sem nú er á öllum Norðrlöndum, ok látum þat[3] á hvört land spyrjast mega, ok launum honum nú vopn ok herklæði ok

[1]) *hèr stendr skrifað útá síðunni í D:* Bjarkamál en fornu í sundrlausum orðum útlögð. [2]) at flýja hvorki eld nè járn, ok *b. v. F.* [3]) hvört laufblað uppritast mega ok, *b. v. B.*

margt eptirlæti annat, því vèr munum þetta eigi forverkum gjöra; hafa hèr ok stórar bendíngar fyrir borit, þótt vèr höfum dulizt við lánga tíma, ok er mèr meiri grunr á, at hèr munu stórir tilburðir eptir koma, svâ at í minni munu verða, ok munu sumir þat kalla, at ek mæli nokkut af æðru, en vera kann, at Hrólfr konúngr drekki nú hit síðarsta sinn með sínum köppum ok hirðmönnum; upp nú allir kapparnir! segir Hjalti, ok gjörið skjótt at skilja við frillur yðar, því annat liggr nú brýnnra[1] fyrir, at búast við því, sem eptir ferr; upp allir kappar með harðri svipan, ok vopnist allir! þá stökk upp Hrómundr harði ok Hrólfr skjóthendti, Svipdagr ok Beigaðr ok [Hvítserkr enn hvati, Haklángr enn sjötti, Harðrefill[2] enn sjöundi, Haki enn frækni enn áttundi, Vöttr enn mikliaflaði[3] enn níundi, Starólfr[4] hèt enn tíundi, Hjalti enn hugprúði enn ellefti[5], Böðvar bjarki enn tólfti, ok var hann því svâ kallaðr, at hann rýmdi á burt öllum berserkjum Hrólfs konúngs vegna þeirra ofsa ok ójafnaðar[6], en drap suma, svâ enginn þeirra þreifst fyrir honum, því þeir voru svâ sem konur hjá honum, þá á átti at reyna, ok þóttust þó honum ávalt meiri, ok sátu ávalt á svikráðum við hann. Böðvar bjarki stóð strax

1) beinna, *B*, *C*. 2) Hvítserkr enn hvati haklángr, enn sjötti Harðrefill, *o. s. frv.*, *D*. 3) mikli, *C*, *F*; mikli ofláti, *J*, *L*. 4) Stórólfr, *C*; enn rammi, *b. v. F*; harði, *b. v. D*. 5) ellefti Ulfr enn rammi, *D*. 6) burðar, *L*.

upp ok herklæddist, ok mælti, at nú væri Hrólfi konúngi þörf á stoltum drengjum, ok mun þeim öllum duga hjarta ok hugr, sem eigi standa á baki Hrólfs konúngs. Hrólfr konúngr sprettr þá upp, ok tekr til orða með öngum ótta: takið oss þann drukk, sem beztr er til, ok skulum vèr drekka áðr ok gjörast kátir, ok sýnum svâ, hvaða menn þetta eru, Hrólfs kappar! ok stundum þat eina, at í minni sè vor hreysti, því híngat hafa sókt enu mestu kappar af öllum löndum, sem í nánd eru, ok enu fræknustu; segið þat Hjörvarði ok Skuld ok þeirra görpum, at vèr munum drekka oss glaða, áðr enn vèr tökum við skattinum. Svâ var gjört, sem konúngrinn mælti; Skuld svarar: ólíkr er Hrólfr konúngr, bróðir minn, öllum öðrum, ok er at slíkum helzt skaði, en þó skal til skarar skríða allt at einu. Svâ mikit fanst um Hrólf konúng, at hann var lofaðr bæði af vinum sínum ok óvinum.

50. Hrólfr konúngr sprettr nú úr hásætinu, er hann hafði áðr drukkit um hríð, ok allir hans kappar, skilja nú við drukkinn góða at sinni, ok eru úti því nærst, nema Böðvar bjarki, hann sjá þeir hvergi, ok undrast þat mjök, ok þikir þeim ekki örvænt, at hann sè annathvort hertekinn eða drepinn; ok þegar sem þeir eru útkomnir, brestr í ógrligr bardagi. Hrólfr konúngr fylgir sjálfr fram merkjunum ok kappar hans þar með á báðar síður, ok allr annar borgarmúgr, hverr eigi var fár at telja, þó þeir kæmi

til lítils; þar mátti sjá stór högg í hjálmum ok brynjum, sverð ok spjót mátti þar mörg á lopti sjá [ok svâ margr hræfardalr, at þaktar voru allar grundir[1]. Hjalti hinn hugprúði mælti: mörg brynja er nú slitin ok mörg vopn brotin ok margr hjálmr spiltr, ok margr hraustr riddari af baki stúnginn, ok hefir konúngr vor gott skap, því nú er hann svâ glaðr, sem þá hann drakk öl fastast[2], ok vegr jafnt með báðum höndum, ok er hann mjök ólíkr öðrum konúngum í bardögum, því svâ lízt mèr, sem hann hafi 12 konúnga[3] afl[4], ok margan hraustan mann hefir hann drepit, ok nú má Hjörvarðr konúngr sjá þat, at sverðit Sköfnúngr bítr, ok gnestr[5] hann nú hátt í þeirra[6] hausum; en náttúra Sköfnúngs var sú, at hann kvað við hátt, þá hann kendi beinanna. Lýstr nú í bardaga allákafan, svâ ekki neitt stenðr við Hrólfi konúngi ok köppum hans. Hrólfr konúngr vegr svâ með Sköfnúng, at undrum þótti gegna, ok orka nú mjök á liðit Hjörvarðs konúngs, ok fellr þat at handamáli. Þat sjá þeir Hjörvarðr ok menn hans, at björn einn mikill ferr fyrir Hrólfs konúngs mönnum, ok jafnan þar nærst, sem konúngrinn var, hann drepr fleiri menn með sínum hrammi, enn fimm aðrir kappar konúngs, hrjóta af honum högg ok skotvopn[7], en hann brýtr undir sik bæði menn ok hesta af liði Hjörvarðs konúngs, ok

1) *v. í C.* 2) í kveld, *b. v. C;* í höll sinni, *b. v. F.* 3) karla, *D, F, J.* 4) magn, *C.* 5) gnístr, *C, D, J;* gellr, *F.* 6) andans, *b. v. B;* adamas, *b. v. L.* 7) örskot, *C.*

allt þat, sem í nánd er, mylr hann með sínum tönnum, svâ at illr kurr kemr í lið Hjörvarðs konúngs. Hjalti litast nú um, ok sèr eigi Böðvar fèlaga sinn, ok mælti til Hrólfs konúngs: hvörju mun þetta gegna, at Böðvar hlífir sèr svâ, ok kemr eigi nærri konúnginum, þvílíkan kappa sem vèr hugðum hann vera, ok hann opt reynzt hefir. Hrólfr konúngr segir: þar nokkrstaðar mun hann vera, sem oss bezt gegnir, ef hann er sjálfráðr, haltu þinni prýði ok framgaungu, en hallmæl honum ekki, því enginn yðar er hans jafníngi, ok áfrí ek þó öngan yðar, því þèr eruð allir hinir hraustustu kappar. Hjalti hefr nú á rás, ok heim til konúngsins herbergja, ok sèr, hvar hann sitr ok hefst ekki at. Hjalti mælti: hvorsu lengi skulu vèr bíða ens frægasta kappa, ok er þetta mikil ódæmi, at þú stendr ekki á þína rèttu fætr, ok reynir nú þína styrku armleggi, sem svâ eru sterkir sem alibirnir; upp nú Böðvar bjarki, ok minn yfirmann! ella mun ek brenna húsit ok sjálfan þik, ok er þetta höfuðskömm, [þvílíkr kappi sem þú ert, at konúngrinn skuli leggja sik í háska fyrir oss[1], ok týnir þú svâ þínu miklu lofi, sem þú hefir um stund haft. Böðvar stóð þá upp, ok blès við[2], ok mælti: ekki þarftu, Hjalti! at hræða mik, því ekki er ek enn hræddr, ok nú em ek albúinn at fara; þá ek var úngr, flýða ek hvorki eld nè

[1]) *v. í C.* [2]) stórmannliga, *b. v. B;* mæðiliga, *b. v. C;* þúngt, *b. v. F, L.*

járn, en eld hefi ek sjaldan reynt, en járngáng hefi ek stundum þolat, ok fyrir hvorugu gengit híngattil, ok skaltu at sönnu segja, at ek vil fullvel berjast, ok jafnan hefir Hrólfr konúngr kallat mik kappa [fyrir sínum mönnum[1], á ek honum ok margt at launa, fyrst mægð ok 12 bú, [er hann gaf mèr, þarmeð marga[2] dýrgripi; ek drap Angar[3] berserk [ok eigi síðr konúng, ok er þat verk haft í minnum[4]; telr nú upp fyrir honum mörg stórvirki, er hann hafði unnit [ok banamaðr orðit margra manna[5], ok bað hann svâ tilætla, at hann mundi óhræddr til bardaga gánga: en þó hygg ek hèr við miklu meiri undr at eiga, enn hvervetna þar, sem vèr höfum áðr komit, en ekki hefir þú konúnginum verit svâ hagfeldr í þessu tilbragði, sem þèr þikir, því nærri mundi nú lagt hafa áðr, hvorir sigrazt hefði, en þèr hefir nú orðit meirr vitfátt; enn hitt, at þú mundir ekki vel vilja konúnginum, ok öngum skyldi öðrum hans kappa endzt hafa þetta, nema þèr, at kalla mik út, nema konúnginum, en hvörn annann skylda ek drepit hafa, ok vill nú dragast til þess, sem verða vill, at engin ráð skuli duga; ek seigi þèr at sönnu, at nú má ek mörgum hlutum minna lið veita konúnginum, enn áðr þú kallaðir mik upp hèðan. Hjalti sagði: þat er ljóst, at mèr er vandast við þik ok Hrólf konúng, en þó er vandt úr at ráða, þá svâ fellr.

1) sinn, C. 2) gull ok, C. 3) *þannig A, E, G*; Angantýr, C; Angan, L; Agnar, *hin*. 4) *v. í C.* 5) *v. í C.*

51. Eptir þessa eggjan Hjalta stendr Böðvar upp, ok gengr út til bardagans, er þá björninn horfinn burt úr liðinu, ok tekr nú bardaginn at þýngjast fyrir; hafði Skuld drottníng öngum brögðum viðkomit, á meðan björninn var í liði Hrólfs konúngs, þar sem hún sat í sínu svarta tjaldi á seiðhjalli sínum. Skiptir nú svâ um, sem dimm nótt komi eptir bjartan dag; sjá nú menn Hrólfs konúngs, hvar kemr fram úr liði Hjörvarðs konúngs einn ógrligr galti, hann var eigi minni tilsýndar, enn þrèvett naut, ok var úlfgrár at lit, ok flýgr ör af hvörju hans bustarhári, ok drepr hann hirðmenn Hrólfs konúngs hrönnum niðr með fádæmum. Böðvar bjarki ruddist nú um fast, ok hjó á tvær hendr, ok huxaði nú ekki annat, enn vinna sem mest, áðr hann fèlli, ok fellr nú hverr um þveran annann fyrir honum, ok blóðugar hefir hann báðar sínar axlir[1], ok hlóð valköstum á alla vega í kríngum sik, lèt hann likt, sem hann væri óðr; en svâ margan mann, sem hann drepr, ok fleiri aðrir Hrólfs kappar af liði þeirra Hjörvarðar ok Skuldar, eru þau ódæmi at, at aldrei þverrar lið þeirra at heldr, ok er sem þeir hafist ekki at, ok aldrei þikjast þeir hafa komit í slík undr. Böðvar mælti: drjúgt er liðit Skuldar, ok grunar mik nú, at þeir dauðu sveimi hèr, ok rísi upp aptr ok berist í móti oss, ok mun þat verða torsókt at

[1]) hendr til axla upp, *B*, *C*, *F*; armleggi upp undir axlir, *L*.

berjast við drauga, ok svâ [margr leggr, sem hèr er klofinn ok skjöldr rifinn, hjálmr ok brynja í smátt sundr högginn, ok margr höfðíngi í sundr bolaðr[1], þá eru þeir nú grimmastir hinir dauðu viðreignar, ok ekki höfum vèr mátt við þessu, enda hvar er sá kappi Hrólfs konúngs, sem mèr frúði mest hugar, ok mik kvaddi optarst útgaungu, áðr enn ek svaraði honum? [ok eigi sé ek hann nú, ok em ek þó eigi vanr at hallmæla mönnum[2]. Þá sagði Hjalti: þú segir satt, eigi ertu hallmælasamr, hèr stendr sá, sem Hjalti heitir, ok hefi ek nú nokkut verkaefni fyrir höndum, ok er eigi alllángt ímillum okkar, ok þarf ek við góðra drengja, því af mèr eru höggnar allar hlífar, fóstbróðir! ok þikist ek þó allákaft vega, ok get ek nú eigi hefnt allra minna högga[3], en eigi skal nú viðhlífast, ef vèr skulum í Valhöll gista í kveld, ok víst höfum vèr aldrei hitt slík undr fyrir, sem hèr eru nú, ok hefir oss lengi fyrirboðat þessum tíðindum, sem nú eru framkomin. Böðvar bjarki mælti: nem hvat ek segi! ek hefi barizt í 12 flokkorrostum[4], ok jafnan verit kallaðr fullhugi, ok hliðat fyrir öngum berserk, ek hvatta Hrólf konúng at sækja heim Aðels konúng, ok mættum vèr þar nokkrum brögðum, ok var þat lítils verðt hjá þessum ófagnaði, en nú er svâ lagt til míns hjarta, at mèr er ekki jafnglaðt

---

[1]) margir, sem hèr hafa fallit, *C.* [2]) *v. í C.* [3]) sára, *C.*
[4]) *þannig* öll.

at vega, sem áðr; ek mætta Hjörvarði konúngi áðan í fyrri hríðinni, svâ okkar fund bar saman, ok kastaði hvorgi okkarr löstum[1] á aðra, áttu við vopna viðskipti um stund, sendi hann mèr lag, hvar ek kenda heljarför[2], en ek hjó af honum hönd ok fót, ok kom annat höggit á öxl honum, ok klauf ek svâ ofan með síðunni ok með hrygg-num, en svâ brá hann sèr við, at hann andvarpaði eigi, ok svâ sem hann sofnaði um stund, en ek hugða hann dauðan, ok fáir munu slíkir finn-ast, ok eigi barðist hann síðarr óðjarfligarr enn áðr, ok aldrei kann ek at segja, hvat hann eflir; hèr er nú margt manna saman komit á móti oss, ríkra ok tíginna, er úr öllum áttum atdrífr, svâ eigi má rönd við reisa, en Óðinn kann ek ekki at kenna hèr enn, mèr er þó mesti grunr á, at hann muni hèr sveima ímóti oss, herjans[3] sonrinn enn fúli ok enn ótrúi, ok ef nokkr kynni mèr til hans at segja, skylda ek kreista hann sem annann versta ok minsta mýslíng[4], [ok þat illa eitrkvikindi skyldi verða svívirðiliga leikit, ef ek mætti hann höndum taka[5], ok hvörj-um mundi vera meiri heipt í hug, ef hann sæi sinn lánardrottinn svâ útleikinn, sem vèr sjáum nú[6]? Hjalti mælti: ekki er forlögin hægt at beygja, nè ámóti náttúrunni at standa, ok hættu þeir svâ sínu tali.

52. Hrólfr konúngr varðist vel ok drengi-

---

1) lastorðum, *C.* 2) *v. í B;* harða för, *D, J.* 3) glucku, *L.* 4) níðíng, *L.* 5) *v. í C.* 6) Hrólf konúng, *b. v. C.*

liga, ok af meiri hugprýði, enn nokkr maðr vissi dæmi til, sóktu þeir at honum fast, ok varð sleginn hríngr um hann af einvalaliði Hjörvarðs konúngs ok Skuldar. Skuld er nú komin til bardagans, ok eggjar í ákafa sitt illþýði at sækja at Hrólfi konúngi, því hún sèr, at kapparnir eru ekki allnær honum, ok þetta var þat, sem Böðvar bjarka ángraði stórliga, at hann gat ekki veitt lið sínum herra, ok svâ fleiri kappanna, því þeir voru nú svâ fúsir at deyja með honum, svâ sem at lifa með honum, þá þeir voru í blóma æsku sinnar. Var nú gjörvöll hirð konúngsins fallin, svâ ekki stóð einn upp, en kapparnir flestir særðir til ólífis, ok fór þetta eptir líkindum, [sagði meistarinn Galterus[1], at mannligir kraptar máttu ekki standast við slíkum fjanda krapti, utan máttr guðs hefði á móti komit, ok stóð þèr þat eitt fyrir sigrinum, Hrólfr konúngr[2]! at þú hafðir ekki skyn á skapara þínum. Kom nú á sú galdrahríð, at kapparnir tóku at falla, hverr um þveran annann, ok Hrólfr komst úr skjaldborginni, ok var svâ sem fallinn af mæði; þarf þat ekki [með orðum at lengja[3], at þar fèll Hrólfr konúngr ok allir hans kappar[4] með góðum lofstýr, en hvat mikit slag þeir veittu þar, þat verðr ekki með orðum skírt. Þar fèll Hjörvarðr konúngr ok allt hans lið, nema fáir níðíngar stóðu upp eptir með Skuld; tók hún

[1]) segir, *m. G, B; v. í F, L.* [2]) sagði meistarinn, *b. v. B, D, F, J, L*; s. sögumeistarinn, *M.* [3]) til lángmælis at leggja, *L.* [4]) ok hirð, *b. v. C.*

svâ ríkin Hrólfs konúngs undir sik, ok stýrði þeim illa ok skamma stund, ok hefndi Elgfróði Böðvars bjarka, bróður síns, sem hann hèt honum, ok Þórir konúngr hundsfótr, sem segir í Fróða þætti, ok fengu mikinn styrk úr Svíaríki frá Yrsu drottníngu, ok segja menn, at Vöggr hefði þar verit flokksforíngi fyrir; hèldu þeir öllum her til Danmerkr á óvart Skuld drottníngu, gátu þeir náð hana höndum, svâ hún kom öngum gjörníngum við, ok allt hennar illþýði drápu þeir, en kvöldu hana ýmisligum píníngum, ok komu svâ ríkjunum aptr undir dætr Hrólfs konúngs, ok hèldt svâ hverr heim til sinna heimkynna. Var haugr orpinn eptir Hrólf konúng, ok lagt hjá honum sverðit Sköfnúngr, [ok sinn haugr handa hvörjum kappa[1], ok nokkurt vopn hjá[2]; ok endar hèr sögu Hrólfs konúngs kraka ok kappa hans.

---

1) því náði síðarr Skeggi Skinnabjarnarson ok færði til Íslands; haugar voru ok orpnir eptir kappa konúngs, *F.* 2) hvörjum, *b. v. F*; sèrhverjum þeirra; skrifa sumir, at kapparnir hafi í haug hjá konúnginum settir verit eptir gamalli siðvenju, serhverr með sínu vopni, *b. v. D.*

# Brot

## Bjarkamála enna fornu.

DAGR er uppkominn,
dynja hana fjaðrar,
mál er vilmágum[1]
at vekja[2] erfiði;
vaki[3] ok vaki[4]
vinahöfuð!
allir hinir æztu[5]
Aðels of[6] sinna[7].

Hár hinn harðgreipi!
Hrólfr skjótandi!
ættgóðir[8] menn,
þeir[9] er ekki flýja;
vekjat[10] ek yðr at víni,
nè at vífs[11] rúnum,
heldr vek ek yðr at hörðum
hildarleiki.

---

1) vilmögum, *H, D*; víkíngum, *F.* 2) vinna, *H, D, F.* 3) æ, *b. v. H, D.* 4) vaka, *F.* 5) öztu, *H*; ágæztu, *D.* 6) ok, *D, F.* 7) sinnar, *H, D*; Svíar, *F.* 8) ættum góðir, *H*; hættum góðir, *D*; hættgóðir, *F.* 9) þeim, *H, D, F.* 10) vekkat, *H, D, F.* 11) *þannig H, D, F*; Vífils, *O.*

* * *

Gramr hinn gjöflasti
gæddi hirð sína
Fenju forverki,
Fâfnis miðgarði,
Glasis glóbarri,
Grana fagrbyrði,
Dröpnis dýrsveita,
dúni grafvitnis.

Ýtti[1] örr hilmir,
aldir viðtóku,
Sifjar[2] svarðfestum,
svelli dalnauðar[3],
tregum Otrsgjöldum,
tárum Mardallar,
eldi Óránar[4],
Iðja glismálum.

Gladdi gunnveiti,
gengum fagrbúnir,
Þjassa[5] þíngskilum
þjóðir hermargar,
Rínar rauðmálmi,
rógi Niflúnga,
vísi hinn vígdjarfi
vakti[6] hann Baldr þægi[7].

---

1) *þannig O;* veitti, *K.* 2) Svíar, *líkl. rángt í K.* 3) dalnavnar, *K.* 4) *þannig O;* óronar, *K, U.* 5) Þjaza, *K.* 6) *þannig O, U;* varði, *K.* 7) þœygi, *O, U;* þögli, *K;* varði mannbaldr, *Rasks tilgáta.*

*  *  *

Svâ skal ek hann kyrkja,
sem hinn kámleita
vèli viðbjarnar
veggja aldina.

*  *  *

Hníginn er í hadd jarðar
Hrólfr hinn stórláti.

# Völsúnga Saga[1].

Her hefr upp, ok segir frá þeim manni, er Sigi er nefndr, ok kallaðr at hèti son Óðins[2]. Annar maðr er nefndr til sögunnar, er Skaði hèt, hann var ríkr ok mikill fyrir sèr, en þó var Sigi þeirra enn [ríkari ok[3] ættstærri[4], at því er menn mæltu[5] í þann tíma. Skaði átti þræl þann, er nokkut verðr at geta við söguna, hann hèt Breði; hann var kendr[6] við þat, er hann skyldi athafast; hann hafði íþróttir ok atgerfi jafnframt hinum, er meira þóttu verðir, eða umfram nokkra. Þat er nú at segja eitthvert sinn, at Sigi ferr at dýraveiði, ok með honum þrællinn, ok veiða dýr um daginn allt til aptans. Ok er þeir bera saman veið sína um aptaninn, þá hafði Breði[7] veiðt miklu meira ok fleira [enn Sigi, hvat honum líkaði stórilla, ok segir, at sik undri, at einn þræll skuli sik yfirbuga í dýraveiði, hleypr því at honum ok drepr hann, dysjar síðan líkit í snjófönn[8]. Nú ferr hann heim

1) *sèzt ekki í A;* eðr sagan af Sigurði Fáfnisbana, *b. v. B;* Saga af Ragnari Loðbrók ok mörgum konúngum merkiligum, *hin.* 2) *v. í hin; dauft í A.* 3) *v. í hin.* 4) því hann var kominn frá goðunum, ok kallaðr son Oðins, *b. v. hèr hin.* 5) *dauft í A;* mundu, *hin.* 6) *eða:* hendr, *dauft í A;* ókendr, *rángt, hin.* 7) þrællinn, *hin.* 8) *Hèr eru 9 neðstu línurnar á 1stu blads. í A, sem samsvara 12 prentuðum, máðar og ólæsiligar, en það frá merkinu [, sem hin handritin hafa öll, er tekið hèr í staðinn.*

um kveldit ok segir, at Breði hafi riðit frá honum á skóginn, ok var hann senn or augliti[1] mèr, ok veit ek ekki til hans. Skaði grunar sögn Siga, ok getr, at vera mun svik hans, ok mun Sigi hafa drepit hann, fær mann til at leita hans, ok lýkr svâ leitinni, at þeir fundu hann í skafli einum, ok mælti Skaði, at þann skafl skyldi kalla Breðafönn[2] hèðan af, ok hafa menn nú þat eptir síðan, ok kalla svâ hverja[3] fönn, er mikil er. Þá kemr upp, at Sigi hefir drepit þrælinn [ok myrðan[4]; þá kalla þeir hann varg í veum[5], ok má hann nú eigi heima vera með feðr sínum. Óðinn fylgir honum nú af landi brott, svâ lánga leið, at stóru bar, ok eigi lètti hann fyrr, enn hann kom honum til herskipa. Nú tekr Sigi at leggjast í hernað með þat lið, er faðir hans fèkk honum áðr þeir skildu, ok varð hann sigrsæll í hernaðinum; ok svâ kemr hans máli, at hann fèkk herjat sèr land[6] ok ríki umsíðir; ok því næst fèkk hann sèr göfugt kvonfáng, ok gerist hann ríkr konúngr ok mikill fyrir sèr, ok rèð fyrir Húnalandi, ok er hinn mesti hermaðr. Hann á son við konu sinni, er hèt Rerir[7]; hann vex þar upp með feðr sínum, ok gjörist brátt mikill vexti ok gerfiligr[8].

2. Nú gerist Sigi gamall maðr at aldri; hann átti sèr marga öfundarmenn, svâ at um

1) augsýn, *B*, *G*, *J*, *K*. 2) Breðaskafl, *hin öll*. 3) vetrar, *hin*. 4) *v. í hin*. 5) *þannig hin*; vœium, *A*. 6) lönd, *hin*. 7) Reri, *B*, *C*; Berir, *H*, *J*, *K*; Beirir, *E hvervetna*. 8) göfugr, *J*, *K*; göfugligr, *hin*.

síðir rèðu þeir á hendr honum, er hann trúði bezt, en þat voru bræðr konu hans; þeir gera þá til hans, er hann varir sízt ok hann var fáliðr[1] fyrir, [ok bera hann ofrliði[2], ok á þeim fundi fèll Sigi með hirð sinni allri. Son hans Rerir var ekki í þeim háska, ok fær hann svâ mikit lið af vinum sínum[3] ok landshöfðíngjum, svâ at hann eignaðist bæði land ok konúngdóm eptir Siga feðr sinn; ok nú er hann þikkist hafa fótum [undir komizt í ríki sínu[4], þá minnist hann á þær sakir, er hann átti við móðurbræðr sína, er drepit höfðu föður hans, ok safnar konúngr sèr nú liði miklu, ok ferr nú á hendr frændum sínum með þenna her, ok þikkja þeir fyrr gert hafa sakar við sik, þó at hann [mæti lítils[5] frændsemi þeirra, ok svâ gerir hann[6], fyrir því at eigi skilst hann fyrri við, enn hann hafði drepit alla feðrbana sína, þó at úskapliga væri fyrir allar sakir; nú eignast hann lönd[7] ok ríki ok fè, gerist hann nú meiri fyrir sèr, enn faðir hans. Rerir fèkk sèr nú herfáng mikit, ok konu þá, er honum þótti við sitt hæfi, ok eru þau mjök lengi ásamt, ok eiga þau aungan erfíngja, ok ekki barn; þat hugnar þeim báðum illa, ok biðja þau goðin með miklum áhuga, at þau gæti[8] sèr barn. Þat er nú sagt, at Frigg[9] heyrir bæn þeirra, ok svâ Óðinn, hvers þau biðja hann, verðr eigi

[1]) fáliðaðr, *hin.* [2]) *v. í B.* [3]) ok frændum, *b. v. hin.* [4]) komit undir ríki sitt, *J, K.* [5]) mætti lítill[i], *hin.* [6]) *frá merkinu [ v. í J, K.* [7]) land, *J, K.* [8]) gæti, *hin.* [9]) goðin, *hin.*

örþrifráða, ok tekr óskmey[1] sína, dóttur Hrímnniss[2] jötuns, ok fær í hönd henni eitt epli, ok biðr hana færa konúngi; hún tók við eplinu, ok brá á sik kráku ham, ok flýgr til þess, er hún kemr þar, sem konúngrinn er, ok sat á haugi; hún lèt falla eplit í knè konúnginum; hann tók þat epli, ok þóttist vita, hverju gegna mundi; gengr nú heim af hauginum ok til sinna manna, ok kom á fund drottníngar, ok etr[3] þat epli sumt. Þat er nú at segja, at drottníng finnr þat brátt, at hún mundi vera með barni, ok ferr þessu fram lángar stundir, at hún má eigi ala barnit. Þá kemr at því, at Rerir skal fara í leiðángr, sem siðvenja er til konúnga, at friða land sitt; í þessi ferð varð þat til tíðenda, at Rerir tók sótt ok því næst bana, ok ætlaði at sækja heim Óðin, ok þótti þat mörgum fýsiligt í þann tíma. Nú ferr enu sama fram um vanheilsu drottníngar, at hún fær eigi alit barnit, ok þessu ferr fram 6 vetr, at hún hefir þessa sótt; nú finnr hún þat, at hún mun eigi lengi lifa[4], ok bað nú, at hana skyldi særa[5] til barnsins, ok svâ var gert, sem hún bað; þat var sveinbarn, ok sá sveinn var mikill vexti, þá er hann kom til, sem von var at. Svâ er sagt, at sjá sveinn kysti móður sína, áðr hún dæi; þessum er nú nafn gefit, ok er kallaðr Völsúngr[6]; hann var

[1]) *tvö orð í A.* [2]) Alhimins, *G*; Himnirs, *K.* [3]) hún, *b. v. J.* [4]) eptir sína barnsfæðíng, *b. v. J.* [5]) æra, *J.* [6]) Vaulsúngr, *A.*

konúngr yfir Húnalandi eptir feðr sinn; hann var snemma mikill ok sterkr, ok áræðisfullr um þat, er mannraun þótti í ok karlmennska; hann gerist hinn mesti hermaðr ok sigrsæll í orrostum þeim, sem hann átti í herförum. Nú þá er hann var alroskinn at aldri, þá sendir Hrímnir[1] honum Ljóð[2] dóttur sína, er fyrr er getit, þá er hún fór með eplit til Reris, feðr Völsúngs; nú gengr hann at eiga hana, ok eru þau lengi ásamt, ok eru góðar samfarar þeirra. Þau áttu 10 sonu ok eina dóttur; enn elzti son þeirra hèt Sigmundr, en Signý dóttir, þau voru tvíburar, ok voru þau fremst ok vænst um alla hluti barna Völsúngs konúngs, ok voru þó allir miklir fyrir sèr, sem lengi hefir uppi verit haft, ok at ágætum gert verit, hversu Völsúngar hafa verit ofrkappsmenn miklir, ok hafa verit fyrir flestum mönnum, sem getit er í fornsögum, [bæði um fróðleik ok íþróttir ok allsháttar kappgirni[3]. Svâ er sagt, at Völsúngr konúngr lèt gera höll eina ágæta ok með þeim hætti, at ein eyk mikil stóð í[4] höllinni, ok limar[5] trèsins með fögrum blómum stóðu út um ræfr hallarinnar, en leggrinn stóð niðr í höllina, ok kölluðu þeir þat branstokk[6].

3. Siggeir[7] hefir konúngr heitit, hann rèð fyrir Gautlandi, hann vat ríkr[8] konúngr ok fjölmennr; hann fór á fund Völsúngs konúngs,

1) Himnir, *G, H.* 2) *þannig, eða*: Boð, *A; v. í hin.* 3) *v. í C, J.* 4) miðri, *ó. v. J, K.* 5) greinir, *J, K.* 6) barnstokk, *hin.* 7) Sigger, *J, K.* 8) frægr, *hin.*

ok bað hann Signýar til handa sèr; þessu tali tekr konúngr vel ok svâ synir hans, en hún sjálf var þessa ófús, biðr þó feðr sinn ráða þessu[1] sem öðru því, sem til hennar[2] tæki; en konúngrinn tók þat ráð at gipta hana, ok var hún föstnuð Siggeiri konúngi. En þá þessi veizla ok ráðahagr skal takast, skal[3] Siggeir konúngr sækja veizluna til Völsúngs konúngs. Konúngr bjóst við veizlunni eptir enum beztum faungum; ok þá er þessi veizla var albúin, komu þar boðsmenn Völsúngs konúngs ok svâ Siggeirs konúngs at nefndum degi, ok hefir Siggeir konúngr marga virðuliga[4] menn með sèr. Svâ er sagt, at þar voru miklir eldar gerðir eptir endilángri höllinni, en nú stendr sjá hinn mikli apaldr[5] í miðri höllinni, sem fyrr var nefndr. Nú er þess viðgetit, at þá er menn sátu við eldana um kveldit, at maðr einn gekk inní höllina, sá maðr er mönnum úkunnigr[6] at sýn; sjá maðr hefir þesshâttar búníng, at hann hefir heklu flekkótta yfir sèr; sá maðr var berfættr, ok hafði knýtt línbrókum at beini; sá maðr hafði sverð í hendi, ok gengr at branstokkinum[7], ok (hafði) hatt síðan á höfði; hann var hár mjök ok eldiligr[8] ok einsýnn; hann bregðr sverðinu, ok stíngr því í stokkinn, svâ at sverðit sökkr at hjöltum upp; öllum mönnum fellust kveðjur við þenna mann; þá tekr hann til orða ok mælti: sá er

1) *v. t. A.* 2) hans, *hin.* 3) átti, *J, K.* 4) *v. í J, K.* 5) apaldr, *J, K.* 6) ókendr, *hin.* 7) barnstokkinum, *hin.* 8) elliligr, *hin.*

þessu sverði bregðr or stokkinum, þá skal sá þat þiggja at mèr at gjöf, ok skal hann þat sjálfr sanna, at aldrí bar hann betra sverð sèr í hendi, enn þetta er. Eptir þetta gengr sjá enn gamli maðr út or höllinni, ok veit enginn, hverr hann er, eða hvert hann gengr. Nú standa þeir upp, ok metast ekki við[1] at taka sverðit, þikkist sá bezt hafa, er fyrst náir[2]; síðan gengu til enir göfgustu menn fyrst, en þá hverr at öðrum; engi kemr sá til, er nái, þvíat engan veg bifast, er þeir taka til. Nú kom til Sigmundr, son Völsúngs konúngs, ok tók ok brá sverðinu or stokkinum, ok var sem laust lægi fyrir honum. Þetta vopn sýndist öllum svâ gott, at engi þóttist sèt hafa jafngott sverð, ok býðr Siggeir[3] honum at vega þrjú[4] jafnvægi gulls. Sigmundr segir: þú máttir taka þetta sverð eigi síðr enn ek, þar sem þat stóð, ef þèr sæmdi at bera, en nú fær þú þat aldrí, er þat kom áðr í mína hönd, þótt þú bjóðir við allt þat gull, er þú átt. Siggeir konúngr reiddist við þessi orð, ok þótti sèr háðuliga svarat vera; en fyrir því at honum var svâ varit, at hann var undirhyggjumaðr mikill, þá lætr hann nú sem hann hirði ekki um þetta mál, en þat sama kveld hugði hann laun fyrir þetta, þau er síðarr komu fram.

4. Nú er þat at segja, at Siggeir gengr í rekkju hjá Signýu þenna aptan; en næsta dag

1) um, *B, C, D, H.* 2) nær, *hin.* 3) *v. í A.* 4) *v. í hin.*

eptir, þá var veðr gott; þá segir Siggeir konúngr, at hann vill heim fara ok bíða eigi þess, er vindr[1] yxi[2], eða sjá gerir úfæran. Eigi er þess getit, at Völsúngr konúngr letti hann eða synir hans, allra helzt er hann sá, at hann vildi ekki annat, enn fara frá veizlunni. Nú mælti Signý við feðr sinn: eigi vilda ek á brott fara með Siggeiri, ok eigi gerir hugr minn hlægja við honum, ok veit ek af framvísi minni ok af kynfylgju vorri, at af þessu ráði stendr oss mikill úfagnaðr, ef eigi er skjótt brugðit þessum ráðahag. Eigi skaltu þetta mæla, dóttir! sagði hann, [því at þat er skömm mikil bæði honum ok svâ oss, at brigða þessu[3] við hann at saklausu, ok egum vèr þá engan trúnað undir honum nè vingan, ef þessu er brugðit, ok man hann gjalda illu oss, slíkt er hann[4] má, ok samir þat eina at halda af vorri hendi. Nú býst Siggeir konúngr til heimferðar; ok áðr þeir fóru frá boðinu, þá bauð hann Völsúngi konúngi, mági sínum, til sín á Gautland, ok sonum hans öllum með honum[5], á þriggja mánaða fresti, ok því öllu liði, sem hann vildi með sèr hafa ok honum væri til vegsemdar. Vill nú Siggeir konúngr gjalda í því, þat er áskorti bruðlaups gerðina[6] fyrir þess sakir, er hann vildi eigi meirr vera, enn eina nótt, [ok er ekki þat siðr manna

1) veðr, *hin.* 2) vesni, *B.* 3) vor orð, *hin.* 4) *frá* [ *v. í. B.*
5) til ágætrar veizlu, *B, H, J.* 6) gleðina, *hin.*

at gera svâ[1]. Nú heitr Völsúngr konúngr ferðinni, ok koma á nefndum degi. Þá skiljast þeir mágar, ok ferr Siggeir konúngr heim með konu sína.

5. Nú er at segja frá Völsúngi konúngi ok sonum hans, at þeir fara at ákveðinni stundu til Gautlands at boði Siggeirs konúngs, mágs síns, ok [hafa þrjú[2] skip or landi ok öll vel skiput, ok verða vel reiðfara[3], ok koma skipum sínum við Gautland, en þat var síð um aptan. En þann sama aptan kom Signý, dóttir Völsúngs konúngs, ok kallar feðr sinn á einmæli ok bræðr sína, segir nú ætlan sína ok Siggeirs konúngs, at hann hefir dregit saman úvígan hèr, ok ætlar at svíkja yðr; nú bið ek yðr, segir hún, at þèr farið þegar aptr í yðart ríki ok fáið yðr lið sem mest, ok farið híngat síðan ok hefnið yðar sjálfir, ok gángið eigi í úfæru, þvíat eigi missi þèr svika af honum, ef eigi taki þèr þetta bragð, sem ek beiði yðr. Þá mælti Völsúngr konúngr: þat munu allar þjóðir at orðum gera, at ek mælta eitt orð úborinn, ok strengda ek þess heit, at ek skylda hvárki flýja eld nè járn fyrir hræðslu sakir, ok svâ hefi ek enn gjört hèr til, ok hví munda ek eigi efna þat á gamals aldri? ok eigi skulu meyjar því bregða sonum mínum í leikum, at þeir hræðist bana sinn, þvíat eitt sinn skal hverr deyja, en engi má undan komast at

1) *v. í hin.* 2) fóru þeirra, *hin.* 3) hraðfarir, *C, D, E, F, G, H, J, K*; síðfarir, *B.*

deyja um sinn[1]; er þat mitt ráð, at vèr flyjum hvergi, ok gerum af vorri hendi sem hreystiligast; ek hefi barizt 100 sinnum, ok hefi ek haft stundum meira lið, en stundum minna, ok hefi ek jafnan sigr haft, ok eigi skal þat spyrjast, at ek flýja nè friðar biðja. Nú grætr Signý sárliga, ok bað, at hún skyldi eigi koma til Siggeirs konúngs. Völsúngr konúngr svarar: þú skalt at vísu fara heim til bónda þíns ok vera samt með honum, hversu sem með oss ferr. Nú gengr Signý heim, en þeir búa eptir um nóttina. Ok um myrgininn þegar er dagar, þá biðr Völsúngr konúngr upp standa sína menn alla, ok gánga á land upp, ok búast við bardaga. Nú gánga þeir á land upp allir alvopnaðir, ok er eigi lángt at bíða, áðr þar kemr Siggeir konúngr með allan sinn her, ok verðr þar in harðasta orrosta með þeim, ok eggjar konúngr lið sitt til framgaungu sem harðligast, ok er svâ sagt, at Völsúngr konúngr ok synir hans gengu áttasinnum í gegnum fylkíngar [Siggeirs konúngs[2] um daginn, ok höggva á tvær hendr; ok er þeir ætla enn svâ at fara, þá fellr Völsúngr konúngr í miðri fylkíngu sinni, ok þar allt lið hans með honum, [nema synir hans 10, því at miklu meira ofrefli var í móti, enn þeir mætti viðstanda[3]. Nú eru sýnir hans allir teknir ok í bönd reknir, ok á brott leiddir. Signý varð vör við, at faðir hennar var drepinn, en bræðr

1) *í senn, hin.* 2) *v. í hin.* 3) *v. í hin.*

hennar höndum teknir, ok til bana ráðnir; nú kallar hún Siggeir konúng á einmæli. Nú mælti Signý: þess vil ek biðja þik, at þú látir eigi svâ skjótt drepa bræðr mína, ok látið þá heldr setja í stokk, ok kemr mèr at því, sem mælt er, at unir auga, meðan á sèr, ok því bið ek þeim[1] eigi lengra, at ek ætla, at mèr muni ekki tjóa[2]. Þá svarar Siggeir: ær ertu ok örvita[3], er þú biðr bræðrum þínum meira böls, enn þeir sè höggnir, en þó skal þat veita þèr, þvíat þess betr þikki mèr, er þeir þola verra, ok hafa lengri kvöl[4] til bana. Nú lætr hann svâ gera, sem hún bauð, ok var tekinn einn mikill stokkr, ok feldr á fætr þeim 10 bræðrum í skógi einshversstaðar, ok sitja þeir nú þar þann dag allan til nætr; en at miðri nótt, þá kom þar ylgr[5] ein[6] or skógi gömul at þeim, er þeir sátu í stokkinum, hún var bæði mikil ok illilig; henni varð þat fyrir, at hún bítr einn þeirra til bana, síðan át hún þann upp allan; eptir þat fór hún í brott. En eptir um morgininn, þá sendi Signý mann til bræðra sinna, [þann er hún trúði bezt[7], ok vita[8], hvat tíðt sè; ok er hann kemr aptr, segir hann henni, at dauðr sè einn þeirra; henni þótti þetta mikit, ef þeir skulu svâ fara allir, en hún mátti ekki dyga[9] þeim. Skjótt er þar frá at segja, níu nætr í

[1]) þik, *J, K.* [2]) tjá, *hin.* [3]) óvíta, *B;* vitstola, *J, K.* [4]) *þannig hin;* kaul, *A.* [5]) ylgi, *C, E, F, G, H.* [6]) einn, *B.* [7]) *v. í C, D, E, F, G, H, J, K.* [8]) *v. í A.* [9]) hjálpa, *B;* duga, *hin.*

samt[1] kom sjá en sama ylgr um miðnætti, ok etr einn þeirra senn til bana, unst allir eru dauðir, nema Sigmundr einn er eptir. Ok nú áðr tíunda nótt kemr, sendir Signý trúnaðarmann sinn til Sigmundar, bróður síns, ok seldi í hönd honum hunáng, ok mælti, at hann skyldi rýða á andlit Sigmundar ok leggja í munn honum sumt. Nú ferr hann til Sigmundar, ok gerir sem honum var boðit, ok fór heim síðan. Um nóttina eptir þá kemr sú in sama ylgr at vanda sínum, ok ætlaði at bíta hann til bana sem bræðr hans; en nú dregr hún veðrit af honum, þar sem hunángit var áriðit, ok sleikir andlit hans allt með túngu sèr, ok rèttir síðan túnguna í munn honum; hann lætr sèr verða úbilt, ok beit í túnguna ylginni; hún bregðr við fast, ok hnykkir at sèr hart, ok rak fætrnar í stokkinn, svâ at hann klofnaði allr í sundr, en hann hèldt svâ fast, at túngan gekk or ylginni uppí túngurótunum, ok fèkk af því bana. En þat er sögn sumra manna, at sú hin sama ylgr væri móðir Siggeirs konúngs, ok hafi hún brugðit á sik þessu líki fyrir tröllskapar sakir ok fjölkýngi.

6. Nú er Sigmundr lauss orðinn, en brotinn er stokkrinn, ok hefst Sigmundr þar nú við í skóginum. Enn sendir Signý at vita, hvat tíðt er, eða hvert Sigmundr lifir; en er þeir koma, þá segir hann þeim allan atburð, hve farit hafði með þeim ok ylginni. Nú [fara þeir

[1]) samfleytt, *J*, *K*.

heim ok[1] segja Signýu, hvat tíðt er; fór hún nú ok hittir bróður sinn, ok taka þau þat ráð, at hann gerir þar jarðhús í skóginum, ok ferr nú því fram um hríð, at Signý leynir honum þar, ok fær honum þat, er hann þyrfti at hafa; en Siggeir konúngr ætlar, at þeir sè állir dauðir Völsúngar. Siggeir konúngr átti 2 sonu við konu sinni, ok er frá þeim sagt, þá er enn ellri son hans er 10[2] vetra, at Signý sendir hann til móts við Sigmund[3], at hann skyldi veita honum lið, ef hann vildi nokkut leita við at hefna feðr síns. Nú ferr sveinninn [til skógarins, ok kemr síð um aptaninn[4] til jarðhúss Sigmundar, ok tekr hann við honum vel [at hófi[5], ok mælti, at hann skyldi gera til brauð þeirra, en ek man sækja[6] eldivið, ok selr í hönd honum einn mjölbelg, en hann ferr sjálfr at sækja viðinn; ok er hann kemr aptr, þá hefir sveinninn ekki atgert um brauðgerðina. Nú spyrr Sigmundr, hvert búit sè brauðit; hann segir: eigi þorða ek at taka mjölbelginn, fyrir því at þar lá nokkut kvikt í mjölinu[7]. Nú þikkist Sigmundr vita, at þessi sveinn mun eigi svâ vel hugaðr, at hann vill hann með sèr hafa. Nú er þau syskin finnast, segir Sigmundr, [at hann þótti ekki manni at nærr[8], þótt sveinninn væri hjá honum; Signý mælti: tak þú hann þá ok drep hann; eigi þarf hann þá

1) *v. í hin.* 2) 13, *hin.* 3) Simba, *B.* 4) *v. í hin.* 5) *v. í hin.* 6) vatn ok, *b. v. G.* 7) *v. í hin.* 8) engu hafa verit nærr, *hin.*

lengr at lifa; ok svâ gerði hann. Nú líðr sjá vetr; [ok einum vetri síðarr[1], þá sendir Signý enn ýngri son sinn á fund Sigmundar, ok þarf þar eigi sögu um at lengja, [ok fór sem samt sè[2], at hann drap þenna svein at ráði Signýar.

7. Þess er nú viðgetit eitthvert sinn, þá er Signý sat í skemmu sinni, at þar kom til hennar ein seiðkona fjölkunnig harla mjök; þá talar Signý við hana: þat vilda ek, segir hún, at við skiptum hömum[3]; hún segir[4]: þú skalt fyrir ráða; ok nú gerir hún svâ af sínum brögðum, at þær skipta litum, ok sezt seiðkonan nú í rúm Signýjar [at ráði hennar[5], ok ferr í rekkju hjá konúngi um kveldit, ok ekki finnr hann at eigi sè Signý hjá honum. Nú er þat frá Signýju at segja, at hún ferr til jarðhúss bróður sins, ok biðr hann veita sèr herbergi um nóttina, því at ek hefi vilzt á skóginum úti, ok veit ek eigi, hvar ek fer. Hann mælti, at hún skyldi þar vera, ok vildi eigi synja henni vistar einni konu, ok þóttist vita, at eigi mundi hún svâ launa honum góðan beina at segja til hans; nú [ferr hún í herbergi til hans[6], ok setjast til matar; honum varð opt litit til hennar, ok lízt konan væn ok fríð. En er þau eru mett, þá segir hann henni, at hann vill at þau hafi eina rekkju um nóttina, en hún brýzt ekki við því, ok leggr hann hana

---

1) síðan, *B*; nokkoru síðarr, *G*. 2) *v. í hin*. 3) litum, *B*, *E*. 4) seiðkonan, *b. v. A*. 5) *v. í hin*. 6) fara þau til herbergis, *G*, *J*, *K*.

hjá sèr 3 nætr samt. Eptir þat ferr hún heim, ok hittir seiðkonuna, [ok bað, at þær skipti aptr litum, ok svâ gerir hún[1]. Ok er framliðu stundir, fæðir Signý sveinbarn, sjá sveinn var Sinfjötli kallaðr; ok er hann vex upp, er hann bæði mikill ok sterkr ok vænn at áliti, ok mjök í ætt Völsúnga, ok er eigi allra 10 vetra, er hún sendir hann í jarðhúsit til Sigmundar. Hún hafði þá raun gert við ena fyrri sonu sína, áðr hún sendi þá til Sigmundar, at hún saumaði at höndum þeim með holdi ok skinni; þeir þoldu illa ok kriktu[2] um; ok svâ gerði hún Sinfjötla; hann brást ekki við; hún fló hann þá af kyrtlinum, svâ at skinnit fylgdi ermunum; hún kvað honum mundu sárt við verða; hann segir: lítit mundi slíkt sárt þikkja Völsúngi. Ok nú kemr sveinninn til Sigmundar; þá bað Sigmundr hann knoða or mjöli þeirra, en hann vill sækja þeim eldivið[3], fær í hönd honum einn belg; síðan ferr hann at viðinum; ok er hann kom aptr, þá hafði Sinfjötli lokit at baka. Þá spurði Sigmundr, ef hann hafi nokkut fundit[4] í mjölinu; eigi er mèr grunlaust[5], sagði hann, at eigi hafi í verit nokkut kykt[6] í mjölinu fyrst er ek tók at knoða, ok hèr hefi ek meðknoðat þat, er í var. Þá mælti Sigmundr, ok hló við: eigi get ek þik hafa mat af þessu brauði í kveld, þvíat þar hefir

---

1) *v. í hin.* 2) *þannig A;* krittu, *B;* krettu, *hin.* 3) eldinn, *J, K.* 4) kvikt, *b. v. J, K.* 5) gruns, *hin.* 6) kvikt, *hin.*

þú knoðat með enn mesta eitrorm. Sigmundr var svâ mikill fyrir sèr, at hann mátti eta eitr svâ at hann skaðaði ekki, en Sinfjötla hlýddi[1] þat, at eitr kæmi utan á hann, en eigi hlýddi honum at eta þat nè drekka.

8. Þat er nú at segja, at Sigmundi þikkir Sinfjötli of úngr til hefnda með sèr, ok vill nú fyrst venja hann með nokkut harðræði; fara nú um sumrum víða um skóga, ok drepa menn til fjár sèr. Sigmundi þikkir hann mjök í ætt Völsúnga, [ok þó hyggr hann, at hann sè son Siggeirs konúngs, ok hyggr hann hafa ilsku feðr síns, en kapp Völsúnga[2], ok ætlar hann eigi mjök frændrækinn[3] mann, því hann minnir opt Sigmund á sína harma[4], ok eggjar mjök[5] at drepa Siggeir konúng. Nú er þat eitthvert sinn, at þeir fara út á skóginn at afla sèr fjár, en þeir finna eitt hús, ok tvâ[6] menn sofandi[7] í húsinu með digrum gullhríngum; þeir hafa orðit fyrir úsköpum, þvíat úlfahamir hèngu yfir húsinu yfir þeim; it tíunda [hvert dægr[8] máttu þeir komast or hömunum; þeir voru konúngasynir. Þeir Sigmundr fóru í hamina ok máttu eigi or komast, ok fylgdi sú náttúra sem áðr var, lètu[9] ok[10] vargsröddu; þeir skildu báðir röddina. Nú leggjast þeir ok á merkr, ok ferr sína leið hverr þeirra; þeir gera þann mála með sèr,

1) þoldi, *hin.* 2) *v. í J, K.* 3) dáðlausan, *hin.* 4) hefnd, *hin.* 5) hann, *hin.* 6) *v. í hin.* 7) sitjandi, *B.* 8) hverja nótt, *J, K.* 9) sæti, *B, C, F, H*; sæn, *E, G.* 10) með, *J, K.*

at þeir skuli tilhætta, þótt 7[1] menn sè, en eigi framarr, en sá láti úlfs rödd, er fyrir úfriði yrði. Bregðum nú eigi af þessu, segir Sigmundr, því-at þú ert úngr ok áræðisfullr, munu menn gott[2] hyggja til at veiða þik. Nú ferr sína leið hvârr þeirra; ok er þeir voru skildir, finnr Sigmundr[3] menn, ok lèt úlfs röddu; ok er Sinfjötli heyrir þat, ferr hann til þegar ok drepr alla; þeir skiljast enn. Ok er Sinfjötli hefir eigi[4] lengi[5] farit um skóginn, finnr hann [11 menn; ferr[6] svâ, at hann drepr þá alla; hann verðr ok[7] lúinn[8], ok ferr undir eina eyk, hvílist þar. [Þá kemr Sigmundr þar ok mælti: því kallaðir þú ekki? Sinfjötli sagði: eigi vilda ek kveðja þik til liðs[9] at drepa 11 menn; Sigmundr hleypr at honum svâ hart, at hann stakar[10] við ok fellr; Sigmundr bítr í barkann framan. Þann dag máttu þeir eigi komast or úlfahömunum. Sigmundr leggr hann nú á bak sèr ok berr heim í skálann, ok sat hann yfir honum, en bað tröll taka úlfhamina. Sigmundr sèr einn dag, hvar hreisikettir 2 voru, ok bítr annar í barkann öðrum, ok rann sá til

1) 8, *hin.* 2) skjótt, *hin.* 3) *v. eitt orð, sem ekki verðr lesið í A.* 4) nú, *hin; v. í B.* 5) lengra, *B, C, H.* 6) *er máð í A, og er tekið úr hinum, en hèr vanta 3 eða 4 orð, sem ekki verða lesin í A.* 7) nú, *hin.* 8) *þetta orð verðr eigi lesið í A, en þykir sem standi:* la . . . 9) *frá merkinu [ er tekið úr hinum, og það, sem ekki verðr lesið í A, svarar hèrum 6 prentuðum línum; þó má lesa þessi einstöku orð* . . . . ok fara . . . . hann mælti til . . . . lið til at drepa 7 menn, en ek em barn at aldri hjá þèr ok kvadda ek eigi liðs. 10) skrikar, *B*; stjakar, *G, J, K.*

skógar, ok hefir eitt blað, ok færir yfir sárit, ok sprettr upp hreisiköttrinn heill. Sigmundr gengr út, ok sèr, hvar hrafn flýgr með blaðit ok færði honum; hann dregr þetta yfir sárit Sinfjötla, en hann sprettr upp [þegar heill[1], sem hann hefði aldrí sárr verit. Eptir þat fara þeir til jarðhúss, ok eru þar, til þess er þeir skyldu fara or úlfhömunum; þá taka þeir þá ok brenna í eldi, ok báðu engum at meini verða; [ok í þeim úsköpum unnu þeir[2] mörg frægðarverk í ríki Siggeirs konúngs. Ok er Sinfjötli er frumvaxti, þá þikkist Sigmundr hafa reynt hann mjök. Nú líðr eigi lángt, áðr Sigmundr vill leita til föðurhefnda, ef svâ vildi takast; ok nú fara þeir í brott frá jarðhúsinu einhvern dag, ok koma at bæ Siggeirs konúngs síð um aptan, ok gánga inní forstofuna þá, er var fyrir höllinni, en þar voru inni ölker, ok leynast þar. Drottníng veit nú, hvar þeir eru, ok vill hitta þá; ok er þau finnast, gera þau þat ráð, at þeir leitaði til föðurhefnda, er náttaði. Þau Signý ok konúngr eigu 2 börn úng at aldri, þau leika sèr á gólfinu at gulli, ok renna því eptir gólfinu hallarinnar ok hlaupa þar eptir; ok einn gullhríngr hrýtr utar í húsit, þar sem þeir Sigmundr eru, en sveinninn hleypr eptir at leita hríngsins. Nú sèr hann, hvar sitja 2 menn miklir ok grimmligir, ok hafa síða hjálma ok hvítar brynjur. Nú hleypr hann í höllina innarr fyrir feðr

1) *v. í hin.* 2) þeir unnu nú, *hin*; úsköpum, *er dauft í A.*

sinn, ok segir honum, hvat hann hefir sèt. Nú grunar konúngr, at vera muni svik við hann. Signý heyrir nú, hvat þeir segja; hún stendr upp, tekr börnin bæði, ok fór utar í forstofuna til þeirra ok mælti, at þeir skyldu þat vita, at þau hefði sagt til þeirra: ok ræð ek ykkr, at þið drepið þau. Sigmundr segir: eigi vil ek drepa börn þín, þótt þau hafi sagt til mín; en Sinfjötli lèt sèr ekki feilast[1], ok bregðr sverði, ok drepr hvârttveggja barnit, ok kastar þeim innarr í höllina fyrir Siggeir konúng. Konúngr stendr nú upp, ok heitr á menn at taka þá menn, er leynst höfðu í forstofunni um kveldit. Nú hlaupa menn utar þángat ok vilja höndla[2] þá, en þeir verja sik vel ok drengiliga, ok þikkist þá sá verst hafa [lengi, er næst er[3]; ok um síðir verða þeir ofrliði bornir ok verða handteknir, ok því næst í bönd reknir ok í fjötra settir, ok sitja þeir þar þá nótt alla. Nú hyggr konúngr at fyrir sèr, hvern dauða hann skal fá þeim, þann er kendi lengst; ok er morginn kom, þá lætr konúngr haug mikinn gera af grjóti ok torfi; ok er þessi haugr er gjörr, þá lèt hann setja hellu mikla í miðjan hauginn, svâ at annar jaðarr hellunnar horfði upp, en annar niðr; hún var svâ mikil, at hún tók tveggjavegna, svâ at eigi mátti komast hjá henni. Nú lætr hann taka þá Sigmund ok Sinfjötla, ok setja í hauginn sínu megin hvern

[1]) bilt við verða, *hin.* [2]) drepa, *J*, *K*; grípa, *hin.* [3]) er þeim er næstr, *hin.*

þeirra, fyrir því, at honum þótti þeim þat verra at vera eigi báðum saman, en þó mátti heyra hvârr til annars. Ok er þeir voru at tyrfa hauginn, þá kemr Signý þar at ok hefir [hálm í fángi sèr[1], ok kastar í hauginn til Sinfjötla, ok biðr þrælana leyna konúnginn þessu; þeir já því, ok er þá lokit aptr hauginum. Ok er nátta tekr, þá mælti Sinfjötli til Sigmundar: ekki ætla ek okkr mat skorta um hríð, hèr hefir drottníngin kastat fleski inní hauginn ok vafit um utan hálmi[2]; ok enn þreifar[3] hann um fleskit, ok finnr at þar var stúngit í sverði Sigmundar, ok kendi at hjöltunum, er myrkt var í hauginum, ok segir Sigmundi; þeir fagna því báðir. Nú skýtr Sinfjötli blóðreflinum fyrir ofan[4] helluna, ok dregr fast; sverðit bítr helluna. Sigmundr tekr nú blóðrefilinn, ok ristu nú í milli sín helluna[5], ok lèttu eigi fyrr, enn lokit er at rista, sem kveðit er:

Ristu af magni[6]
mikla hellu
Sigmundr hjörfi
ok Sinfjötli.

Ok nú eru þeir lausir báðir saman í hauginum, ok rista bæði grjót ok járn, [ok komast svâ út or hauginum[7]. Þeir gánga nú heim til hallarinnar, eru menn þá í svefni allir; þeir

[1]) hjálm í hendi, *B*, *J*. [2]) hjálmi, *B*, *J*. [3]) þrífr, *B*, *G*; hrífr, *J*, *K*. [4]) *v. í hin.* [5]) *v. í J*, *K*. [6]) megni, *hin.* [7]) *v. í hin.*

bera við at höllinni, ok leggja eld í viðinn; en þeir vakna við gufuna, er inni eru, ok þat, at höllin logar yfir þeim. Konúngr spyrr, hverr eldana gerði? Hèr eru við Sinfjötli, systurson minn, sagði Sigmundr, ok ætlum við nú, at þat skulir þú vita, at eigi eru allir Völsúngar dauðir; hann biðr systur sína út at gánga, ok þiggja af honum góð metorð [ok mikinn sóma[1], ok vill svâ bæta henni sína harma. Hún svarar: nú skaltu vita, hvârt ek hefi munat [Siggeiri konúngi[2] dráp Völsúngs konúngs; ek lèt drepa börn okkr, er mèr þóttu of sein til föðurhefnda, ok ek fór í skóg til þín í völvulíki, ok er Sinfjötli okkarr son, [hefir hann af því mikit kapp, at hann er bæði sonarson ok dótturson Völsúngs konúngs[3]; hefi ek þar til unnit alla luti, at Siggeir konúngr skyldi bana fá, hefi ek ok svâ mikit tilunnit at framkœmist hefndin, at mèr er [með aungum kosti[4] líft; skal ek nú deyja með Siggeiri konúngi lostig, er[5] ek átta hann nauðig. Síðan kysti hún Sigmund bróður sinn ok Sinfjötla, ok gekk inní eldinn, ok bað þá vel fara; síðan fèkk hún þar bana með Siggeiri konúngi ok allri hirð sinni. Þeir frændr fá sèr lið ok skipa, ok heldr Sigmundr til ættleifðar sinnar, ok rekr or landi þann konúng, er þar hafði í sezt [eptir Völsúng konúng[6]. Sigmundr gerist nú

---

1) *v. í hin.* 2) *v. í hin.* 3) ok systurson þinn, en dótturson Völsúngs konúngs, *J, K.* 4) eigi lengr, *J, K*; eigi, *hin.* 5) úr því, *J, K.* 6) *v. í hin.*

ríkr[1] konúngr ok ágætr, vitr ok stórráðr; hann átti þá konu, er Borghildr hèt; þau áttu 2 sonu, hèt Helgi annar, en annar Hámundr; ok er Helgi var fæddr, komu til nornir ok veittu honum formála, ok mæltu, at hann skyldi verða allra [konúnga frægastr[2]. Sigmundr var þá kominn frá orrostu, ok gekk með einum lauk ímót syni sínum, ok hèrmeð gefr hann honum Helga nafn ok þetta at nafnfesti: Hríngstaði ok Sólfjöll, ok sverð, ok bað hann vel fremjast[3] ok verða í ætt Völsúngs; hann gerist stórlyndr ok vinsæll, ok fyrir flestum mönnum öðrum at allri atgerfi. Þat er sagt, at hann rèðst[4] í hernað þá er hann var fimtán vetra gamall; var Helgi konúngr yfir liðinu[5], en Sinfjötli var fenginn til með honum, ok rèðu báðir liði.

9. Þat er sagt, at Helgi finnr þann konúng í hernaði, er Hundíngr hèt; hann var ríkr konúngr ok fjölmennr, ok rèð fyrir löndum; þar tekst orrosta með þeim, ok gengr Helgi fast fram, ok lýkst með því sjá bardagi, at Helgi fær sigr, en Hundíngr konúngr fellr ok mikill luti liðs hans. Nú þikkir Helgi hafa vaxit mikit, er hann hefir felt svá ríkan konúng. Synir Hundíngs bjóða[6] nú út her ímót Helga, ok vilja hefna föður síns; þeir eiga harða orrostu, ok gengr Helgi í gegnum fylkíngar þeirra bræðra, ok sækir at merkjum sona Hundíngs konúngs,

1) vitr, *hin.* 2) manna ágjætastr, *J, K.* 3) framast, *J, K.*
4) fór, *hin.* 5) landinu, *hin.* 6) búa, *J, K.*

ok feldi þessa Hundíngs sonu: Álf ok Eyólf, Hervarð[1] ok Hagbarð[2], ok fèkk hèr ágætan sigr. Ok er Helgi fór frá orrostu, þá fann hann [við skóg einn[3] konur margar ok virðuligar sýnum, ok bar þó ein af öllum, þær riðu með ágætligum búníngi. Helgi spyrr þá at nafni, er fyrir þeim var; en hún nefndist Sigrún, ok kveðst vera dóttir Högna konúngs. Helgi mælti: farið heim með oss, ok verið velkomnar! Þá segir konúngs dóttir: annat starf liggr fyrir oss, enn drekka með þèr. Helgi svarar: hvat er þat, konúngsdóttir? Hún svarar: Högni konúngr hefir heitit mik Höddbroddi[4], syni Granmars[5] konúngs, en ek hefi því heitit, at ek vil eigi eiga hann, heldr enn einn krákuúnga; en þó mun þetta framfara, nema þú bannir honum ok komir ímót honum með her, ok nemir mik á brott, þvíat með engum konúngi vildi ek heldr sætr[6] búa, enn með þèr! Ver kát, konúngsdóttir! sagði hann, fyrri skulum við reyna hreysti okkra, enn þú sèrt honum gipt, [ok reyna skulum við áðr, hvârr af öðrum berr[7], ok hèr skal lífit á leggja. Eptir þetta sendir Helgi menn með fègjöfum at stefna at sèr mönnum, ok stefnir öllu liðinu til Rauðabjarga[8]; beið Helgi þar til þess, er mikill flokkr kom til hans or Hèðinsey[9], ok þá

[1]) Hávarð, *hin.* [2]) Hákvarð, *J, K.* [3]) í skógi einum, *hin.* [4]) Hauddbroddi, *F, H*; Hoddbroddi, *A og hin.* [5]) Grannmargs, *J, K.* [6]) sæti, *B.* [7]) *v. í hin.* [8]) Rauðbjarga, *B.* [9]) Hefnisey, *J, K.*

kom til hans mikit lið or Nörfasundum[1] með fögrum skipum ok stórum. Helgi konúngr kallar til sín skipstjórnarmann sinn, er Leifr hèt, ok spurði, ef hann hefði talit lið þeirra; [en hann svarar[2]: eigi er hægt at telja, herra! skip þau, er komin eru or Nörfasundum, eru á 12 þúsundir manna, ok er þó hálfu fleira annat. Þá mælti Helgi konúngr, at þeir skyldu snúa á þann fjörð, er heitir Varinsfjörðr[3], ok svâ gerðu þeir. Nú gerði at þeim storm mikinn ok svâ stóran sjó, (at) því var líkast at heyra, er bylgjur gnúðu[4] á borðunum, sem þá er björgum lysti saman. Helgi bað þá ekki óttast, ok eigi svipta seglunum, heldr setja hvert hærra enn áðr; þá var við sjálft, at yfir mundi gánga, áðr þeir kæmi at landi. Þá kom þar Sigrún, dóttir Högna konúngs, af landi ofan með miklu liði, ok snýr þeim í góða höfn, er heitir at Gnípalundi. Þessi tíðindi sá landsmenn, ok komu af landi ofan. Bróðir[5] Höddbrodds konúngs, er þar rèð fyrir, er heitir at Svarinshaugi[6], hann kallar á þá ok spyrr, hverr stýrði enu mikla liði? Sinfjötli stendr upp, ok hefir hjálm á höfði skygðan sem gler, ok brynju hvíta sem snjó, spjót í hendi með ágætligu merki ok gullrendan skjöld fyrir sèr; sá kunni at mæla við konúnga: seg svâ, at[7] þú hefir[8]

---

1) Naurfasundum, *þannig A*; Njörfasundum, *hin*. 2) *v. í hin*. 3) Warmsfjörðr, *B*; Varnonsfjörðr, *J*, *K*. 4) knúðu, *hin*. 5) bræðr, *hin*. 6) Svarmshaugi, *B*; Svaringshaugi, *J*, *K*. 7) þá, *J*. 8) hafir, *B*, *F*, *H*, *K*.

gefit svínum ok hundum, ok[1] þú finnr konu þína, at hèr eru komnir Völsúngar, [ok man hèr hittast í liðinu[2] Helgi konúngr, ef Höddbroddr vill finna hann, ok er þat hans gaman, at berjast með frama, meðan þú kyssir ambáttir við eld. Granmar svarar: eigi mantu kunna margt virðuligt mæla, ok forn minni at segja, er þú lýgr á höfðíngja, mun hitt sannara, at þú munt lengi hafa fæðst á mörkum úti við vargamat ok drepit bræðr þína, ok er kynligt, er þú þorir at koma í her með góðum mönnum, er margt kalt hræ hefir sogit til blóðs. Sinfjötli svarar: eigi muntu glöggt muna nú, er þú var völvan í Varinsey[3], ok kvaðst vilja mann eiga, ok kaust mik til þess embættis at vera þinn maðr; en síðan vartu valkyrja í Ásgarði, ok var við sjálft, at allir mundu berjast fyrir þínar sakar, ok ek gat við þèr 9 varga á Láganesi[4], ok var ek faðir allra. Granmar svarar: margt kantu ljúga; ek hygg at engis faðir mættir þú vera, síðan þú vart geldr af dætrum jötunsins á Þrasnesi[5], ok ertu stjúpson Siggeirs konúngs, ok látt á mörkum úti með vörgum, ok komu þèr öll úhöpp senn at hendi, þú drapt bræðr þína, ok gerðir þik at illu kunnan. Sinfjötli svarar: hvárt mantu þat, er þú vart merin með hestinum Grana, ok reið ek þèr á skeið á Brávelli[6]; síðan vartu geita-

[1]) er, *F.* [2]) ok mann, er heitir í liðinu, *B*, *C*, *D*, *E*, *F*, *H*, *K*; mann er heitir fyrir liði, *J.* [3]) Varinsey, *C*, *D*, *E*, *F*, *G*, *H*, *J*, *K.* [4]) *J*, *K.* [5]) Þórsnesi, *hin.* [6]) Granvelli, *B.*

sveinn Gölnis[1] jötuns. Granmar segir: fyrri vilda ek [seðja fugla[2] á hræi þínu, enn deila við þik lengr. Þá mælti Helgi konúngr: betra væri ykkr ok meira snjallræði at berjast, enn mæla slíkt, er skömm er at heyra, ok ekki eru Granmars synir vinir mínir, en þó eru þeir harðir menn. Granmar ríðr nú í brott ok til fundar við Höddbrodd konúng, þar sem heita Sólfjöll; hestar þeirra heita Sveipuðr[3] ok Sveg-juðr[4]; þeir mættust í borgarhliði ok segja honum hersögu. Höddbroddr konúngr var í brynju, ok hafði hjálm á höfði; hann spyrr, hverir þar væri: eða hví eru þèr svâ reiðuligir? Granmar segir: hèr eru komnir Völsúngar, ok hafa 12 þúsundir [manna við land, ok 7[5] þúsundir[6] við ey þá, er Sök[7] heitir, en þar sem heitir fyrir Grindum er þó mestr fjöldi, ok hygg ek nú, at Helgi muni nú berjast vilja. Konúngr segir: gerum þá boð um allt vort ríki, ok sækjum ímót þeim; sitì sá engi heima, er berjast vill; sendum orð Hríngs[8] sonum [ok Högna konúngi, ok[9] Álfi enum gamla, þeir eru bardagamenn miklir. Fundust þeir þar, er heitir Frekasteinn, ok tókst þar hörð orrosta. Helgi gengr fram í gegnum fylkíngar; þar varð mikit mannfall. Þá sá þeir skjaldmeyja flokk mikinn, svâ sem í loga

1) Gaulnis, *A*, *F*, *H*; Golnis, *B*, *C*, *G*; Golvers, *J*, *K*. 2) seiða, *B*. 3) Svipuðr, *J*, *K*. 4) Sneggjuðr, *B*; Sveggviðr, *J*, *K*. 5) 8, *C*, *D*, *E*, *F*, *G*, *H*, *J*, *K*. 6) *frá* [ *v. í B*. 7) *þannig F*, *J*, *K*; Sak, *B*; Sok, *A og hin*. 8) Gríms, *B*; Hrýms, *C*, *D*, *E*, *F*, *G*, *H*; Hímnirs, *J*, *K*. 9) Atli, Ingi (Hogna), *b. v. B*.

sæi, þar var Sigrún konúngsdóttir. Helgi konúngr sókti ímót Höddbroddi konúngi, ok fellir hann undir merkjum. Þá mælti Sigrún: haf þökk fyrir þetta þrekvirki! [skiptman[1] nú löndum, er mèr þetta mikill tímadagr, ok muntu fá af þessu veg ok ágæti, er þú hefir svâ ríkan konúng feldan. Þat ríki tók Helgi konúngr ok dvaldist þar lengi, ok fèkk Sigrúnar, ok gerðist frægr konúngr ok ágætr, ok er hann hèr ekki síðan við þessa sögu.

10. Völsúngar fara nú heim, ok hafa enn mikit aukit sitt ágæti. Sinfjötli legst nú í hernað af nýju; hann sèr eina fagra konu, ok girnist mjök at fá hennar; þeirrar konu bað ok bróðir Borghildar, er átti Sigmundr konúngr. Þeir þreyta þetta mál með orrostu, ok fellir Sinfjötli þenna konúng; hann herjar nú víða, ok á margar orrostur ok hefir ávalt sigr, gerist hann manna frægstr ok ágætastr, ok kemr heim um haustit með mörgum skipum ok miklu fè. Hann segir feðr sínum tíðindin, en hann segir drottníngu; hún biðr Sinfjötla fara brott or ríkinu, ok lææzt eigi vilja sjá hann. Sigmundr kveðst eigi láta hann í brott fara, ok býðr at bæta henni með gulli ok miklu fè, þótt hann hefði aungum fyrri bætt mann, kvað engi frama at sakast við konur. Hún mátti þessu eigi á leið koma; hún mælti: þèr skuluð ráða, herra! þat sómir. Hún gerir nú erfi bróður síns með ráði konúngs, býr nú þessa veizlu með enum beztum faungum, ok

[1]) skipta má, *hin.*

bauð þángat mörgu stórmenni. Borghildr bar mönnum drykk; hún kemr fyrir Sinfjötla með miklu horni; hún mælti: drekk nú, stjúpson! Hann tók við ok sá í hornit, ok mælti: gjöróttr[1] er drykkrinn. Sigmundr mælti: fá mèr þá! hann drakk af; drotníngin mælti: hví skulu aðrir menn drekka fyrir þik öl? Hún kom í annat sinn með hornit: drekk[2] nú! ok frúði[3] honum með mörgum orðum; hann tekr við horninu ok mælti: flærðr er drykkrinn. Sigmundr mælti: fá mèr þá! It þriðja sinn kom hún ok bað hann drekka af, ef hann hefði hug Völsunga. Sinfjötli tók við horninu, ok mælti: eitr er í drykknum! Sigmundr svarar: lát grön sía[4], sonr! sagði hann; þá var konúngr drukkinn mjök, ok því sagði hann svâ. Sinfjötli drekkr, ok fellr þegar niðr. Sigmundr rís upp, ok gekk harmr sinn[5] nær bana, ok tók líkit í fáng sèr, ok ferr[6] til skógar, ok kom loks[7] at einum firði; þar sá hann mann á einum báti litlum; sá maðr spyrr, ef hann vildi þiggja at honum far yfir fjörðinn; hann játtar því; skipit var svâ lítit, at þat bar þá eigi, ok var líkit fyrst flutt, en Sigmundr gekk með firðinum. Ok því næst hvarf [Sigmundi skipit ok svâ maðrinn; ok eptir þat snýr[8] Sigmundr heim, rekr nú í brott drotnínguna, ok[9] litlu síðarr [dó hún[10]. Sigmundr

1) gruggóttr, *B*, *J*, *K*. 2) drekkr, *J*, *K*. 3) frýnaði, *J*, *K*. 4) síga, K. 5) sem, *C*, *F*, *H*; þessi, *J*, *K*. 6) bar, *J*, *K*. 7) þar, *B*. 8) *v. í J*, *K*. 9) *v. í J*, *K*. 10) *v. í J*, *K*.

konúngr ræðr nú enn ríki sínu, ok þikkir verit hafa inn mesti kappi ok konúngr í fornum sið[1].

11. Eylimi hefir konúngr heitit, ríkr ok ágætr; dóttir hans hèt Hjördís, allra kvenna vænst ok vitrust; ok þat spyrr Sigmundr konúngr, at hún var við hans æði[2], [eða engi ella[3]. Sigmundr sækir heim Eylima konúng; hann gerir veizlu ímót honum mikla, ef hann hefði eigi herferð þángat; fara nú boð þeirra í milli, at með vinsemd var nú farit, en eigi með herskap; veizla þessi var gjör með hinum beztum faungum ok með miklu fjölmenni. [Sigmundi konúngi var hvervetna sett torg ok annar farargreiði; koma[4] nú til veizlu, ok skipa báðir konúngar eina höll. Þar var ok kominn Lýngi konúngr[5], son [Hundíngs konúngs[6], ok vill hann ok mægjast við Eylima konúng; hann þikkist sjá, at þeir munu eigi[7] hafa eitt erendi, þikkist ok vita, at úfriðar mun af þeim vân, er eigi fær. Nú mælti konúngr við dóttur sína: þú ert vitr kona, en ek hefi þat mælt, at þú skalt þèr mann kjósa; kjós nú um tvâ konúnga, ok er þat mitt ráð hèr um, sem þitt er. Hún svarar: vandt sýnist mèr þetta mál, en þó kýs ek þann konúng, er frægstr er, en þat er Sigmundr konúngr, þótt hann sè mjök aldri orpinn, ok var hún honum gefin, en Lýngi konúngr fór í brott. Sigmundr kvângaðist, ok fèkk Hjördísar; var þar

[1]) sögum, *E.* [2]) geð, *J, K.* [3]) *v. í J, K.* [4]) Sigmundr konúngr kom, *hin.* [5]) Língi konúngs, *B, C, D, E, F, H, J, K.* [6]) *v. í B, C, D, E, F, H, J, K.* [7]) báðir, *B, G; v. í J, K.*

annann dag öðrum betr veitt eða með meira kappi. Eptir þat fór Sigmundr konúngr heim í Húnaland, ok Eylimi konúngr mágr hans við honum, ok gætir nú ríkis síns. En Lýngi konúngr ok bræðr hans safna nú her at sèr, ok fara nú á hendr Sigmundi konúngi, þvíat þeir höfðu jafnan minna lut or málum, þótt þetta biti nú fyrir; vilja þeir nú fyrirkoma kappi Völsúnga; koma nú í Húnaland ok senda Sigmundi konúngi orð, [ok vilja eigi[1] stelast á hann, en þikkjast vita, at hann mun eigi flýja. Sigmundr konúngr kveðst koma mundi til orrostu; hann dró saman her, en Hjördísi var ekit til skógar við eina ambátt, ok mikit fè fór með þeim; hún var þar, meðan þeir börðust. Víkíngar hljópu frá skipum við úvígan her. Sigmundr konúngr ok Eylimi settu upp merki sín, ok var þá blásit í lúðra. Sigmundr konúngr lèt nú við kveða sitt horn, er faðir hans hafði átt, ok eggjar sína menn; hafði Sigmundr lið miklu minna; tekst þar nú hörð orrosta, ok þótt Sigmundr væri gamall, þá barðist hann nú hart, ok var jafnan fremstr sinna manna; hèlzt hvârki við honum skjöldr nè brynja, ok gekk hann jafnan í gegnum lið úvina sinna á þeim degi, ok engi mátti sjá, hversu fara mundi þeirra í millum; margt spjót var þar á lopti ok örvar; en svâ hlífðu honum hans spádísir, at hann varð ekki sárr, ok engi kunni töl, hversu margr maðr fèll fyrir honum; hann hafði báðar hendr blóð-

[1]) at þeir vilja ekki, *J*, *K*.

gar til axlar; ok er orrostan hafði staðit um hríð, þá kom maðr í bardagann með síðan hatt ok heklu blá; hann hafði eitt auga ok geir í hendi; þessi maðr kom ámót Sigmundi konúngi, ok brá upp geirnum fyrir honum; ok er Sigmundr konúngr hjó fast, kom sverðit í geirinn, ok brast í sundr í två luti; síðan snèri mannfallinu, ok var Sigmundi konúngi horfin heill, ok fèll mjök liðit [fyrir honum. Konúngrinn lífði sèr ekki, ok eggjar mjök liðit[1]. Nú er sem mælt, at eigi má við margnum; í þessi orrostu fèll Sigmundr konúngr ok Eylimi konúngr mágr hans í öndverðri fylkíngu, ok mestr luti liðs hans.

12. Lýngi konúngr sækir nú til konúngs bæarins, ok ætlar at taka þar kónúngsdóttur, en þat brást honum; fèkk hann þar hvorki konu nè fè; hann ferr nú yfir landit, ok skipar þar sínum mönnum ríkit, þikkist nú hafa drepit alla ætt Völsúnga, ok ætlar þá eigi munu þurfa at óttast hèðan frá. Hjördís gekk í valinn eptir orrostuna um nóttina, ok kom at þar, sem Sigmundr konúngr lá, ok spyrr, ef hann væri græðandi; en hann svarar: [margr lifnar[2] or litlum vânum, en horfin er mèr heill, svâ at ek vil (eigi) láta græða mik; vill Óðinn ekki, at vèr bregðum sverði, síðan er nú brotnaði; hefi ek háð[3] orrostur, meðan honum líkaði. Hún mælti: einkis þætti mèr ávant, ef þú yrðir græddr, ok hefndir feðr míns. Kon-

[1]) *v. í J, K.* [2]) margr raknar, *B*; at lifna mundi, *J, K.*
[3]) *þannig hin*; haft, *A.*

úngr segir: öðrum er þat ætlat; þú ferr með sveinbarn, ok fæðir þat vel ok vandliga, ok mun sá sveinn ágætr ok fremstr af vorri ætt; varðveit ok vel sverðsbrotin, þar af má gera gott sverð, er heita mun Gramr ok sonr okkarr mun bera, ok þar mörg stórverk með vinna, þau er aldrí munu fyrnast[1], [ok hans nafn mun uppi, meðan veröldin stendr[2]. Un[3] nú við þat[4], en mik mæða sár, ok ek mun nú vitja frænda vârra framgenginna. Hjördís sitr nú yfir honum unst hann deyr, ok þá lýsir af degi. Hún sèr at mörg skip eru komin við land; hún mælti til ambáttarinnar: við skulum skipta klæðum, ok skaltu nefnast nafni mínu, ok segst konúngsdóttir; ok þær gera svâ. Víkingar geta at líta mikit mannfall, ok sjá hvar konurnar fóru til skógar, skilja at stórtíðendum mun gegna, ok hlaupa af skipum; en fyrir þessu liði[5] rèð Álfr, son Hjálpreks[6] konúngs af Danmörk; hann hafði farit [fyrir land[7] fram með her sínum; koma nú í valinn, þar sjá þeir mikit mannfall. Konúngrinn biðr nú at leita at konunum, ok svâ gerðu þeir; hann spyrr, hverjar þær væri, en þat skiptir eigi at líkendum til; ambáttin hefir svör fyrir þeim, ok segir fall Sigmundar konúngs ok Eylima konúngs ok margs annars stórmennis, ok

1) *þannig G*; meðan veröldin stendr, *b. v. A og hin.* 2) *v. í B.* 3) *þannig hin*; uni, *A.* 4) hann, *J, K.* 5) skipum, *B*; skipi, *C, D, E, H, J, K.* 6) Hálfreks, *hin, hèr og framvegis.* 7) um lönd, *J, K.*

svâ hverir gert hafa. Konúngr spurði: hvert þær vissi, hvar fè konúngs væri fólgit; ambáttin svarar: meiri von (er) at vèr vitim, ok vísar til fjárins; ok finna þeir auð mikinn, svâ at eigi þóttust menn sèt hafa jafnmikit samankoma í einn stað, eða fleiri gersimar; bera til skipa[1] Álfs konúngs; Hjördís fylgdi honum, ok svâ ambáttin. Hann ferr nú heim í ríki sitt[2], en lætr, at þar sè fallnir þeir konúngar, er frægstir eru. Konúngr sezt við stjórn, en þær sátu í fyrirrúmi á skipinu; hann á tal við þær, ok leggr virðíng á ræður þeirra. Konúngr kom heim í ríki sitt við miklu fè; Álfr var manna gerfiligastr. Ok er þau hafa skamma stund heima verit, spyrr drotníngin Álf son sinn: hví hefir en fegri[3] kona færri hrínga eða verra búnað, ok virðist mèr, at sú muni æðri, er þèr hafið minna yfir látit. Hann svarar: grunat hefir mik þat, at eigi sè ambáttarmót á henni, ok þá er vèr fundumst, þá tókst henni vel at fagna tignum mönnum, ok hèr til skal gera eina raun. Þat er nú eitt sinn við drykkju, at konúngr sezt á tal við þær ok mælti: hvat hafið þèr at marki[4] [um dægrfar[5], þá er nótt eldir, ef þèr sjáið eigi himintúngl? Hún svarar: þat mark[6] höfum vèr hèr til, at ek var því vön í æsku, at drekka mjök

1) skips, *J*, *K*. 2) með mikit fè, *b. v. J*, *K*. 3) frægri, *hin*. 4) *v. í B*. 5) frúr! um dægr, *G*, *J*, *K*; um dægr, *hin*. 6) *v. í J*, *K*.

í óttu, ok er ek lèt af því, vöknuðu vèr eptir því síðan, ok er þat mitt mark. Konúngr brosti at ok mælti: illa var konúngsdóttir vönd. Hann hittir[1] þá Hjördísi, ok spyrr hana slíks ens sama; hún svarar honum: faðir minn gaf mèr eitt gull lítit við[2] náttúru; þat kólnar[3] [í óttu á fíngri mèr[4], þat er mitt mark hèr um. Konúngr svarar: gnótt var þar gulls, er ambáttir báru, ok munu þèr ærit lengi leynzt hafa fyrir mèr, ok svá munda ek til þín gert hafa, sem við værim eins konúngs börn bæði, þóttú hefðir[5] þetta sagt, ok enn skal gera verðleikum[6] betr við þik, þvíat þú skalt vera mín kona, ok skal ek gjalda mund við þèr, þá er þú hefir barn getit. Hún svarar, ok segir allt it sanna um sitt ráð; er hún þar nú í miklum sóma, ok þikkir hin virðuligasta kona.

13. Þat er nú sagt, at Hjördís fæðir sveinbarn, ok er sveinninn færðr Hjálpreki konúngi. Konúngrinn varð glaðr við, er hann sá þau in hvössu augu, er hann bar í höfði, ok sagði hann aungum mundu líkan verða eða samjafnan, ok var hann vatni ausinn með Sigurðar nafni; frá honum segja allir eitt, at um atferð ok vöxt var engi hans maki. Hann var þar fæddr með Hjálpreki konúngi af mikilli ást; ok þá er nefndir

---

1) frèttir, *hin.* 2) þessari, *b. v. J, K.* 3) klökknar, *G.* 4) við fíngri mèr á nóttu, *hin.* 5) eigi, *b. v. hin.* 6) verðleikinn, *B;* verðleikan, *C, D, E, F, G, H.*

eru allir enir ágætu menn ok konúngar í fornum sögum, þá skal Sigurðr fyrir gánga um afl ok atgerfi, kapp ok hreysti, er hann hefir haft um [hvern mann fram annarra[1] í Norðrálfu heimsins. Sigurðr óx þar upp með Hjálpreki, ok unni hvert barn honum; hann fastnaði Álfi konúngi Hjördísi, ok mælti henni mund. Reginn hèt fóstri Sigurðar, ok var Hreiðmars[2] son; hann kendi honum íþróttir, tabl ok rúnar, ok túngur margar at mæla, sem þá var tíðt konúngasonum, ok marga luti aðra. Eitt sinn spurði Reginn Sigurð, er þeir voru báðir saman, ef hann vissi, hversu mikit fè faðir hans hefði átt, eða hverir þat varðveittu. Sigurðr svarar ok segir, at konúngar varðveittu. Reginn mælti: trúir þú þeim allvel? Sigurðr svarar: þat samir, at þeir varðveiti, [þar til er oss hallkvæmist[3], því at þeir kunnu betr at gæta enn ek. Annat sinn kemr Reginn at máli við Sigurð ok mælti: kynligt er þat, er þú vilt vera hestasveinn konúnga, eða fara sem hlauparar. Sigurðr svarar: eigi er þat, þvíat vèr ráðum öllu með þeim, er oss ok heimilt[4] þat, er vèr viljum hafa. Reginn mælti: bið hann gefa þèr einn hest! Sigurðr svarar: þegar mun[5] þat, er ek vil. Sigurðr hittir nú konúnga; þá mælti konúngr við Sigurð: hvat viltu af oss þiggja? Sigurðr svarar: einn hest viljum

1) fram aðra, *hin.* 2) Hroðmargs, *J, K;* Hroðmars, *B, D, E, F, H.* 3) sem til oss er hugkvæmast, *B;* og er oss þat hagkvæmast, *J, K;* er til oss hagkvæmast, *hin.* 4) *þannig hin;* heimolt, *A.* 5) ek fá, *b. v. hin.*

vèr þiggja oss til skemtanar. Konúngrinn mælti: kjós þèr sjálfr hest ok slíkt, er þú vill hafa af vorri eigu. Annann dag eptir fór Sigurðr til skógar, ok mætir einum gömlum manni með síðu skeggi; sá var honum úkunnigr; hann spyrr, hvert Sigurðr skyldi fara. Hann svarar: hest skyldum vèr kjósa; [ráð um með oss[1] ! Hann mælti: förum ok rekum[2] til árinnar, er Búsiltjörn heitir. Þeir reka hrossin útá djúp árinnar, [ok leggjast[3] at landi, nema einn hestr, hann tók Sigurðr; hann var grár at lit ok úngr at aldri, mikill vexti ok vænn; engi hafði honum á bak komit. Skeggmaðrinn mælti: þessi hestr er kominn frá Sleipni, ok skal hann vandliga uppfæða, því at hann verðr hverjum hesti betri; maðrinn hverfr þá. Sigurðr kallar hestinn Grana, ok hefir sá hestr beztr verit[4]; Óðinn hafði hann[5] hittan. Enn mælti Reginn til Sigurðar: oflítit fè eigu þèr; þat harmar oss, er þèr hlaupið sem þorpara[6] sveinar, en ek veit mikla fèvon at segja þèr, ok er þat meiri vân, at þat sè sómi at sækja ok virðíng, ef þú næðir. Sigurðr spyrr, hvar væri, eða hverr varðveitti. Reginn svarar: sá heitir Fâfnir, er hèr liggr skamt hèðan á brott, þat heitir Gnítaheiðr[7]; ok er þú kemr þar, þá muntu þat mæla: aldrí sáttu meira fè í gulli[8] í einum stað, ok eigi þarftu

[1]) ver í ráðum með mér, *hin.* [2]) hrossin, *b. v. J, K.* [3]) en þau leggjast, *J, K*; ei legst, *hin.* [4]) er, *b. v. hin.* [5]) honum, *hin.* [6]) tókra, *J, K.* [7]) Gnítaheiði, *C.* [8]) eðr gull, *J, K.*

meira, þóttú verðir allra konúnga elztr ok frægstr. Sigurðr svarar: kann ek kyn þessa orms, þótt vèr sèm úngir, ok hefi ek spurt, at engi þorir at koma ámót honum fyrir vaxtar sakir ok ilsku. Reginn svarar: þat er ekki; sá vöxtr er eptir hætti lýngorma[1], ok er gert af miklu meira enn er, ok svâ mundi þótt hafa hinum fyrrum frændum þínum; ok þótt Völsúnga ætt sè at þèr, þá mun þú eigi hafa þeirra skaplyndi, er fyrst eru taldir til alls frama. Sigurðr svarar: vera má at eigi höfum vèr mikit af þeirra kappi eða snild, en eigi berr nauðsyn til at frýja oss, er vèr erum lítt af barnsaldri; eða hví eggjar þú þessa svâ mjök? Reginn svarar: saga er til þess, ok mun ek segja þèr. Sigurðr mælti: lát mik heyra!

14. Þat er upphaf[2] sögu þessar, at Hreiðmar[3] hèt faðir minn, mikill ok auðigr; son hans hèt Fâfnir, en annar hèt Otr[4], ok var ek enn þriði, ok var ek minnstr fyrir mèr um atgerfi ok yfirlát; kunna ek af járni gera, ok af silfri ok gulli ok hverjum lut gerði ek nokkut nýtt. Otr bróðir minn hafði aðra iðn ok náttúru; hann var veiðimaðr mikill ok umfram aðra menn, ok var [í otrs líki[5] um daga, ok var jafnan í ánni, ok bar upp fiska með munni sèr; veiðifaungin færði hann feðr sínum, ok var

---

[1]) sè, *b. v. J, K.* [2]) *þannig hin;* upp, *A.* [3]) Hriðmar, *J, K.*
[4]) *þannig hin;* Otlir *eða* Otr (otrinn), *A hèr og framvegis.*
[5]) jotunsliki, *J, K.*

honum þat mikill styrkr; mjök hefir hann otrs líki á sèr, kom síðan heim, ok át blundandi[1] ok einnsaman, [því at hann mátti eigi sjá á þyrru. Fáfnir var[2] miklu mestr ok grimmastr, ok vildi sitt eitt kalla láta allt þat er var. Einn dvergr heitir Andvari, segir Reginn; hann var jafnan í fossinum, er Andvarafoss heitir, í geddu líki, ok fèkk sèr þar matar, því at þar var fjöldi fiska í þeim fossi. Otr bróðir minn fór jafnan í þenna foss, ok bar upp fiska í munni sèr, ok lagði einn senn á land. Óðinn, Loki ok Hænir fóru leiðar sinnar, ok komu til Andvarafoss. Otr hafði þá tekit einn lax, ok át blundandi[3] á árbakkanum. Loki tók einn stein, ok laust otrinn til bana. Æsir þóttust mjök heppnir af veiði sinni, ok flóu belg af otrinum. Þat kveld kvomu þeir til Hreiðmars ok sýndu honum veiðina; þá tóku vèr þá höndum, ok lögðum á þá gjald ok fjörlausn, at þeir fyldi belginn af gulli ok hyldi hann utan með rauðu gulli. Þá sendu þeir Loka at afla gullsins; hann kom til Ránar, ok fèkk net hennar, fór þá til Andvarafoss, ok kastaði netinu fyrir gedduna, en hún hljóp í netit; þá mælti Loki:

Hvat er þat fiska,
er rennr flóði í?
kannat sèr við[4] víti varast,
höfuð þitt leystu

---

1) blyndandi, *H*; blindandi, *hin*. 2) þriði hèt Fáfnir, hann var, *hin*. 3) *þannig A*, *H*; blindandi, *hin*. 4) með, *J*, *K*.

helju or,
ok finn mèr ljónar[1] loga.

Andvari ek heiti,
Óðinn hèt[2] minn faðir,
margan hefi ek foss of farit;
aumlig [norn
skóp[3] oss í árdaga,
at ek skylda í vatni vaða.

Loki sèr gull þat, er Andvari átti; en er hann hafði framreiðt gullit, þá hafði hann einn hríng (eptir), ok tók Loki hann af honum. Dvergrinn gekk í steininn ok mælti, at hverjum skyldi at bana verða, er þann gullhríng ætti, ok svâ allt gullit. Æsirnir reiddu Hreiðmari fèit, ok tráðu upp otrbelginn, ok settu á fætr; þá skyldu Æsirnir hlaða upp hjá gullinu ok hylja utan; en er þat var gjört, þá gekk Hreiðmar fram, ok sá eitt granahár ok bað hylja. Þá dró Óðinn hrínginn af hendi sèr, Andvaranaut, ok huldi hárit. Þá kvað Loki:

Gull er þèr nú reiðt[4],
en þú gjöld hefir
mikil míns höfuðs;
syni þínum
verðrat sæla sköpuð,
þat er ykkarr beggja bani.

Síðan drap Fâfnir föður sinn, [segir Reginn[5], ok myrði hann, ok náða ek aungu af fènu. Hann

1) líknar, *hin.* 2) heitir, *J, K.* 3) norn skorþir, *B*; nornsköp, *hin.* 4) *þannig hin*; reitt, *A.* 5) Hreiðmar, *hin.*

gerðist svâ illr, at hann lagðist út, ok unni aungum at njóta fjárins nema sèr, ok varð síðan at hinum versta ormi, ok liggr nú á því fè. Síðan fór ek til konúngs, ok gerðumst ek smiðr hans; ok er þessi ræða til minnar sögu, at ek missi[1] föðurarfsins ok bróðurgjaldanna; gullit er síðan kallat otrsgjöld, ok hèr dæmi af tekin. Sigurðr svarar: mikit hefir þú látit, ok stórillir hafa þínir frændr verit. Gjör nú eitt sverð af þínum hagleik, þat er ekki sè jafngott gert, ok ek mega vinna stórverk, ef hugr dugir, ef þú vilt at ek drepi þenna enn mikla dreka. Reginn segir: þat geri ek með trausti, ok muntu mega drepa Fáfni með því sverði.

15. Reginn gerir nú eitt sverð, ok fær í hönd Sigurði. Hann tók við sverðinu ok mælti: þetta er þitt smíði[2], Reginn! ok höggr í steðjann, ok brotnaði sverðit; hann kastar brandinum[3], ok bað hann smíða annat betra. Reginn gerir annat sverðit, ok fær Sigurði; hann leit á; þetta mun þèr líka, en vandt mun yðr at smíða. Sigurðr reynir þetta sverð, ok brýtr sem it fyrra. Þá mælti Sigurðr til Regins: þú munt líkr vera inum fyrrum frændum þínum ok vera útrúr; gekk nú til móður sinnar; hún fagnar honum vel; talast nú við ok drekka. Þá mælti Sigurðr: hvârt höfum vèr rètt tilspurt, at Sigmundr konúngr seldi

[1]) *misti*, *hin.* [2]) sverð, *J*, *K.* [3]) brotunum, *J*, *K.*

yðr sverðit Gram í tveim hlutum[1]? Hún svarar: satt er þat. Sigurðr mælti: fá mèr í hönd! ek vil hafa. Hún kvað hann líkligan til frama, ok fær honum sverðit. Sigurðr hittir nú Reginn, ok bað hann þar gera af sverð eptir efnum. Reginn reiddist, ok gekk til smiðju með sverðs brotin, ok þikkir Sigurðr framgjarn um smíðina. Reginn gerir nú eitt sverð; ok er hann bar or aflinum, sýndist smiðjusveinum sem eldar brynni or eggjunum; biðr nú Sigurð viðtaka sverðinu, ok kveðst eigi kunna sverð at gera, ef þetta bilar. Sigurðr hjó í steðjann ok klauf[2] niðr í fótinn, ok brast eigi nè brotnaði; hann lofaði sverðit mjök, ok fór til árinnar með ullarlagð ok kastar í gegn straumi, ok tók í sundr, er hann brá við sverðinu; gekk Sigurðr þá glaðr heim. Reginn mælti: efna muni þèr heit yðr nú, er ek hefi gert sverðit, ok hitta Fâfni. Sigurðr svarar: efna munum vèr, ok þó annat fyrr, at hefna föður míns. Sigurðr var því ástsælli, sem hann var ellrir af öllu fólki, svâ at hvert barn unni honum hugástum.

16. Grífir[3] hèt maðr ok var móðurbróðir Sigurðar; [en litlu síðarr, enn[4] sverðit var gert, fór hann á fund Grífis[5], því at hann var framvíss ok vissi fyrir örlög manna. Sigurðr leitar

[1]) pörtum, *J*, *K*. [2]) hljóp, *J*, *K*. [3]) Grípir, *F*, *H*; Greifer, *J*, *K*. [4]) en litlu áðr enn, *B*, *C*, *D*, *E*, *F*, *G*, *H*; en er hann vissi at, *J*, *K*. [5]) Sigurðar, Greifir, *J*, *K*.

eptir, hversu gánga man æfi hans; en hann var þó lengi fyrir, ok sagði þó loksins við ákafliga bæn Sigurðar öll forlög hans, eptir því sem eptir gekk síðan. Ok þá er Grífir hafði þessa luti sagða, sem hann beiddi, þá reið hann heim. Ok brátt eptir þat finnast þeir Reginn; þá mælti hann: drep Fáfni, sem þèr hètuð! Sigurðr svarar: gera skal þat, ok þó annat fyrr, at hefna Sigmundar konúngs ok annarra frænda vorra, er þar fèllu í þeirri orrostu.

17. Nú hittir Sigurðr konúnga ok mælti til þeirra: hèr höfum vèr verit um hríð, ok egum vèr yðr ástsemd[1] at launa ok mikla virðíng; en nú viljum vèr or landi fara ok finna Hundíngssonu, ok vildi ek at þeir vissi, at Völsúngar væri eigi allir dauðir; viljum vèr hafa þartil yðarn styrk. Konúngar kváðust allt vilja tilfá, þat er hann beiddist. Er nú búit lið mikit, ok allt vandat sem mest, skip ok allr herbúnaðr, svá at hans ferð væri þá vegligri enn áðr. Sigurðr stýrir dreka þeim, er mestr var ok ágætligastr; segl þeirra voru mjök vöndut ok ítarlig at sjá. Sigla þeir nú góðan byr; ok er fá dægr voru liðin, þá kom á veðr mikit með stormi, en svá var sjárinn, sem í roðru[2] sæi. Eigi bað Sigurðr svipta seglunum þótt rifnuðu, heldr bað hann hærra setja enn áðr. Ok er þeir sigldu framfyrir bergnös nokkura, þá kallaði maðr upp á skipit ok spyrr, hverr fyrir liðinu eigi at ráða. Honum var sagt, at þar var höfðíngi Sigurðr

[1]) ást og sæmd, *J*, *K*. [2]) roðu, *B*; róðum, *J*, *K*.

Sigmundarson, er nú er frægstr úngra manna. Maðrinn svarar: allir segja þar eitt frá honum, at eigi megi konúngasynir jafnast við hann; vildi ek at þèr feldið seglin á nokkuru skipinu, ok tæki þèr við mèr. Þeir spurðu hann at nafni. Hann svarar:

Hnikar hètu mik,
þá er ek Huginn gladdi,
Völsúngr úngi!
ok vegat[1] hafði;
nú máttu kalla
karl af bjargi
Feng [eða Fjölni[2],
far vil ek þiggja.

Þeir viku at landi ok tóku karl á skip sín; þá tók af veðrit, ok fara uns þeir koma at landi í ríki Hundíngssona; þá hvarf Fjölnir. Þeir láta þegar geysa eld ok járn, drepa menn, en brenna bygðina, ok eyða þar sem þeir fara; stökkr[3] fjöldi undan á fund Lýnga konúngs, ok segja, at herr er kominn í landit ok ferr með meira geysíngi, enn dæmi finnast til; kváðu Hundíngssonu eigi lángsýna, þá er þeir sögðust eigi mundu hræðast Völsúnga, en nú stýrir þessum her Sigurðr Sigmundarson. Lýngi konúngr lætr nú fara um allt sitt ríki herboð, vill eigi á flótta leggjast, stefnir til sín öllum þeim mönnum, er honum vilja lið veita; kemr nú ámót Sigurði með allmikinn[4] her, ok bræðr hans með

[1]) vegit, *B*; vogat, *J*, *K*; vægat, *A*. [2]) í Fjalni, *J*, *K*. [3]) strýkr, *hin*. [4]) alskyns, *hin*.

honum; tekst þar in harðasta orrosta með þeim; mátti þar á lopti sjá margt spjót ok örvar margar[1], öxi hart[2] reidda, skjöldu klofna ok brynjur slitnar, hjálma skífða, hausa klofna ok margan mann steypast til jarðar. Ok er orrostan hefir svâ staðit mjök lánga hríð, sækir Sigurðr fram um merkin, ok hefir í hendi sverðit Gram; hann höggr bæði menn ok hesta, ok gengr í gegnum fylkíngar, ok hefir báðar hendr blóðgar til axlar, ok stökk undan fólk, þar sem hann fór, ok hèlzt hvârki við hjálmr nè brynja, ok engi maðr þóttist fyrr sèt hafa þvílíkan mann. Þessi orrosta stóð lengi með miklu mannfalli ok ákafri sókn; ferr þar, sem sjaldnarr kann henda, þá er landherrinn sækir til, at þat kom fyrir ekki[3]; fèll þar svâ margt fyrir Hundíngssonum, at engi maðr vissi töl á. Ok (er) Sigurðr var framarla í fylkíngu, þá koma ámót honum synir Hundíngs konúngs. Sigurðr höggr til Lýnga konúngs, ok klýfr hjálm hans ok höfuð ok brynjaðan búk, ok síðan höggr hann Hjörvarð, bróður hans, sundr í tvâ luti, ok þá drap hann alla Hundíngssonu, er eptir lifðu, ok mestan luta liðs þeirra. Ferr Sigurðr nú heim með fögrum sigri ok miklu fè ok ágæti, er hann hafði fengit í þessi ferð; voru nú veizlur gervar ímót honum heima í ríkinu. Ok er Sigurðr hefir skamma stund heima verit, kemr Reginn at máli við Sigurð ok segir: nú munu þèr vilja steypa hjálminum Fáfnis, svâ sem þèr hètuð, því-

[1]) miklar, *J*, *K*. [2]) hátt, *J*, *K*. [3]) *v. í J*, *K*.

at nú hefir þú hefnt föður þíns ok annarra frænda þinna[1]. Sigurðr svarar: efna munu vèr þat, sem vèr höfum þar um heitit, ok ekki fellr oss þat or minni.

18. Nú ríða þeir Sigurðr ok Reginn uppá heiðina á þann farveg, er Fâfnir var vanr at skríða, [er hann fór til vatns[2], ok þat er sagt, at sá hamarr var þrítugr, er hann lá at vatni, þá er hann drakk. Þá mælti Sigurðr: þat sagðir þú, Reginn! at dreki sjá væri eigi meiri enn einn lýngormr, en mèr sýnast vegar hans æfar miklir; Reginn mælti: gjör gröf eina ok sezt þar í; ok þá er ormrinn skríðr til vatns, legg þá til hjarta honum, ok vinn honum svâ bana, þar fyrir fær þú mikinn frama. Sigurðr mælti: hversu man þá veita, ef ek verð fyrir sveita ormsins? Reginn svarar: eigi má þèr ráð ráða, er þú ert við hvârtvetna hræddr, ok ertu úlíkr þínum frændum at hughreysti. Nú ríðr Sigurðr á heiðina, en Reginn hverfr í brott yfrit hræddr. Sigurðr gerði gröf eina; ok er hann er at þessu verki, kemr at honum einn gamall maðr [með síðu skeggi[3], ok spyrr, hvat hann gerir þar; hann segir; þá svarar inn gamli maðr: þetta er úráð; ger fleiri grafar, ok lát þar í renna sveitann, en þú sit í einni, ok legg til hjartans orminum! Þá hvarf sá maðr á brottu; en Sigurðr gerir grafar eptir því, sem fyrir var lagt. Ok er ormrinn skreið til vatns, varð svâ mikill landskjálfti, svâ at öll

[1]) *þannig hin; sinna, A.* [2]) *v. í. hin.* [3]) *v. í. J, K.*

jörð skalf í nánd; hann fnýsti[1] eitri alla leið fyrir sik fram, ok eigi hræddist Sigurðr nè óttast við þann gný. Ok er ormrinn skreið yfir gröfina, þá leggr Sigurðr sverðinu undir bæxlit vinstra, svâ at við hjöltum nam; þá hleypr Sigurðr upp or gröfinni, ok kippir at sèr sverðinu, ok hefir allar[2] hendr blóðgar upp til axlar. Ok er enn mikli ormr kendi síns banasárs, þá laust hann höfðinu ok sporðinum, svâ at allt brast í sundr, er fyrir varð. Ok er Fâfnir fèkk banasár, spurði hann: hverr ertu, eða hverr er þinn faðir, eða hver er ætt þín, er þú vart svâ djarfr, at þú þorir at bera vopn á mik? Sigurðr svarar: ætt mín er mönnum úkunnig, ek heiti göfugt dýr, ok á ek engan föður nè móður, ok einnsaman hefi ek farit. Fâfnir svarar: ef þú átt engan feðr nè móður, af hverju undri ertu þá alinn? ok þótt þú segir mèr eigi[3] þitt nafn á banadægri mínu, þá veiztu, at þú lýgr nú. Hann svarar: ek heiti Sigurðr, en faðir minn Sigmundr. Fâfnir svarar: hverr eggjaði þik þessa verks, eða hví lèttu ateggjast? hafðir þú eigi frètt þat, hversu allt fólk er hrædt við mik ok við minn ægishjálm? en, fráneygi[4] sveinn! þú áttir feðr snarpan. Sigurðr svarar: til þessa hvatti mik enn harði hugr, ok stoðaði til at gert yrði þessi en sterka hönd ok þetta it snarpa sverð, er nú kendir þú, ok fár er gamall harðr, ef hann er

1) frýsti, *C, D, F, J, K*; freysti, *B, E, G, H.* 2) báðar, *J, K.* 3) *v. i. J, K.* 4) frækr ertu, *B*; frami, *J, K.*

í bernsku blautr[1]. Fâfnir segir: veit ek, ef þú vex upp með frændum þínum, at þú mundir kunna at vega reiðr, en þetta er meiri furða, er einn bandíngi hertekinn skal þorat hafa [at vega[2] at mèr, þvíat [fárr hernuminn er frækn[3] til vígs[4]. Sigurðr mælti: bregðr þú mèr, at ek væra fjarri mínum frændum? en þótt ek væra hernum inn, þá var ek þó eigi heptr, ok þat fanttu, at ek var lauss. Fâfnir svarar: heiptyrði tekr þú hvetvetna því, er ek mæli, en gull þetta mun þèr at bana verða, er ek hefi átt. Sigurðr svarar: hverr vill fè hafa allt til [ens eina dags[5], en eitt sinn skal hverr deyja. Fâfnir mælti: fátt vill þú at mínum dæmum gera, en drukna muntu, ef þú ferr um sjá úvarliga, ok bíð heldr á landi, unst logn er. Sigurðr mælti: seg þú þat, Fâfnir! ef þú ert fróðr mjök: hverjar eru þær nornir, er kjósa mögr frá mæðrum? Fâfnir svarar: margar eru þær (ok) sundrlausar, sumar eru Ása ættar, sumar eru Álfa ættar, sumar eru dætr[6] Dvalins. Sigurðr mælti: hve heitir sá hólmr, er blanda [hjörlægi[7] Surtr[8] ok Æsir saman? Fâfnir svarar: hann heitir Úskaptr. Ok enn mælti Fâfnir: Reginn bróðir minn veldr mínum dauða, ok þat hlæir mik, er hann veldr ok þínum dauða, ok ferr þá sem hann vildi. Enn mælti Fâfnir:

---

1) blauðr, *J. K.* 2) *v. í J, K.* 3) frægir eru fáir, *J, K.* 4) eðr hertekinn skal þorat hafa at eiga at mèr, *b. v. J, K.* 5) endadags, *J, K.* 6) ættar, *hin.* 7) sáralægi, *hin.* 8) *þannig hin*; Surtr, *A.*

ek bar ægishjálm yfir öllu fólki, síðan ek lá á arfi míns bróðurs, ok svâ fnýsta[1] ek eitri alla vega frá mèr í brott, at engi þorði at koma í nánd mèr, ok engi vopn hræddumst ek, ok aldrí fann ek svâ margan mann fyrir mèr, at ek þættumst eigi miklu sterkari, en allir voru hræddir við mik. Sigurðr mælti: sá ægishjálmr, er þú sagðir frá, gefr fám sigr, þvíat hverr sá, er með mörgum kemr, má þat finna eitthvert sinn, at engi er einna hvatastr. Fâfnir svarar: þat ræð ek þèr, at þú takir hest þinn, ok ríðir ábrott sem skjótast, þvíat þat hendir opt, at sá, er banasár fær, hefnir sín sjálfr. Sigurðr segir: þetta eru þín ráð, en annat mun ek gera; ek mun ríða til þíns bóls ok taka þar þat et mikla gull, er frændr þínir hafa átt. Fâfnir svarar: ríða muntu þartil, er þú finnr svâ mikit gull at gert er um þína daga, ok þat sama gull verðr þinn bani ok hvers annars, er þat á. Sigurðr stóð upp, ok mælti: heim munda ek ríða, þótt ek mista þessa ens mikla fjár, ef ek vissa, at ek skylda aldrí deyja, en hverr frækn maðr vill fè ráða allt til ins [eina dags[2]; en þú, Fâfnir! ligg í fjörbrotum, þar er þik Hel hafi; ok þá deyr Fâfnir.

19. Eptir þetta kom Reginn til Sigurðar ok mælti: heill, herra minn! mikinn sigr hefir þú unnit, er þú hefir drepit Fâfni, er engi varð fyrr svâ djarfr, at á hans götu þorði sitja, ok þetta fremðarverk mun uppi, meðan veröldin stendr.

[1]) frýsta, *C. D, E, F. G, J, K.* [2]) endadags, *J. K.*

Nú stendr Reginn ok sèr niðr í jörðina lánga hríð; ok þegar eptir þetta mælti hann af miklum móði: bróður minn hefir þú drepit! ok varla má ek þessa verks saklauss vera. Nú tekr Sigurðr sitt sverð Gram ok þerrir á grasinu, ok mælti til Regins: fjærri gekk þú þá, er ek vann þetta verk, ok ek reynda þetta snarpa sverð með minni hendi ok mínu afli; átta ek við orms megin meðan þú látt í einum lýngrunni, ok vissir þú [eigi, hvårt[1] var himin eða jörð. Reginn svarar: þessi ormr [mætti lengi[2] liggja í sínu bóli, ef eigi hefðir þú notit sverðs þess, er ek gerða þèr minni hendi, ok eigi hefðir (þú) þetta einn[3] unnit ok engi annarra. Sigurðr svarar: þá er menn koma til vígs, þá er manni betra gott hjarta, enn hvast sverð. Þá mælti Reginn við Sigurð af áhyggju mikilli: þú drapt minn bróður, ok varla má ek þessa verks saklauss. Þá skar Sigurðr hjartat or orminum með því sverði, er Riðill hèt. Þá drakk Reginn blóð Fâfnis, ok mælti: veit mèr eina bæn, er þèr er lítit fyrir: gakk til elds með hjartat ok steik, ok gef mèr at eta. Sigurðr fór ok steikti á teini; ok er freyddi or, þá tók hann fíngri sínum á, ok skynjaði, hvårt steikt væri; hann brá fíngrinum í munn sèr; ok er hjartablóð ormsins kom á túngu honum, þá skildi hann fuglarödd; hann

[1]) *þannig hin;* hvårt eð, *A.* [2]) hefði lengi mátt, *hin.* [3]) *þannig B;* enn, *hin.*

heyrði, at [igður klökuðu á hrísinu'[1] hjá honum: þar sitr þú, Sigurðr! ok steikir Fâfnis hjarta; þat skyldi hann sjálfr eta, þá mundi hann verða hverjum manni vitrari. Önnr segir: þar liggr Reginn, ok vill vèla þann, sem honum trúir. Þá mælti en þriðja: höggvi hann þá höfuð af honum, ok má hann þá ráða gullinu [því enu mikla[2] einn. Þá mælti en fjórða: þá væri hann vitrari, ef hann hefði þat, sem þær höfðu ráðit honum, ok ríðr síðan til bóls Fâfnis, ok tæki þat et mikla gull, er þar er, ok riði síðan uppá Hindarfjall, þar sem Brynhildr sefr, ok mun hann nema þar mikla speki, ok þá væri hann vitrr, ef hann hefði yðr ráð, ok hygði hann um sína þyrft, ok þar er mèr úlfsins vân, er ek eyrun sá. Þá mælti en fimta: eigi er hann svâ hoskr, sem ek ætla, ef hann[3] vægir honum, en drepit áðr bróður hans. Þá mælti en sètta: þat væri snjallræði, ef hann dræpi hann, [ok rèði einn fènu[4]. Þá mælti Sigurðr: eigi munu þau úsköp, at Reginn sè minn bani, ok heldr skulu þeir fara báðir bræðr einn veg; bregðr nú sverðinu Gram, ok höggr höfuð af Reginn; ok eptir þetta etr hann suman lut hjartans ormsins, en sumt hirðir hann; hleypr síðan á hest sinn, ok reið eptir slóð Fâfnis ok til hans herbergis, ok fann at þat var opit, ok af járni hurðirnar allar ok þarmeð allr dyra umbúníngrinn, ok af járni allir stokkar

1) ilgjur kvökuðu á húsinu, *J, K.* 2) *v. í J, K.* 3) eigi, *b. v. B.* 4) *v. í hin.*

í húsinu ok grafit í jörð niðr. Sigurðr fann þar stórmikit gull ok sverðit Hrotta, ok þar tók hann ægishjálm ok gullbrynjuna ok marga dýrgripi. Hann fann þar svâ mikit gull, at honum þótti vân, at eigi mundi meira bera 2 hestar eða 3; þat gull tekr hann allt ok berr í 2 kistur miklar, tekr nú í tauma hestinum Grana; hestrinn vill nú, eigi gánga, ok ekki tjár at keira. Sigurðr finnr nú, hvat hestrinn vill, hleypr hann á bak ok lýstr hann sporum, ok rennr sjá hestr sem lauss væri.

20. Sigurðr ríðr nú lángar leiðir, ok allt til þess, er hann kemr uppá Hindarfjall, ok stefndi á leið suðr til Frakklands; á fjallinu sá hann fyrir sèr ljós mikit, sem eldr brynni, ok ljómaði af[1] til himins; en er kom at, stóð þar fyrir honum skjaldborg ok uppá merki. Sigurðr gekk í[2] skjaldborgina, ok sá at þar svaf maðr, ok lá með öllum hervopnum; hann tók fyrst hjálminn af höfði honum, ok sá at þat var kona; hún var í brynju, ok var svâ föst, sem hún væri holdgróin; þá reist hann [ofan or höfuðsmátt ok[3] í gegnum niðr, ok svâ út í gögnum báðar ermar, ok beit sem klæði. Sigurðr kvað hana helzt í lengi sofit hafa. Hún spurði, hvat svâ var máttugt, er beit brynjuna, ok brá mínum svefni: eða man hèr kominn Sigurðr Sigmundarson, er hefir hjálm Fâfnis ok [hans bana[4] í hendi? Þá

[1]) allt, *hin.* [2]) uppá, *hin.* [3]) ofan úr höfði brynjunnar ok *B*; höfði ofan frá, *J, K*; ofan or höfuði smátt, *hin.* [4]) aflbana, *J,K.*

svarar Sigurðr: sá er Völsúnga ættar, er þetta verk hefir gert, ok þat hefi ek spurt, at þú ert ríks konúngs dóttir, ok þat sama hefir oss sagt verit frá yðrum vænleik ok vitru[1], ok þat skulu vèr reyna. Brynhildr segir, at tveir konúngar börðust, hèt annar Hjálmgunnarr; hann var gamall ok hinn mesti hermaðr, ok hafði Óðinn honum sigri heitit; en annar Agnar eða Auðabróðir[2]; ek felda Hjálmgunnar í orrostu, en Óðinn stakk mik svefnþorni í hefnd þess, ok kvað mik aldrí síðan skyldu sigr hafa, ok kvað mik giptast skulu; en ek strengda þess heit þar ímót, at giptast engum þeim, er hræðast kunni. Sigurðr mælti: kenn oss ráð til stórra luta! Hún svarar: þèr munuð betr kunna, en með þökkum (vil ek) kenna yðr, ef þess er nökkut, er vèr kunnum, þat er yðr mætti líka, í rúnum eða öðrum lutum, er liggja til hvers lutar, ok drekkum bæði saman, ok gefi nú goðin okkr góðan dag, at þèr verði [nyt ok frægð[3] at mínum vitrleik ok þú munir eptir, þat er við ræðum. Brynhildr fyldi eitt ker ok færði Sigurði, ok mælti:

Bjór færi ek þèr,
[brynþínga valdr[4]!
magni blandinn
ok meginn týri;
fullr er ljóna[5]
ok líknstafa

[1]) vitrleika, *B.* [2]) Auðbróðir, *hin.* [3]) vitrir, *J, K;* vit, *hin.*
[4]) brynþíngs apaldr, *hin.* [5]) ljóða, *B.*

góðra galdra
ok gamanræðna.

Sigrúnar skaltu kunna,
ef þú vilt [snotr vera[1],
ok rist[2] á hjalti hjörs,
[á vettrúnum
ok á valbystum[3],
ok nefna tvisvar Tý.

Brimrúnar skaltu gera[4],
ef þú vilt borgit hafa
á sundi seglmörum;
á stafni skal þær rista
ok á stjórnarblaði,
ok leggja eld í árfallat[5];
verðrat[6] svâ brattr breki,
nè blárr undir[7],
þó kemst[8] heill af hafi.

Málrúnar skaltu kunna,
ef þú [átt mági[9] þèr
heiptum gjalda harm;
þær[10] um vindr,
þær um vefr,
þær um setr allar saman,
á því þíngi,
er menn[11] skulu
í fulla dóma fara.

---

1) sigr hafa, *B.* 2) rista, *hin.* 3) sumar á vetrimum, sumar á valbustum, *B.* 4) kunna, *B, J, K.* 5) orfal, *B.* árfallit, *J, K.* 6) *v. í A;* erat, *B.* 7) unnir, *hin.* 8) kemr, *B, C, D, E, F, G, H, J, K.* 9) vilt at mági (mángi), *B.* 10) þèr, *sum.* 11) þjóðir, *B.*

Ölrúnar skaltu kunna,
ef þú vilta[1] annars[2] kvenn,
vèli þik eigi[3] trygð, ef þú trúir;
á horni skal þat rista
ok á handarbaki,
ok merkja á nagli Nauð.

Öl[4] skaltu signa
ok við fári sjá,
ok verpa lauk í lög;
þá ek þat veit,
at þèr verðr aldrí
meinblandinn mjöðr.

Bjargrúnar skaltu nema[5],
ef þú [vilt borgit fá[6],
ok leysa kind frá konu;
á lófa skal þær rista,
ok um liðu spenna,
ok biðja[7] dísir duga.

Limrúnar skaltu kunna,
ef þú vilt læknir vera
ok kunna sár at sjá;
á berki skal þær rista,
ok á barri viðar
þess[8], er lúti austr limar.

Hugrúnar skaltu nema[9],
ef þú vilt hverjum vera

---

1) *þannig A. og fleirst;* vilt at, *C.* 2) annast, *B.* 3) *eða:* engi, *A.;* í, *B.* 4) Full, *B.* 5) kunna, *B.* 6) bjarga vill, *B.* 7) þá, *b. v. B.* 8) þeim, *B.* 9) kunna, *B.*

geðhoskari[1] guma[2];
þær of rèð,
þær of reist,
þær of hugði Hroptr[3].

Á skildi voru[4] ristnar,
þeim er stendr fyrir skínanda goði[5],
(á)[6] Alsvinns höfði[7],
ok á því hveli,
er stendr[8] undir reið Rögnis,
á Sleipnis taumum[9]
ok á sleða fjötrum.

Á bjarnarhrammi[10]
ok á Braga[11] túngu,
á úlfsklóm
ok á arnarnefju,
á blóðgum vængjum
ok á brúarsporði,
á lausnarlófa
ok líknarspori.

Á gleri ok á gulli,
ok á [góðu silfri[12],
í víni ok í virtri[13],

1) góðsvinnari (geðsvinnari), *B.* 2) gumna, *B*; geyma, *J*, *K*.
3) af þeim legi, / er lekit hafði / úr hausi Heiðdraupnis / ok or horni Hoddropnis. / Á bjargi stóð / með brímis eggjar, / hafði sèr á höfði hjálm; / þá mælti Mímis höfuð / fróðligt it fyrsta orð, / ok sagði sanna stafi. *b. v. B.*
4) kvað, *B.* 5) goði, *hin.* 6) á eyra Árvakrs ok, *b. v. B.*
7) hófi, *B.* 8) snýst, *B.* 9) tönnum, *B.* 10) hami, *C*, *D*, *E*, *F*, *G*, *H*, *J*, *K.* 11) bragða, *J*, *K.* 12) gumna heillum, *B.*
13) virtu, *C*, *D*, *E*, *F*, *G*, *H*, *J*, *K.*

ok á völu sessi,
[í guma holdi[1],
ok Gaupnis[2] oddi,
ok á gýgjar[3] brjósti,
á nornar nagli
ok á nefi uglu.

Allar voru afskafnar,
þær er á voru ristnar,
ok hræðar[4] við inn helga mjöð,
ok sendar á víða vegu;
þær eru með Álfum,
sumar með Ásum
ok með vísum Vânum,
sumar hafa mennskir menn.

Þat eru bókrúnar,
ok bjargrúnar,
ok allar alrúnar,
ok mærar ok meginrúnar,
hverjum, er þær kná
úviltar, [of viltar[5],
sèr at heillum hafa.
Njóttu, ef þú namt,
uns rjúfa[6] regin!

Nú skaltu kjósa,
alls þèr er kostr of boðinn,
hvassa vopna hlynr!
saung[7] eða þögn

1) *v. í B.* 2) Gugnis (Gúngnis), *B*; Gaufnis, *J*, *K*. 3) Grana, *B*. 4) hverfðar, *B*; hrærðar, *C*; hærðar, *E*. 5) ok óspiltar, *B*. 6) rjúfast, *hin*. 7) sögn, *B*.

haf þú þèr sjálfr ofhug!
öll eru mál[1] of metin.

Sigurðr svarar:

Munkat ek fleyja[2],
þótt mik feigan vitir,
emkat ek bleyði borinn;
ástráð þín vil ek
öll of hafa,
svâ lengi sem ek lifi.

21. Sigurðr mælti: aldrí finst þèr vitrari kona í veröldu, ok kenn enn fleiri spekiráð! Hún svarar: heimilt er þat at gera at yðrum vilja, ok gefa heilræði fyrir yðra eptirleitan ok vitrleik. Þá mælti hún: ver vel við frændr þína, ok hefn lítt mótgerða við þá, ok ber við þol, ok tekr þú þar við lángæligt[3] lof. Sjá við illum lutum, bæði við meyjarást ok manns konu, þar stendr opt íllt af. Verð lítt mishugi við úvitra menn á fjölmennum mótum; þeir mæla opt verra, enn þeir viti, ok ertu þegar bleyðimaðr kallaðr, ok ætlar, at þú sèrt sönnu sagðr; drep hann annars dags, ok gjaldt honum svâ heiptyrði. Ef þú [ferr þann veg, er vondar[4] vættir byggja, ver varr um þik; tak þèr ekki herbergi nær götu, þótt þik nátti, þvíat opt búa þar illar vættir, þær menn villa. Lát eigi tæla þik fagrar konur, þótt þú sjáir[5] at veizlum, svâ at þat standi þèr fyrir svefni, eða þú fáir af því hugarekka;

[1]) meni, *B.* [2]) flýja, *hin* [3]) lánggæðiligt, *hin.* [4]) átt við vondar, *J, K.* [5]) sèrt, *B, J, K.*

teyg þær ekki at þèr með kossum eða annari blíðu; ok ef þú heyrir heimslig orð drukkinna manna, deil eigi við þá, er víndrukknir eru ok tapa viti sínu; slíkir lutir verða mörgum at miklum móttrega eða bana. Berst heldr við úvini þína, enn þú sèr brendr[1]; ok sver eigi rángan eið, þvíat grimm hefnd fylgir griðrofi. Gjör rækiliga við dauða menn, sóttdauða, eða sædauða, eða vopndauða; búðu vandliga um lík þeirra; ok trú[2] ekki þeim, er þú hefir feldan fyrir föður eða bróður, eða annann náfrænda, þótt úngr sè; opt er úlfr í úngum syni. Sjá vandliga við vèlráðum vina þinna; en lítt megu vèr sjá fyrir um yðart líf, en eigi skyldi mága hatr á þik koma. Sigurðr mælti: engi finst þèr vitrari maðr[3]! ok þess sver ek, at þik skal ek eiga, ok þú ert við mitt æði. Hún svarar: þik vil ek helzt eiga, þótt ek kjósa um alla menn; ok þetta bundu þau eiðum með sèr.

22. Nú ríðr Sigurðr á brott; hans skjöldr var svâ margfaldr ok laugaðr í rauðu gulli, ok skrifaðr[4] á einn dreki; hann var dökkbrúnaðr it efra, en fagrrauðr it neðra, ok þann veg var markaðr hans hjálmr ok söðull ok vopnrokkr[5]; hann hafði gullbrynjuna, ok öll hans vopn voru gulli búinn; ok því var dreki markaðr á hans vopnum öllum, at [er hann er sènn[6], má vita, hverr þar

1) blauðr, *B*; brindum, *J*, *K*. 2) *v. í öll, en er tekið úr Eddu.* 3) kona, *B*, *J*, *K*. 4) málaðr, *J*, *K*. 5) vopn, *B*. 6) hverr, er hann sá, *J*, *K*.

ferr, af öllum þeim, er frètt hafa, at hann drap þann mikla dreka, er Væríngar kalla Fâfni; ok fyrir því eru vopn hans öll gulli búin ok brún at lit, at hann er lángt umfram aðra menn at kurteisi ok allri hæversku, ok náliga at öllum lutum; ok þá er taldir eru allir inir stærstu kappar ok hinir ágæztu höfðíngjar, þá mun hann jafnan fremstr taldr, ok hans nafn gengr í öllum túngum fyrir norðan Grikklands haf, ok svâ man vera, meðan veröldin stendr. Hár hans var brúnt at lit ok fagrt at líta, ok fór í stórlokka; skeggit var þykt ok skamt, ok með sama lit; hánefjaðr[1] var hann, ok hafði breiðt andlit ok stórbeinótt; augu hans voru svâ snör, at fárr einn þorði at líta undir hans brún; herðar hans voru svâ miklar, sem tveir menn væri á at sjá. Hans líkami var skapaðr allr við sik á hæð ok digrleik, ok þann veg, sem bezt má sama; ok er þat mark um hans hæð, at þá er hann girði sik sverðinu Gram, en þat var 7 spanna hátt, ok er hann óð rúgakrinn fullvaxinn, þá tók niðr döggskórinn[2] á sverðinu akrinn[3] uppstandanda; ok hans afl [er meira enn vöxtr[4]. Vel kann[5] hann sverði at beita ok spjóti at skjóta, ok skapti at verpa[6] ok skildi at halda, boga at spenna eða hesti at ríða, ok margskonar kurteisi nam hann í æsku. Hann var vitr maðr, svâ

1) hjálmfagr, *J*, *K*. 2) dokkskórinn, *eða:* dökkskórinn, *hin*. 3) á knè, *B*; allmikinn, *J*, *K*. 4) ok vöxtr var mikill, *hin*. 5) kunni, *B*, *J*, *K*. 6) varpa, *hin*.

at hann vissi fyrir úorðna luti; hann skildi fuglsrödd; ok af slíkum lutum komu honum fáir lutir á úvart. Hann var lángtalaðr ok málsnjallr, svâ at ekki tók hann þat erendi at mæla, at hann mundi fyrr hætta, enn svâ sýnist öllum sem enga leið muni eiga at vera nema svâ, sem hann segir; ok þat er hans skemtan, at veita lið sínum mönnum, ok reyna sjálfan sik í stórræðum, ok taka fè af sínum úvinum [ok gefa sínum vinum[1]. Eigi skorti hann hug, ok aldrí varð hann hræddr.

23. Sigurðr ríðr nú, þartil er hann kemr at einum miklum bæ; þar rèð fyrir einn mikill höfðíngi, sá er Heimir hèt; hann átti systur Brynhildar, er Bekkhildr hèt, þvíat hún hafði heima verit ok numit hannurði[2], en Brynhildr fór með hjálm ok brynju, ok gekk á vígum, var hún því kölluð Brynhildr. Heimir ok Bekkhildr áttu einn son, er Alsviðr hèt, manna kurteisastr. Þar lèku menn úti; ok er þeir sjá reið mannsins at bænum, hætta þeir leiknum, ok undrast manninn, þvíat þeir höfðu engan slíkan sèt; gengu ímót honum ok fögnuðu honum vel. Alsviðr býðr honum með sèr at vera, ok af sèr at þiggja slíkt, er hann vill; hann þiggr þat; honum er ok skipat vegliga at þjóna; fjórir menn hófu gullit af hestinum, enn fimti tók við honum. Þar mátti sjá marga góða gripi ok fásèna; var þat at skemtan haft

1) *v. í hin.* 2) handnirðir, *B.*

at sjá brynjur ok hjálma ok stóra hrínga, ok undarliga mikil gullstaup, ok allskonar hervopn. Sigurðr dvelst þar lengi í mikilli sæmd; spyrst nú þetta frægðarverk um öll lönd, er hann hafði drepit þann enn ógrliga dreka. Þeir undu sèr nú vel, ok var hvârr öðrum hollr. Þat höfðu þeir sèr at skemtan, at búa vopn sín, ok [skepta örvar sínar[1], ok beita haukum sínum.

24. Þá var heimkomin til Heimis Brynhildr, fóstra hans; hún sat í einni skemmu við meyjar sínar; hún kunni meira hagleik enn aðrar konur; hún lagði sinn borða með gulli, ok saumaði á þau stórmerki, er Sigurðr hafði gjört: dráp ormsins ok upptöku fjárins, ok dauða Regins. Ok einn dag er frá því sagt, at Sigurðr reið á skóg við hundum sínum ok haukum ok miklu fjölmenni; ok er hann kom heim, fló hans haukr á háfan turn, ok settist við einn glugg. Sigurðr fór eptir haukinum; þá sèr hann eina fagra konu, ok kennir, at þar er Brynhildr; honum þikkir umvert alltsaman fegurð hennar ok þat, er hún gerir, kemr í höllina ok vill aunga skemtan við menn eiga. Þá mælti Alsviðr: hví eru þèr svâ fálátir? þessi skipan þín harmar oss ok þína vini; eða hví máttu eigi gleði halda? haukar þínir hnípa[2] ok svâ hestrinn Grani, ok þessa fáum vèr seint bót. Sigurðr svarar: góðr vinr! heyr hvat ek hugsa! minn haukr fló á einn turn, ok er ek tók hann,

1) skjóta örvum sínum, *hin.* 2) hlaupa, *hin.*

sá ek eina fagra konu; hún sat við einn [gullligan borða, ok las þar á[1] mín liðin ok framkomin verk. Alsviðr svarar: þú hefir sèt Brynhildi Buðladóttur, er mestr skörúngr er. Sigurðr svarar: [þat mun satt vera[2]; eða hversu kom hún hèr? Alsviðr svarar: þess var skamt í milli ok þèr kvomuð. Sigurðr segir: þat vissu vèr fyrir fám dögum; sú kona hefir oss bezt[3] sýnzt í veröldu. Alsviðr mælti: gef ekki gaum at einni konu, þvílíkr maðr; er þat íllt at sýta[4], er maðr fær eigi. Hana skal ek hitta, sagði Sigurðr, ok gefa henni gull, ok ná hennar[5] jafnaðar þokka[6]. Alsviðr svarar: engi fanst sá enn um aldr, er hún ljæði rúms hjá sèr, eða gæfi öl at drekka; hún vill sik í herskap hafa ok allskonar frægð at fremja. Sigurðr mælti: vèr vitum eigi, hvârt hún svarar oss eða eigi, eða ljær oss sess[7] hjá sèr. Ok annann dag eptir gekk Sigurðr til skemmunnar; en Alsviðr stóð hjá skemmunni úti ok skepti örvar sínar. Sigurðr mælti: sit heil frú! eða hversu megi þèr? Hún svarar: vel megu vèr, frændr lifa ok vinir, en [háttúng er í[8], hverja giptu[9] menn bera til síns endadags. Hann sezt hjá henni. Síðan gánga þár inn fjórar konur með stórum borðkerum af gulli ok með enu bezta víni, ok

1) glugga, ok las á einn borða gulligan, *J*, *K*. 2) *v. í hin.* 3) fríðust, *J*, *K*. 4) syrgja, *hin*. 5) gafè ok, *b. v. A.* 6) þökk, *hin*. 7) rúm, *hin*. 8) í hættu hvörri er, *B*. 9) eðr gjæfu, *b. v. B.*

standa fyrir þeim; þá mælti Brynhildr: þetta sæti man fám veitt vera, nema faðir minn komi. Hann svarar: nú er veitt[1] þeim, er oss líkar. Herbergit var tjaldat af inum dýrstum tjöldum, ok þakit klæðum[2] allt gólfit. Sigurðr mælti: nú er þat fram komit, er þèr hètuð oss. Hún svarar: þèr skuluð hèr velkomnir! Síðan reis hún upp ok 4 meyjar með henni, ok gekk fyrir hann með gullker, ok bað hann drekka. Hann rèttir ímóthöndina kerinu, ok tók höndhennar með, ok setti hana hjá sèr; hann tók um háls henni ok kysti hana, ok mælti: engi kona hefir þèr fegri fæðst. Brynhildr mælti: vitrligra[3] ráð er þat[4], at leggja eigi[5] trúnað sinn á konu vald, þvíat þær rjúfa jafnan sín heit. Hann mælti: sá kæmi beztr dagr yfir oss, at vèr mættim njótast. Brynhildr svarar: eigi er þat skipat, at við búim saman, ek em skjaldmær, ok á ek með herkonúngum hjálm, ok þeim man ek at liði verða, ok ekki er mèr leiðt at berjast. Sigurðr svarar: þá frjöumst[6] vèr mest, ef vèr búum saman, ok meira er at þola þann harm, er hèr liggr á, enn hvöss vopn. Brynhildr svarar: ek man kanna lið hermanna, en þú munt eiga Guðrúnu Gjúkadóttur. Sigurðr svarar: ekki tælir mik eins konúngs dóttir, ok

1) unnt, *hin.* 2) *v. í hin.* 3) undarligt, *J*, K. 4) ok eigi vitrligt, *J*, *K.* 5) *v. í J*, *K.* 6) *þannig A*, *máske* frjóumst; frömumst, *hin.*

ekki lær[1] mèr tveggja huga um þetta, ok þess sver ek við guðin, at ek skal þik eiga, eða enga konu ella. Hún mælti slíkt. Sigurðr þakkar henni þessi ummæli, ok gaf henni gullhríng, ok svârðu nú eiða af nýu, ok gengr hann í brott til sinna manna, ok er þar um hríð með miklum blóma.

25. Gjúki hèt konúngr, hann hafði ríki fyrir sunnan Rín. Hann átti þrjá sonu, er svâ hètu: Gunnarr, Högni, Guttormr; Guðrún hèt dóttir hans; hún var frægst mær; báru þau börn mjök af öðrum konúnga börnum um alla atgerfi, bæði um vænleik ok vöxt. Þeir voru jafnan í hernaði, ok unnu mörg ágætisverk. Gjúki átti Grímhildi ena fjölkunngu. Buðli hèt konúngr, hann var ríkari enn Gjúki, ok þó báðir ríkir. Atli hèt bróðir Brynhildar. Atli var grimmr maðr, mikill ok svartr ok þó tíguligr, ok inn mesti hermaðr. Grímhildr var grimmhuguð kona. Ráð Gjúkúnga stóð með miklum blóma, ok mest fyrir sakir barna hans, er mjök voru umfram flesta. Eitt sinn segir Guðrún meyjum sínum, at hún má eigi glöð vera. Ein kona spyrr hana, hvat henni sè at úgleði? Hún svarar: eigi fengum vèr tíma í draumum, [er því harmr í hjarta mèr (of) drauminn, þar er þú frèttir eptir[2]. Hún svarar: seg mèr, ok lát þik eigi hryggja, þvíat jafnan dreymir fyrir veðrum. Guðrún svarar: þetta er ekki veðr[3]; þat

[1]) ljær, *B.* [2]) *v. í hin.* [3]) fyrir veðrum, *hin.*

dreymdi mik, at ek sá einn fagran[1] hauk mèr á hendi; fjaðrar hans voru með gulligum lit. Konan svarar: margir hafa spurt af yðrum vænleik, vizku ok kurteisi; nokkrs konúngs son mun biðja þín. Guðrún svarar: engi hlutr þótti mèr haukinum betri, ok allt mitt fè vilda ek heldr láta enn hann. Konan svarar: sá er þú fær man vera vel menntr, ok muntu unna honum mikit. Guðrún svarar: þat ángrar mik, at ek veit eigi, hverr hann er, ok skulum vèr hitta Brynhildi; hún mun vita. Þær bjuggust með gulli ok mikilli fegurð, ok fóru með meyjum sínum, unst þær komu at höll Brynhildar; sú höll var búin með gulli, ok stóð á einu bergi. Ok er sèn er ferð þeirra, þá er Brynhildi sagt, at margar konur óku at borginni með gyltum vâgnum. Þar man vera Guðrún Gjúkadóttir (segir hún); mik dreymdi um hana í nótt, ok gaungum út ímót henni! [ekki sækja oss fríðari konur heim[2]. Þær gengu út í móti þeim ok fögnuðu vel; þær gengu inní þá ina fögru höll; salrinn var [skrifaðr innan ok mjök[3] silfri búinn; klæði voru breidd undir fætr þeim, ok þjónuðu allir þeim; þær höfðu margskonar leika. Guðrún var fáorð. Brynhildr mælti: hèr[4] megi þèr eigi gleði bella[5]; [ger eigi þat[6]! skemtum oss allar saman, ok ræðum um ríka

[1]) *v. í J, K.* [2]) *v. í hin.* [3]) *v. í hin.* [4]) *eða:* hví, *A.* [5]) *þannig A;* halda, *hin.* [6]) *v. í hin.*

konúnga ok þeirra stórvirki! Gerum þat! segir Guðrún; eða hverja veiztu fremsta[1] konúnga verit hafa? Brynhildr svarar: sonu[2] Haka ok Hagbarð[3]; þeir unnu mörg frægðarverk í hernaði. Guðrún svarar: miklir voru þeir ok ágætir, en þó nam Sigarr[4] systur þeirra, en hefir aðra inni brenda, ok eru þeir seinir at hefna; eða hví nefndir þú eigi bræðr mína, er nú þikkja fremstir menn? Brynhildr segir: [þat er[5] í góðum efnum, en eigi eru þeir enn mjök reyndir, ok veit ek einn mjök af þeim bera; en þat er Sigurðr, son Sigmundar konúngs; hann var þá barn, er hann drap sonu Hundíngs konúngs, ok hefndi föður síns ok Eylima, móðurföður síns. Guðrún mælti: hvat var til merkja um þat? [segir þú hann borinn, þá[6] er faðir hans fèll? Brynhildr svarar: móðir hans gekk í valinn, ok fann Sigmund konúng sáran, ok bauð at binda sár hans, en hann kveðst of gamall síðan at berjast, en bað hana við þat huggast, at hún mundi æztan son ala, [ok var þar spá spaks geta[7]; ok eptir andlát Sigmundar konúngs fór hún með Álfi konúngi, ok var Sigurðr þar uppfæddr í mikilli virðíngu, ok vann hann mörg afreksverk á hverjum degi, ok er hann ágæztr maðr í veröldu. Gudrún mælti: af ást hefir þú frèttum til hans haldit; en af því kom ek

1) frægasta, *hin.* 2) Hermundar, *b. v. D útá síðunni.* 3) Hagbarðs, *B.* 4) Sigurðr, *B.* 5) þeir eru, *J, K.* 6) hún svarar: þá var hann óborinn, *B.* 7) *v. í hin.*

hèr, at segja þèr drauma mína, er mèr fengu mikillar áhyggju. Brynhildr svarar: lát þik eigi slíkt[1] ángra! ver með frændum þínum, erallir vilja þik gleðja. Þat dreymdi mik, sagði Guðrún, at vèr gengum frá skemmu margar saman, ok sám einn mikinn hjört; hann bar lángt af öðrum dýrum, hár hans var af gulli; vèr vildum allar taka dýrit, en ek ein náða; dýrit þótti mèr öllum lutum betra; síðan skauztu dýrit fyrir knjám mèr, var mèr þat svâ mikill harmr, at ek mátta trautt bera; síðan gaftu mèr einn úlfhvelp, sá dreifði mik blóði bræðra minna. Brynhildr svarar: ek mun ráða, sem eptir mun gánga: til ykkar[2] mun koma Sigurðr, sá er ek kaus mèr til manns; Grímhildr gefr honum meinblandinn mjöð, er öllum oss kemr í mikit stríð; hann mantu eiga, ok hann skjótt missa; þú munt eiga Atla konúng; missa muntu bræðra þinna, ok þá mantu [Atla vega[3]. Guðrún svarar: ofrharmr er oss þat, at vita slíkt, ok fara þær nú í brott ok heim til Gjúka konúngs.

26. Sigurðr ríðr nú í brott með þat mikla gull; skiljast þeir nú vinir; hann ríðr Grana með öllum sínum herbúnaði ok farmi. Hann ríðr þartil er hann kom at höll Gjúka konúngs; ríðr nú í borgina, ok þat sèr einn af konúngs mönnum, ok mælti: þat hygg ek at hèr fari

[1]) drauma, *hin.* [2]) okkar, *J*, *K.* [3]) sjálf vilja drepa, *B*; sjálf Atla drepa, *J*, *K.*

einn af goðunum; þessi maðr er allr við gull búinn; hestr hans er miklu meirri enn aðrir hestar, [ok afburðarvænn vopnabúnaðr, hann er lángt um aðra menn fram, en sjálfr berr hann þó mest[1] af öðrum mönnum. Konúngrinn gengr út með hirð sína, ok kvaddi manninn, ok spyrr: hverr ertu, er ríðr í borgina, er engi þorði, nema at leyfi sona minna? Hann svarar: ek heiti Sigurðr, ok em ek son Sigmundar konúngs. Gjúki konúngr mælti: vel skaltu hèr kominn með oss ok þigg hèr slíkt, sem þú vilt! Ok hann gengr inní höllina, ok voru allir lágir hjá honum, ok allir þjónuðu honum, ok var hann þar í miklu yfirlæti. Þeir ríða allir saman Sigurðr ok Gunnarr ok Högni, ok þó er Sigurðr fyrir þeim um alla atgjörfi, ok eru þó allir miklir menn fyrir sèr. Þat finnr Grímhildr, hve mikit Sigurðr ann Brynhildi, ok hve opt hann getr hennar; hugsar fyrir sèr, at þat væri meiri gipta, at hann staðfestist þar ok ætti dóttur Gjúka konúngs, ok sá, at engi mátti við hann jafnast, sá ok, hvert traust at honum var, ok hafði [ofr fjár[2], miklu meira, enn menn vissi dæmi til. Konúngr var við hann sem við sonu sína, en þeir virðu hann framarr enn sik. Eitt kveld, er þeir sátu við drykk, rís drottníng upp, ok gekk fyrir Sigurð ok kvaddi hann, ok mælti: fögnuðr er oss at þinni hèrvist, ok allt gott viljum vèr til

[1]) hann berr sjálfr lángt, *hin.* [2]) prófast, *hin.*

yðar leggja; tak hèr viðhorni ok drekk! Hann tók við ok drakk af. Hún mælti: þinn faðir skal vera Gjúki konúngr, en ek móðir, bræðr þínir Gunnarr ok Högni, ok allir, er eiða vinnið, ok munu þá eigi yðrir jafníngjar fást. Sigurðr tók því vel, ok við þann drykk mundi hann ekki til Brynhildar; hann dvaldist þar um hríð. Ok eitt sinn gekk Grímhildr fyrir Gjúka konúng, ok lagði hendr um háls honum ok mælti: hèr er nú kominn enn mesti kappi, er finnast man í veröldu, væri at honum [mikit traust[1]: gipt honum dóttur þína með miklu fè ok slíku ríki, sem hann vill, ok mætti hann hèr yndi nema! Konúngr svarar: fátíðt er þat, at bjóða fram dætr sínar, en meirri vegr er at bjóða honum, enn aðrir biðl. Ok eitt kveld skenkir Guðrún. Sigurðr sèr at hún er væn kona, ok at öllu en kurteisasta. Fimm[2] misseri var Sigurðr þar, svâ at þeir sátu með frægð ok vingan, ok ræðast konúngar nú við. Gjúki konúngr mælti: margt gott veitir þú oss, Sigurðr! ok mjök[3] hefir þú styrkt vârt ríki. Gunnarr mælti: allt viljum vèr tilvinna, at þèr dvelìzt hèr lengi, bæði ríki ok vora systur með boði[4], en eigi mundi annar fá, þótt bæði. Sigurðr svarar: hafið þökk fyrir yðra sæmð! ok þetta skal þiggja. Þeir sverjast nú í bræðralag, sem þeir sè sambornir bræðr. Nú er gjör ágætlig veizla, ok stóð marga daga; drekkr Sigurðr nú

1) mesti styrkr, *B*; mikill máttr, *hin.* 2) um, *hin.* 3) nú *hin.* 4) loforði, *J*, *K*.

brúðlaup til Guðrúnar; mátti þar sjá margskonar gleði ok skemtan, ok var hvern dag veitt öðrum betr. Þeir fóru nú víða um lönd, ok vinna mörg frægðarverk, drápu marga konúngasonu, ok engir menn gerðu slík afrek sem þeir; fara nú heim með miklu herfángi. Sigurðr gaf Guðrúnu at eta af Fâfnis hjarta, ok síðan var hún miklu grimmari [enn áðr ok vitrari[1]; þeirra son hèt Sigmundr. Ok eitt sinn gekk Grímhildr at Gunnari syni sínum ok mælti: yðart ráð stendr með miklum blóma, fyrir utan einn lut, er þèr eruð kvonlausir; biðlið Brynhildar! þat er göfgast ráð, ok mun Sigurðr ríða með yðr. Gunnarr svarar: víst er hún væn, ok eigi em ek þessa úfúss, ok segir nú feðr sínum ok bræðrum ok Sigurði, ok eru allir fýsandi.

27. Þeir búa nú ferð sína listuliga[2], ríða nú fjöll ok dali til Buðla konúngs, bera upp bónorðit; hann tók því vel, [ef hún vill eigi neita[3], ok segir hana svâ stóra, at þann einn mann mun hún eiga, er hún vill. Þá ríða þeir[4] í Hlymdali[5]. Heimir fagnar þeim vel; segir Gunnarr nú erendin. Heimir kvað hennar kjör vera, hvern hún skal eiga; segir þar sal hennar skamt frá, ok kvaðst þat hyggja, at þann einn mundi hún eiga vilja, er riði eld brennanda, er sleginn er um sal hennar. Þeir finna salinn ok eldinn, ok sjá þar borg gulli bysta[6], ok brann eldr

1) *v. í hin.* 2) listugliga, *hin.* 3) *v. í hin;* e. h. v. e. nita *eða* inta, *A.* 4) heim, *b. v. hin.* 5) Hlyndali. *hin.* 6) lýsta, *hin.*

um utan. Gunnarr reiðGota, en Högni Hölkvi[1]. Gunnarr keirir hestinn at eldinum, en hann hopar. Sigurðr mælti: hví hopar þú, Gunnarr? Hann svarar: eigi vill hestrinn hlaupa þenna eld, ok biðr Sigurð ljá sèr Grana; heimilt er þat, segir Sigurðr. Gunnarr ríðr nú at eldinum, ok vill Grani eigi gánga. [Gunnarr má nú eigi ríða þenna eld[2]; skipta nú litum, [sem Grímhildr kendi þeim[3] Sigurði ok Gunnari. Síðan ríðr Sigurðr, ok hefir Gram í hendi, ok bindr gullspora á fætr sèr. Grani hleypr fram at eldinum, er hann kendi sporans. Nú verðr gnýrr mikill, [er eldrinn tók at æsast, en jörð tók at skjálfa, loginn stóð við himin; þetta þorði engi at gera fyrr, ok var sem hann riði í myrkva; þá lægðist eldrinn, en hann gekk af hestinum inní salinn; svâ er kveðit[4]:

Eldr nam[5] at æsast,
en jörð at skjálfa,
ok hár logi
við himni[6] gnæfa[7];
fárr treystist þar,
fylkis rekka[8],
eld at ríða,
nè yfirstíga.

Sigurðr Grana
sverði keirði;

1) *eða* Holkvi, *A*; Hölkvi, *hin.* 2) *v. í hin.* 3) *v. í hin.* 4) *v. í B, J, K.* 5) *þannig C, D, E, F, G, H*; man, *A*; tók, *B, J, K.* 6) himin, *hin.* 7) gnæfi, *J, K.* 8) verka, *B.*

eldr sloknaði
fyrir öðlíngi;
logi allr lægðist
fyrir lofgjörnum;
bliku reið,
er Reginn átti.

Ok er Sigurðr kom inn um logann, fann hann þar eitt fagrt herbergi, ok þar sat í Brynhildr. Hún spyrr, hverr sá maðr er? En hann nefndist Gunnarr Gjúkason: ertu ok ætluð mín kona með jáyrði feðr þíns, ef ek ríð á þinn vafrloga, ok fóstra þíns með yðru atkvæði. Eigi veit ek gerla, hversu ek skal þessu svara, (segir hún). Sigurðr stóð rèttr á gólfinu, ok studdist á sverðshjöltin, ok mælti til Brynhildar: þèr ímót skal ek gjalda mikinn mund í gulli ok góðum gripum. Hún svarar af áhyggju af sínu sæti, sem álft af báru, ok hefir sverð í hendi ok hjálm á höfði, ok var í brynju: Gunnarr! segir hún, ræð ekki slíkt við mik, nema þú sèrt hverjum manni fremri, ok þá skaltu drepa, er mín hafa beðit, ef þú hefir traust til; ek var í orrostu með Garðakonúngi, ok voru vopn vâr litut í mannablóði, ok þess girnumst vèr enn. Hann svarar: mörg stórvirki hafi þèr unnit, en minnist nú á heit yðr, ef þessi eldr væri riðinn, at þèr mundið með þeim manni gánga, er þetta gerði. Hún finnr nú hèr sönn svör, ok merki [þessa máls[1], stendr upp, ok fagnar honum vel.

[1]) *v. í hin.*

þar dvelst hann þrjár nætr, ok búa eina rekkju. Hann tekr sverðit Gram ok leggr í meðal þeirra bert. Hún spyrr, hví þat sætti? Hann kvað sèr þat skipat, at svâ gerði hann brúðlaup til konu sinnar, eða fengi ella bana. Hann tók þá af henni hrínginn Andvaranaut, [er hann gaf henni[1], en fèkk henni nú annann hríng af Fâfnis arfi. Eptir þetta ríðr hann brott í þann sama eld til sinna fèlaga, ok skipta þeir aptr litum, ok ríða síðan í Lymdali[2], ok segja, hve [farit hafði[3]. Þann sama dag fór Brynhildr [heim til[4] fóstra síns[5], ok segir honum af trúnaði, at til hennar kom einn konúngr, ok reið minn vafrloga, ok kvaðst kominn til ráða við mik, ok nefndist Gunnarr; en ek sagða, at þat mundi Sigurðr einn gera, er ek vann eiða á fjallinu, ok er hann minn[6] frumverr[7]. Heimir kvað nú svâ búit vera mundu. Brynhildr mælti: dóttur okkar Sigurðar, Áslaugu, skal hèr uppfæða með þèr. Fara konúngar nú heim, en Brynhildr fór til feðr síns. Grímhildr fagnar þeim vel, ok þakkar Sigurði sína fylgd; er þar búizt við veizlu, kom þar mikill mannfjöldi; þar kom Buðli konúngr með dóttur sína ok Atli son hans, ok hefir þessi veizla staðit marga daga; [ok er lokit er þessi veizlu[8], minnir Sigurð allra eiða við Brynhildi, ok lætr þó vera kyrt. Brynhildr

1) *v. í hin.* 2) Hlyndali, *hin.* 3) *v. í hin.* 4) heimtir, *hin.* 5) síns, *hin.* 6) nú, *B.* 7) *óljóst í A* fr.. verr), *en eyða fyrir því í C, D, E, F, G, H*; hèðan frá oss, *B*; mann, *J, K.* 8) er þ. v. hafði st. m. d., *hin.*

ok Gunnarr sátu við skemtan, ok drukku gott vín.

28. Þat er einn dag, er þær gengu til árinnar saman[1] at þvâ sèr, þá óð Brynhildr lengra útá ána. Guðrún spyrr: hví þat gegndi? Brynhildr segir: hví skal ek um þetta jafnast við þik, heldr enn um annat? ek hugða at minn faðir væri ríkari enn þinn, ok minn maðr unnit mörg[2] snildarverk[3], ok riði eld brennanda, en þinn bóndi var þræll Hjálpreks konúngs. Guðrún svarar með reiði: þá værir þú vitrari, ef þú þegðir, enn lastaðir[4] mann minn; er þat allra manna mál, at engi hafi slíkr komit í veröldina fyrir hversvetna sakir, ok eigi samir þèr vel at lasta hann, þvíat hann er þinn frumverr, ok drap hann Fâfni, ok reið vafrlogann, er þú hugðir Gunnar konúng, ok hann lá hjá þèr ok tók af hendi þèr hrínginn Andvaranaut, ok máttu nú hèr hann kenna. Brynhildr sèr nú þenna hríng ok kennir; þá fölnar hún, sem hún dauð væri. Brynhildr fór heim, ok mælti ekki orð um kveldit. Ok er Sigurðr kom í rekkju, spyrr Guðrún: hví er Brynhildr svâ úkát? Sigurðr svarar: eigi veit ek glögt, en grunar mik, at vèr munum vita brátt nokkru gerr. Guðrún mælti: hví unir hún eigi auð ok sælu ok allra manna lofi, ok fengit þann mann, sem hún vildi. Sigurðr mælti: hvar var hún þá, er hún sagði þat, at

1) Rínar, *hin.* 2) fleiri, *hin.* 3) frægðarverk, *B*, *J*, *K.*
4) þú þyrðir at lasta, *hin.*

hún þættist enn æzta eiga, eða þann, er hún vildi helzt eiga? Guðrún svarar: ek skal eptir spyrja á morgin, hvern hún vill helzt eiga. Sigurðr svarar: þess let ek þik, ok yðrast muntu, ef þú gerir þat. Ok um morgininn sátu þær í skemmu sinni, ok var Brynhildr hljóð. Þá mælti Guðrún: ver kát, Brynhildr! ángrar þik okkart viðrtal? eða hvat stendr þèr fyrir gamni? Brynhildr svarar: íllt eitt gengr þèr til þessa, ok hefir þú grimt hjarta. Virð eigi svâ, segir Guðrún, ok seg[1] heldr. Brynhildr svarar: spyr þess eina, at bezt sè attú vitir, þat samir ríkum konum, ok er gott góðu at una, er yðr gengr allt at óskum. Guðrún svarar: snemt[2] er því enn at hæla, ok er þetta nokkr sú forspá; hvat reki þèr at oss? vèr gerðum yðr ekki til ángrs! Brynhildr svarar: þess skaltu gjalda, er þú átt Sigurð, ok ek ann þèr eigi hans at njóta, nè gullsins mikla. Guðrún svarar: eigi vissa ek yðr ummæli, ok vel mætti faðir minn sjá ráð fyrir mèr, þóttú værir ekki at hitt. Brynhildr svarar: ekki höfum vèr launmæli haft, ok þó höfum við eiða svarit, ok vissu þèr þat, at þèr vèltuð mik, ok þess skal hefna. Guðrún svarar: þú er betr gefin enn makligt er, ok þinn ofsi man illa sjatna, ok þess munu margir gjalda. Una mundu vèr, segir Brynhildr, ef eigi ættir þú göfgara mann. Guðrún svarar: áttú svâ göfgan mann, at úvíst er, hverr meirri kon-

[1]) þeg, *hin.* [2]) seint, *B.*

úngr er, ok gnótt fjár ok ríkis. Brynhildr svarar: Sigurðr [vâ at[1] Fâfni, ok er þat meira vert, enn allt ríki Gunnars konúngs, svâ sem kveðit er:

Sigurðr vâ at ormi,
en þat síðan mun
engum fyrnast,
meðan öld lifir;
en hlýri þinn
hvârki þorði
eld at ríða,
nè yfirstíga.

Guðrún svarar: Grani rann eigi eldinn undir Gunnari konúngi, en hann þorði at ríða, ok þarf honum eigi hugar at frýja. Brynhildr svarar: dylìmst[2] eigi við, at[3] ek hygg Grímhildi eigi vel. Guðrún svarar: ámæl henni eigi, þvíat hún er til þín, sem til dóttur sinnar. Brynhildr svarar: hún [veldr öllum upphöfum þess böls[4], er oss bítr; hún bar Sigurði grimt öl, svâ at eigi mundi hann [mitt nafn[5]. Guðrún svarar: margt rángt orð mælir þú, ok mikil lýgi er slíkt. Brynhildr svarar: njóti þèr svâ Sigurðar, sem þèr hafið mik eigi svikit, ok er yðart samveldi úmakligt, ok gángi yðr svâ, sem ek hygg! Guðrún svarar: betr mun ek njóta, enn þú mundir vilja, ok engi gat þess, at hann ætti of gott við mik, nè[6] eitt sinn. Brynhildr

1) vann á, *hin.* 2) deilumst, *J, K.* 3) at, *v. í J, K.*
4) er upphaf alls ílls, *B.* 5) mik, *hin.* 6) *v. í J, K.*

svarar: illa mælir þú! ok er af þèr rennr, mantu iðrast, ok hendum eigi heiptyrði. Guðrún segir: þú kastaðir fyrri heiptarorðum á mik; lætr þú nú sem þú munir yfirbæta, en þó býr grimt undir. Leggjum niðr únýtt hjal, segir Brynhildr; ek þagða lengi yfir mínum harmi, þeim er mèr bjó í brjósti, en ek ann þínum bróður at eins, ok tökum annat tal. Guðrún segir: lángt sèr hugr þinn um fram; ok þar af stóð mikill úfagnaðr, er þær gengu á ána, ok hún kendi hrínginn, ok þar af varð þeirra viðræða.

29. Eptir þetta tal legst Brynhildr í rekkju, ok komu þessi tíðendi fyrir Gunnar konúng, at Brynhildr er sjúk; hann hittir hana ok spyrr, hvat henni sè? en hún svarar engu ok liggr sem hún sè dauð. Ok er hann leitar eptir fast, þá svarar hún: hvat gerðir þú af hríng þeim, er ek selda þèr, er Buðli konúngr gaf mèr at efsta skilnaði, er þèr Gjúki konúngr komuð til hans, ok hètuð at herja eða brenna, nema þèr næðið mèr; síðan leiddi hann mik á tal ok spyrr: hvern ek kjöra af þeim, sem komnir voru; en ek buðumst til at verja landit, ok vera höfðíngi yfir þriðjúngi liðs; voru þá tveir kostir fyrir hendi, at ek munda þeim verða atgiptast, sem hann vildi, eða vera án alls fjár ok hans vináttu, kvað þó sína vináttu mèr mundu betr gegna enn reiði; þá hugsaða ek með mèr, hvârt ek skylda (hlýða) hans vilja, eða drepa margan mann; ek þóttumst vanfær til at þreyta við

hann, ok þar kom, at ek hètumst þeim, er riði hestinum Grana með Fâfnis arfi ok riði minn vafrloga, ok dræpi þá menn, er ek kvað á; nú treystist engi at ríða, nema Sigurðr einn; hann reið eldinn, þvíat hann skorti eigi hug til; hann drap orminn ok Reginn, ok 5 konúnga[1], en eigi þú, Gunnarr! er þú fölnaðir sem nár, ok ertu engi konúngr nè kappi; ok þess strengda ek heit heima at feðr míns, at ek munda þeim einum unna, er ágæztr væri alinn, en þat er Sigurðr; nú erum vèr eiðrofa, er vèr egum hann eigi, ok fyrir þetta skal ek ráðandi þíns[2] dauða; ok egum vèr Grímhildi illt at launa, henni finst engi kona huglausari nè verri. Gunnarr svarar, [svâ at fáir heyrðu[3]: mörg flærðarorð hefir þú mælt, ok ertu illúðig kona, er þú ámælir þeirri konu, er mjök er um þik fram, ok eigi yndi hún verr sínu, svâ sem þú gerir, eða kvaldi dauða menn, ok engan myrði hún, ok lifir við lof. Brynhildr svarar: ekki höfum vèr launþíng[4] haft, nè údáðir gert, ok annat er vârt eðli, ok fúsari værim vèr at drepa yðr. Síðan vildi hún drepa Gunnar konúng, en Högni setti hana í fjötra. Gunnarr mælti þá: eigi vil ek at hún búi í fjötrum. Hún svarar: hirð eigi þat, þvíat aldrí sèr þú mik glaða síðan í þinni höll, eða drekka nè tefla nè hugat mæla, nè gulli leggja góð klæði, nè yðr

[1]) aðra, *hin.* [2]) hans, *hin.* [3]) *v. í hin.* [4]) launúng, *J, K.*

ráð gefa; kvað hún sèr þat mestan harm, at hún átti eigi Sigurð. Hún settist upp, ok sló sinn borða svâ at sundr gekk, ok bað svâ lúka[1] skemmudyrum, at lánga leið mætti heyra hennar harmtölur. Nú er harmr mikill, ok heyrir um allan bæinn. Guðrún spyrr skemmumeyjar sínar, hví þær sè svâ úkátar eða hryggar: eða hvat er yðr, eða hví fari þèr sem vitlausir menn, eða hverr gyzki[2] er yðr orðinn? Þá svarar hirðkona ein, er Svafrlöð[3] hèt: þetta er útíma dagr, vâr höll er full af harmi. Þá mælti Guðrún til sinnar vinkonu: stattu upp! vèr höfum lengi sofit[4], vek Brynhildi, gaungum til borða ok verum kátar! Þat geri ek eigi, sagði hún, at vekja hana, nè við hana mæla, ok mörg dægr drakk hún eigi mjöð nè vín, ok hefir hún fengit goða reiði. Þá mælti Guðrún til Gunnars: gakk at hitta hana, segir hún, ok seg oss illa kunna hennar meini. Gunnarr svarar: þat er mèr bannat, at hitta hana, eða hennar fè at skipta; þó ferr Gunnarr at hitta hana, ok leitar marga vega málsenda við hana, ok fær ekki af [um svörin[5]; gengr nú á brott ok hittir Högna, ok biðr hann finna hana; [en hann kveðst vera úfúss, ok ferr þó, ok fèkk ekki af henni; ok er hittr Sigurðr, ok beðinn at finna

[1]) upp, *b. v. B.* [2]) undr, *B.* [3]) Svefneland, *B;* Svafrlauk, *J, K.* [4]) setit, *B.* [5]) af henni svar, *B;* un svarit, *J, K.*

hana; hann svarar engu[1], ok er svâ búit um kveldit. Ok annann dag eptir, er hann kom heim af dýraveiði, hitti hann Guðrúnu ok mælti: þann veg hefir fyrir mik borit, sem þetta muni til mikils koma [hrollr sjá[2], ok mun Brynhildr deyja. Guðrún svarar: herra minn! mikil kynsl[3] fylgja henni; hún hefir nú sofit sjö dægr, svâ at engi þorði at vekja hana. Sigurðr svarar: eigi sefr hún, hún hefir stórræði með höndum við okkr. Þá mælti Guðrún með gráti: þat er mikill harmr, at vita þinn bana; far heldr ok finn hana, ok vit, ef sjatni hennar ofsi, gef henni gull, ok mýk svâ hennar reiði! Sigurðr gekk út ok fann opinn salinn; hann hugði hana sofa, ok brá af henni klæðum, ok mælti: vaki þú Brynhildr! sól skín um allan bæinn, ok er ærit sofit; hritt af þèr harmi ok tak gleði. Hún mælti: hví sætir þinni dirfð, er þú ferr mik at hitta; mèr var engi verri í þessum svikum. Sigurðr spyrr: hví mælir þú eigi við menn[4], eða hvat ángrar þik? Brynhildr svarar: þèr skal ek segja mína reiði. Sigurðr mælti: heilluð[5] ertu, ef þú ætlar grimman minn hug við þik, ok er sá þinn maðr, er þú kaust! Nei, segir hún, eigi reið Gunnarr eldinn til vâr, ok eigi galdt hann mèr at mundi feldan val; ek undruðumst þann mann, er kom í

---

1) hann gjörði svâ, *B.* 2) hjallr sá, *C, D, E, F, G, H; v. í B, J, K.* 3) kynstr, *B.* 4) mik, *B.* 5) *þannig A og hin;* afsinna, *B.*

minn sal, ok þóttumzt ek kenna yðr augu, ok fèkk ek þó eigi víst skilit fyrir þeirri huldu, er á lá á minni hamíngju. Sigurðr segir: ekki erum vèr göfgari menn, enn synir Gjúka; þeir drápu Dana konúng, ok mikinn höfðíngja bróður Buðla konúngs. Brynhildr svarar: margt íllt egum vèr þeim upp at inna, ok minn oss ekki á harma vâra; þú Sigurðr vátt[1] orminn ok reitt eldinn, [ok of mína sök[2], ok voru þat eigi synir Gjúka konúngs. Sigurðr svarar: ekki varð[3] ek þinn maðr, ok vartu[4] mín kona, ok galdt við þèr mund [ágætr konúngr[5]. Brynhildr svarar: eigi sá ek svâ Gunnar, at minn hugr hlæja við honum, ok grimm em ek við hann, þótt ek [hylma yfir[6] fyrir öðrum. Þat er ógrligt, segir Sigurðr, at unna eigi slíkum konúngi; eða hvat ángrar þik mest? mèr sýnist sem hans ást sè þèr gulli betri. Brynhildr svarar: þat er mèr sárast minna harma, at ek fæ eigi því til leiðar komit, at bitrt sverð væri roðit í þínu blóði. Sigurðr svarar: kvíð eigi því! skamt mun at bíða, áðr bitrt sverð man standa í mínu hjarta, ok ekki muntu þèr verra biðja, þvíat þú munt eigi eptir mik lifa, munu ok fáir vorir lífsdagar hèðan ífrá. Brynhildr svarar: eigi standa þín orð af litlu fári, síðan þèr svikuð mik frá öllu yndi, ok ekki hirði ek um lífit. Sig-

1) *þannig A, C, D, E, F, G, H;* vanst, *B, J, K.* 2) *v. í B, J, K.* 3) verð, *B.* 4) ekki, *b. v. J, K.* 5) ágæts konúngs, *hin.* 6) hylli, *B.*

urðr svarar: lif þú! ok unn Gunnari konúngi ok mèr, ok allt mitt fè vil ek til gefa, at þú deyir eigi. Brynhildr svarar: eigi veizt þú gjörla mitt eðli, þú berr af öllum mönnum, en þèr hefir engi kona orðit leiðari enn ek. Sigurðr svarar: annat er sannara: ek unna þèr betr enn mèr, þótt ek yrða fyrir þeim svikum, ok má því nú ekki bregða, þvíat ávalt er ek gáða míns geðs, þá harmaði mik þat, er þú vart eigi mín kona; en af mèr bar ek sem ek mátta, þat er ek var í konúngshöll, ok unda ek því þó, at vèr vorum öll saman; kann ok verða, at fram verði at koma þat, sem fyrir er spáð, ok ekki skal því kvíða. Brynhildr svarar: [of seinatt[1] hefr þú at segja, at þik ángrar minn harmr, en nú fám vèr enga líkn. Sigurðr svarar: gjarna vilda ek at við stígim á einn beð bæði, ok værir þú mín kona. Brynhildr svarar: ekki er slíkt at mæla, ok eigi mun ek eiga 2 konúnga í einni höll, ok fyrr skal ek líf láta, enn ek svíkja Gunnar konúng, ok minnist nú á þat, er [þau fundust[2] á fjallinu ok sórust[3] eiða: en nú er því öllu brugðit, ok vil ek eigi lifa. Eigi munda ek þitt nafn, sagði Sigurðr, ok eigi kenda ek þik, fyrr enn þú vart gipt, ok er þetta enn mesti harmr. Þá mælti Brynhildr: ek vann eið, at eiga þann mann, er riði minn vafrloga, en þann eið vilda ek halda, eða deyja ella. Heldr enn

1) *þannig, A*; af smán, *B*; ofsmátt, *hin.* 2) við töluðum, *B.* 3) sórum, *B.*

þú deyir vil ek þik eiga, en fyrirláta Guðrúnu, segir Sigurðr; en svâ þrútnuðu hans síður, at í sundr gengu brynjuhríngar. Eigi vil ek þik, sagði Brynhildr, ok aungan annarra. Sigurðr gekk í brott; svâ segir í Sigurðar kviðu:

Út gekk Sigurðr,
annspjalli frá,
hollvinr[1] lofða,
ok hnípaði[2],
svâ at gánga nam
gunnarfúsum,
sundr of síður
serkr járnofinn.

Ok er Sigurðr kom í höllina, spyrr Gunnarr, hvârt hann viti, hverr meintregi[3] henni væri, eða hvârt hún hefir mál sitt? Sigurðr kvað hana mæla mega. Ok nú ferr Gunnarr at hitta hana í annat sinn, ok spyrr, hve gegndi hennar meini, eða hvârt nokkr bót mundi til liggja. Ek vil eigi lifa, sagði Brynhildr, þvíat Sigurðr hefir mik vèlt, ok eigi síðr þik, þá er þú lèzt hann fara í mína sæng; nú vil ek eigi 2 menn eiga senn í einni höll, ok þetta skal vera bani Sigurðar, eða þinn, eða minn, þvíat hann hefir þat allt sagt Guðrúnu, en hún brígslar mèr.

30. Eptir þetta gekk Brynhildr út, ok sezt undir skemmuvegg sinn, ok hafði margar harmtölur, kvað sèr allt leiðt bæði[4] land ok

---

1) í höll *B*; í höllum, *J*, ; höllinnr, *rángt lesið*, *hin.*
2) hnipnaði, *B.* 3) máltregi, *B.* 4) leiðr, *b. v. hin.*

ríki, er hún átti (eigi) Sigurð; ok enn kom Gunnarr til hennar. Þá mælti Brynhildr: Þú skalt láta bæði ríkit ok fèit, lífit ok mik, ok skal ek fara heim til frænda minna, ok sitja þar hrygg, nema þú drepir Sigurð ok son hans; al eigi upp úlfhvelpinn! Gunnarr varð nú mjök hugsjúkr, ok þóttist eigi vita, hvat heilla lá til alls; hann var í eiðum við Sigurð, ok lèk ýmist í hug, þótti þat þó mest svívirðíng, ef konan gengi frá honum. Gunnarr mælti: Brynhildr er mèr öllu betri, ok fegrst er hún allra kvenna, ok fyrr skal ek líf láta, enn týna hennar ást; ok kallar til sín Högna, bróður sinn, ok mælti: fyrir mik er komit vannmæli mikit; segir, at hann vill drepa Sigurð, kvað hann hafa vèlt sik í trygð: ráðum við þá gullinu ok öllu ríkinu. Högni segir: ekki samir okkr særin at rjúfa með úfriði, er oss ok mikit traust at honum, eru engir konúngar oss jafnir, ef sjá inn Hýnski konúngr lifir, ok slíkan mág fám vèr aldrí, ok hygg at, hversu gott væri, ef vèr ættim slíkan mág ok systursonu[1], ok sè ek, hversu þetta stendst af, þat hefir Brynhildr vakit, ok hennar ráð koma oss í mikla svívirðíng ok skaða. [Gunnarr svarar: þetta skal framfara, ok sè ek ráðit: eggjum til Guttorm, bróður okkarn, hann er úngr ok fás vitandi, ok fyrir utan alla eiða. Högni segir: þat ráð lízt mèr illa sett, ok þótt framkomi, þá munu vèr gjöld fyrir taka, at

[1]) systurson, *J, K.*

svíkja slíkan mann[1]. Gunnarr segir Sigurð deyja skulu, eða man ek deyja ella; hann biðr Brynhildi uppstanda ok vera káta; hún stóð upp, ok segir þó, at Gunnarr mun eigi koma fyrr í sama rekkju henni, enn þetta er fram komit. Nú ræðast þeir við bræðr. Gunnarr segir, at þetta er gild banasök, at hafa tekit meydóm Brynhildar: ok eggjum Guttorm at gera þetta verk; ok kalla hann til sín, ok bjóða honum gull ok mikit ríki, ok vinna þetta til. Þeir tóku orm einn, ok af vargsholdi, ok lètu sjóða, ok gáfu honum at eta, sem skáldit kvað:

Svipir[2] viðfiska[3]
tóku, sumir[4]
vitnishræ skífðu,
sumir[5] Guttormi
gáfu gerahold
við munngáti,
ok marga luti
aðra í týfrum[6]

Ok við þessa fæðslu varð hann svâ æfr ok ágjarn, ok allt saman, ok fortölur Grímhildar[7], at hann hèt at gera þetta verk; þeir hètu honum ok mikilli sæmd í móti. Sigurðr vissi eigi vân þessara vèlræða, mátti hann ok eigi við sköpum vinna, nè sínu aldrlagi; Sigurðr vissi sik ok eigi vèla verðan frá þeim. Guttormr gekk inn

---

1) *v. í B.* 2) sviðu, *B*; sviþir, *C, D, E, F, G, H*; sviðit *J, K.* 3) fiskviðar, *B.* 4) *v. í B.* 5) gull, *B, J, K.* 6) dýfðo, *B*; týfrum, *hin.* 7) *þannig A*; Brynhildar, *hin.*

at Sigurði eptir um morgininn, er hann hvíldi í rekkju sinni; ok er hann leit við honum, þorði Guttormr eigi at veita honum tilræði, ok hvarf út aptr, ok svâ ferr í annat sinn; augu Sigurðar voru svâ snör, at fárr einn þorði gegn at sjá; ok et þriðja sinn gekk hann inn, ok var Sigurðr þá sofnaðr. Guttormr brá sverði, ok leggr á Sigurð, svâ at bloðrefillinn stóð í dýnum undir honum. Sigurðr vaknar við sárit, en Guttormr gekk út til dyranna; þá tók Sigurðr sverðit Gram, ok kastar eptir honum, ok kom á bakit ok tók í sundr í miðju, fèll annann veg fótalutr, en annann höfuð ok hendrnar aptr í skemmuna. Guðrún var sofnuð í faðmi Sigurðar, en vaknaði við óumræðiligan harm, er hún flaut í hans blóði, ok svâ kveinaði hún með grát ok harmtölur, at Sigurðr reis upp við hægendit ok mælti: grát eigi! sagði hann; þínir bræðr lifa þèr til gamans, en [þess til[1] úngan son á ek, er kann eigi at varast fjandr sína, ok illa hafa þeir fyrir sínum lut sèt; ekki fá þeir sèr ríkara[2] mág at ríða í her með sèr, nè systurson, ef sjá næði at vaxa; ok nú er þat fram komit, er fyrir laungu var spáð, ok vèr höfum dulizt við, en engi má við sköpum vinna; en þessu veldr Brynhildr, er mèr ann um hvern mann fram, ok þess má ek sverja, at Gunnari gerða ek aldrí mein, ok þyrmða ek okkrum eiðum, ok eigi var ek ofmikill vinr hans konu; ok ef ek hefða vitat þetta

1) *v. í hin.* 2) *þannig leiðrett;* líkara, *rángt, öll.*

fyrir, ok stiga ek á mína fætr með mín vopn, þá skyldu margir týna sínu lífi, áðr enn ek fèlla, ok allir þeir bræðr drepnir, ok torveldra mundi þeim at drepa mik, enn enn mesta vísund[1] eða villigölt; konúngr lèt nú líf sitt. En Guðrún blæs mæðiliga öndinni; þat heyrði Brynhildr ok hló, er hún heyrði hennar andvarp. Þá mælti Gunnarr: eigi hlær þú af því, at þèr sè glaðt um hjartarætr, eða hví hafnar þú þínum lit? ok [mikit forat[2] ertu, [ok meiri vân, at þú sèr[3] feig, ok engi væri makligri til at sjá Atla konúng drepinn fyrir augum þèr, ok ættir þú þar yfir at standa; nú verðum vèr at sitja[4] yfir mági vorum ok bróðurbana. Hún svarar: engi frýr, at eigi sè fullvegit, en Atli konúngr hirðir ekki um hót yðr eða reiði, ok hann mun yðr lengr lifa, ok hafa meira vald. Högni mælti: nú er fram komit þat, er Brynhildr spáði, ok þetta et illa verk, er vèr fám aldrí bætt. Guðrún mælti: frændr mínir hafa drepit minn mann! nú munu þèr ríða í her fyrst, ok er þèr komið til bardaga, þá munu þèr finna, at Sigurðr er eigi á aðra hönd yðr ok munu þèr þá sjá, at Sigurðr var yðar[5] gæfa ok styrkr, ok ef hann ætti sèr slíka sonu, þá mætti þèr styrkjast við hans afkvæmi ok sína frændr.

31. Nú þóttist engi kunna at sèr[6] at Brynhildr

---

1) víghund, *hin.* 2) *v. i hin.* 3) *v. i hin.* 4) *þannig öll; máske sýta.* 5) *þannig B, J, K;* þeirra, *hin.* 6) sjá, *hin.*

beiddi þess hlæjandi, eð[1] hún harmaði með gráti. Þá mælti hún: þat dreymdi mik, Gunnarr! at ek átta kalda sæng, en þú ríðr í hendr úvinum þínum, ok öll ætt yðr man illa fara, er þèr eruð eiðrofa, ok mundir þú þat úglögt[2], er þið blönduðuð blóði saman Sigurðr ok þú, er þú rètt[3] hann, ok hefir þú honum allt illu launat þat, er hann gerði vel til þín, ok lèt þik fremstan vera, ok þá [reyndi þat, er[4] hann kom til vor, hve hann hèldt sína eiða, at hann lagði okkar í milli it snarpeggjaða sverð, þat er eitri var hert; ok snemma rèðu þèr til saka við hann ok við mik, þá er ek var heima með feðr mínum, ok hafða ek allt þat, er ek vilda, ok ætlaða ek engan yðarn minn skyldu verða, þá er þèr riðuð þar at garði þrír konúngar; síðan leiddi Atli mik á tal, ok spyrr, ef ek vilda þann eiga, er riði Grana, sá var yðr ekki líkr, ok þá hètumst ek syni Sigmundar konúngs ok engum öðrum, ok eigi mun yðr farast[5] þótt ek deyja. Þá reis Gunnarr upp, ok lagði hendr um háls henni, ok bað at hún skyldi lifa ok þiggja fè, ok allir aðrir löttu hana at deyja; en hún hratt hverjum frá sèr, er at henni kom, ok kvað ekki tjóa mundu at letja hana þess, er hún ætlaði. Síðan hèt Gunnarr á Högna, ok spyrr hann ráða, ok bað hann til fara, ok vita, ef hann fengi mýkt skaplyndi hennar, ok

---

[1]) eðr, *B*, *G*, *J*, *K*. [2]) ok lángt er eigi síðan, *J*, *K*. [3]) *þannig A og fleirst;* lèzt drepa hann, *B*. [4]) *v. í B*, *J*, *K*. [5]) *þannig öll; máske* farnast.

kvað nú ærna þörf vera á höndum, ef sefast mætti hennar harmr, þartil er fráliði. Högni svarar: letì engi maðr hana at deyja, þvíat hún verðr oss aldrí at gagni, ok aungum manni, síðan hún kom híngat. Nú bað hún taka mikit gull, ok bað þar koma alla þá, er fè vildu þiggja; síðan tók hún eitt sverð, ok lagði undir hönd sèr, ok hneig upp við dýnur, ok mælti: taki hèr nú gull hverr, er þiggja vill! Allir þögðu. Brynhildr mælti: þiggið gullit, ok njótið vel! Enn mælti Brynhildr til Gunnars: nú man ek segja þèr litla stund þat, er eptir mun gánga: sættast munu þið Guðrún brátt með ráðum Grímhildar ennar fjölkunngu; dóttir Guðrúnar ok Sigurðar man heita Svanhildr, er vænst man fædd allra kvenna; (verðr) Guðrún gefin Atla at sínum úvilja[1]; Oddrúnu mantu vilja eiga, en Atli mun þat banna; þá munu þið eiga launfundi, ok mun hún þèr unna; Atli man þik svíkja ok í ormgarð setja, ok síðan [man Atli drepinn ok synir hans; Guðrún man þá drepa; síðan[2] munu hana stórar bárur bera til borgar Jónakrs konúngs; þar man hún fæða ágæta sonu; Svanhildr mun or landi[3] send, ok gift Jórmunnreki konúngi; hana munu bíta Bikka ráð; ok þá er farin öll ætt yðr, ok eru Guðrúnar harmar at meiri. Nú bið ek þik Gunnarr! efstu bænar: lát gera eitt bál mikit á slèttum velli öllum

[1]) vilja, *B.* [2]) *v. í B.* [3]) haugi, B.

oss, mèr ok Sigurði, ok þeim, sem drepnir voru með honum; lát þar tjalda yfir af rauðu mannablóði, ok brenna mèr þar á aðra hönd þenna enn Hýnska konúng, en á aðra hönd honum mína menn, 2 at höfði, 2 at fótum, ok 2 hauka, þá er at jafnaði skipt; látið þar á milli okkar brugðit sverð, sem fyrr, er við stigum á einu beð, ok heitum þá hjón[1], ok eigi fellr honum þá hurð á hæla, ef ek fylgi honum, ok er vâr leiðsla þá ekki aumlig, ef honum fylgja 5 ambáttir ok 8 þjónar, er faðir minn gaf mèr, ok þar brenna ok þeir, er drepnir voru með Sigurði; ok fleira munda ek mæla, ef ek væra eigi sár, en nú þýtr öndin, en sárit opnast, ok sagða ek þó satt. Nú er búit um lík Sigurðar at fornum sið, ok gert mikit bál; ok er þat er mjök í[2] kyndt, þá var þar lagt á ofan lík Sigurðar Fâfnisbana, ok sonar hans 3 vetrs, er Brynhildr lèt drepa, ok Guttorms. Ok er bálit var allt loganda, gekk Brynhildr þará út, ok mælti við skemmumeyjar[3] sínar, at þær tæki gull þat, er hún vildi gefa þeim; ok eptir þetta deyr Brynhildr ok brann þar með Sigurði, ok lauk svâ þeirra æfi.

32. Nú segir þat hverr, er þessi tíðendi heyrir, at engi maðr mun þvílíkr eptir í veröldunni, ok aldrí man síðan borinn slíkr maðr, sem Sigurðr var, fyrir hversvetna sakar, ok

---

1) *þannig hin;* hjóna, *A.* 2) *v. í B, C, J, K.* 3) þjónustuþernur, *J, K.*

hans nafn man aldrí fyrnast í þýverskri[1] túngu ok á Norðrlöndum, meðan heimrinn stendr. Þat er sagt, einhvern dag, þá er Guðrún sat í skemmu sinni, þá mælti hún: betra var þá vårt líf, er ek átta Sigurð; svå bar hann af öllum mönnum, sem [gull af járni[2], eða laukr af öðrum grösum, eða hjörtr af öðrum dýrum, uns bræðr mínir fyrirmundu mèr slíks manns, er öllum[3] var fremri, eigi máttu þeir sofa, áðr þeir drápu hann; mikinn gný gerði Grani, þá er hann sá sáran sinn lánardrottinn, síðan rædda ek við hann, sem við mann, en hann hnípti í jörðina, ok vissi at Sigurðr var fallinn. Síðan hörf Guðrún brott á skóga, ok heyrði alla vega frá sèr varga þyt, ok þótti þá blíðara at deyja[4]. Guðrún fór, uns hún kom til hallar Hálfs[5] konúngs, ok sat þar með Þóru Hákunardóttur í Danmörku 7 misseri, ok var þar í miklum fagnaði, ok sló borða yfir henni, ok skrifaði þará mörg ok stór verk ok fagra leika, er tíðir voru í þann tíma, sverð ok brynjur ok allan konúngs búnað, skip Sigmundar konúngs, er skriðu fyrir land fram; ok [þat byrðu[6] þær, er þeir börðust Sigar[7] ok Siggeirr á Fjóni[8] suðr; slíkt var þeirra gaman, ok huggaðist Guðrún nú nokkut harms síns. Þetta spyrr Grímhildr, hvar Guðrún er niðr komin, heimtir á tal sonu sína, ok

1) þýzkri, *hin.* 2) járn af eyri, *J, K.* 3) öðrum, *hin.* 4) enn lifa, *b. v. hin.* 5) Hjálfreks, *B.* 6) baráttur, *B.* 7) Sigmundr, *B;* Sigurðr, *G.* 8) Fróni, *hin.*

spyrr, hverju þeir vilja bæta Guðrúnu son sinn ok mann, kvað þeim þat skyldt. Gunnarr segir, kveðst vilja gefa henni gull, ok bæta henni svâ harma sína, senda eptir vinum sínum, ok búa hesta sína, hjálma, skjöldu, sverð ok brynjur ok allskonar herklæði; ok var þessi ferð búin it kurteisligsta, ok engi sá kappi, er mikill var, sat nú heima; hestar þeirra voru brynjaðir, ok hverr riddari hafði annathvârt gyltan hjálm eða skygðan. Grímhildr ræðst í ferð með þeim, ok segir þeirra erendi svâ fremi fullgjört mun verða, at hún sitì eigi heima. Þeir höfðu alls 5 hundruð manna; þeir höfðu ok ágæta menn með sèr; þar var Valdamar[1] af Danmörk, ok Eymóðr[2] ok Jarisleifr[3]. Þeir gengu inní höll Hálfs[4] konúngs; þar voru Lángbarðar, Frakkar ok Saxar; þeir fóru með öllum herbúnaði ok höfðu yfir sèr loða[5] rauða, sem kveðit er:

Stuttar brynjur,
steipta hjálma,
skálmum girðir,
ok höfðu skarar jarpar.

Þeir vildu velja systur sinni góðar gjafir, ok mæltu vel við hana, en hún trúði engum þeirra. Síðan færði Gunnarr henni meinsamligan drykk, ok varð hún við at taka, ok mundi síðan engar sakar; sá drykkr var blandinn með jarðar[6] magni

1) Valdimar, *B, J, K.* 2) Eymr, *B*; Eymaðr, *C, D, E, F, G, H*; *v. í J, K.* 3) ok maðr, er Jirisleifr hèt, *J, K.* 4) Hjálfreks, *B.* 5) *þannig A*; loðpa, *J,* K; laða, *hin.* 6) urðar, *B.*

ok sæ, ok dreira sonar hennar, ok í því horni voru ristnir hverskuns stafir, ok roðnir með blóði, er hèr segir:

Voru í því horni
hverskyns stafir
ristnir ok roðnir,
ráða ek nè máttak:
lýngfisk lagar[1]
lands Haddíngja,
ax úskorit,
innleið dýra.

Voru þeim bjóri
böl mörg saman:
urt [alls viðar[2]
ok akarn[3] brunninn,
víndögg[4] arins
[ítrar blótna[5],
svíns lifr soðin,
því at sakar deyfði.

Ok eptir þat, er vili þeirra kom saman, gjörðist fagnaðr mikill. Þá mælti Grímhildr, er hún fann Guðrúnu: vel verði þèr, dóttir! ek gef þèr gull ok allskonar gripi at þiggja eptir þinn feðr, dýrliga hrínga ok ársal Hýnskra meyja, þeirra er kurteisastar eru, þá er þèr bættr þinn maðr; síðan skal þik gipta Atla konúngi inum ríka, þá muntu ráða hans auði, ok lát eigi frændr þína fyrir sakir eins manns, ok ger heldr

[1]) lángar, *B.* [2]) *eða kannske heldr* Alsviðar *í A.* [3]) akurn, *C, D, E, F, G, H*; akarninn, *B.* [4]) um dögg, *hin.* [5]) *eða* átrra blótna, *A*; iðr blotnar, *B.*

sem vèr biðjum. Guðrún svarar: aldrì vil ek eiga Atla konúng, ok ekki samir okkr ætt saman at auka. Grímhildr svarar: eigi skaltu nú á heiptir hyggja, ok lát sem lifi Sigurðr ok Sigmundr, ef þú átt sonu. Guðrún segir: ekki má ek af honum hyggja, hann var öllum fremri. Grímhildr segir: þenna konúng man þèr skipat at eiga, en engan skaltu ellegar eiga. Guðrún segir: bjóði þèr mèr eigi þenna konúng, er íllt eitt man afstanda þessi ætt, ok mun hann sonu sína illu beita, ok þar eptir man honum grimmu hefnt vera. Grímhildr varð við hennar fortölur illa[1], ok mælti: ger sem vèr beiðum, ok muntu þarfyrir taka mikinn metnað ok vâra vináttu, ok þessa staði, er svâ heita: Vínbjörg ok Valbjörg; hennar orð stóðust svâ mikit, at þetta varð fram at gánga. Guðrún mælti: þetta mun verða fram at gánga, ok þó at mínum úvilja, ok mun þat lítt til yndis, heldr til harma. Síðan stíga þeir á hesta sína, ok eru konur þeirra settar í vagna, ok fóru svâ fjóra daga á hestum, en aðra fjóra á skipum, ok enn þriðju fjóra enn landveg, þartil er þeir komu at einni hárri höll; henni gekk þar ímót mikit fjölmenni, ok var þar búin ágætlig veizla, sem áðr höfðu orð í milli farit, ok fór hún fram með sæmd ok mikilli prýði. Ok at þessi veizlu drekkr Atli brúðlaup til Guðrúnar; en aldrì gerði hugr henn-

[1]) við sonu sína, *þikir hèr ofaukið í A, C, D, E, F, G, H.*

ar við honum hlæja, ok með lítilli blíðu var þeirra samvista.

33. Nú er þat sagt einhverja nótt, at Atli konúngr vaknar or svefni, mælti hann við Guðrúnu: þat dreymdi mik, segir hann, at þú legðir á mèr sverði. Guðrún rèð drauminn, ok kvað þat fyrir eldi, er járn dreymdi, ok dul þeirri[1], er þú ætlar þik öllum fremra. Atli mælti: enn dreymdi mik sem hèr væri vaxnir 2 reyrteinar, ok vilda ek aldri skæðja; síðan voru þeir rifnir upp með rótum ok roðnir í blóði, ok bornir á bekki, ok boðnir mèr at eta; enn dreymdi mik, at haukar tveir flýgi mèr af hendi, ok væri bráðalausir[2], ok fóru til heljar, þótti mèr þeirra hjörtum við hunáng blandit, ok þóttumst ek eta; síðan þótti mèr sem hvelpar fagrir lægi fyrir mèr, ok gullu við hátt, ok át ek hræ þeirra at mínum úvilja. Guðrún segir: eigi eru draumar góðir, en eptir munu gánga; synir þínir munu vera feigir, ok margir lutir þúngir munu oss at hendi koma. Þat dreymdi mik enn, segir hann, at ek lægi í baði, ok væri ráðinn bani minn. Nú líðr þetta, ok er þeirra samvista fálig. Nú íhugar Atli konúngr, hvar niðr man komit þat mikla gull, er átt hafði Sigurðr, en þat veit nú Gunnarr konúngr ok þeir bræðr. Atli var mikill konúngr ok ríkr, vitr ok fjölmennr, gerir nú ráð við sína menn, hversu með skal fara; hann

[1]) þessi, *hin*. [2]) brauðlausir, *B*.

veit at þeir Gunnarr eigu miklu meira fè, enn nè einir[1] menn megi við þá jafnast; tekr nú þat ráð, at senda menn á fund þeirra bræðra ok bjóða þeim til veizlu, ok at sæma þá mörgum lutum; sá maðr var fyrir þeim, er Víngi er nefndr. Drottníngin veit nú þeirra einmæli, ok grunar at vera muni vèlar við bræðr hennar. Guðrún ristr rúnar, ok hún tekr einn gullhríng ok knýtti í vargshár, ok fær þetta í hendr sendimönnum konúngs. Síðan fóru þeir eptir konúngs boði; ok áðr þeir stígi á land, sá Víngi rúnarnar, ok snèri á aðra leið, ok at Guðrún fýsti í rúnum, at þeir kvæmi á hans fund. Síðan komu þeir til hallar Gunnars konúngs, ok var tekit við þeim vel, ok gerfir fyrir þeim eldar stórir; ok síðan drukku þeir með gleði enn bezta drykk. Þá mælti Víngi: Atli konúngr sendir mik híngat, ok vildi at þið sæktið hann heim með miklum sóma, [ok þægið af honum mikinn sóma[2], hjálma ok skjöldu, sverð ok brynjur, gull ok góð klæði, herlið ok hesta ok mikit lèn, ok ykkr lætzt hann bezt unna síns ríkis. Þá brá Gunnarr höfði, ok mælti til Högna: hvat skulum við af þessu boði þiggja? hann býðr okkr at þiggja mikit ríki, en enga konúnga veit ek jafnmikit gull eiga, sem okkr, þvíat við höfum þat gull allt, er á Gnítaheiði lá, ok egum við stórar skemmur fullar af gulli ok inum beztum höggvopnum ok allskonar herklæðum; veit

1) neinir, *hin.* 2) *v. í B.*

ek minn hestinn beztan ok sverðit hvassast, gullit ágætast. Högni svarar: undrumst ek boð hans, því at þat hefir hann sjaldan gert, ok úráðligt man vera at fara á hans fund, ok þat undrumst ek, er ek sá gersimar þær, er Atli konúngr sendi okkr, at ek sá vargshári knýtt í einn gullhríng, ok má vera, at Guðrúnu þikki hann úlfshug við okkr hafa, ok vill hún eigi at við farim. Víngi sýnir honum nú rúnarnar þær, er hann kvað Guðrúnu sendt hafa. Nú gengr alþýða at sofa, en þeir drukku við nokkra menn. Þá gekk at kona Högna, er hèt Kostbera, kvenna fríðust, ok leit á rúnarnar; kona Gunnars hèt Glaumvör, skörúngr mikill; þær skenktu. Konúngar gerðust allmjök drukknir; þat finnr Víngi, ok mælti: ekki er því at leyna, at Atli konúngr er þúngfærr mjök, ok gamlaðr mjök at verja sitt ríki, en synir hans úngir ok til engis færir; nú vill hann gefa yðr vald yfir ríkinu, meðan þeir eru svâ úngir, ok ann yðr bezt at njóta. Nú var bæði at Gunnarr var mjök drukkinn, en boðit mikit ríki, mátti ok eigi við sköpum vinna, heitr nú ferðinni, ok segir Högna bróður sínum; hann svarar: yðart atkvæði mun standa hljóta, ok fylgja mun ek þèr, en úfúss em ek þessarar ferðar.

34. Ok er menn höfðu drukkit sem líkaði, þá fóru þeir at sofa; tekr Kostbera at líta á rúnarnar, ok innti stafina, ok sá at annat var áristit, enn undir var, ok villtar voru rún-

arnar; hún fèkk þó skilit af vizku sinni; eptir þat ferr hún til rekkju hjá bónda sínum. Ok er þau vaknuðu, mælti hún til Högna: heiman ætlar þú, ok er þat úráðligt, far heldr í annat sinn! ok eigi mantu vera glöggrýnn[1], ef þèr þikkir sem hún hafi í þetta sinn boðit þèr systir þín; ek rèð rúnarnar, ok undrumst ek um svâ vitra konu, er hún hefir villt ristit, en svâ er undir, sem bani yðarr liggi á, en þar var annathvârt, at henni varð vant stafs[2], eða ellegar hafa aðrir villt; ok nú skaltu heyra draum minn; þat dreymdi mik, at mèr þótti hèr falla inn[3] á, harðla straung, ok bryti upp stokka í höllinni. Hann svarar: þèr eruð opt íllúðgar, ok á ek ekki skap til þess, at fara illa ímót við menn, nema þat sè makligt, mun hann oss vel fagna. Hún segir: þèr munuð reyna, en eigi mun vinátta fylgja boðinu; ok enn dreymdi mik at önnr á fèlli hèr inn, ok þyti grimmliga, ok bryti upp alla palla í höllinni, ok bryti fætr ykkra beggja bræðra, ok mun þat vera nâkkvat. Hann svarar: þar munu renna akrar, er þú hugðir ána, ok er vèr gaungum akrinn, nema opt stórar agnir fætr vâra. Þat dreymdi mik (segir hún), at blæja þín brynni, ok hryti eldrinn uppaf höllinni. Hann svarar: þat veit ek gjörla, hvat þat er: klæði vâr liggja hèr litrekt[4], ok munu þau þar brenna, er þú hugðir blæjuna. Björn hugða ek hèr inn

---

[1]) glöggrýndr, *B.* [2]) sjálfri, *B.* [3]) vatnsfall eðr, *b. v. B.*
[4]) litrend, *B.*

koma, segir hún, ok braut upp konúngs hásætit, ok hristi svâ hrammana, at vèr urðum öll hrædd, ok hafði oss öll senn sèr í munni, svâ at ekki máttum vèr, ok stóð þar af mikil ógn. Hann svarar: þar man koma veðr mikit, er þú ætlaðir hvítabjörn. Örn þótti mèr hèr innkoma, segir hún, ok eptir höllinni, ok dreifði [mik blóði ok[1] oss öll, ok mun þat íllt vita, þvíat mèr þótti sem þat væri hamr Atla konúngs. Hann svarar: opt slátrum vèr örliga[2], ok höggum stór naut oss at gamni[3], ok er þat fyrir yxnum, er örnu dreymir, ok mun heill hugr Atla við oss; ok nú hætta þau þessu tali.

35. Nú er at segja frá Gunnari, at þar er sams dæmi[4], er þau vakna, at Glaumvör[5] kona Gunnars segir drauma sína marga, þá er henni þóttu líkligir til svika, en Gunnarr rèð alla því á móti. Þessi var einn af þeim, sagði hún, at mèr þótti blóðugt sverð borit hèr inní hölllina, ok vartu sverði lagðr í gegnúm, ok emjuðu úlfar á báðum endum sverðsins. Konúngrinn svarar: smáir hundar vilja oss þar bíta, ok er opt hundagnöll fyrir vopnum með blóði lituðum. Hún mælti: enn þótti mèr hèr inn koma konur, ok voru daprligar, ok þik kjósa sèr til manns; má vera, at þínar dísir hafi þat verit. Hann svarar: vandt gerist nú at ráða, ok má ekki forðast sitt

1) mannablóði á, *hin.* 2) öruggliga, *B*; árliga, *J, K.* 3) gagni, *J, K.* 4) samdægris, *J, K.* 5) *þannig hin;* Glámver, *hèr A.*

aldrlag, en eigi úlíkt, at vèr verðum skammæir[1]. Ok um morginninn spretta þeir upp, ok vilja fara, en aðrir löttu. Síðan mælti Gunnarr við þann mann, er Fjörnir[2] hèt: statt upp! ok gef oss at drekka af stórum kerum gott vín, þvíat vera má, at sjá sè vâr en síðarsta veizla, ok nú mun enn gamli úlfrinn komast at gullinu, ef vèr deyjum, ok sá björninn mun eigi spara at bíta sínum vígtönnum. Síðan leiddi liðit þá út með gráti. Son Högna mælti: farið vel, ok hafið góðan tíma! Eptir var meirri lutr liðs þeirra. Sólarr ok Gnævarr synir Högna[3] [fóru, ok[4] einn kappi mikill, er Orkníngr hèt, hann var bróðir Beru. Fólkit fylgdi þeim til skipa, ok löttu allir þá fararinnar, en ekki tjóaði. Þá mælti Glaumvör: Víngi! segir hún, meiri væn, at mikil úhamíngja standi af þinni kvomu, ok munu stórtíðendi gerast í för þinni. Hann svarar: þess sver ek, at ek lýg eigi, ok mik taki hár gálgi ok allir gramir[5], ef ek lýg nåkvat orð! ok lítt eyrði hann sèr í slíkum orðum. Þá mælti Bera: farið vel ok með góðum tíma! Högni svarar: verið kátar, hversu sem með oss ferr! Þar skiljast þau með sínum forlögum. Síðan rèru þeir svâ fast ok af miklu afli, at kjölrinn gekk undan skipinu mjök svâ hálfr; þeir knúðu fast árar með stórum

---

[1]) skammærir *B*, *C*; skammæfir, *G*, *J*, *K*. [2]) Fjölnir, *G*. [3]) Hávars, *B*; Hav', *hin.* [4]) *er bundið og ógreiniligt í A; v. í B, J, K; en bókstafirnir rángt og ólæsiliga myndaðir eptir A í hinum.* [5]) gammir, *J*, *K*.

bakföllum, svâ at brotnuðu hlumir[1] ok háir[2]; ok er þeir komu at landi, festu þeir ekki skip sín. Síðan riðu þeir sínum ágætum hestum myrkan skóg um hríð; nú sjá þeir konúngsherinn; þángat heyra þeir mikinn gný ok vopnabrak, ok sjá þar mannfjölda ok mikinn viðrbúnat, er þeir höfðu, ok öll borgarhlið voru full af mönnum. Þeir ríða at borginni, ok var hún byrgð[3]; Högni braut upp hliðit, ok ríða nú í borgina. Þá mælti Víngi: þetta mættir þú vel úgert hafa, ok bíðið nú hèr, meðan ek sæki yðr gálgatrè; ek bað yðr með blíðu hèr koma, en flátt bjó undir; nú man skamt at bíða, áðr þèr munuð uppfestir. Högni svarar: eigi munu vèr fyrir þat vægja, ok lítt hygg ek at vèr hrykkim þar, er menn skyldu berjast, ok ekki tjóar þèr oss at hræða, ok þat man þèr illa gefast; hrundu honum síðan, ok börðu hann öxarhömrum[4] til bana.

36. Þeir ríða nú at konúngshöllinni. Atli konúngr skipar liði sínu til orrostu, ok svâ vikust fylkíngar, at garðr nokkr varð í millum þeirra; verið velkomnir með oss! (segir hann), ok fáið mèr gull þat it mikla, er vèr erum tilkomnir, þat fè, er Sigurðr átti, en nú á Guðrún. Gunnarr segir: aldrí fær þú þat fè, ok dugandi menn munu þèr hèr fyrir hitta, áðr vèr látim lífit, ef þèr bjóðið oss úfrið; kann vera at þú veitir þessa veizlu stórmannliga, ok af lítilli eymd við örn

---

1) hlummar, *hin.* 2) *v. í B;* árar, *J, K;* hár, *hin.* 3) læst, *B.* 4) örvarhömrum, *rángt í B.*

ok úlf. Fyrir laungu hafða ek þat mèr í hug, (segir Atli) at ná yðru lífi, [en ráða[1] gullinu, ok launa yðr þat níðíngsverk, er þèr svikuð yðarn enn bezta mág, ok skal ek hans hefna. Högni svarar: þat kemr yðr verst[2] at haldi, at liggja lengi á þessu ráði, en eru þó at engu búnir. Nú slær í orrostu harða, ok er fyrst skothríð. Ok nú koma fyrir Guðrúnu tíðendin; ok er hún heyrir þetta, verðr hún við gneip[3], ok kastar af sèr skikkjunni; eptir þat gekk hún út, ok heilsaði þeim, er komnir voru, ok kysti bræðr sína ok sýndi þeim ást, ok þessi var þeirra kveðja en síðarsta. Þá mælti hún: ek þóttumst ráð hafa við sett, at eigi kæmi þèr, en engi má við sköpum vinna; þá mælti hún: mun nokkut tjóa at leita um sættir; en allir neituðu því þverliga. Nú sèr hún at sárt er leikit við bræðr hennar, hyggr nú á harðræði, fór í brynju ok tók sèr sverð, ok barðist með bræðrum sínum, ok gekk svâ fram sem hinn hraustasti karlmaðr, ok þat sögðu allir á einn veg, at varla sæi meiri vörn, enn þar. Nú gerist mikit mannfall, ok berr þó af framgánga þeirra bræðra; orrostan stendr nú lengi fram, allt um miðjan dag. Gunnarr ok Högni gengu í gegnum fylkíngar Atla konúngs, ok svâ er sagt, at allr völlr flaut í blóði. Synir Högna gánga nú hart fram. Atli konúngr mælti: vèr höfum lið mikit ok frítt, ok stóra kappa, en nú eru margir af oss fallnir, ok

[1]) fyrr enn, *B.* [2]) vel, *B.* [3]) sneip, *J, K.*

egum vèr yðr íllt at launa, drepit nítján[1] kappa mína, en sex einir eru eptir, ok verðr hvíld á bardaganum. Þá mælti Atli konúngr: fjórir voru vèr bræðr, ok em ek nú einn eptir; ek hlaut mikla mægð, ok hugða ek mèr þat til frama; konu átta ek væna ok vitra, stórlynda ok harðúðga, en ekki má ek njóta hennar vizku, þvíat sjaldan voru við sátt; þèr hafið nú drepit marga mína frændr, en svikit mik frá ríkinu ok fènu, ráðit systur mína, ok þat harmar mik mest. Högni segir: hví getr þú slíks? þèr brugðuð fyrri friði; þú tókt mína frændkonu, ok sveltir í hel ok myrðir, ok tókt fèit, ok var þat eigi konúngligt; ok hlægiligt þikkir mér, er þú týnir[2] þinn harm, ok goðunum vil ek þat þakka, er þèr gengr illa.

37. Nú eggjar Atli konúngr liðit at gera harða sókn; berjast nú snarpliga, ok sækja Gjúkúngar at svâ fast, at Atli konúngr hrökkr inní höllina, ok berjast nú inni, ok var orrostan allhörð. Sjá bardagi varð með miklu mannspèlli, ok lýkr svâ, at fellr allt lið þeirra bræðra, svâ at þeir standa tveir upp, ok fór áðr margr maðr til heljar fyrir þeirra vopnum. Nú er sókt at Gunnari konúngi, ok fyrir sakir ofreflis var hann höndum tekinn ok í fjötra settr. Síðan barðist Högni af mikilli hreysti ok drengskap, ok feldi ena stærstu kappa Atla konúngs 20; hann hratt mörgum í þann eld, er þar var gerr

[1]) tíu, *B.* [2]) rifjar, *B.*

í höllinni; allir urðu á eitt sáttir, at varla sæi slíkan mann; en þó varð hann at lyktum ofrliði borinn, ok höndum tekinn. Atli konúngr mælti: mikil furða er þat, hve margr maðr hèr hefir farit fyrir honum, nú skeri or honum hjartat, ok sè þat hans bani. Högni mælti: ger sem þèr líkar, glaðliga mun ek hèr bíða þess, er þèr villið atgera, ok þat muntu skilja, at eigi er hjarta mitt hrædt, ok reynt hefi ek fyrr harða hluti, ok var ek gjarn at þola mannraun, þá er ek var úsárr, en nú eru vèr mjök sárir, ok mantu enn ráða vorum skiptum. Þá mælti ráðgjafi Atla konúngs: sè ek betra ráð: tökum heldr þrælinn Hjalla, en forðum Högna, þræll þessi er skapdauði[1], hann lifir eigi svâ lengi, at hann sè eigi dáligr. Þrællinn heyrir ok æpir hátt, ok hleypir undan, hvert er honum þikkir skjóls vân, kveðst íllt hljóta af úfriði þeirra ok vass[2] [at gjalda[3], kveðr þann dag illan vera, er hann skal deyja frá sínum góðum kostum ok svína geymslu. Þeir þrifu hann ok brugðu at honum knífi; hann æpti hátt, aðr hann kendi oddsins. Þá mælti Högni, sem færrum er tíðt, þá er í mannraun koma, hann árnaði þrælnum lífs, ok kveðst eigi vilja skræktun[4], kvað sèr minna fyrir at fremja þenna leik; þrællinn varð þá fjörit[5]. Nú eru þeir báðir í fjótra settir Gunnarr[6].

---

1) skapaðr til dauða, *E.* 2) *þannig A og fleirst; v. í B;* ómakligr, *J, K.* 3) *v. í B.* 4) skræki heyra, *J, K.* 5) *þannig A, E, F, G, H;* fjörit at láta, *C;* lauss látinn *B;* fjöri feginn, *J, K.* 6) ok Högni, *b. v. B, J, K.*

þá mælti Atli konúngr til Gunnars konúngs, at hann skyldi segja til gullsins, ef hann vill líf þiggja; hann svarar: fyrr skal ek sjá hjarta Högna bróður míns blóðugt! Ok nú þrifu þeir þrælinn í annat sinn, ok skáru or honum hjartað, ok báru fyrir konúnginn Gunnar; hann svarar: hjarta Hjalla[1] má hèr sjá, ens blauða, ok er úlíkt hjarta Högna ins frækna, þvíat nú skelfr mjök, en hálfu meir, þá er í brjósti honum lá. Nú gengu þeir eptir eggjun Atla konúngs at Högna, ok skáru or honum hjartað; ok svâ var mikill þróttr hans, at hann hló, meðan hann beið þessa kvöl, ok allir undruðust þrek hans, ok þat er síðan at minnum haft. þeir sýndu Gunnari hjarta Högna ins frækna: ok[2] er úlíkt hjarta Hjalla ins blauða, þvíat nú hrærist lítt, en miðr[3] meðan í brjósti honum lá, ok svâ mantu, Atli! láta þitt líf, sem nú látum vèr; ok nú veit ek einn, hvar gullit er, ok mun eigi Högni segja þèr; mèr lèk ýmist í hug, þá er vèr lifðum báðir, en nú hefi ek einn ráðit fyrir mèr, skal Rín nú ráða gullinu, fyrr enn Hýnir[4] beri þat á höndum sèr. Atli konúngr mælti: farið á brott með bandíngjann! ok svâ var gert. Guðrún kveðr nú með sèr menn, ok hittir Atla (ok mælti): gángi þèr nú illa, ok eptir því, sem þèr hèlduð orð við mik! Ok nú er Gunnarr konúngr settr í einn ormgarð; þar voru margir ormar fyrir, ok voru

[1]) *v. í B.* [2]) hann segir þat, *J, K.* [3]) áðr, *b. v. B.* [4]) hinir, *B, F, G, J, K.*

hendr[1] hans fast bundnar; Guðrún sendi honum hörpu; en hann sýndi sína list, [ok sló hörpuna með mikilli list[2], at hann drap strengina með tánum[3], ok lèk svâ vel ok afbragðliga, at fáir þóttust heyrt hafa svâ með höndum slegit, ok þartil lèk hann þessa íþrótt, at allir sofnuðu ormarnir, nema ein naðra mikil ok illilig skreið til hans, ok gróf inn sínum rana, þartil er hún hjó hans hjarta, ok þar lèt hann sitt líf með mikilli hreysti.

38. Atli konúngr þóttist nú hafa unnit mikinn sigr, ok sagði Guðrúnu svâ sem með miklu spotti, eða svâ sem hann hældist: Guðrún! segir hann, mist hefir þú nú bræðra þinna, ok veldr þú því sjálf. Hún svarar: vel líkar þèr nú, er þú lýsir vígum þessum fyrir mèr, en vera má at þú iðrist, þá er þú reynir þat, er eptir kemr, ok sú mun erfðin[4] lengst eptir lifa, at týna eigi grimdinni, ok mun þèr eigi vel gánga meðan ek lifi. Hann svarar: við skulum nú gera okkra sætt, ok vil ek bæta þèr bræðr þína með gulli ok dýrum gripum, eptir þínum vilja. Hún svarar: lengi hefi ek eigi verit hæg viðreignar, ok mátti um hreifa meðan Högni lifði, muntu ok aldri bæta bræðr mína svâ, at mèr hugni, en opt verðu við konurnar ríki[5] bornar af yðru valdi; nú eru mínir frændr allir dauðir, ok muntu nú einn við mik ráða; mun

[1]) *þannig hin*; *v. í A.* [2]) *v. í hin.* [3]) tönnum, *B.* [4]) reiðin, *J, K.* [5]) ráði, *B*; ofríki *J, K.*

ek nú þenna kost upptaka, ok látum gera mikla veizlu, ok vil ek nú erfa bræðr mína ok svâ þína frændr; gerir hún sik nú blíða í orðum, en þó var samt undir raunar[1]; hann var tal-hlýðinn ok trúði á hennar orð, er hún gerði sèr lètt[2] um ræður. Guðrún gerir nú erfi eptir sína bræðr, ok svâ Atli konúngr eptir sína menn, [ok þessi veizla var við mikla sveipan[3]. Nú hyggr Guðrún á harma sína, ok sitr um þat, at veita konúngi nokkra mikla skömm; ok um kveldit tók hún sonu þeirra Atla konúngs, er þeir lèku við stokki; sveinarnir glupnuðu, ok spurðu, hvat þeir skyldu? Hún svarar: spyrìð eigi at! bana skal ykkr báðum. Þeir svöruðu: ráða muntu börnum þínum sem þú vilt, þat mun engi banna þèr, en þèr er skömm í at gera þetta. Síðan skar hún þá á háls. Konúngrinn spurði eptir, hvar synir hans væri. Guðrún svarar: ek mun þat segja þèr, ok glaða[4] þitt hjarta: þú vaktir við oss mikinn harm, þá er þú drapt bræðr mína, nú skaltu heyra mína ræðu: þú hefir mist þinna sona, ok eru þeirra hausar hèr at borðkerum báðir, ok sjálfr draktu þeirra blóð [við vín blandit; síðan tók ek hjörtu þeirra, ok steikta ek á teini, en þú ázt. Atli konúngr svarar: grimm ertu, er þú myrðir sonu þína ok gaft mèr þeirra hold at eta, ok skamt lætr þú ílls í milli. Guðrún segir: væri minn vilì til at gera þèr

[1]) raun, *B.* [2]) litt, *B, J, K.* [3]) *v. í J, K.* [4]) *þannig A, G*; gleðja, *hin.*

miklar skammir, ok verðr eigi fullilla farit við slíkan konúng. Konúngr mælti: verra hefir þú gert, enn menn viti dæmi til, ok er mikil úvizka í slíkum harðræðum, ok makligt at þú værir á báli brend ok barin áðr grjóti íhel, ok hefðir þú þá þat, er þú ferr á leið. Hún svarar: þú spár þat þèr sjálfum, en ek man hljóta annann dauða. Þau mæltust við mörg heiptarorð. Högni átti son eptir, er Niflúngr hèt; hann hafði mikla heipt við Atla konúng, ok sagði Guðrúnu, at hann vildi hefna feðr síns; hún tók því vel, ok gera ráð sín; hún kvað mikit happ í, ef þat yrði gjört. Ok of kveldit, er konúngr hafði drukkit, gekk hann til svefns; ok er hann var sofnaðr, kom Guðrún þar, ok son Högna. Guðrún tók eitt sverð, ok leggr fyrir brjóst Atla konúngi, [vèla þau um bæði, hún[1] ok son Högna. Atli konkonúngr vaknar við sárit, ok mælti: eigi man hèr þurfa um at binda eða umbúð at veita, eða hverr veitir mèr þenna áverka? Guðrún segir: ek veld nokkru um, en sumu son Högna. Atli konúngr mælti: eigi sæmdi þèr þetta at gera, þóat nokkr sök væri til, ok vartu mèr gipt at frænda ráði, ok mund galdt ek við þèr, 30 góðra riddara ok[2] sæmiligra meyja, ok marga menn aðra, ok þó lèztu þèr eigi [at hófi[3], nema þú rèðir löndum þeim, er átt hafði Buðli konúngr, ok þína sværu lèztu opt með gráti sitja. Guðrún mælti: margt hefir þú mælt úsatt, ok ekki

[1]) voru þau bæði at þessu, *J, K.* [2]) 20, *b. v. hin; dregið út í A.* [3]) duga, *J, K.*

hirði ek þat, ok opt var ek úhæg í mínu skapi, en miklu jók þú á; hèr hefir verit opt mikil styrjöld í þínum garði, ok börðust opt frændr ok vinir, ok ýfðist[1] hvat við annat; ok var betri æfi vâr þá, er ek var með Sigurði, drápum konúnga ok rèðum[2] um eignir þeirra, ok gáfum grið þeim, er svâ vildu, en höfðíngjar gengu á hendr oss, ok lètum þann ríkan, er svâ vildi; síðan mistum vèr hans, ok var þat lítit, at bera ekkju nafn, en þat harmar mik mest, er ek kom til þín, en átt áðr enn ágæzta konúng, ok aldrí komtu svâ or orrostu, at eigi bærir þú enn minna lut. Atli konúngr svarar: eigi er þat satt, ok við slíkar fortölur batnar hvârigra[3] hluti, [þvíat vèr höfum[4] skarðat[5]; ger nú til mín sómasamliga, ok lát búa um lík mitt til ágætis! Hún segir: þat mun ek gera, at láta þèr gera vegligan gröft, ok gera þèr virðuliga steinþró, ok vefja þik í fögrum dúkum, ok hyggja þèr hverja þörf. Eptir þat deyr hann; en hún gerði, sem hún hèt; síðan lèt hún slá eldi í höllina. Ok er hirðin vaknaði við óttann, þá vildu menn eigi þola eldinn, ok hjuggust sjálfir ok fengu svâ bana; lauk þar æfi Atla konúngs ok allrar hirðar hans. Guðrún vildi nú eigi lifa eptir þessi verk, en endadagr hennar var eigi enn kominn. Völsúngar ok Gjúkúngar, at því er menn segja, hafa verit mestir ofrhugar[6] ok ríkismenn, ok svâ finst

[1]) efldist, *J*, *K*. [2]) rændum, *hin*. [3]) margra, *hin*. [4]) þeirra er höfðu, *hin*. [5]) *eða* skarðit, *A*. [6]) höfðíngjar, *B*.

í öllum fornkvæðum; ok nú stöðvaðist þessi úfriðr með þeima[1] hætti, at liðnum þessum[2] tíðendum.

39. Guðrún átti dóttur við Sigurði, er Svanhildr hèt; hún var allra kvenna vænst, ok hafði snör augu, sem faðir hennar, svâ at fárr einn þorði at sjá undir hennar brýn; hún bar svâ mjök af öðrum konum um vænleik, sem sól af öðrum himintúnglum. Guðrún gekk eitt sinn til sævar, ok tók grjót í fáng sèr, ok gekk á sæinn út, ok vildi tapa sèr; þá hófu hana stórar bárur fram eptir sjánum, ok fluttist hún með þeirra fulltíngi, ok kom um síðir til borgar Jónakurs konúngs; hann var ríkr konúngr ok fjölmennr; hann fèkk Guðrúnar, þeirra börn voru þeir Hamdir ok Sörli ok Erpr. Svanhildr var þar uppfædd.

40. Jórmunrekr hefir konúngr heitit, hann var ríkr konúngr í þann tíma; hans son hèt Randverr. Konúngr heimtir á tal son sinn, ok mælti: þú skalt fara mína sendiför til Jónakurs, ok minn ráðgjafi, er Bikki heitir; þar er uppfædd Svanhildr, dóttir Sigurðar Fâfnisbana, er ek veit fegrsta mey undir heimsólu; hana vilda ek helzt eiga, ok hennar skaltu biðja til handa mèr. Hann segir: skyldt er þat, herra! at ek fara yðra sendiför; lætr nú búa ferð þeirra sæmiliga. Fara þeir nú, unst þeir koma til Jónakurs konúngs, sjá Svanhildi ok þikkir mikils um vert hennar fríðleik. Randverr heimti

[1]) þeim, *hin.* [2]) undra, *b. v. B.*

*konúng á tal* ok mælti: Jórmunnrekr konúngr vill bjóða yðr [mægi sitt[1], hefir hann spurn til Svanhildar, ok vill hann kjósa hana sèr til konu, ok er úsýnt at hún sè gefin ríkara manni, enn hann er. Konúngr segir, at þat var virðuligt ráð: ok er hann mjök frægr. Guðrún segir: valt[2] er hamíngjunni [at treystast[3], at eigi bresti hún. En með fýsíng konúngs, ok öllu því er á lá, er þetta nú ráðit, ok ferr nú Svanhildr til skips með virðuligu föruneyti, ok sat í lyptíngu hjá konúngs syni. Þá mælti Bikki til Randvers: sannligt[4] væri þat, at þèr ættið svâ fríða konu, en eigi svâ gamall maðr; honum fèlst þat vel í skap, ok mælti til hennar með blíðu ok hvârt til annars; koma heim í land ok hitta konúng. Bikki mælti: þat samir, herra! at vita, hvat tíðt er um, þótt vandt sè upp at bera, en þat er um vèlar þær, er sonr þinn hefir fengit fulla ást Svanhildar, ok er hún hans frilla, ok lát slíkt eigi úhegnt[5]; mörg ill ráð hafði hann honum áðr kennt, þóat þetta biti fyrir of[6] hans ráð ill. Konúngr hlýddi hans mörgum vondum ráðum; hann mælti, ok mátti eigi stilla sik af reiði, at Randve skyldi taka, ok á gálga festa. Ok er hann var tilleiddr gálgans, þá tók hann hauk einn, ok plokkaði af honum

[1]) mægðir sínar, *J, K.* [2]) *ágizkað*; vatt, *A*; ljótt, *hin.* [3]) at treysta, *J, K.* [4]) sæmiligt, *B.* [5]) óhefnt, *hin.* [6]) ok, *hin.*

allar fjaðrirnar, ok mælti, at sýna skyldi feðr hans; ok er konúngrinn sá, mælti hann: þar má nú sjá at honum þikkir ek þann veg hníginn sæmdinni, sem haukrinn fjöðrunum, ok biðr hann taka af gálganum. Bikki hafði þar um vèlt[1] á meðan, ok var hann dauðr. Enn mælti Bikki: engum manni áttu verri at vera, enn Svanhildi, lát hana deyja með skömm. Konúngr svarar: þat ráð munu vèr taka. Síðan var hún bundin í borgarhliði, ok hleypt hestum at henni; en er hún brá í sundr augum, þá þorðu eigi hestarnir at spora hana; ok er Bikki sá þat, mælti hann, at belg skyldi draga á höfuð henni, ok svâ var gjört, en síðan lèt hún líf sitt.

41. Guðrún spyrr nú líflát Svanhildar, ok mælti við sonu sína: hví sitì þèr svâ kyrrir, eða mælit gleðiorð, þar sem Jórmunnrekr drap systur ykkra, ok trað undir hestafótum með svívirðíng? ok ekki hafi þið líkt skaplyndi Gunnari eða Högna, hefna mundu þeir sinnar frændkonu. Hamdir svarar: lítt lofaðir þú Gunnar ok Högna, þá er þeir drápu Sigurð, ok þú var roðin í hans blóði, ok illar voru þínar bræðra hefndir, er þú drapt sonu þína, ok betr mættim vèr allir saman drepa Jórmunnrek konúng, ok eigi munu vèr standast frýjuorð, svâ hart sem vèr erum eggjaðir. Guðrún gekk hlægjandi, ok gaf þeim at drekka af stórum kerum; ok eptir þat valdi hún þeim stórar brynjur ok góðar, ok önnr herklæði.

[1]) ummælt, *B.*

þá mælti Hamdir: hèr munu vèr skilja efsta sinni, ok spyrja muntu tíðendin, ok muntu þá erfi drekka eptir okkr ok Svanhildi; eptir þat fóru þeir. En Guðrún gekk til skemmu harmi aukin, ok mælti: þrimr mönnum var ek gipt, fyrst Sigurði Fáfnisbana, ok var hann svikinn, ok var þat mèr inn mesti harmr; síðan var ek gefin Atla konúngi, en svâ var grimt mitt hjarta við hann, at ek drap sonu okkra í harmi; síðan gekk ek á sjáinn, ok hóf mik at landi með bárum, ok var ek nú gefin þessum konúngi; síðan gipta ek Svanhildi af landi í brott með miklu fè, ok er mèr þat sárast minna harma, er hún var troðin undir hrossa fótum, eptir Sigurð; en þat er mèr grimmast, er Gunnarr var í ormgarð settr, en þat harðast, er or Högna var hjarta skorit, ok betr væri, at Sigurðr kæmi mèr á móti, ok færi ek með honum; hèr sitr nú eigi eptir sonr nè dóttir mik at hugga; minstu nú, Sigurðr! þess, er við mæltum, þá er við stigum á einn beð, at þú mundir mín vitja ok or helju bíða[1]; ok lýkr þar hennar harmtölur.

42. þat er nú at segja frá sonum Guðrúnar, at hún hafði svâ búit þeirra herklæði, at þá bitu eigi járn, ok hún bað þá eigi skæðja[2] grjóti nè öðrum stórum hlutum, ok kvað þeim þat at meini mundu verða, ef eigi gerði þeir svâ. Ok er þeir voru komnir á leið, finna þeir Erp,

[1]) bjóða, *B*; leiða, *J*, *K*. [2]) *þannig*, *A og fleirst*; skjóta, *B*, *J*, *K*.

bróður sinn, ok spyrja, hvat hann mundi veita þeim. Hann svarar: slíkt sem hönd hendi, eða fótr fæti. Þeim þótti þat ekki vera, ok drápu hann. Síðan fóru þeir leiðar sinnar, ok litla ríð, áðr Hamdir rataði[1], ok stakk niðr hendi, ok mælti: Erpr man satt hafa sagt, ek munda falla nú, ef eigi styddumst ek við höndina; litlu síðarr ratar[2] Sörli, ok brást á fótinn, [ok fèkk staðizt[3] ok mælti: falla munda ek nú, ef eigi stydda ek mik við báða fætr; kváðust þeir nú illa hafa gert við Erp bróður sinn. Fóru nú, unst þeir komu til Jórmunnreks konúngs, ok gengu fyrir hann, ok veittu honum þegar tilræði; hjó Hamdir af honum hendr báðar, en Sörli fætr báða. Þá mælti Hamdir: af mundi nú höfuðit, ef Erpr lifði, bróðir okkarr, er við vágum á leiðinni, ok sám við þat of síð, sem kveðit er:

Af væri nú höfuðit,
ef Erpr lifði,
bróðir okkarr
hinn böðfrækni,
er við á braut vágum.

Í því höfðu þeir afbrugðit boði móður sinnar, er þeir höfðu grjóti skatt[4]. Nú sækja menn at þeim, en þeir vörðust vel ok drengiliga, ok urðu mörgum manni at skaða; þá bitu eigi járn. Þá kom at einn maðr ok eldiligr[5] með eitt auga, ok mælti: eigi eru þèr vísir menn, er þèr kunnið

[1]) rasaði, B, J, K. [2]) rasar, B, J, K. [3]) v. í B, J, K.
[4]) skaðat, B; skagt, J, K. [5]) mjök, b. v. B, J, K.

eigi þessum mönnum bana veita. Konúngrinn svarar: gefoss ráð til, ef þú kannt! hann mælti: þèr skuluð berja þá grjóti í hel; svâ var ok gert, ok þá flugu or öllum áttum steinar at þeim, ok varð þeim þat at aldrlagi.

43. Heimir[1] í Hlymsdölum[2] spyrr nú þessi tíðendi, at dauðr er Sigurðr ok Brynhildr, en Áslaug dóttir þeirra, en fóstra Heimis, var þá þrèvetr; veit hann nú at eptir mun leitat at týna meyjunni ok ætt hennar; er honum svâ mikill harmr eptir Brynhildi fóstru sína, at hann gætti ekki ríkis[3] síns nè fjár; sèr nú at hann fær eigi meyjunni þar leynt; lætr nú gjöra eina hörpu svâ mikla, at þar lèt hann meyna Áslaugu í koma, ok margar gersimar í gulli ok silfri, ok gengr á brótt síðan víða um land, ok um síðir híngat á Norðrlönd. Svá var harpa hans hagliga ger, at hana mátti taka í sundr ok saman at fellíngum, ok var hann því vanr um daga, þá er hann fór í hjá vatnföllum, ok hvergi í nánd bæum, at hann tók hörpuna í sundr ok þó meyjunni; ok hann hafði vínlauk[4] einn, ok gaf henni at eta; en þat er náttúra þess lauks, at maðr má lengi lifa, þótt hann hafi enga aðra fæðu; ok þá er mærin grèt, sló hann hörpuna, ok þagnaði hún þá, fyrir því at

---

[1]) *Með þessum kapítula byrjar Ragnars saga í A, og hefir hún í yfirskrift, þó máð sè:* Saga Ragnars Loðbrókar; *þikkir þó þessi kap. að vísu heyra Völsúngasögu til, en hinni ekki, þegar þær annars eru aðskildar.* [2]) Heimdölum, *B*; Hlimedolum, *G*; Hlyndölum, *J, K.* [3]) bús, *hin.* [4]) *þannig, A; v. í hin.*

Heimir var vel at íþróttum búinn, þeim er þá voru tíðar; hann hafði ok mörg klæði dýrðlig hjá henni í hörpunni, ok mikit gull. Ok nú ferr hann þángat til uns hann kemr í Noreg, ok kemr til eins býar lítils, þess er heitir á Spángarheiði, ok bjó þar karl sá, er Áki hèt; hann átti konu[1], ok hèt hún Gríma; þar var eigi fleira manna, enn þau. Þann dag var karl farinn í skóg, en kellíng var heima, ok heilsar hún Heimi, ok spyrr, hvat manna hann væri. Hann kveðst vera einn stafkarl, ok bað kellíngu húsa. Hún segir, at eigi kæmi þar fleira enn svâ, at hún kveðst mundu vel við honum taka, ef hann þættist þurfa þar at vera. En er áleið, þá segir hann, at honum þætti þat mest beinabót, at eldr væri kveiktr fyrir honum, ok síðan væri honum fylgt til svefnhúss, þar er hann skyldi sofa. Ok þá er kellíng hafði kveikt eldinn, þá setr hann hörpuna uppí sæti hjá sèr, en kellíng var óðamálug; opt varð henni litit til hörpunnar, fyrir því at trefur[2] á einu dýrligu klæði komu út á hörpunni; ok er hann bakaðist við eldinn, þá sèr hún einn dýrligan gullhríng koma fram undan tötrum hans, þvíat hann var illa klæddr. Ok er hann hafði bakast, sem hann kunni sèr þörf til, þá hafði hann náttverð; en eptir þat bað hann kellíngu fylgja sèr þángat til, sem hann skyldi sofa um nóttina. Þá sagði kellíng, at honum mundi betra vera úti, enn

[1]) eina ljóta kerlingu. *B.* [2]) trefjur, *B.*

inni, því at við karl minn erum opt málug[1], er hann kemr heim. Hann biðr hana ráða; gengr nú út ok svâ hún; hann tekr hörpuna ok hefr með sèr. Kellíng gengr út, ok ferr þar til, er bygghlaða ein er, ok fylgir honum þar til, ok mælti, at hann skyldi þar umbúast, ok kveðst þess vænta, at hann mundu þar njóta svefns síns; ok nú gengr kellíng í brott, ok annast þat, er hún þyrfti; [en hann gerir sèr svefn. Karl kemr heim, er aptaninn líðr, en kellíng hefir fátt unnit þat, er hún þyrfti[2], en hann var móðr, er hann kom heim, ok illr viðskiptis, er allt var úbúit þat, er hún skyldi annast hafa; sagði karl, at mikill væri munr sælu, er hann vann hvern dag meira, enn hann mátti, en hún vildi til einkis taka þess, er gagn var at. Ver eigi reiðr, karl minn! sagði hún, fyrir því at þat kann at vera, at þú mættir nú skamma stund vinna til þess, at við værim sæl alla æfi. Hvat er þat? segir karl. Kellíng svarar: hèr er kominn til herbergis okkars einn maðr, ok ætla ek at hann hafi allmikit fè með at fara, ok er hníginn á efra aldr, ok mun verit hafa enn mesti kappi, ok er nú þó móðr mjök, ok eigi þikkjumst ek hans maka sèt hafa, ok þó ætla ek hann mæddan ok syfjaðan. Þá segir karl: þat sýnist mèr úráðligt, at svíkja þá enu fá, sem hèr koma. (Hún svarar): því muntu lengi lítill fyrir þèr, at þèr vex allt í augu, ok ger nú ann-

[1]) nokkut við of kjöftug, *B.* [2]) *v. í B.*

athvârt, at þú drep hann, eða ek tek hann mèr til manns, ok munu við reka þik [í brutt[1]; ok segja kann ek þèr þá ræðu, er hann mælti við mik í gærkveld, en lítils mun þèr þikkja um vert; hann mælti kvennsamliga við mik, ok þat mun mitt ráð vera, at taka hann mèr til manns, en reka þik í brutt eða drepa, ef þú vill eigi eptir því gera, sem ek vil. Ok er þat sagt, at karl hafði kvonríki, ok telr hún um þángattil, er hann lætr at eggjan hennar, tekr öxi sína, ok snarbrýnir mjök; ok er hann er búinn fylgir kellíng honum þar til, er Heimir sefr, ok var þar hrytr mikill. Þá mælti kellíng til karls, at hann skyldi láta verða tilræði sem bezt: ok skunda brutt með hlaupi, því-at ekki máttu standast lát hans ok óp, ef hann fær þik höndum tekit; hún tekr hörpuna, ok hleypr á brutt með. Nú gengr karl þar til, er Heimir sefr; hann höggr til hans, ok verðr þat mikit sár, ok verðr honum laus öxin; hann hleypr þegar í brutt, sem hann mátti harðast. Nú vaknar Heimir við áverkann, ok vanst honum at fullu; ok þat er sagt, at svâ mikill gnýr varð í hans fjörbrotum, at undan gengu súlur í húsinu ok ofan fèll húsit allt, ok varð landskjálfti mikill, ok lýkr þar hans æfi. Nú kom karl þar, sem kellíng var, segir nú, at hann hefir drepit hann: ok þó var þat of hríð, er ek vissa eigi hve fara mundi, ok þessi maðr var furðu mik-

[1]) til úlukku í burt, *B.*

ill fyrir sèr, en þó væntir mik at hann sè nú í helju. Kellíng mælti, at hann skyldi hafa þökk fyrir verkit: ok væntir mik at nú hafim við ærit fè, ok skulum við reyna, hvârt ek hefi satt sagt. Nú kveikja þau eld, en kellíng tekr hörpuna, ok vildi uppkoma, ok mátti eigi annarskostar, enn hún varð at brjóta, þvíat hún hafði eigi hagleik til; ok nú fær hún uppkomit hörpunni, ok þar sèr hún eitt meybarn, at hún þóttist ekki slíkt sèt hafa, ok þó var mikit fè í hörpunni. Nú mælti kellíng: þat mun nú verða sem opt, at illa man gefast at svíkja þann, er honum trúir, sýnist mèr sem komin muni úmegð á hendr okkr. Karl svarar: eigi er þetta eptir því, sem ek ætla, en þó skal nú ekki umsakast. Ok nú spyrr hún[1], hverrar ættar hún væri; en þessi en únga mær svarar aungu, svâ sem hún hefði eigi mál numit. Nú ferr sem mik varði, at okkart ráð[2] mundi illa fara (segir karl), við höfum unnit glæp mikinn, hvat skulum við sjá fyrir barni þessu? Auðvitat er þat, sagði Gríma; hún skal eptir móður minni[3] heita Kráka. [Nú mælti karl: hvat skulum við sjá fyrir barni þessu[4]? Kellíng svarar: ek sè gott ráð til: við skulum segja hana okkra dóttur, ok uppfæða. Því man engi trúa, sagði karl, miklu er barn þetta geðsligra[5], en við erum [all-

[1]) hann, *hin.* [2]) mál, *B, J, K.* [3]) sællri, *b. v. B.* [4]) *v. í B, J, K.* [5]) gerfiligra, *hin.*

óvæn bæði[1] ok munu engi líkendi á þikkja, at við munum eiga þvílíkt barn, svâ endemlig sem við erum bæði. Nú mælti kellíng: eigi veiztu nema ek hafa í nokkr brögð, at þetta megi eigi úvænt þikkja[2]; ek man láta gera henni koll, ok rýða[3] í tjöru ok öðru, er vænst er at sízt komi hár upp; hún skal eiga hatt síðan[4], eigi skal hún ok vel klædd vera, mun þá saman draga vârn[5] yfirlit; má vera, at menn trúi því, at ek hafa [mjök væn[6] verit, þá er ek var úng[7]; hún skal ok vinna þat, er verst er; en þat hugðu þau karl ok kellíng, at hún mætti ekki mæla, er hún svarar þeim aldrí. Nú er þat gert, sem kellíng hefir fyrirhugat; nú vex hún þar upp í miklu fátæki.

[1]) hræðilíga ófríð ok svört ok svípill bæði hjónin, *B.* [2]) at við munum eiga þvílikt barn, *b. v. hin.* [3]) klína, *B.* [4]) slæmon, *B.* [5]) um, *hin.* [6]) kvenna vænst ok dægiligust, *B.* [7]) ok heima í föðurgarði, *b. v. B.*

## Sagan af Ragnari loðbrók ok sonum hans[1].

1. HERRUDR[2] hèt jarl ríkr ok ágætr á Gautlandi, hann var kvongaðr; dóttir hans hèt Þóra; hún var állra kvenna fríðust sýndum[3], ok kurteisust at sèr um alla luti, þat er til handa má bera, ok betra er at hafa, enn án vera; þat var hennar kenníngarnafn, at hún var kölluð Borgarhjörtr, fyrir því at svâ bar hún af öllum konum at fegurð, sem hjörtr af öðrum dýrum. Jarlinn unni mikit dóttur sinni; hann lèt gera henni eina skemmu, skamt frá höll konúngs, ok um þá skemmu var skíðgarðr. Þat lagði jarl í vanda sinn, at senda dóttur sinni hvern dag nokkut til skemtanar, en þat mælti hann, at því mundi hann framhalda. Frá því er sagt, at hann lèt færa henni lítinn lýngorm einhvern dag, ákafliga fagran, ok þessi ormr þótti henni góðr, ok lèt hann í sitt[4] eski, ok bar undir hann gull; skamma stund var hann þar, áðr hann óx mikit ok svâ gullit undir honum; þar kemr, at eigi hefir hann rúm í eskinu, ok liggr nú í hríng um eskit utan; ok þar kemr of síðir, at

[1]) *þannig, B, L;* frá Herruði jarli ok Þóru borgarhjört, *hefir A sem yfirskrift kapít.; í hinum eru eigi sögurnar aðskildar.* [2]) Herrauðr, *hin allstaðar.* [3]) *v. í B, J, K, L.* [4]) eitt, *hin.*

eigi hefir hann rúm í skemmunni, ok gullit vex undir honum jafnt sem ormrinn sjálfr; nú liggr hann utan um skemmuna, svâ at saman tók höfuð ok sporðr, ok illr gerist hann viðreignar, ok þorir engi maðr at koma til skemmunnar fyrir þessum ormi, nema sá einn, er honum færir fæðslu, ok oxa[1] þarf hann í mál. Jarli þikkir mikit mein á þessu, ok strengir þess heit, at hann mun þeim manni gefa dóttur sína, hvat manna sem hann er, ef at bana yrði orminum, ok gull þat, er undir honum er, skal vera hennar heimanfylgja. Þessi tíðendi spyrjast víða of land, en þó treystist engi til at ráða fyrir þessum mikla ormi.

2. Í þann tíma rèð fyrir Danmörku Sigurðr hríngr; hann var ríkr konúngr, ok er frægr orðinn af þeirri orrostu, er hann barðist við Harald hilditönn á Brávelli, ok fyrir honum fèll Haraldr, sem kunnigt er orðit of alla Norðrálfu heimsins. Sigurðr átti einn son, er Ragnar hèt; hann var mikill vexti, vænn yfirlits ok vel viti borinn, stórlyndr við sína menn, en grimmr sínum úvinum; þegar hann hafði aldr til, fær hann sèr liðs ok herskipa, ok gerist hann enn mesti hermaðr, svâ at varla fæst hans maki. Hann spyrr þetta, er Herruðr jarl hafði ummælt, gefr hann at engan gaum, ok lætr sem hann viti eigi; hann lætr gera sèr föt með undarligum hætti, þat eru[2] loðbrækur og loðkápa, ok nú

[1]) uxa, *hin.* [2]) er V, *hin.*

er ger eru, þá lætr hann þau vella í biki, síðan herðir hann þau. Þat er eitthvert sumar, er hann heldr her sínum til Gautlands, ok leggr í leynivâg einn skip sitt, ok var skamt þaðan, þat er jarl rèð fyrir; ok er Ragnar hafði þar eina nótt verit, vaknar hann snemma um morgininn, rís upp ok tekr þessi en sömu vopnföt, er áðr var frásagt, ok ferr í, ok tekr spjót mikit í hönd sèr, ok gengr af skipunum einnsaman ok þar er sandr er, ok nú veltist hann í sandinum; ok áðr hann gengr í brutt, tekr hann geirnagla or spjóti sínu, ok ferr nú einn frá skipunum til borgarhliðs jarls, ok kemr þar snemma dags, svâ at allir menn voru í svefni. Nú stýrir hann til skemmunnar; ok er hann kemr í skíðgarðinn, þar sem ormrinn var, leggr hann til hans með spjóti sínu, ok þá kippir hann at sèr spjótinu; ok annat sinn leggr hann[1], þat lag kemr í hrygg orminum, ok nú vizt[2] hann við hart, svâ at spjótit gekk af skaptinu, ok verðr svâ mikill gnýr í hans fjörbrotum, at skemman skelfr öll. Ok nú snýr Ragnar á brutt; þá kemr blóðbogi milli herða honum, ok þat sakar hann eigi, svâ hlífa honum klæði þau, sem hann lèt gera. En þeir, er í skemmunni voru, vakna við gnýinn, ok gánga út or skemmunni. Nú sèr Þóra gánga einn mann mikinn frá skemmunni, ok spyrr hann at nafni, eða hvern hann vill nú finna; hann nemr staðar, ok kvað vísu þessa:

[1]) til hans, *b. v. hin.* [2]) vindst, *hin.*

Hætt hefi ek leyfðu lífi,
litfögr kona vitra!
vá[1] ek at foldarfiski,
fimtán gamall mínu;
hafa[2] skal ek, böl nema bíti,
bráðrakinn[3] mèr dauða,
heiðarlax til hjarta
hríngleygim[4] vel smjúgi[5].

Ok nú gengr hann á brott, ok mælti ekki fleira við hana; en spjótit stóð í sárinu eptir, en hann hefir skaptit með sèr. Nú er hún hefir þessa vísu heyrða, skyldi hún hvat hann sagði til um sitt erendi, ok svâ hve gamall hann var; ok nú hyggr hún at fyrir sèr, hverr hann mundi vera, ok þikkist hún eigi vita, hvârt hann er mennskr maðr eða eigi, fyrir því at henni þikkir vöxtr hans vera svâ mikill, sem sagt er frá úvættum á þeim aldri, sem hann hafði, ok snýr hún inní skemmuna ok sofnar. Ok er menn koma út um morgininn, verða menn þess varir, at ormrinn var dauðr, ok hann var lagðr með einu miklu spjóti, ok þat stóð fast í sárinu; nú lætr jarl þat í brott taka þaðan, ok var þat svâ mikit, at fám var vopnhæft. Nú íhugar jarl hvat hann hafði ummælt við þann mann, er orminum yrði at bana, ok þikkist eigi vita, hvârt mennkr maðr veldr þessu eða eigi, ok ræðst nú um við vini

1) vann, *J, K.* 2) fá, *J, K.* 3) bráðrekinn, *B*; barðrakinn, *E*; bráðdreginn, *L.* 4) *þannig A*, hrínglegiun, *hin.* 5) smjúga, *K.*

sína ok dóttur, hve hann skal eptir leita, ok þikkir á því líkendi, at sá mun eptir leita at hafa verðkaupit, er til hefir unnit. Þat rèð hún, at láta kveðja þíngs fjölmenns: ok bið þá segja, at þángat komi allir þeir menn, er eigi vilja hafa reiði jarls, ok nokkrskostar mega sækja þíngstefnu, ok ef sá er nokkr, er viðgengr banasári ormsins, skal hafa þat spjótskapt þángat, er fylgt hefir spjótinu. Þetta lízt jarli vænligt, ok lætr nú þíngs kveðja. Ok er at þeim degi kemr, er vera skal þíngit, kemr jarl ok margir höfðíngjar aðrir; þar verðr mikit fjölmenni.

3. Þetta spyrst til skipa Ragnars, at þaðan skamt var þíng stefnt; ok nú ferr Ragnar frá skipum náliga með allan her sinn til þíngsins; ok er þeir koma þar, nema þeir staðar nâkkvat frá öðrum mönnum, þvíat Ragnar sèr nú at komit var fjölmenni mikit frá því, sem vani var til. Þá stendr jarl upp, ok kveðr sèr hljóðs ok talar, biðr menn hafa þökk fyrir, er vel hafa skipazt við hans orðsendíng, ok segir síðan atburð þann, sem orðinn er, fyrst frá því, hversu hann hafði ummælt við þann mann, er orminum yrði at bana, síðan, at ormrinn er nú dauðr, ok sá hefir látit eptir standa spjótit í sárinu, er unnit hefir þetta frægðarverk: ok ef nokkr er sá hèr kominn til þíngsins, et þat skapt hafi, er þessu spjóti hæfi, beri hann þat fram, ok sanni svâ sögu sína, þá skal ek þat allt enda, er ek hefi

ummælt, hvârt sem hann er af meirum stigum, eða minnum; ok lýkr hann svâ sínu máli, at hann lætr bera spjótit fyrir hvern mann, er á er þínginu, ok biðr sèr segja, hverr sá er, er við þessu gengr, eða þat skapt hefir, er hèr hæfir til. Nú er svâ gert; eigi finnst sá nè einn[1], eð þat skapt hafi. Nú er komit þar, sem Ragnar er, ok sýnt honum spjótit, ok gengr hann við at hann mun eiga, ok þar hæfir hvârt eptir öðru skaptit ok spjótit. Nú þikkjast menn vita, at hann mun hafa orðit orminum at bana, ok verðr hann af þessu verki harðla mjök frægr of öll Norðrlönd, ok biðr hann nú Þóru dóttur jarls, ok hann[2] tekr því vel, ok nú er hún honum gipt, ok er fengit at mikilli veizlu með enum beztum faungum í því ríki; at þessi veizlu kvongast Ragnar. Ok er lokit er veizlunni, ferr Ragnar til ríkis síns, ok rèð þar fyrir, ok ann mikit Þóru; þau eiga 2 sonu, hèt Eirekr enn ellri, en Agnarr enn ýngri; þeir voru miklir vexti ok fríðir sýnum, sterkari voru þeir miklu, enn aðrir menn flestir, er þá voru uppi; þeir námu allskonar íþróttir. Þat var eitthvert sinn, at Þóra kendi sèr sóttar, ok andast hún or þessi sótt; en Ragnari þótti þetta svâ mikit, at hann vill eigi [ráða ríkinu[3]; ok tekr aðra menn at ráða ríkinu með sonum sínum; en hann tekr nú til iðnar sinnar ennar sömu, sem hann hafði fyrr

[1]) neinn, *J, K;* nú einn, *hin.* [2]) hún, *J, K.* [3]) aðra konu eiga, *hin.*

haft, ok ræðst nú í hernað, ok hvar sem hann ferr, fær hann sigr.

4. Nú er þat eitt sumar, at hann heldr skipum sínum til Noregs, þvíat hann átti þar marga frændr ok vini, ok vill þá hitta; hann kemr skipum sínum um kveldit í höfn eina litla, en þar var bær skamt þaðan, er hèt á Spángarheiði, ok lágu þeir þar í höfn þá nótt. Ok er morgin kom, skyldu matsveinar fara á land at baka brauð; þeir sjá at bær er skamt frá þeim, ok þótti þeim sèr þat betr gegna, at fara til húss, ok vera þar at. Ok er þeir kvomu til þess ens litla bæjar, þá hitta þeir einn mann at máli, ok er þat kellíng, ok spurðu, hvârt hún væri húsfreyja, eða hvat hún hèti. Hún segir, at hún sè húsfreyja: ok nafn mitt úvandt, ek heiti Gríma; eða hverir eru þèr? Þeir sögðu, at þeir væri þjónustumenn Ragnars loðbrókar, ok vilja þeir færa fram sýslu sína: ok viljum vèr at þú vinnir með oss. Kellíng svarar, at hendr hennar voru stirðar mjök: en verit hafði þat fyrrum, at ek [kunna bjarg vel sýslu sinna[1], ok á ek mèr dóttur þá, er at mun vera með yðr ok mun heim koma brátt, ok heitir Kráka, er nú svâ komit, at ek kem[2] trautt ráði[3] við hana. Ok nú er Kráka at fè farin um myrgininn, ok sèr at

[1]) *þannig A og fleirst*; var í kvenna tölu, bæði um fríðleik ok atgjörfi til alls, er bezta kvennkosti viðleit, *B*, *L*; *v. í J*, *K*. [2]) get, *B*, *J*, *K*, *L*. [3]) ráðit, *B*, *J*, *K*, *L*.

skip voru komin við land mörg ok stór; ok nú tekr[1] hún[2] ok þvær sèr, en kellíng hafði henni þat bannat, þvíat hún vildi eigi at menn sæi fegurð hennar, þvíat hún var allra kvenna vænst, en hár hennar var svâ mikit, at tók (á) jörð um hana, ok svâ fagrt sem silki [þat, er fegrst verðr[3]. Ok nú kemr Kráka heim, en þeir matsveinar höfðu gert eld; ok nú sèr Kráka at þar eru menn komnir, þeir er hún hefir eigi fyrr sèt; hún hyggr at þeim, ok svâ þeir at henni. Ok nú spyrja þeir Grímu: hvârt er sjá þín dóttir, en fagra mær? Eigi er til þess logit, segir Gríma, at sjá er mín dóttir. Furðu úlíkar máttu þið[4] verða, segja þeir, svâ illilig[5] sem þú ert, en vèr höfum eigi jafnvæna mey sèt, ok aunga sjám vèr hana hafa þína mynd, þvíat þú ert et mesta ferlíki. Gríma svarar: eigi má[6] nú á mèr sjá, brugðit er nú mínum yfirlitum or því, sem var. Nú ræða þeir þetta, at hún vinni með þeim. Hún spyrr: hvat skal ek vinna? Þeir kváðust vilja at hún teygði brauð, en þeir mundi baka eptir, ok tekr hún síðan til sinnar iðju, ok vinnst henni vel; en þeir horfðu á hana ávalt, svâ at þeir gáðu eigi sýslu sinnar, ok brendu brauðit; ok er þeir höfðu lokit verki sínu, fóru þeir til skipa. Ok þá er þeir skyldu brjóta upp vistir sínar, mæltu allir, at þeir hefði aldrí jafn-

1) tefr, *J*, *K*. 2) sèr fyrir hendr, *b. v. B*, *L*. 3) *v. í B*, *L*. 4) *þannig hin*; þú, *A*. 5) ok ambáttarlig, *b. v. B*, *L*. 6) *v. í A; tekið úr hinum.*

illa unnit, ok væri hegníngar fyrir vert. Ok nú spyrr Ragnar, hví þeir hefði þanninn matbúit? þeir kváðust sèt hafa konu svâ væna, at þeir gáðu eigi sinnar sýslu, ok ætluðu þeir at engi mundi henni vænni vera í veröld. Ok er þeir tóku svâ mikit af of hennar fegurð, þá segir Ragnar, ok kveðst þat vita, at sjá mundi eigi jafnvæn, sem þóra hafði verit; þeir kváðu hana eigi úvænni. þá mælti Ragnar: nú mun ek senda þá menn, er gerla kunni at sjá; ef svâ er, sem þèr segið, þá er þetta athugaleysi yðr uppgefit, en ef konan er at nokkrum lut úvænni, enn þèr segið frá, munu þèr taka hegníng mikla á yðr. Ok nú sendir hann menn sína til fundar við þessa ena fögru mey, en andviðri var svâ mikit, at þeir máttu eigi fara þann dag; þá mælti Ragnar við sína sendimenn: ef yðr lízt þessi en únga mær svâ væn, sem oss er sagt, biðið hana fara á minn fund, ok vil ek hitta hana, vil ek at hún sè mín; hvârki vil ek at hún sè klædd nè úklædd, hvârki mett nè úmett, ok fari hún þó eigi einsaman, ok skal henni þó engi maðr fylgja. Nú fóru þeir, þartil er þeir koma til húss, ok hyggja at Kráku vandliga, ok lízt þeim sjá kona svâ væn, at þeir hugðu aunga aðra jafnvæna; ok nú segja þeir orð herra síns, Ragnars, ok svâ, hversu hún skyldi búin vera. Kráka hugði at, hversu konúngr hafði mælt, ok hve hún skyldi búast, en Grímu þótti engan veg svâ mega vera, ok kveðst vita, at sjá kon-

úngr mundi eigi vera vitr. Kráka segir: því mun hann svâ mælt hafa, at svâ mun vera mega, ef vèr skiljum, eptir því sem hann ætlar til; en víst eigi má ek í yðarri ferð vera þenna dag, en ek man koma snemma á morgin til yðarra skipa. Nú fóru þeir í brott, ok segja Ragnari svâ búit, at hún mundi koma til fundar þeirra. Ok nú er hún heima þá nótt; en um myrgininn snemma segir Kráka karli, at þá mundi hún fara á fund Ragnars: en þó mun ek verða at breyta búnaði mínum nokkut, þú átt örriða net, ok mun ek þat vefja[1] at mèr, en þar yfir utan læt ek falla hár mitt, ok mun ek þá hvergi ber; en ek mun bergja á einum lauk, ok er þat lítill matr, en þó má þat kenna, at ek hefi bergt, ok ek mun láta fylgja mèr hund þinn, ok fer ek þá eigi einsaman, en þó fylgir mèr engi maðr. Ok er kellíng[2] heyrir hennar fyrirætlan, þikkir henni[3] hún mikit við hafa.

5. Ok er Kráka er búin, ferr hún leiðar sinnar, þartil er hún kemr til skipa, ok var fögr tilsýndar, er hár hennar var bjart ok sem á gull eitt sæi. Ok nú kallar Ragnar á hana, ok spyrr, hver hún væri, eða hvern hún vildi finna. Hún svarar, ok kvað vísu:

> Þori ek eigi boð brjóta,
> er báðuð mik gánga[4],
> nè ræsis kvöð[5] rjúfa,

[1]) ríða, *J, K.* [2]) karl, *hin.* [3]) honum, *hin.* [4]) geyma, *hin.*
[5]) *þannig hin*; kauð, *A*; rönd, *B.*

Ragnar! við þik stefnu;
mángi[1] er mèr í sinni,
mitt er bert hörund eigi,
fylgi hefi ek fullgott,
fer ek einsaman mínu.

Nú sendir hann menn at móti henni, ok lætr fylgja henni á skip sín; en hún kveðst eigi fara vilja, nema henni sè grið gefin ok förunaut hennar; nú er henni fylgt á konúngs skip; ok er hún kemr í fyrirrúm, seilist hann í mót henni, en hundrinn beit í hönd honum. Þeir menn hans hlaupa til ok drepa hundinn, ok reka bogastreng at hálsi honum, ok fær hann af því bana, ok er eigi betr griðum haldit við hana, enn svâ. Nú leggr[2] Ragnar hana í lyptíng hjá sèr, ok hjalar við hana, ok varð honum vel í skap við hana ok var blíðr við hana; hann kvað vísu:

[Sú mundi[3] víst, ef væri
vörðr föður jarðar[4]
mætr á mildri snótu,
[á mèr[5] taka höndum.

[Hún kvað[6]:

Vammlausa skaltu vísi[7],
ef viltu griðum þyrma,
heim höfum hilmi sóttan,
hèðan mik fara látit[8].

Nú segir hann at honum lízt vel á hana, ok ætlar víst at hún skuli með honum fara. Þá

[1]) margt, *B*; magni, *J*. [2]) leiðir, *hin*. [3]) *ógreiniligt í A, getr jafnvel lesizt:* sú rumdi, *eða* sú reyndi; örvindi, *fleirst hinna*. [4]) hjarðar, *G*. [5]) *eða* amir, *A*. [6]) *v. í A*; *b. v. hin*. [7]) vísir, *hin*. [8]) láta, *J*, *K*.

kvað hún eigi svâ vera mega. Þá kvaðst hann vilja, at hún væri þar um nótt á skipi; hún segir, at eigi skal þat vera, fyrr enn hann kemr heim or þeirri ferð, sem hann hafði ætlat: ok má vera, at þá sýnist yðr annat. Þá kallar Ragnar á fèhirði sinn, ok bað hann taka serk þann, er Þóra hefir átt, ok var allr gullsaumaðr, ok færa sèr; þá býðr Ragnar Kráku á þá lund:

Viltu þenna þiggja,
er Þóra hjörtr átti,
serkr við silfr of merktan,
sama allvel þèr klæði;
fóru hendr hvítar
hennar um þessar gerfar;
sú var buðlúngi bragna
blíðum[1] þekk til dauða.

Kráka kvað í móti:

Þori ek eigi þann þiggja,
er Þóra hjörtr átti,
serk við silfr of merktan,
sama ælig[2] mèr[3] klæði;
því em ek Kráka kölluð
í kolsvartum voðum,
at ek hefi grjóti of gengit,
ok geitr með sjá reknar.

Ok vil ek víst eigi taka við serknum, segir hún, vil ek ekki í skraut búast, meðan ek em hjá karli; kann vera at yðr lízt betr á mik, ef ek búast betr,

[1]) bíðum, *B*, *C*, *E*, *F*, *G*; brúður mèr, *J*, *K*. [2]) *þannig A*; ei tign, *E*, *K*; ei lík, *J*; ætíg (ei tíg), *hin*. [3]) manns, *E*, *G*.

ok vil ek nú fara heim, en þá máttu gera menn eptir mèr, ef þèr er þá samt í hug, ok vilir þú at ek fara með þèr. Ragnar segir, at eigi mun hugr hans skipast[1], ok ferr hún heim. En þeir fóru, sem þeir höfðu ætlat, þegar þeim gaf byr, ok lýkr hann sínum erendum, eptir því sem hann hafði ætlat. Ok er hann ferr aptr, kemr hann sèr í ena sömu höfn, sem hann hafði fyrr haft, þá er Kráka kom til hans; ok þat eð sama kveld sendir hann menn á fund hennar at segja orð Ragnars, at hún færi nú alfari; en hún segir, at hún mun eigi fara fyrr, enn um morgininn; rís Kráka upp snemma, ok gengr til rekkju[2] þeirra karls ok kellíngar, ok spyrr, hvârt þau vaki. Þau kváðust vaka, ok spurðu, hvat hún vildi. En hún segir, at hún ætlaði á brutt, ok vera þar ekki lengr: en ek veit at þið dápuð Heimi fóstra minn, ok á ek engum manni verra at launa enn ykkr; ok fyrir þá sök vil ek ekki ykkr íllt gera láta, at ek hefi lengi með ykkr verit, en nú vil ek þat ummæla, at annar dagr sè ykkr öðrum verri, er yfir ykkr kemr, en inn síðarsti verstr, ok munu vèr nú skilja. Þá gengr hún leiðar sinnar til skipa, ok er þar vel við henni tekit; gefr þeim vel veðr. Þann aptan enn sama, er menn skulu reykkja[3] [undir sèr[4], þá segir Ragnar, at hann vill at þau Kráka hvíli bæði saman. Hún segir, at eigi mátti svâ

[1]) skiptast, *hin.* [2]) *þannig hin;* rjokkju, *A.* [3]) *þannig A;* rekkja, *C, D, E, F, G, H, J, K;* hvílast, *B, L.* [4]) *v. í B, L.*

vera: ok vil ek at þú drekkir brúðlaup til mín, þá er þú kemr í ríki þitt, ok þikki mèr þat mín virðíng, sem þín, ok okkarra erfíngja, ef við egum nokkra. Hann veitti henni sína bæn, ok ferst þeim vel. Kemr Ragnar nú heim í land sitt, ok er dýrlig veizla búin í mót honum; ok nú er bæði drukkit fagnaðaröl í móti honum ok brúðlaup hans. Ok enn fyrsta aptan, er þau koma í eina reykkju, vill Ragnar eiga hjúskaparfar við konu sína; en hún biðst undan: þvíat hún segir, at [á baki mundi[1] bera nokkot, ef hún rèði eigi. Ragnar kveðst ekki trúa mundu á þat, kvað þau ekki framvís karl ok kellíngu. Hann spurði, hve lengi svâ skyldi vera. Þá kvað hún:

> [Þrjár nætr skulum[2] þessar[3],
> ok þó saman byggja[4]
> hressvar[5] nætr í höllu,
> áðr við heilug[6] goð blótim;
> þá munu mein á mínu
> megi til laung of verða;
> heldr ertu bráðr at byrja
> þann, er bein hefir engi.

Ok þó hún kvæði þetta, gaf Ragnar at því engan gaum, ok brá á sitt ráð.

6. Nú líða stundir fram, ok var samför þeirra góð ok miklar ástir; en Kráka kennir

[1]) af muni, B, L. [2]) skulu, B, G. [3]) við þrjár þreyja, B. [4]) liggja, B. [5]) hýar, B; hversvar, E, G. [6]) heilla, J, K.

sèr sóttar, ok verðr lèttari ok elr sveinbarn, ok var sveinninn vatni ausinn ok nafn gefit, ok kallaðr Ívar; en sá sveinn var beinlauss, ok sem brjósk væri þar, sem bein skyldu vera; ok þá er hann var úngr, var hann vexti svâ mikill, at engir voru hans jafníngjar; hann var allra manna fríðastr sýnum, ok svâ vitr, at eigi er víst hverr meiri spekíngr hefir verit, enn hann. Þeim verðr enn fleiri barna auðit; annar son þeirra hèt Björn, enn þriði Hvítserkr, enn fjórði Rögnvaldr; þeir voru miklir menn allir, ok enir fræknustu; ok þegar þeir máttu nokkut athafast, námu þeir allskonar íþróttir; ok hvert sem þeir fóru, lèt Ívar bera sik á staungum, þvíat hann mátti eigi gánga, ok skyldi hann hafa ráð fyrir þeim, hvat sem þeir höfðust at. Nú eru þeir Eiríkr ok Agnarr, synir Ragnars, miklir menn fyrir sèr, svâ at trautt finnast þeirra jafníngjar, ok búa þeir á herskipum hvert sumar, ok eru ágætir af sínum hernaði. Ok nú er þat einn dag, at Ívar ræðir við bræðr sína Hvítserk ok Björn, hve lengi svâ skal fram fara, at þeir skyli heima sitja, ok leita sèr engrar frægðar; en þeir segja, at þeir skyli hans ráðum framfara um þat, sem annat. Nú vil ek, segir Ívar, at vèr biðim at oss sè fengin skip ok lið, svâ at þau sè vel skiput, ok síðan vil ek at vèr aflim oss fjár ok ágætis, ef svâ vill upptakast. Ok er þeir höfðu þetta ráðit með sèr, segja þeir Ragnari, at þeir vilja at hann fái þeim skip ok

[lið þat[1], sem reynt sè at herfángi[2], ok búit vel fyrir alls sakir; ok gerir hann þat, eptir því sem þeir beiddu. Ok nú er þetta lið er búit, fara þeir or landi; en þar sem þeir berjast við menn, fá þeir meira lut, ok fá sèr nú bæði mikit lið ok fè. Ok nú segir Ívar, at hann vildi at þeir hèldi þar til, er meira ofrefli er fyrir, ok reyndi svâ sinn hraustleik; ok nú spyrja þeir, hvar hann vissi þess von. Ok nú nefnir hann einn stað, þann er heitir Hvítabær, en þar höfðu verit blót: ok margir hafa tilleitat at vinna, ok hafa engir sigrast[3], ok hafði Ragnar komit þar, ok varð frá at hverfa, ok fèkk ekki at gert. Hvârt er þat lið svâ mikit, segja þeir, ok svâ harðfengt, eða eru þar önnur torveldi? Ívar segir, at bæði var fjölmenni mikit ok blótstaðr mikill, ok þat hafði öllum fyrirkomit, ok aungir höfðu staðizt. Ok nú mæla þeir, at hann skyldi fyrir ráða, hvârt þeir skyldu þángat halda eða eigi; en hann segir, at hann vill heldr hætta á, hvârt meira má þeim harðfengi, eða blótskapr landsmanna.

7. Nú halda þeir þángat; ok er þeir koma þar í land, búast þeir til uppgaungu; ok nú þikkir þeim þyrfa, at liðit gæti sumt skipanna; en Rögnvaldr bróðir þeirra var þá úngr, at þeim þótti hann eigi til færr vera í svâ mikilli mannraun at vera, sem þeim þótti líkligt at vera mundi,

[1]) *þannig hin*; liði því, *A.* [2]) harðfengi, *hin.* [3]) sigrat, *hin.*

ok láta hann gæta skipa með sumu liði. En áðr þeir færi frá skipum, segir Ívar, at þeir borgarmenn eigu nauttava[1], ok er þat kvígendi, ok menn höfðu þar frá horfit, at eigi mátti standast lát hennar[2] ok tröllskap. Þá mælti Ívar: verðið við sem bezt, þótt yðr bjóði nokkurn ótta, þvíat eigi mun til sá[3] vera. Nú fylkja þeir liði sínu. Ok er þeir nálgast borgina, verða þeir varir við, er byggja staðinn, taka nú at leysa út naut þessi, er þeir trúðu á; ok er kvígendin eru laus látin, hlaupa þau hart ok láta illa. Nú sèr Ívar þetta, þar sem hann er borinn á skildi, ok biðr fá sèr boga, ok svâ var gert; nú skýtr hann þessi en illu kvígendi, svâ at hvârtveggja fèkk bana, ok var nú af hendi leystr þessi úfriðr[4], er mönnum þótti mestr ótti at. Nú tekr Rögnvaldr til orða [at skipum[5], ok mælti við lið sitt, at þeir menn væri sælir, er slíka skemtan skyldu hafa, sem þeir bræðr hans hafa: ok gengr þeim ekki annat til, er ek skylda eptir vera, enn þeir einir vilja hafa virðíng af; nú skulu vèr gánga upp gervallir; ok nú gera þeir svâ. Ok þá er þeir koma eptir liðinu, gengr Rögnvaldr hart fram í bardagann, ok lýkr svâ, at hann fellr. En þeir komast í borgina bræðr, ok tekst nú bardagi af nýu, ok lýkr svâ, at borgarmenn komast á flótta, en þeir reka flótt-

[1]) *þannig A og fleirst;* naut tvö, *B.* [2]) þeirra, *B.* [3]) traust, *hin.* [4]) en illu kýngi og sú, *b. v. B.* [5]) *v. í B.*

ann. Ok er þeir hverfa aptr til borgarinnar, kveðr Björn vísu:

Upp rundu[1] vèr ópi,
vâr bitu meir enn þeirra,
satt mun ek til þess segja,
sverð í Gnípafirði;
knátti hverr er vildi
fyrir Hvítabæ[2] utan,
nè sitt spari sveinar
sverð, mannsbani verða.

Ok er þeir koma aptr í borgina, taka þeir allt lausafè, en brenna hvert hús er í var borginni, ok brjóta alla borgarveggi; ok nú halda þeir skipum sínum þaðan.

8. Eysteinn hefir konúngr heitit, er rèð fyrir Svíþjóðu; hann var kvângaðr, ok átti eina dóttur, sú hèt Íngibjörg; hún var allra kvenna fríðust ok vænst sýnum. Eysteinn konúngr var ríkr ok fjölmennr, illgjarn ok þó vitr; hann hafði atsetu[3] at Uppsölum; hann var blótmaðr mikill, ok at Uppsölum voru blót[4] svâ mikil í þann tíma, at hvergi hafa verit meiri á Norðrlöndum. Þeir höfðu átrúnað mikinn á einni kú, ok kölluðu þeir hana Síbilju; hún var svâ mjök blótin, at menn máttu eigi standast lát hennar, ok því var konúngr vanr, þá er hers var vân, at þessi kýr en sama var fyrir fylkíngum, ok svâ mikill djöfuls kraptr fylgdi henni, at úvinir hans urðu

[1]) rendu, *hin.* [2]) Hvitbæ, *B.* [3]) *þannig hin;* átt setu, *A.* [4]) *v. í A.*

svâ ærir, þegar þeir heyrðu til hennar, at þeir börðust sjálfir, ok gáðu sín eigi, ok fyrir þá sök var óherskátt í Svíþjóð, at menn treystust eigi við slíkt ofrefli at etja. Eysteinn konúngr átti vingott við marga menn ok höfðíngja, ok er þat sagt, at í þann tíma var vinátta mikil með þeim Ragnari ok Eysteini konúngi, ok þeir voru því vanir, at sitt sumar skyldi sækja veizlu hvârr þeirra til annars. Nú kemr at því, at Ragnar skal sækja veizlu til Eysteins konúngs; ok er hann kemr til Uppsala, var honum vel fagnat ok liði[1] hans. Ok þá er þeir drekka enn fyrsta aptan, lætr konúngr dóttur sína byrla sèr ok Ragnari; ok þat mæltu menn Ragnars með sèr, at engi væri annar til, enn hann bæði dóttur Eysteins konúngs, en hann ætti eigi lengr karlsdóttur; ok nú verðr til einhverr hans manna at tjá þetta fyrir honum; ok því lýkr svâ, at honum er heitit konunni, ok skyldi hún þó sitja í festum mjök lengi. En þá er þeirri veizlu var lokit, býst Ragnar heim, ok ferst honum vel; ok er ekki sagt frá ferð hans, fyrr enn hann á skamt til borgarinnar, ok liggr leið hans um skóg einn. Þeir koma í eitt rjóðr, er var í skóginum; þá lætr Ragnar nema staðar lið sitt, ok kvaddi sèr hljóðs, ok biðr þá menn alla, er í hans ferð höfðu verit til Svíþjóðar, at engi skyldi segja hans fyrirætlan, er stofnuð var um ráðahag við dóttur Eysteins konúngs; nú leggr hann svâ ríkt við

[1]) kyni, *B.*

þetta, ef sá er nokkr, er of þetta geti, at hann skal engu fyrir týna nema lífinu. En nú er hann hafði talat slíkt, er hann vildi, fór hann heim til bæjarins; ok nú verða menn fegnir, er hann kemr aptr; ok þá var drukkit fagnaðaröl í móti honum. Ok er hann kemr í hásætit, ok hefir setit eigi lengi, áðr Kráka kemr í höllina fyrir Ragnar, ok sezt í knè honum, ok leggr hendr um háls honum, ok spyrr: hvat er tíðenda? En hann kveðst engi kunna at segja. Ok er áleið kveldit, taka menn til drykkju, ok síðan fara menn til svefns. Ok er þau koma í eina reykkju Ragnar ok Kráka, spyrr hún hann enn tíðenda; en hann kveðst engi vita. Nú vill hún hjala margt; en hann kveðst vera syfjaðr mjök ok farmóðr. Nú mun ek segja þèr tíðendi, segir hún, ef þú vilt mèr engi segja. Hann spyrr, hver þau væri. Þat kalla ek tíðendi, segir hún, ef konúngi er heitit konu, en þat er þó sumra manna mál, at hann eigi sèr aðra áðr. Hverr sagði þèr þetta? segir Ragnar. Halda skulu menn þínir lífi ok limum, þvíat engi sagði mèr þinna manna, segir hún; þèr munuð sjá at fuglar þrír[1] sátu í trènu[2] hjá yðr, þeir sögðu mèr þessi tíðendi; þess bið ek, at þú vitìr eigi ráða þessa sem ætlat er; nú man ek segja þèr, at ek em konúngs dóttir, en eigi karls, ok faðir minn var svâ ágætr maðr, at eigi fèkst hans jafníngi, en mín móðir var allra kvenna fríðust ok vitrust, ok hennar

[1]) *mínir, hin; rángt lesið úr* III *í A.* [2]) turni, *hin.*

nafn man uppi, meðan veröldin stendr. Nú spyrr hann, hverr faðir hennar var, ef hún væri eigi dóttir þess ens fátæka karls, er á Spángarheiði var. Hún segir, at hún var dóttir Sigurðar Fâfnisbana ok Brynhildar Buðladóttur. Þat þikki mèr allúlíkligt (segir hann), at þeirra dóttir mundi Kráka heita, eða þeirra barn mundi í slíku fátæki uppvaxa, sem á Spángarheiði var. Þá svarar hún: saga er til þess; ok nú segir hún, ok hefr þar upp sögu, sem þau hittust á fjallinu Sigurðr ok Brynhildr, ok hún var byrjuð: ok er Brynhildr varð lèttari, var mèr nafn gefit, ok var ek kölluð Áslaug; ok nú segir hún allt, sem farit hafði frá því, er þau karl hittust. Þá svarar Ragnar: þessum mun ek viðbregða Áslaugar órunum[1], er þú mælir. Hún svarar: þú veizt at ek em eigi [heill maðr[2], ok mun þat vera sveinbarn, er ek geng með, en á þeim sveini mun vera þat mark, at svâ mun þikkja, sem ormr liggi um auga sveininum; ok ef þetta gengr eptir, bið ek þess, at þú komir eigi til Svíþjóðar þeirrar tíðar, attú fáir dóttur Eysteins konúngs, [en ef þetta rýfst, far þú með sem þú vilt[3], en ek vil at sjá sveinn sè heitinn eptir feðr mínum, ef í hans auga er þetta frægðarmark, sem ek ætla at vera muni. Nú kemr at þeirri stundu, er hún kennir sèr sóttar, ok verðr lèttari, ok elr

[1]) órum, *B*; orðum, *C, D, E, F, G, H*; óranum orðnum J, *K*.
[2]) heil kona, *B, L*. [3]) *v. í B*.

sveinbarn; nú tóku þjónustukonur sveininn ok sýndu henni; þá mælti hún, at bera skyldi til Ragnars, ok láta hann sjá. Ok nú er svâ gert, at sá enn úngi maðr var borinn í höllina, ok lagðr í skikkjuskaut Ragnars; en er hann sèr sveininn, var hann spurðr, hvat heita skyldi; hann kvað vísu:

Sigurðr mun sveinn [of heitinn[1],
sá mun [orrostur heyja[2],
mjök líkr vera móður
ok mögr föður kallaðr;
sá mun Óðins ættar
yfirbátr vera heitinn,
þeim er ormr í auga,
er annann lèt svelta.

Nú dregr hann gull af hendi sèr, ok gefr sveininum at nafnfesti; ok þá er hann rèttir höndina með gullinu, kemr við bak sveininum, en þat virðir Ragnar svâ, sem hann vildi hata[3] gullinu; ok nú kvað hann vísu:

Brynhildar[4] leizt[5] brögnum[6]
brúnstein hafa fránan
dóttur[7] mögr[8] enn dýri
ok dyggast hjarta;
sjá[9] berr alla ýta
yndleygs[10]boði magni

[1]) ófeilinn, *B*, *L*. [2]) örvitr heita, *J*, *K*. [3]) *þannig A*; hafna, *hin*. [4]) Brynhildr, *G*, *J*, *K*, *L*. [5]) laust, *J*, *K*. [6]) *ágizkað*; baravgtunn, *A*; bravgtuni, *C*, *E*, *G*, *H*; barugtúni, *J*, *K*; baugtvinn, *B*, *L*. [7]) *ágizkað*; dóttir, *J*, *K*; dróttar, *A og hin*. [8]) *ágizkað*; mög, *G*; mjög, *J*, *K*; maurg, *A og hin*. [9]) svâ, *B*, *L*. [10]) undleiks, *F*, *G*; ýngligs, *J*.

Buðla niðr, er baugi
bráðgerr hatar, ráðum.

Ok enn kvað hann:

Sjá er engi sveini,
nema Sigurði einum,
í brúnsteinum brúna[1]
bráð[2] háls[3] traumi[4] logða;
sjá hefir dagr yfir dýra,
dælt er hann af því kenna,
hauss[5] í harmatúni[6]
hríngs myrkviðar fengit.

Nú mælti hann, at þann svein skyldi bera í skemmu út; en þá var því lokit, at hann mundi til Svíþjóðar fara. Ok nú kemr upp ætt Áslaugar, svâ at þat veit hverr maðr, at hún er dóttir Sigurðar Fâfnisbana ok Brynhildar Buðladóttur.

9. Nú er sú stund var liðin, er á var kveðit, at Ragnar skyldi veizluna sækja til Uppsala, ok kom hann eigi, þótti Eysteini konúngi ger til sín svívirðíng ok dóttur sinnar; ok nú var lokit vinfengi þeirra konúnganna. Ok þá er þeirEirekr okAgnarr, synirRagnars, spyrja þetta, þá ræddu þeir með sèr, at þeir mundu fá sèr lið mikit, sem þeir mætti mest, ok mundu herja á Svíþjóð; ok nú draga þeir saman lið mikit ok búa skip sín, en þótti mikit undir, at vel tækist til, þá er skip skyldi framsetja. Nú verðr þat, at

1) beina, *hin.* 2) barð, *B, L.* 3) sals, *B, L.* 4) *þannig A og fl.*; táru, *J*; tárum, *K.* 5) hárs, *hin.* 6) hvarmatúni, *F, G.*

skip Agnars skauzt af lunni, ok varð þar maðr fyrir, ok fær sá bana, ok kölluðu þeir þat hlunnroð. Nú þótti þeim eigi vel tiltakast í fyrstu, ok vildu ekki láta standa þat fyrir ferð sinni. Ok þá er lið þeirra var búit, fara þeir með lið sitt til Svíþjóðar, ok þar, er þeir koma fyrst í ríki Eysteins konúngs, fóru þeir herskildi yfir; en landsmenn urðu varir við, ok fóru til Uppsala, ok segja Eysteini konúngi, at herr var kominn í landit. En konúngrinn lætr fara örfarboð um ríki sitt, ok dregr svâ mikinn her saman, at furða var at, ok þann her flytr hann, þartil er hann kemr í skóg einn, ok setr þar sínar herbúðir, ok hefir hann nú með sèr kúna Síbilju, ok mjök er hún nú blótin, áðr enn hún vildi fara. Ok er þeir eru í skóginum, mælti Eysteinn konúngr: frètt hefi ek til, segir hann, at synir Ragnars eru á völlunum fyrir framan skóginn, en þat er mèr sannliga sagt, at þeir hafi eigi einn þriðjúng[1] liðs við oss; nú skulu vèr skipa vârar fylkíngar til at berjast, ok skal þriðjúngr liðs vârs fara í mót þeim, ok eru þeir svâ harðfengnir, at þeir munu þikkjast hafa ráð vârt í hendi, ok þegar eptir skulum vèr öllum megin koma at þeim, ok kýrin skal fara fyrir liðinu, ok væntir mik, at eigi skulu þeir haldast við fyrir lát hennar; ok nú er svâ gert. Ok þegar, er þeir bræðr sjá lið Eysteins konúngs, þótti þeim sèr ekki ofrefli við at eiga, ok ætla eigi

[1]) *fjórðúng, hin.*

meira liðit vera munu. Ok þegar hèr eptir kemr allt liðit or skóginum, ok kýrin er laus látin, ok hleypr hún fyrir liðinu, ok lætr grimmliga, ok varð svâ mikill gnýrr at þeim hermönnum, er heyrðu, at þeir börðust sjálfir, nema þeir bræðr tveir fengu staðizt; en sú en illa vættr vâ með hornum sínum margan mann þann dag; ok þótt synir Ragnars væri miklir fyrir sèr, þá máttu þeir eigi bæði standast ofrefli fjölmennis ok blótskap, ok þó veittu þeir harða viðtöku, ok vörðust vel ok drengiliga ok af mikilli frægð. Þeir Eirekr ok Agnarr voru í öndverðri fylkíngu þann dag, ok opt gengu þeir í gegnum fylkíngar Eysteins konúngs, ok nú fèll Agnarr. Nú sèr Eirekr þat, ok berst nú allra fræknligast, ok hirðir nú eigi, hvârt hann kemst í brott eða eigi; ok nú verðr hann ofrliði borinn ok handtekinn. Ok nú mælti Eysteinn, at stöðva skyldi bardagann, ok bauð Eireki grið: ok þat mun ek til leggja, segir hann, við þik, at ek man gipta þèr dóttur mína. Eirekr segir, ok kvað vísu:

Vil ek eigi boð fyrir bróður,
nè baugum mey kaupa,
Eystein kveða orðinn
Agnars bana, heyra;
grèt eigi mik móðir,
menn ok eptir öl drekka,
ok geirtrè í gegnum
geir látið mik standa!

Nú segir hann, at hann vill, at þeir menn hafi grið, ok fari hvert er þeir vilja, er þeim hafa fylgt: en ek vil at spjót sè tekin sem flest, ok sè stúngit spjótunum í völl niðr, ok þar vil ek mik láta hefja á upp, ok þar vil ek láta lífit. Nú segir Eysteinn konúngr, at eptir því skal gera, sem hann beiðir, þótt hann kjósi þat, er verr gegnir hvârumtveggjum. Nú eru spjótin niðr sett, ok kvað Eirekr vísu:

Munat[1] eins konúngs efni,
[svâ at ek vita dæmi,
á dýrra beð deyja
til dögurðar hrafni;
mun blóði þá bróður
ok brátt yfir gjalla[2]
hirðr[3] veggja[4] slita
blárr, þóat illa leyni.

Ok nú gengr hann þartil, er spjótin eru niðr sett, ok tekr hríng af hendi sèr ok kastar til þeirra, er honum höfðu fylgt ok þá voru grið gefin, ok sendir þá til Áslaugar, ok kvað vísu:

Bera skuluð orð it efra,
nú eru orrir[5] fírar lagðir,
at mær hafi mína
mjó[6], Áslaugu, bauga;
þá mun mest af móði,
er mik spyrja dauðan,

1) ógnaði, *J, K.* 2) *v. í B.* 3) h'ðr, *A og fl.*; hyrðr, *B*; heiðr, *J, K* 4) beggja, *B, L.* 5) Eyríkis, *B*; Eyreks, *C og fl.*; Rýkis, *J, K.* 6) *þannig leiðrétt*; mik, *A og fl.*; með, *J, K.*

mín stjópmóðir sínum
mögum þögul segja.

Ok nú er hann hafinn uppá spjótinn; þá sèr hann, hvar hrafn flýgr, ok enn kvað hann:

Hlakkar hrafn of höfði
her- mínu nú sýna[1],
krefr undavalr augna,
[ósinna herminna[2];
veiztu, ef hrafn or höfði
höggr brúnsteina[3] mína,
launar undavalr Ekkils
illa marga fylli?

Nú lætr hann líf sitt með mikilli hreysti; en sendimenn hans fara heim, ok lètta eigi fyrr enn þeir koma þar, er Ragnar átti atsetu, ok þá var hann farinn í konúngastefnu; þeir voru ok eigi heim komnir synir Ragnars or hernaði. Nú eru þeir þar 3 nætr, áðr þeir gángi til fundar við Áslaugu. Ok þá er þeir koma fyrir hásætit Áslaugar, kveðja þeir hana virðuliga, ok tekr hún kveðju þeirra, ok hafði hún einn líndúk fyrir knjám sèr, ok ætlaði at kemba sèr, ok hárit hafði hún leyst. Nú spyrr hún, hverir þeir væri, fyrir því at hún hafði þá eigi fyrr sèt. Sá, er orð hafði fyrir þeim, sagði, at þeir höfðu verit liðsmenn[4] þeirra Eireks ok Agnars, sona Ragnars. Þá kvað hún vísu:

---

1) *þannig leiðrètt*; sína, *A og hin.* 2) steina hèr mína, *hin.*
3) brásteina, *B*, *L.* 4) líkmenn, *B.*

Hvat segi þèr or yðru,
eru Svíar í landi,
eða elligar úti
allný, konúngsspjalli?
fregit[1] hefi ek hitt, at fóru,
en fremr vitum eigi,
ok hildíngar höfðu
hlunnroð[2], Danir sunnan.

Hann kvað vísu í mót:

Þèr segju vèr þína,
þat er, nauð kona! dauða,
elli einkar manni,
örlög[3] sonum Þóru;
þúng spjöll vitum önnur
ei nýjari enn þessi,
nú hefi ek fram komit fögrum,
flaug örn of ná dauðan.

Nú spyrr hún, hve farit hafði. Ok nú kvað hann þá vísu, er Eirekr hafði kveðit, er hann sendi henni hrínginn. Nú sjá þeir at hún feldi tár, en þat var sem blóð væri álits, en hart sem haglkorn; þat hafði engi maðr sèt, at hún hefði tárfelt, hvârki áðr nè síðan. Nú segir hún, at hún má ekki til hefnda fara, fyrr enn heim koma aðrirhvârir, Ragnar eða synir hans: en þèr skuluð vera hèr þartil, en ekki skal af spara, at eggja til hefnda, jafnt sem þeir væri mínir synir. Nú eru þeir þar; en svâ gefr til, at þeir Ívar koma

[1]) fregnat, *B.* [2]) hlunnráð, *hin.* [3]) úrbjúg, *D.*

fyrri heim, enn Ragnar, ok eru þeir eigi lengi heima, áðr Áslaug ferr at finna sonu sína, en Sigurðr var þá þrèvetr[1]; hann ferr með móður sinni. Ok þá er hún kemr í höll þá, er þeir rèðu fyrir bræðr, fagna þeir henni vel, ok spyrja hvárir aðra tíðinda, ok segja þeir fyrri fall Rögnvalds, sonar hennar, ok frá þeim atburðum, er þar höfðu orðit; en ekki fær henni þat mikils, ok kvað:

Kaga lètu[2] mik mínir
mávángs synir laungum,
èr[3] eruð [heim af[4] heiman
húsgafs[5] meðalfærir[6];
Rögnvaldr tók at rjóða
rönd í gumna blóði,
hann kom ýngstr til Óðins
ógndjarfr sona minna.

Ek kann eigi þat at sjá, segir hún, at hann mundi til meiri frægðar lifa. Nú spyrja þeir, hvat hún segi tíðenda. Hún svarar: fall þeirra Eiríks ok Agnars, bræðra yðarra, en stjúpsona minna, þeirra manna, er ek ætla at enir beztu drengir hafi verit; ok er þat úkynligt, at þèr þolið slíkt eigi, ok hefnið miklu; ok þess vil ek biðja yðr, ok í öllum atbeina vera með yðr, at þessa verði meirr hefnt, enn miðr. Nú segir Ívar: at þat er víst, at til Svíþjóðar kemr ek

[1]) tvævetr, *B.* [2]) litu, *B.* [3]) ei, *B*, *F*, *J.* [4]) harmi at, *B*, *L.* [5]) húsgángs, *B*, *L.* [6]) meðalfæri, *B*, *L.*

aldri þeirrar tíðar, at ek berjumst við Eystein konúng, ok þann blótskap, er þar er. Hún fylgir þessu vel, en Ívar hefir orð fyrir þeim, ok synjar ávalt fararinnar; ok nú kvað hún vísu:

Eigi mundi yðar
úhefnt vera lengi
eitt misseri eptir,
ef þèr dæið fyrri,
lítt hirði' ek því leyna,
ef líf hafa knætti
Eiríkr sitt ok Agnarr,
óbornir mèr niðjar.

Eigi er víst, segir Ívar, hvárt þat stoðar nâkkvat, þóttú kveðir aðra vísu at annari, eða hve gerla veiztu, hverr fastgarðr þar er fyrir? Eigi veit ek þat víst, segir hún, eða hvat kantu at segja, hver torveldi þar er á? Ívar segir, at þar er blótskapr svâ mikill, at hvergi kvað[2] hann spurdaga[3], at þvílíkr mundi vera: ok sá konúngr er bæði ríkr ok illgjarn. Hvat er þat, er hann trúir mest á í blótum? Hann segir: þat er kýr ein mikil, ok er hún kölluð Síbilja; hún er svâ mjök mögnuð, at þegar er menn heyra lát hennar, hafa óvinir hans engir staðizt, ok er trautt sem berjast skuli við menn at eins, heldr má til þess ætla, at fyrri skal tröllskapnum mæta, enn konúnginum, ok vil ek hvârki hætta þar til

[1]) hefði, *G.* [2]) *leiðrètt;* kvaðst, *A og hin.* [3]) spurn á gjöra, *B;* spurdag á, *C, D, E, F, H, G, J, K.*

mèr, nè liði mínu. (Hún segir): á hitt máttu líta, at þú mant eigi bæði mega heita mestr maðr, ok vinna ekki til; ok nú er henni þikkir fyrir vân komit, ætlar hún í brott, þótti henni þeir eigi mikils meta sín orð. Þá mælti Sigurðr ormr í auga: segja má ek þèr, móðir! segir hann, hvat mèr er í hug, en eigi má ek ráða þeirra svörum. Heyra vil ek þat, segir hún. Nú kvað hann vísu:

Þat skal þriggja nátta,
ef þik[1] tregar, móðir[2]!
leið egum vèr lánga,
leiðángr búinn verða;
skal eigi Uppsölum,
þóat of fè bjóðið,
ef svâ duga dísir,
Eysteinn konúngr ráða.

Ok er hann hafði þessa vísu kveðit, skipast nokkut hugr þeirra bræðra. Ok nú mælti Áslaug: yfir lýsir þú nú, son minn! at þú vilt gera minn vilja, en þó má ek eigi yfirsjá, at við komim þessu á leið, ef við höfum eigi fulltíng bræðra þinna, en þat mætti svâ verða, at mèr mætti bezt þikkja, at þessa yrði hefnt, ok vel þikki mèr þèr fara, son minn! Ok nú kvað Björn vísu:

Duga mun hugr ok hjarta
í hauksnöru[3] brjósti,
þótt miðr um þat mæli,
manni innan rifja;

---

1) þat, *J.* 2) móður, *B, G, J, K, L.* 3) haughsnöru, *A.*

eigi er oss í augum
ormr, nè fránir snákar,
bræðr gæddu mik mínir,
man ek stjúpsonu þína[1]!

Ok nú kvað Hvítserkr vísu:

Hyggjum at hinu,
áðr heiman farim,
at hefnt megi verða;
látum ýmsa illa
Agnars bana fagna;
skjótum húf á hrannir,
höggum ís fyrir barði,
sjám á hitt, hve snekkjur
snemst vèr megu búnar[2].

[En Hvítserkr ræddi því um þat, at ís skyldi höggva, at frost voru á mikil, ok voru skip þeirra [inni frerin[3]. Ok nú tók Ívar til orða, ok segir, at þá var þar komit, er hann mundi nokkrn lut í eiga, ok nú kvað hann vísu:

Hafim ofrhuga ærinn
ok áræði bæði,
þess mundu þá þurfa,
at þar mikit fylgdi[4];
bera munuð mik fyrir bragna
beinlausan fram verða,
þóat ek hönd til hreifa
at hvâriga neytgi[5].

[1]) *vísuna v. í B.* [2]) *vísuna v. í B.* [3]) ný frosin, *hin*; *frá fyrra* [*v. í B.* [4]) fylgi, *J, K.* [5]) neytik, *G, H*; *vís. v. í B.*

Ok er hitt nú til, segir Ívar, at vèr leggjum á slíkan hug, sem vèr megum, of skipabúnað ok um samdrátt herliðs, þvíat vèr munum þess við þurfa, at spara ekki af, ef vèr skulum sigrast. Nú gengr Áslaug í brott.

10. Sigurðr hefir átt sèr einn fóstra, ok annast sá fyrir hans hönd bæði skip at búa ok lið til at fá, svâ at þau væri öll skiput; ok nú gengr þeim svâ skjótt, at þat lið, er Sigurðr skyldi búit hafa, var búit, er þrjár nætr voru liðnar, ok hafði hann 5 skip, ok öll vel skiput. Ok þá er fimm nætr voru liðnar, hafði Hvítserkr ok Björn búin 14 skip, en Ívar hafði 10 skip, [ok Áslaug önnur 10[1], þá er sjö nætr voru liðnar frá því, er þau höfðu viðræðst ok þeir höfðu heitit ferðinni. Nú hittast þau öll saman, ok segir hvert þeirra öðru, hve mikit lið hvert hafði fengit; ok nú segir Ívar, at hann hafði sendt landveg riddaralið. Áslaug segir: ef ek vissa, at þat lið mætti til gángs[2] komast, er land færi, þá mætta ek mikit lið hafa sendt. Ekki skal nú at því dveljast, segir Ívar, með þetta lið skal nú fara, sem vèr höfum samandregit. Nú segir Áslaug, at hún vill fara með þeim: ok veit ek þá gerst, hver stund á er lögð at hefna þeirra bræðra. Þat er víst, segir Ívar, at þú kemr eigi á vâr skip; hitt skal vera, ef þú vill, at þú ráðir fyrir því liði, er landveg ferr; hún kvað svâ vera skulu; nú er breytt nafni henn-

[1]) *v. í hin.* [2]) gagns, *hin.*

ar, ok er nú kölluð Randalín. Nú ferr liðit hvârttveggja, ok kvað Ívar á áðr, hvar þau skyldu finnast. Nú ferst þeim vel hvârumtveggjum, ok hittast þar, sem ákveðit er; ok hvar sem þau koma við Svíþjóð í ríki Eysteins konúngs, fara þeir herskildi yfir, svâ at þeir brendu allt þat, er fyrir varð, drápu hvert mannsbarn, ok því jóku þeir við, at þeir drápu allt þat,, er kykt var.

11. Nú er þat eitthvert sinn, at menn komast undan á fund Eysteins konúngs, ok segja honum, at í ríki hans var kominn mikill herr, ok svâ illr viðskiptis, at þeir lètu eigi ógert, ok þeir höfðu eydt allt þat, er þeir höfðu yfir farit, ok [ekki hús[1] stóð upp[2]. Nú er Eysteinn konúngr heyrir þessi tíðendi, þikkist hann vita, hverir þeir víkíngar munu vera; ok nú lætr hann fara örfarboð um allt sitt ríki, ok stefnir öllum til, þeim er hans menn eru ok honum vilja lið veita, ok skildi megu valda: vèr skulum hafa með oss kúna Síbilju, goð vârt, ok láta hana hlaupa fyrir liðinu, ok væntir mik, at enn fari sem fyrr, at þeir megu eigi standast lát hennar; vil ek allt lið mitt þess eggja, at sem bezt dugi, ok rekum af oss þenna enn mikla her ok inn illa. Ok nú er svâ gert, at Síbilja er laus látin; ok nú sèr Ívar för hennar, ok heyrir þau en grimmligu læti, er [or henni

1) *þannig B, L;* ekkert, *J, K;* ekki h', *A og hin.* 2) uppi, *B, G, J, K.*

voru[1]; mælir hann, at allt liðit skyldi gera úhljóð mikit, bæði af vopnum ok herópi, at þeir heyri sem sízt rödd hennar þess ens illa kykvendis, er fór í móti þeim. Ívar mælti við sína burðarmenn, at þeir skyldu bera hann á móti [svâ sem þeir mætti framast: ok þá er sjá kýr kemr at oss, kastið mèr at henni[2], ok mun þá vera annathvârt, er ek skal láta mitt líf, eða hún skal fá bana; nú skulu þèr taka eitt trè mikit, ok telgja á bogamynd, ok skeyti með; ok nú er honum færðr sjá bogi enn sterki ok þau en miklu skeyti, er hann hafði gera látit, er aungum þótti sèr vopnhæft annarra. Nú eggjar Ívar hvern mann, at dugi sem bezt. Nú ferr lið þeirra með miklum geysíngi ok gný, en Ívar var borinn fyrir fylkíngum þeirra. Nú verðr svâ mikill gnýrr, er Síbilja beljar, at þeir heyrðu jafngerla, sem þeir þegði ok stæði kyrrir; nú bregðr þeim svâ við þetta, at lið þeirra vill berjast allt, nema þeir bræðr. Ok er þessi endemi verða, sjá þeir þat, er Ívar báru, at hann dregr svâ boga sinn, sem hann hefði einn álmsveig veikan, ok við því þótti þeim búit, at hann drægi fyrir odd örfar sínar. Nú heyra þeir at strengr gellr hans svâ hátt, at hann heyrðu þeir aldrígi svâ fyrri; ok nú sjá þeir at hans örfar flugu svâ snart, sem hann hefði skotit af enum sterkasta lásboga, ok svâ gegnt, at í sitt auga kom hvâr örin Síbilju; ok nú fellr hún, ok

[1]) hún hefir, *hin.* [2]) *v. í B.*

eptir þat ferr hún höfuðsteypu, ok nú eru læti hennar miklu verri enn fyrr; ok er hún kemr at þeim, biðr hann kasta sèr at henni, ok verðr þeim hann svâ lèttr, sem þeir kasti barni litlu, þvíat þeir voru eigi allnær kúnni, þá er þeir köstuðu honum; ok þá kom hann á hrygg kúnni Síbilju, ok varð hann þá svâ þúngr, sem bjarg eitt fèlli á hana, ok hvert bein brotnar í henni, ok fær hún af því bana. Nú biðr hann menn sik upp taka sem skjótast; ok nú er hann upp tekinn; ok nú er rödd hans svâ hvell, at svâ þótti öllum hermönnum, er hann mælti, sem við sjálft væri, þótt fjarri væri staddir, ok it bezta hljóð var til gefit hans erendis; ok svâ lýkr hann sinni tölu, at úfriðr sjá nemst þegar af allr, er yfir þá hafði komit, ok þá sakaði ekki, þvíat lið þeirra hafði skamma stund barizt. Nú eggjar Ívar at þeir skyli vinna sem verst verk á þeim: ok nú þikki mèr af enn ólmasti[1], er kýrin er drepin. Ok nú hafa hvârirtveggju fylkt liði sínu, ok sígr saman orrostan, ok er bardagi svâ harðr, at þat mæltu allir Svíar, at þeir hefði aldrí í slíkri mannraun verit. Nú gánga þeir svâ hart fram bræðr, Hvítserkr ok Björn, at engi fylkíng stendr við; ok nú fellr svâ mjök lið Eysteins konúngs, at minna stendr upp, en sumt kemr á flótta; ok nú lýkr svâ þeirra bardaga, at Eysteinn konúngr fellr, en þeir bræðr hafa sigr; ok nú gefa þeir þeim grið, sem eptir voru.

[1]) *ókyrrleikinn*, *b. v. B.*

Ok nú segir Ívar, at hann vildi eigi herja lengr í því landi, þvíat þat land var nú höfðíngjalaust: ok vil ek heldr at við haldim þar til, er meira ofrefli er fyrir; en Randalín fór heim með sumt liðit.

12. Nú ráða þeir þat með sèr, at þeir skulu herja í Suðrríki, en Sigurðr ormr í auga[1] fór með bræðrum sínum í hverja herför síðan; [í þessi för leggja þeir til hverrar borgar, er mikil er, ok unnu svâ, at ekki stóð við[2]. Ok nú spyrja þeir til einnar borgar þeirrar, at bæði var mikil ok fjölmenn ok harðger; ok nú segir Ívar, at hann vill þartil stefna; ok þat var ok sagt, hvat sú borg hèt, ok hverr fyrir ræðr, en sá höfðíngi var kallaðr Vífill, af hans nafni var borgin kölluð Vífilsborg. Nú fara þeir svà herskildi yfir, at þeir eyða allar borgir, er fyrir urðu, þartil er þeir komu til Vífilsborgar; höfðínginn var eigi heima í borg sinni ok mikit lið með honum. Nú setja þeir upp búðir sínar á völlum þeim, er hjá borginni voru, ok eru í kyrðum þann dag, er þeir komu til borgarinnar, ok höfðu mál af borgarmönnum; þeir buðu þeim, hvârt þeir vildu heldr gefa upp borgina, ok mundi þá friðr gefinn öllum mönnum, eða þeir ynni af sínu ofrefli ok harðfengi, ok munu þá engum mönnum grið gefin. En þeir leystu skjótt or, ok sögðu, at þá borg fengi þeir aldr-

[1]) son hennar, *b. v. A*; *v. í B og fl.* [2]) *v. í B.*

ígi unnit, svâ at þeir gefi hana upp: ok munu þèr verða fyrr at reyna yðr, ok sýna oss yðarn fræknleik ok kapp. Líðr nú sú nott. Ok inn nærsta dag eptir leita þeir til at vinna borgina, ok fá ekki at gert; sitja þeir um þá borg hálfan mánuð, ok leita til hvern dag, at þeir geti þá borg unnit ok með ýmsum brögðum, en þat ferr því firr[1], sem þeir hafa lengr viðleitat, ok ætluðu nú frá at hverfa. [Ok þá er borgarmenn verða við þat varir, at þeir ætla frá at hverfa, þá gánga þeir[2] útá borgarveggi, ok breiða guðvefjar pell of alla borgarveggina, ok öll klæði þau, er fegrst voru í borginni, ok törruðu[3] fyrir þeim gulli ok gersimum þeim, er mestar voru í borginni. Ok nú tekr einn til orða af liði þeirra, ok mælti: vèr hugðum at þessir menn, synir Ragnars, ok lið þeirra, væri harðfengnir menn, en vèr megum þat segja, at þessum hefir eigi nærr farit, enn öðrum. Nú eptir þetta æptu þeir á þá, ok börðu á skjölduna ok eggjuðu at sèr, sem þeir máttu mest. Ok er Ívar heyrir þetta, brá honum við mjök, svâ at hann fær af þessu sótt mikla, svâ at hann má hvergi hræra, ok verða þeir at bíða, at annathvârt batni honum, ella hafi hann bana; hann liggr þenna dag allan til kvelds, svâ at hann mælti ekki orð; ok þá mælti hann við þá menn, er hjá honum voru, at þeir skyldu segja þeim Birni, Hvítserki ok Sigurði, at hann vildi

1) verr, *B*, *L*. 2) þá gánga borgarmenn, *B*, *J*, *K*. 3) *þannig* (taurruđu) *A og fl.*; terruðu, *J*, *K*.

þeirra fund hafa, ok allra enna vitrustu manna. Ok nú er þeir koma allir í einn stað, er mestir höfðíngjar eru í þeirra liði, þá spyrr Ívar þá eptir, ef þeir hefði nokkr ráð sèt, þau er líkari væri til at sigrast, enn þau, er þeir höfðu fyrr haft; en þeir svara allir, at þeir hefði eigi vit til þess, at sjá þau brögð, er þeim væri sigr í: er nú sem optarr, at þinna ráða mun njóta verða. Þá svarar Ívar: mèr hefir eitt ráð í hug komit, þat er vèr höfum eigi freistat: hèr er skógr mikill eigi lángt í brutt, ok nú, er náttar, skulu vèr fara or tjöldum vorum leyniliga til skógar, en herbúðir vorar skulu standa eptir, ok er vèr komum í mörkina, skal hverr maðr binda sèr byrði; ok er því er lokit, skulu vèr fara at borginni öllum megin, ok slá eldi í viðinn, ok mun þá gerast bál mikit, ok borgarveggir þeirra munu þá láta lím sitt fyrir þeim eldi, ok skulu vèr þá bera at valsleyngur, ok reyna, hve harðger hún er. Ok nú er svâ gert, at þeir fara til skógar, eru þar slíka hríð, sem Ívari sýndist. Nú fara þeir at borginni eptir tilskipun hans; ok þá er þeir lustu eldi í viðinn enn mikla, varð bál svâ mikit, at veggirnir megu eigi standast ok láta lím sitt, ok bera þeir þá valslaungur at borginni, ok brjóta á hlið mörg, ok tekst nú bardagi. Ok þegar er þeir standa jafnt at vígi, þá fellr lið borgarmanna, en sumt flýr undan, ok svâ lýkr þeirra skiptum, at þeir drepa hvert

mannsbarn, er í var borginni, ok taka brott allt fè, en brenna borgina áðr þeir fari á brott.

13. Nú halda þeir í brott þaðan, þartil er þeir koma í þá borg, er Lúna hèt; þá höfðu þeir hverja borg ok hvern kastala brotit náliga í öllu Suðrríki; ok nú eru þeir svâ frægir of allan heim, at ekki var svâ lítit barn, at eigi kynni nafn þeirra. Nú ætla þeir at lètta eigi fyrr, enn þeir koma til Rómaborgar, af því at sú borg var þeim bæði sögð mikil ok fjölmenn, ok ágæt ok auðig, en þat vissu þeir eigi gjörla, hve laung leið þángat er, en þeir höfðu svâ mikit lið, at eigi fengust vistir; ok nú eru þeir í þeirri borg Lúna, ok ræða með sèr of ferð sína. Nú kemr þar maðr einn, gamall ok geðsligr[1]; þeir spyrja, hvat manna hann væri; en hann segir, at hann sè einn stafkarl, ok hafi alla æfi farit yfir land. Þú munt margt kunna tíðenda at segja oss, þat er vèr viljum vita. Enn gamli maðr svarar: eigi veit ek þat víst, af hverjum löndum þèr vilið spyrja, þess er ek veit eigi at segja yðr. Þat viljum vèr, at þú segir oss, hve laung leið er hèðan til Rómaborgar. Hann svarar: ek kann segja yðr nökkut til merkja: þèr meguð hèr sjá þessa járnskó, er ek hefi á fótum mèr, þeir eru nú fornir[2], ok þá aðra, er ek hefi á baki mèr, þeir eru nú ok slitnir; en þá er ek fór þaðan, batt ek þessa á fætr mèr ena slitnu, er ek hefir nú á baki mèr,

[1]) grátligr, *B*; gráligr, *hin*. [2]) farnir, *hin*.

ok voru þá nýir báðir, ok á þeirri leið hefir ek verit ávalt síðan. En er inn gamli maðr hafði þetta mælt, þikkjast þeir sjá, at þeir megu eigi þessu á leið koma, er þeir hafa fyrir sèr ætlat, til Róms at fara. Ok nú snúa þeir frá með her sinn, ok unnu margar borgir, þær er aldrí höfðu unnar verit fyrr, ok þess jartenir[1] sjást enn í dag.

14. Nú er þar til máls at taka, er Ragnar sitr heima í ríki sínu, ok hann veit eigi, hvar synir hans eru, nè Randalín[2] kona hans, ok þat heyrði hann hvern tala af sínum mönnum, at engir mætti jafnast við syni hans, ok hugðist honum svâ at, at engir væri jafnfrægir þeim; nú hyggr hann at því, hverrar frægðar hann mætti þess leita, er eigi væri skemr uppi. Nú hyggr hann ráð sitt ok fær sèr smiða, ok lætr fella mörk[3] til tveggja skipa mikilla, ok þat skildu menn, at þat voru knerrir 2, svâ miklir, at engir höfðu slíkir verit gerfir á Norðrlöndum, ok þarmeð lætr hann hafa of allt sitt ríki mikinn vopnabúnað; ok með þessi breytni skilja menn þat, at hann mun ætla nokkra herferð fyrir sèr or landinu. Þetta spyrst víða á lönd þau, er nærst voru; ok nú ugga menn þat, ok allir konúngar, er fyrir landi rèðu, at þeir mundu eigi í löndum sínum eða ríkjum vera mega; ok nú lætr hverr þeirra vera varðhöld um lönd sín, ef

[1]) jarðteiknir, *hin.* [2]) Áslaug, *B hèr og frv.* [3]) mikil trè, *B, L.*

nökkr[1] beri hann[2] at. Þat er eitt sinn, er Randalín spurði Ragnar, hverja för hann ætlaði fyrir sèr. Hann segir henni, at hann ætlaði til Englands, ok hafa eigi fleiri skip enn 2 knörru, ok þat lið, sem á þeim má fara. Þá segir Randalín: sú för lízt mèr óvarlig, er nú ætlar þú, mèr þætti þèr ráðligra, at hafa fleiri skip ok smærri. Þat er ekki ágæti, segir hann, þótt menn fái unnit land með mörgum skipum, en til þessa eru eigi dæmi, at með tveimr skipum hafi unnit verit slíkt land, sem England er; en ef ek fæ úsigr, þess betr, sem ek hefi færri skip or landi. Þá svarar Randalín: mèr sýnist sjá eigi minni fèkostnaðr, áðr þessi skip sè búin, enn þóttú hefðir lángskip mörg til þessarar ferðar, en þú veizt þat, at íllt er skipum at halda at Englandi, ok ef svâ verðr, at skip þín týndist, þótt menn komist á land, þá eru þeir þegar uppgefnir, ef landherr kemr at, en betra er at halda lángskipum til hafna enn knörrum[3]. Nú kveðr Ragnar vísu:

Spari mángi[4] rauf Rínar,
ef röskr vill hermenn[5],
verr samir hoskum hilmi
hrínga fold enn drengja;
íllt er í borg lið[6] bauga
brandrauðum fram standa,

---

1) þar, *B*; nokkrstaðar, *C*; nokkurn, *J*, *K*. 2) þann, *J*, *K*. 3) stórskipum, *J*, *K*. 4) margi, *F*; meingi, *J*; megi, *K*. 5) *eða* hermann, *A*. 6) tið, *G*.

allmarga veit ek jöfra,
þá er vaðr[1] lifir, dauða[2].

Nú lætr hann skip sín búa, ok fær sèr lið, svá at þeir knerrir eru mjök skipaðir; nú er fjölrædt um hans fyrirætlan, ok enn kvað hann vísu:

Hvat er þat baugs[3] or bögum[4]
brjót[5] heyri ek nú þjóta,
at menn mundils[6]
[mars svamdr[7] ofnir háfna?
þó skal ek þeirra ráða,
þann bil, ef goð vilja,
Æigils álnar leygjar[8],
ókvíðandi, bíða[9].

Ok er skip hans eru búin ok þat lið, er honum skyldi fylgja, ok þá er þat veðr kemr, er honum þótti sèr vel koma, segir Ragnar, at þá mundi hann fara til skipa; ok er hann var búinn, leiddi hún hann til skipa; ok áðr þau skiljast, kveðst hún mundu launa honum serk þann, er hann hafði gefit henni. Hann spyrr, með hverjum hætti þat væri; en hún kvað vísu:

þèr ann ek serk enn síða
ok saumaðan hvergi,
við heilan hug ofnan[10]
or hársima grani[11];

---

1) vaðir, *E*, *G*. 2) *vís. v. í B.* 3) baux, *A*; bör, *hin.* 4) baugum, *A og hin.* 5) brját, *D*, *F*, *H*. 6) fara, *b. v. C*; mara, *b. v. D*, *E*, *F*, *G*, *H*. *J*, *K*. 7) *þannig A*; mund svamdr, *C*, *F*, *H*, *J*, *K*. 8) lengjar, *G*. 9) *vís. v. í B.* 10) ofinn, *B*, *J*, *K*. 11) *eða kanske* garni, *A*; gráam, *C*, *D*, *H*; graðinn, *E*, *G*.

mun eigi ben blæða,
nè bíta þig eggjar,
í heilagri hjúpu,
var hún þeim goðum signuð.

Hann segir, at hann vill þessi ráð þiggja. En þá er þau skildust, var auðsætt, at henni þótti mikit fyrir þeirra skilnaði.

15. Nú heldr Ragnar skipum sínum til Englands, sem hann hafði ætlat; honum gaf byri hvassa, svâ at við England brýtr hann báða knörru sína, en á land komst allt lið hans, ok hèldu klæðum sínum ok vopnum; ok þar sem hann kemr við þorp ok borgir ok kastala, þá vinnr hann. En konúngr sá hèt Ella[1], er þá rèð Englandi; hann hafði haft frèttir til Ragnars, er hann fór or landi; hann hafði sett menn fyrir, at hann skyldi þegar vita, ef herrinn kæmi við land; nú fóru þeir menn til fundar við Ella konúng, ok segja honum hersögu. Nú lætr hann senda boð um allt sitt ríki, ok bað til sín koma hvern mann, er skildi má valda ok hesti at ríða, ok þori at berjast, ok dregr hann saman svâ mikinn her, at furða var at; nú búast þeir til bardaga Ella konúngr. Þá mælti Ella konúngr við lið sitt: ef vèr sigrumst[2] í bardaga þessum, ok verði þèr við þat varir, at Ragnar er kominn, þá skulu þèr eigi bera vopn á hann, því at hann á þá sonu eptir, er aldrí munu af oss gánga, ef hann fellr. Ragnar býst nú til bardaga, ok

[1]) Elli, *B*, *J*, *K*, *hèr og framvegis.* [2]) sigrum, *J*, *K*.

hann hafði þat klæði, er Randalín hafði gefit honum at skilnaði, fyrir brynju, ok þat spjót í hendi, er hann vann at orminum, er lá um sal Þóru, ok engi þorði annarra, ok hann hafði enga hlíf nema hjálm. En þá er þeir hittast, tókst bardagi. Ragnar hafði miklu minna lið. Bardaginn hafði eigi lengi verit, áðr lið Ragnars fèll mjök, en þar sem hann fór, varð rírt fyrir, ok gekk hann í gegnum fylkíngar þann dag, ok þar sem hann hjó, eða lagði í skjöldu, brynjur eða hjálma, þá voru svâ stór högg hans, at ekki vetta[1] stóð við, en aldrí var svâ til hans höggit eða skotit, at neitt vopn yrði honum at meini, ok fèkk hann aldrí sár, en hann drap mikinn fjölda af liði Ella konúngs; en þó lauk svâ bardaga þeirra, at allt lið Ragnars fèll, en at honum voru bornir skildir ok svâ handtekinn. Nú var hann spurðr, hvat manna hann var; en hann þagði við, ok svaraði engu. Þá mælti Ella konúngr: sjá maðr man verða at koma í meiri mannraun, ef hann vill eigi segja oss, hverr hann er; nú skal kasta honum í einn ormgarð ok láta hann þar sitja mjök lengi, ok ef hann mælir nâkkvat þat, er vèr megim skilja, at hann sè Ragnar, þá skal hann í brutt taka sem skjótast. Nú er honum þángat fylgt, ok hann sitr þar mjök lengi, svâ at hvergi festast ormar við hann. Þá mæltu menn: þessi maðr er mikill fyrir sèr, hann bitu eigi vopn í dag, en nú granda hon-

[1]) *þannig A*; neitt, *hin.*

um eigi ormar. Þá mælti Ella konúngr, at hann væri flettr af klæði því, er hann hafði ytst; ok nú var svâ gert, ok hèngu ormar öllum megin á honum. Þá mælti Ragnar: gnyðja mundu nú grísir[1], ef þeir vissi hvat enn gamli þyldi[2]; ok þótt hann mælti slíkt, þá vissu þeir eigi at gerr, at Ragnar væri þat, heldr enn annar konúngr[3]. Nú kvað hann vísu:

Orrostur hefi ek áttar,
þær er ágætar þóttu,
gerða ek mörgum mönnum
mein, fimmtýgi ok eina;
eigi hugða[4] mik ormar
at aldrlagi mínu;
þat verðr mjök[5] [mörgu sinni[6],
er minnst varit[7] sjálfan.

Ok enn kvað hann:

[Gnyðja mundu grísir,
ef galtar hag vissi[8],
mèr er gnot[9] at grandi[10],
grafa inn[11] rönum sínum,
ok harðliga hrína,
hafa mik sogit ormar;
nú man ek nárr af[12] bragði,
ok nærr dýrum deyja[13].

1) ef galtar hag vissu, *b. v. B.* 2) liði, *B.* 3) í þessum ormagarði orti Ragnar Loðbrók Bjarkamál, þau er hèr eptir fylgja: Hjuggum vèr með hjörvi, *o. s. frv. öll til enda, B.* 4) ek, *b. v. L.* 5) *v. í G.* 6) mörgum, *hin.* 7) varir, *E, F, G.* 8) Grína mundi grísir, ef galta höl vissu, *Annálar Nr.* 417, *í 4blf.* 9) gnagt, *G*; gnat, *hin.* 10) *eða* gráði, *A og hin.* 11) menn, *hin.* 12) at, *G.* 13) *frá:* annar konúngr, *o. s. frv. v. í B.*

Nú lætr hann líf sitt, ok er hann nú færðr á brott þaðan; en Ella konúngr þikkist vita, at Ragnar hefir líf sitt látit. Nú hyggr hann fyrir sèr, hve hann skyldi þess verða varr, eða með fara, at hann mætti halda ríki sínu, eða vita, hve þeim brygði við sonum Ragnars, er þeir spyrja. Hann tekr þat til ráðs, at hann lætr búa skip eitt, ok fær þann mann til fyrir at ráða, er bæði var vitr ok harðfengr, ok þar fær hann menn til, svâ at þat skip var vel skipat, ok segir, at hann vill þá senda á fund Ívars ok þeirra bræðra, ok segja þeim fall feðr þeirra; en sjá för lízt flestum úvænlig, svâ at farit[1] vildu fara. Þá mælti konúngr: at því skulu þèr vandliga hyggja, hversu hverjum þeirra bræðra bregðr við þessi tíðendi, farið þá leiðar yðarrar síðan, er yðr gefr veðr; svâ lætr hann búa ferð þeirra, at þeir þurftu at engu annarra; ok nú fara þeir, ok ferst þeim vel.

16. En er synir Ragnars höfðu herjat of Suðrríki, þá snèru þeir á Norðrlönd, ok ætluðu at vitja ríkis síns, þess er Ragnar rèð fyrir, en þeir vissu eigi herför hans, hversu hún hafði orðit, ok þó er þeim mikil forvitni á, hversu orðit hafði. Nú fara þeir sunnan of land; en hvervetna, er menn frèttu til fara[2] þeirra bræðra, eyddu menn borgir sínar, ok færðu fè sitt á brott, ok flýðu[3] undan, svâ at trautt fengu þeir liði sínu mat. Þat er einn morgin, at Björn Járnsíða vaknar, ok kvað vísu:

[1]) fáir, *hin.* [2]) *v. í B.* [3]) færðu, *B, L;* flullu, *hin.*

Hèr flýgr[1] hverjan morgin
hress of borgir þessar,
lèzt[2] heill[3] mun af húngri,
heiðarvalr[4], of deyja;
hann fari suðr um sanda
seggi[5] hvar[6] vèr lètum,
þar fær hann dauðs manns dreyra
dögg or skýli[7] höggum.

Ok enn kvað hann:

Þat var fyrst, er fórum,
Freysleika tók ek heyja,
þar er einiga áttum
öld í Rómaveldi;
þar lèt ek of grön granna[8],
gall örn[9] of valfalli,
at mennskelku[10] morði
mitt sverð dregit verða[11].

Nú berr svâ til, at þeir koma fyrri í Danaveldi enn sendimenn Ella konúngs, ok sitja nú kyrrir með lið sitt. En sendimenn koma með lið sitt til þeirrar borgar, er synir Ragnars þiggja veizlu, ok gánga í þá höll, er þeir drekka, ok fyrir hásætit, er Ívar liggr í. Sigurðr ormr í auga ok Hvítserkr hvati sitja at hneftafli, en Björn járnsíða skefr spjótskepti á hallargólfinu. Ok

---

1) fylgir, *hin.* 2) lez, *skrifa öll.* 3) *skrif.* hell *í A og fl.*; heila, *G.* 4) *leiðrètt svona*; heiðarvals, *A og hin.* 5) *tilgáta*; ok, *A*; set, *F, L.* 6) ok hvat, *F, L.* 7) skyl, *J, K.* 8) *þannig rèttar J, K*; grana, *A og hin.* 9) aūm, *A og fl.*; um, *G.* 10) *þannig, þó óljóst, í A*; menn skerði, *hin.* 11) *frá*: þat er einn morgin, *o. s. fr. v. í B.*

er sendimenn Ella konúngs koma fyrir Ívar, kveðja þeir hann virðuliga; en hann tekr kveðju þeirra, ok spyrr, hvaðan þeir sé, eða hvat þeir segja tíðenda. Ok sá, er fyrir þeim var, segir, at þeir voru Enskir menn, ok þá hefir Ella konúngr þángat senda með þau tíðendi, at segja fall Ragnars feðr þeirra. Hvítserkr ok Sigurðr láta þegar falla niðr taflit, ok hyggja at vandliga þessi tíðenda sögn. Björn stendr á hallargólfinu, ok studdist við spjótskepti sitt; en Ívar spurði þá vandliga, með hverjum atburð líflát hans hafði verit. En þeir sögðu allt, sem farit hafði, þaðan frá, er hann kom við England ok til þess, er hann lèt líf sitt. Ok nú er þessi sögu var þar komit, er hann hafði þetta mælt: gnyðja mundu grísir, þokar Björn höndum sínum á spjótskaptinu, ok svâ hafði hann tekit fast, at handastaðinn sá á eptir; þá er sendimenn luku frásögn þessi, hristir Björn spjótit í sundr, svâ at stökk í tvâ luti. En Hvítserkr hèldt töfl einni, er hann hafði drepit, ok hann kreisti hana svâ fast, at blóð stökk undan hverjum nagli. En Sigurðr ormr í auga hafði haldit á knífi einum, ok skóf nagl sinn, er þessi tíðendi voru sögð, ok hugði svâ vandliga at þessum tíðendum, at hann kendi eigi fyrr, enn knífrinn stóð í beini, ok brást hann ekki við. En Ívar spyrr at öllu sem gjörst, en litr hans var stundum rauðr, en stundum blárr, en lotum[1] var[2] hann

1) stundum, *B.* 2) varð, *J, K.*

bleikr, ok hann var svâ þrútinn, at hans hörund var allt blásit af þeim grimmleik, er í brjósti hans var. Nú tekr Hvítserkr til orða, ok sagði, at svâ mætti hefndina bráðast upphefja, at drepa sendimenn Ella konúngs. Ívar segir: þat skal eigi vera, þeir skulu fara í friði, hvert er þeir vilja, ok ef nokkr lutr er sá, at þá skorti, skulu þeir mèr til segja, ok skal ek fá þeim. Ok nú er þeir hafa lokit erendi sínu, snúa þeir utar eptir höllinni, ok til skips síns; ok er þeim gefr byrr, láta þeir í haf, ok ferst þeim vel, þartil er þeir koma á fund Ella konúngs, ok segja honum frá, hversu hverjum þeirra hefir viðbrugðit þessa tíðenda sögn. Ok er Ella konúngr heyrir þetta, þá mælti hann: þess er von, at annathvârt munu vèr Ívar þurfa at óttast, eða engan ella, at því, er þèr segið frá honum, ok mundi þeim[1] gott innan rifja, ok haldit munu vèr fá ríki voru fyrir þeim. Nú lætr hann varðhöld hafa um allt sitt ríki, svâ at eigi mátti herr komast á úvart honum.

17. En er sendim'enn Ella konúngs voru brott farnir, gánga þeir bræðr á málstefnu, hversu þeir skyldu með fara of hefnd eptir Ragnar, feðr sinn. Þá mælti Ívar: engan lut man ek í eiga, ok eigi fá lið til, þvíat Ragnar fór sem mik varði; hann bjó illa sína sök til í upphafi, hann átti engar sakir við Ella konúng, ok hefir þat opt orðit, ef maðr ætlar ofrkapp fyrir sèr með rángendum, at hann hefir

[1]) eigi, *b. v. B, L.*

því úvirðuligar niðr komit; ok vil ek þiggja fèbætr af Ella konúngi, ef hann vill til leggja við mik. En er þeir heyra þetta, bræðr hans, verða þeir reiðir mjök, ok segja, at aldrí skyldu þeir svâ at klækjum verða, þótt hann vildi svâ: munu þat margir mæla, at oss sè mislagðar hendr í knè, ef vèr skulum eigi hefna föður vârs, en vèr höfum víða farit um heim með herskildi, ok drepit margan mann saklausan, ok enn skal eigi þat verða, heldr skal búa hvert skip, er sæfært er í Danaveldi, skal svâ gjörsamliga safna liði, at hverr maðr, er skjöld *má* bera ímót Ella konúngi, skal fara. En Ívar segir, at hann mundi eptir sitja, ok þau skip, er hann á fyrir at ráða: nema þat eitt, er ek á sjálfr. Ok er þetta spyrst, at Ívar leggr aunga stund á, fá þeir miklu minna lið, ok fara þó eigi at síðr. Ok þegar, er þeir komu við England, verðr Ella konúngr varr við, ok lætr þegar lúðr sinn við gjalla, ok bíðr til sín öllum mönnum, er honum vilja fylgja; ok nú fær hann svâ mikit lið, at engi maðr mátti tölu á koma, ok ferr ímót þeim bræðrum. Ok er þeir finnast, var Ívar ekki í þeim bardaga; ok svâ lýkr þeirra bardaga, at synir Ragnars koma á flótta, en Ella konúngr hefir sigr. Ok er hann var at, at reka flóttann, segir Ívar, at hann ætlar ekki aptr at hverfa til liðs síns: ok vil ek reyna, hvârt Ella konúngr vill mèr nokkrar sæmdar unna eða engrar, ok þikki mèr sá betri, at þiggja yfirbót af honum, enn fara slíkar úfarar fleiri,

sem nú fóru vèr. Hvítserkr segir, at eigi mátti lut í eiga með honum, ok hann yrði at fara með sín efni sem hann vill: en aldrí skulu vèr fè taka eptir feðr vârn. Ívar segir, at þar mundi skilja með þeim, ok bað þá ráða ríki[1] því, er þeir áttu allir saman: en þèr skuluð senda mèr lausafè, sem ek kveð á. En er hann hafði mælt, bað hann þá vel fara. En hann snýr aptr sinni ferð á fund Ella konúngs; ok er hann kemr fyrir hann, kveðr hann konúnginn virðuliga, ok hefr svâ mál sitt: ek em kominn á fund yðarn, ok vil ek mæla til sætta við þik, ok slíkrar sæmdar, sem þú vilt gert hafa til mín; ok nú sè ek þat, at ek hefi ekki við þèr, ok þikki mèr þat betra, at þiggja af yðr slíka sæmd, sem þú vilt mèr veita, en láta mína menn fleiri fyrir yðr, eða sjálfan mik. Þá svarar Ella konúngr: þat kalla sumir menn, at eigi sè hægt at trúa þèr, ok þú mælir þá opt fagrt, er þú hyggr flátt, ok mun oss vera vandt, at sjá við þèr eða bræðrum þínum. Ek mun til lítils mæla við þik, ef þú lætr þat til, skal ek þat sverja þèr ámót, at ek skal aldrí vera ímót þèr. Nú spyrr konúngr, til hvers hann mælti of yfirbætr. Ek vil, segir Ívar, attú gefir mèr þat af landi þínu, er uxahúð tekr yfir, en þar utanum skal grundvöll gera, ok mun ek eigi til meira mæla við þik, ok þat sè ek, at þú vilt mèr engrar sæmdar unna, ef þú vilt eigi þetta. Eigi veit ek, segir konúngr, at oss megi þetta

1) fyrir, *hin.*

at meini verða, þótt þú hafir þetta or mínu landi, ok at vísu mun ek fá þèr þetta, ef þú vilt þat sverja mèr, at berjast eigi ímót mèr, ok eigi uggi ek bræðr þína, ef þú ert mèr trúr. Nú ráða þeir þetta með sèr, at Ívar sverr honum eiða, at hann skyldi eigi skjóta ímót honum, ok eigi ráð leggja til meins honum, en hann skal eignast af Englandi þat, sem uxahúð tekr yfir, er hann fengi mesta til.

18. Nú fær Ívar sèr öldúngshúð eina, ok nú lætr hann hana bleyta, ok þrisvar lætr hann hana þenja; nú lætr hann rista hana sem mjóst alla í sundr, ok þá lætr hann renna sèr hvårt, hárram eða holdrosu; ok er þessu var lokit, var þvengr sjá svå lángr, at furða var at, ok aungum kom í hug, at svå mætti verða, ok þá lætr hann breiða á einum velli, en þat var svå víðt land, at þat var mikil borgar vídd, ok þar fyrir utan lætr hann marka grundvöll, sem til mikilla borgarveggja; ok þá fær hann sèr smiði marga, ok lætr reisa hús mörg á þeim velli, ok þar lætr hann gera borg eina mikla, ok er sú kölluð Lundúnaborg, hún er allra borga mest ok ágæzt of öll Norðrlönd. Ok nú er hann hafði borg þessa látit gera, hafði hann lausafè upp gefit; en hann var svå örr, at hann gaf á tvær hendr, ok þótti svå mikit um speki hans, at allir sóttu hann at sínum ráðum ok vandamálum; ok svå skipaði hann öllum málum, sem hverjum þótti sèr bezt gegna, ok

gerist hann vinsæll, svâ at hann á undir hverjum manni vin, ok er Ella konúngi mikit lið at honum fyrir landráða sakir, svâ at konúngr lætr hann mörgum ráðum ok málum skipa, ok þarf eigi til at koma sjálfr. Ok er Ívar hafði svâ komit ráði sínu, at þar þikkir til allrar spektar at sjá, sendir hann menn á fund bræðra sinna þess erendis, at þeir sendi honum gull ok silfr, svâ mikit sem hann kvað á. En er þessir menn koma á fund þeirra bræðra, segja þeir sín erendi, ok svâ, hvar þá var komit hans ráð, þvíat menn þóttust þat eigi vita, yfir hverjum brögðum hann bjó, ok svâ skildu þeir bræðr, at hann hafði ekki skapsmuni eptir því, sem hann var vanr. Nú senda þeir slíkt fè, sem hann ákvæði; ok er þeir koma til Ívars, gefr hann þau öll fè enum stærstum mönnum í landinu, ok dregr svâ lið undan Ella konúngi, ok allir hètu því, at kyrrir mundu sitja, þótt hann gerði þángat herför. Ok er Ívar hefir svâ lið dregit undir sik, þá sendir hann menn á fund bræðra sinna at segja þeim, at hann vildi, at þeir byði út leiðángri of þau lönd öll, er þeirra ríki stóð yfir, ok þeir skoraði hverjum manni, er þeir fengi. Ok þá er þessi orðsendíng kom til þeirra bræðra, kennast þeir við skjótt, skilja, at nú mundi honum þikkja mjök vænligt um, at nú mundi þeir fá sigr. Nú samna þeir liði um alla Danmörk ok Gautland, ok öll þau ríki, er þeirra völd voru yfir, ok draga úvígan her saman, ok hafa al-

menníng úti; þá halda þeir skipum sínum til Englands bæði nótt ok dag, ok vildu nú sem sízt láta fara njósn fyrir þeim. Nú er sjá hersaga sögð Ella konúngi; nú safnar hann sèr liði, ok fær lítit, fyrir því, at Ívar hafði mikit lið undan honum dregit. Nú ferr Ívar ímót Ella konúngi, ok segir, at hann mundi enda þat, er hann hafði svarit: en eigi má ek ráða tiltekju bræðra minna, en því má ek ráða, at finna þá ok vita, ef þeir vili stöðva her sinn ok gera eigi meira íllt, enn þeir hafa áðr gert. Nú ferr Ívar á fund bræðra sinna, ok eggjar þá nú mjök, at þeir skyldi sem bezt framgánga ok sem bráðast láta bardaga verða: þvíat konúngr hefir miklu minna lið. En þeir svara, at eigi mundi hann þurfa at eggja þá, ok þeim var et sama í hug sem fyrr. Nú ferr Ívar ok hittir Ella konúng, ok segir honum, at miklu voru þeir ákafari ok óðari, enn þeir vildi á hans orð hlýða: ok þá, er ek vilda um grið leita yðar í milli, æptu þeir í gegn; nú man ek enda mína svardaga, at ek man eigi berjast í móti þèr, ok mun ek vera kyrr hjá ok mitt lið, en bardagi gengr með yðr sem verða má. Nú sjá þeir Ella konúngr lið þeirra bræðra, ok ferr svâ geyst, at furða var at. Þá mælti Ívar: þat er nú til, Ella konúngr! at þú fylkir liði þínu, en ek get þess, at þeir veiti þèr harða atsókn nökkura hríð. En þegar þeirra lið hittist, verðr bardagi mikill, ok gánga þeir hart fram synir Ragnars í gegnum

fylkíngar Ella konúngs, ok svâ eru þeir ákafir, at þeir hyggja at því einu, at gera at verkum sem mest, ok sú orrosta var bæði laung ok hörð; ok hèr lauk svâ, at Ella konúngr ok lið hans kom á flótta, ok hann varð handtekinn. Ok þá var Ívar þar í nánd, ok mælti, at svâ skyldi breyta um líflát hans: er nú þat ráð, segir hann, at minnast, hvern dauðdaga hann valdi föður vârum; nú skal sá maðr, er oddhagastr er, marka örn[1] á baki honum sem inniligast, ok [þann örn[2] skal rjóða með blóði hans. En sá maðr, er kvaddr var til þessarar sýslu, gerir sem Ívar bauð honum; en Ella konúngr var mjök sárr, áðr þessi sýslu lýkr; lætr hann nú líf sitt, ok þikkjast þeir nú hefnt hafa föður síns Ragnars. Ívar segir, at hann vill þeim gefa ríki þat, er þeir áttu allir saman, en hann kveðst ráða vilja fyrir Englandi.

19. Eptir þetta fara þeir Hvítserkr ok Björn heim til ríkis síns, ok Sigurðr, en Ívar er eptir ok ræðr Englandi. Þaðan frá halda þeir miðr saman liði sínu, ok herjuðu á ýmse[3] lönd. En Randalín, móðir þeirra, varð gömul kona; en Hvítserkr, son hennar, hafði herjat eitthvert sinn í Austrveg, ok kom svâ mikit ofrefli ímót honum, at hann mátti eigi rönd við reisa, ok varð hann handtekinn; en hann kaus sèr þann dauðdaga, at bál skyldi gera af manna-

[1]) orm, *B*; rún, *J*, *K*. [2]) þann orm, *B*; þarum, *J*, *K*.
[3]) *þannig A*; ýmis, *hin*.

höfðum, þar skyldi hann brenna; ok svå lèt hann líf sitt. Ok er Randalín spyrr þetta, þá kvað hún vísu:

Sonr beið einn, sá ek átta,
í Austrvegi dauða,
Hvítserkr var sá heitinn,
hvergi gjarn at flýja;
hitnaði hann af höfðum
höggvis vals[1] at rómu,
kaus þann[2] bana þengill[3]
þróttarsnjallr, áðr fèlli.

Ok enn kvað hún:

Höfðum lèt of hrundit
hodd mörgum gramr undir,
í Feiga-bý[4] foska[5]
fíngi[6] ívir[7] sýngja;
hvat skyli beð enn betra[8]
bæðhöggr[9] und sik leggja?
illa deyr við orðstýr
alvaldr jörfurs[10] falli[11].

En frá Sigurði orm í auga er mikill ættbogi kominn; hans dóttir hèt [Áslaug, móðir Sigurðar hjartar; Sigurðr hjörtr var faðir[12] [Ragnhildar, móður[13] Haralds ens hárfagra, er fyrstr rèð öllum Noregi einn. En Ívar rèð fyrir Englandi allt

1) báls, *G.* 2) hann, *J.* 3) þengils, *J.* 4) *eða* ferga bý, *A.* 5) föska, *F*; hoska, *J*, *K.* 6) fengi, *J*, *K*, *L.* 7) *skrif.* íver eða irer, *í A*; vèr, *C*; við, *J*, *K.* 8) betr, *J*, *K.* 9) beðhöggr, *G*, *J*, *K.* 10) jöfurs, *C*, *E*, *G*, *L*; jötuns, *J.* 11) *vís. v. í B.* 12) *þannig rèttara*, *B*, *C*, *F*, *L*; *v. í A og hin.* 13) Ragnhildr, móðir, *A*, *D*, *E*, *G*, *H*, *J*, *K.*

til dauðadags, ok varð sóttdauðr. Ok þá er hann lá í banasótt, mælti hann, at hann skyldi þángat færa, er herskátt væri, ok þess kvaðst hann vænta, at þeir mundi eigi sigr fá, er þar kæmi at landinu; ok er hann andast, var svâ gert, sem hann mælti fyrir, ok var þá í haug lagðr. Ok þat segja margir menn, þá er Haraldr konúngr Sigurðarson kom til Englands, at hann kæmi þar at, er Ívar var fyrir, ok fellr hann í þeirri för. Ok er Vilhjálmr Bastarðr kom í land, fór hann til ok braut haug Ívars, ok sá Ívar[1] ófúinn; þá lèt hann gera bál mikit, ok lætr Ívar brenna á bálinu; ok eptir þat lèt hann til landsins, ok [fær gagn[2]. En frá Birni járnsíðu er komit margt manna; frá honum er komin mikil ætt: Þórðr[3], er bjó at Höfða á Höfðaströnd, mikill höfðíngi. En þá er synir Ragnars voru allir líflátnir, dreifðist lið þeirra á ýmsa vega, er þeim hafði fylgt, ok þótti þeim öllum, er verit höfðu með sonum Ragnars einkis vert um aðra höfðíngja. Þeir voru 2 menn, er fóru víða um lönd at leita, ef þeir fyndi nökkurn höfðíngja þann, er þeim þætti sèr eigi svívirðíng í at þjóna, ok fóru þeir eigi báðir saman.

20. Sá atburðr hefir verit [út í löndum[4], at einn konúngr átti 2 sonu, ok tók hann sótt ok andaðist, en synir hans vilja drekka erfi eptir hann; þeir bjóða til þessar veizlu svâ, at allir menn skyldu koma þángat, þeir er á þrimr

1) mann, *B*, *J*, *K*. 2) fèkk sigr, *B*, *L*. 3) Þórðar, *B*, *J*, *K*, *L*. 4) í Útlöndum, *hin*.

vetrum enum nærstum spyrja þetta. Nú spyrst þetta víða um lönd; ok á þessum þrimr vetrum búast þeir við þessi veizlu. Ok er þat sumar kemr, er erfi skyldi drekka, ok sú stund, er ákveðin var, þá verðr svâ mikit fjölmenni, at engi vissi dæmi til, hve mikit var, ok voru margar stórar hallir skipaðar ok [mörg tjöld úti[1]. Ok er áleið mjök et fyrsta kveld, kemr maðr einn til hallar þessarar; þessi maðr er mikill, svâ at þar var engi jafnmikill, ok þat sá á búnaði[2] hans, at hann hafði hjá tignum mönnum verit; ok er hann kemr í höllina, gengr hann fyrir þá bræðrna ok kveðr þá, ok spyrr, hvar þeir vísi honum til sætis. Þeim leizt vel á hann, ok báðu hann sitja á enn æðra bekk; hann þurfti tveggja manna rúm. Ok þegar hann hafði niðr sezt, var honum borin drykkja sem öðrum mönnum, ok ekki horn var svâ mikit, at eigi drykki hann af í einum drykk[3], ok þat þóttust allir sjá, at honum þótti [engis um vert[4] um alla aðra. Svâ verðr enn, at annar maðr kemr til þessarar veizlu; sá var heldr meirri enn inn fyrri; [þessir menn hafa[5] síða höttu; ok er þessi maðr kemr fyrir hásætit enna úngu konúnga, kveðr hann þá listuliga, ok biðr þá vísa sèr til sætis. Þeir mæltu, at þessi maðr skyldi innarr sitja á inn æðra bekk. Nú gengr hann til sætis síns, ok eru þeir svâ miklir

1) attjaldat, *B.* 2) bragði, *B.* 3) taug, *J*, *K.* 4) lítils vert, *B.* 5) þessi maðr hafði, *B.*

í rúmi báðir saman, at 5 menn hafa upprisit fyrir þeim; en sá, er fyrr kom, er þó minni drykkjumaðr; en inn síðari drakk svâ skjótt, at hann hellti náliga í sik af hverju horni, ok eigi finna menn þó, at hann verði drukkinn, ok heldr lætr hann úþokkuliga við sínum sessunautum, ok snýr baki við þeim. Sá, er fyrri kom, bað at þeir skyldi eiga gaman saman: ok mun ek fyrri; hann stakk við honum hendi, ok kvað vísu:

Seg þú frá þegnsköpum þínum,
þik ráðumst ek spyrja:
hvar sáttu [hrafn á[1] hríslu,
hrolla[2] dreyra fullan?
optarr þáttu at öðrum,
í öndvegi fundinn[3],
enn þú dreyrug hræ drægir
í dal fyrir valfugla.

Nú þikkir þeim, er utarr sat, tilleitat við sik í slíku tilkvæði, ok kvað vísu í móti:

Þegi þú heimdregi heittinn[4]!
hvat er þik vesælátan[5]?
hefir þú aldregi unnit
þess, er ek mega þrotna;
feitaða sverð nè solla
sæki tík[6] at leiki
[gafta þú[7] hafnar hesti,
hvat rækir[8] þik drykkju?

[1]) hrafna, *B.* [2]) hrotta, *B.* [3]) fundit, *J, K.* [4]) *eða* hentinn, *A.* [5]) *þannig A og fl.*; væsælastan, *J, K.* [6]) til, *B*; þik, *J.* [7]) gafstú, *B, L.* [8]) sækir, *J, K.*

Nú svarar hinn, er fyrri kom:
Hafs lètum vèr hesta
hlýr stinn á brim[1] renna,
meðan á bjartar brynjur-
blóði dreif um síður[2];
ýlgr gein aldri[3] mönnum
eyra[4] grát of svíra[5],
harðmeldri fám vèr herða[6]
hveðnu[7] blóði roðna[8].
Ok nú kvað sá, er síðarr kom:
Alls engi sá ek yðarn,
þar er upplokinn fundum
heila[9] varg[10] fyrir hvítum
hesti máva[11] rastar;
ok við lasi[12] lúðrar[13]
fyrir landi vèr undum
hallar ríka[14] mollu
hrafns fyri rauðum stafni.
Ok enn kvað sá, er fyrr kom:
Samira okkr at öldrum
af öndvegi þræta,
hvârr okkarr hefir unnit
hvaðarr[15] framarr öðrum[16];
þú stótt[17] þar, er[18] bar[19] bára

1) brún, *B*, *F*, *L*. 2) *eða* síðirr, *A og fl.*; síðarr, *B*; síður, *F*. 3) aldrei, *B*. 4) gera, *J*. 5) *eða* sútra, *A*; sunra, *B*. 6) *eða* heiða, *A*; hveðnu, *B*, *C*, *E*, *G*, *H*, *J*, *K*, *L*; hraða, *D*. 7) hreðuu, *C*, *E*, *G*, *H*, *J*; hrendu, *B*, *L*. 8) botna, *hin*. 9) hveila, *J*, *K*. 10) *eða* váng, *í A*. 11) *eða* mána, *A*. 12) lasti, *E*, *G*. 13) lúðra, *hin*. 14) ríkri, *B*; ríkar, *J*. 15) hvaðan, *E*, *G*, *H*; kvað hann, *J*. 16) *fyrri helmíng vís. v. í B*. 17) kom, *B*. 18) en, *B*. 19) brá, *J*.

[brandahjört at sundi[1],
en ek sat þer[2], er rá reiði
rauðan stafn til hafnar.

Nú svarar sá, er síðarr kom:

Fylgdum Birni báðir
at brandagný hverjum,
voru[3] reyndir rekkar,
en Ragnari stundum;
var ek þar, er bragnar börðust,
á Bólgaralandi[4],
því bar[5] ek sár á síðu,
sittu innarr mèr[6] granni!

Enda kendust þeir þá við of síðir, ok voru þar síðan at veizlu.

21. Ögmundr er maðr nefndr, er kallaðr var Ögmundr enn Danski; hann fór eitthvert sinn með 5 skipum, ok lá við Sámsey í Munarvogi. Þá er þat sagt, at matsveinar fóru á land at gera mat til, en aðrir menn fóru í skóg at skemta sèr, ok þar fundu þeir einn trèmann fornan ok var fertugr[7] at hæð ok mosavaxinn, ok sá þó öll deili á honum, ok ræddu nú um með sèr, hverr blótat mundi hafa þetta et mikla goð; ok þá kveðr trèmaðrinn:

Þat var fyrir laungu,
er í leið megir
Heklíngs fóru

---

1) brand á Hjörtasundi, *B.* 2) þar, *B*, *H.* 3) vèr erum, *B*, *L.* 4) Borgaralandi, *B*; Bölgaralandi, *G.* 5) ber, *hin.* 6) *þannig hin; í A:* meir; *má og lesast:* mèr. 7) 40 álna, *hin.*

hlumtúngum[1]
fram um salta
slóð birtínga;
þá varð ek þessa
þorps[2] ráðandi.

Ok því[3] settu
svarðmerðlíngar[4],
suðr hjá salti,
synir Loðbrókar;
þá var ek blótinn
til bana mönnum
í Sámseyju
sunnanverðri.

þar báðu standa,
meðan strönd þolir,
mann hjá þyrni
ok mosavaxinn;
nú skýtr á mík
skýja gráti,
hlýrr[5] hvorki mèr
hold nè klæði.

Ok þetta þótti mönnum undarligt, ok sögðu síðan frá öðrum mönnum.

---

1) hlunnitúngum, *E*, *G*; hlunna túngum, *B*, *F*, *L*. 2) þorſs, *A*. 3) þar, *hin*. 4) sverðmerðlíngar, *hin*. 5) hlífa, *B*, *K*.

# Krákumál[1].

HJUGGU vèr með hjörvi,
hitt var ei fyrir laungu,
er á Gautlandi gengu[2]
at grafvitnis[3] morði;
þá fengu vèr Þóru,
þaðan hètu mik fyrðar,
þá[4] er ek lýngál[5] um lagðak,
Loðbrók, at því vígi;
stakk ek á storðar lykkju
stáli bjartra[6] mála.

2. Hjuggu vèr með hjörvi,
heldr var ek úngr, þá er skífðum[7],
austr í Eyrasundi[8],
undurn[9] frekum vargi;
ok fótgulum fugli
fengu vèr, þar[10] er súngu
við háseymda hjálma
hörð járn, mikils verðar;
allr var ægir sollinn,
óð Rán[11] í valblóði.

3. Hjuggu vèr með hjörvi,
hátt bárum þá geira,
er tvítugir töldumst,
ok týr ruðum víða;

[1]) *þannig A;* er sumir kalla Loðbrókarkviðu, *b. v. C, D, E, F, H, M;* Bjarkamál, *B.* [2]) gengum, *hin.* [3]) *þannig B, C, D, H, M;* grávitnis, *A;* grávitins, *B, E, F, W;* gráfofnis, *U.* [4]) þar, *U.* [5]) *þannig C, D, E, H, J;* lingolum *eða* lungolum, *A;* língavlum, *B, W.* [6]) bjarta, *U.* [7]) fengum, *B, W.* [8]) Eyrarsundi, *B, M, U, W.* [9]) undarn, *B, M.* [10]) þær, *U.* [11]) *eða* ránn, *A;* rafn, *hin.*

unnum átta jarla
austr fyrir[1] Dínumynni[2],
gera fengum þá gnóga
gistíng at því vígi;
sveiti[3] fèll í sollinn
sæ, týndi lið æfi.

4. Hjuggu vèr með hjörvi,
Hèðins kvânar varð auðit,
þá er vèr Helsíngja heimtum
til heimsala[4] Óðins;
lögðum upp í Ífu[5],
oddr[6] náði þá bíta,
öll var unda gjálfri
[á sú[7] roðin heitu;
grenjar[8] brandr við[9] brynjur[10],
benshildr[11] klufust[12] skildir[13].

5. Hjuggu vèr með hjörvi,
hygg[14] engan þá frýðu[15],
áðr enn á Heflis[16] hestum
Herruðr[17] í styr fèlli;
klýfr[18] ei Egils[19] öndrum
annar jarlinn frægri
lyndar[20] völl til lægis
á língskipum síðan;

---

1) í, *C, E, H.* 2) Þinnmynni, *B*; Dýnumynni, *U.* 3) sveit, *B.* 4) Heimdala, *E og fl.* 5) *þannig B, E, W*; móðu, *A og hin.* 6) *þannig, B, E, M, U*; fjöðr, *A og hin.* 7) *Á*sver, *B, E, W.* 8) grenjaði, *B, M, U*; grenjaða, *W*; gveimar, gveinar (kveinar), *hin.* 9) í, *B, U.* 10) brynju, *B, W.* 11) bensíldr, *B, E, M, U, W.* 12) klufu, *B, M, U, W.* 13) skildi, *B, M, U.* 14) ek, *b. v. hin.* 15) flýði, *B, E, W.* 16) Hefils, *M*; Hemlis, *B, E, M, W.* 17) Herrauðr, *hin.* 18) klýft, *C.* 19) ægis, *E, U, W.* 20) lunda, *B.*

sá bar siklíngr víða
snart fram í styr hjarta.
6. Hjuggu vèr með hjörvi,
herr kastaði skjöldum,
þá er rægagarr[1] rendi
ræstr[2] at gumna brjóstum;
beit í Skarpaskerjum[3]
skeribíldr[4] at hjaldri;
roðinn var randar máni,
áðr Rafn konúngr fèlli;
dreif or hölda hausum
heitr á brynjur[5] sveiti.
7. Hjuggu vèr með hjörvi,
hátt grenjuðu hrottar,
áðr enn á Ullarakri
Eysteinn konúngr fèlli;
gengu[6] gulli fáðar[7]
grundar vals at bryndum[8];
rækyndill[9] smaug[10] rauðar[11]
rítur[12] at hjálma móti;
svíra vín or sárum
sveif of hjarna kleifar[13].
8. Hjuggu vèr með hjörvi,
hafa gátu þá hrafnar
fyrir Einderis[14] eyjum[15]

1) *leiðrètt*; hrægagar, *A*, *C*, *D*, *F*, *H*; hrægagari, *B*, *E*, *W*; hrægari, *U*; rægarar, *M*. 2) reistr, *E*, *U*, *W*. 3) Skarfaskerjum, *B*, *E*, *M*, *W*. 4) *þannig hin*; skæribíldr, *A*. 5) *þannig hin*; breynir, *eða* breynu, *A*. 6) gengum, *U*, *W*. 7) fáðir, *hin*. 8) bröndum, *B*, *E*, *W*. 9) rekindil, *A*; hrakindill, *B*, *U*, *W*; rækindil, *hin*. 10) sneið, *B*, *E*, *M*, *W*. 11) randa, *B*, *W*; randar, *hin*. 12) *þannig B*, *W*; rittr, *A og hin*. 13) kleifa, *B*, *W*. 14) Innþyris, *B*, *W*; Yndyris, *U*. 15) eyjo, *C*, *D*, *E*, *F*, *H*.

ærna bráð at slíta;
fengum Fálu hestum
fullan[1] verð at sinni;
íllt var eins at gæta[2]
með[3] uppruna sólar,
streng-völur[4] sá ek stíga[5],
stakk málmr[6] [á skör[7] hjálmi[8].

9. Hjuggu vèr með hjörvi,
háðum[9] rendr í dreyra[10],
þá er benþvarra[11] bendum[12]
fyrir Borghundarhólmi;
hreggský slitu hrínga[13],
hratt álmr af sèr málmi;
Vulnir[14] fèll at vígi,
varat einn konúngr meirri;
val rak víðt[15] of strandir,
vargr fagnaði tafni.

10. Hjuggu vèr með hjörvi,
Hildr var sýnt í vexti,
áðr Freyrr konúngr fèlli
í Flæmíngja veldi;
náði blárr at bíta
blóði smeltr í gyltan
Högna kufl[16] at hjaldri
harðr bengrefill forðum;

---

1) fullum, *W.* 2) geta, *B, E, W.* 3) í, *B, E, F, U, W.* 4) *þannig ágizkat*; haulu, *A, D*; hömlum, *B*; raulur, *C, F, H, M*; fjöðr, *E*; hömlur, *U, W.* 5) stínga, *E, U, W.* 6) álmr, *B, E, U, W.* 7) af sér, *B, E, U, W.* 8) málmi, *B, E, U, W.* 9) höfðum, *B, E, W.* 10) blóði, *B, E, U, W.* 11) *þannig B, E, U*; beinstara, *A og fl.*; ben þver á, *W.* 12) *þannig C, D, E, F, H, M*; brendum, *A*; bræddum, *W.* 13) randir, *B, U, W.* 14) Fölnir, *B*, E. 15) *þannig B, E, M, U, W*; út, *A.* 16) *þannig hin*; kylf, *A.*

mær grèt morgin skæru[1]
mörg, þá er tafn fèkst vörgum.
11. Hjuggu vèr með hjörvi,
hundruðum frá ek liggja
á Eynefis öndrum,
þar er Englanes heitir;
sigldu vèr til snerru
sex dægr, áðr lið fèlli,
áttum odda messu
við uppruna sólar;
varð fyrir vorum sverðum
Valþjófr í styr hníga.
12. Hjuggu vèr með hjörvi,
hrundi dögg af sverðum
brýn í Barðafirði,
bleikan ná fyrir hauka;
umdi álmr, þá er oddar
allhratt slitu skyrtur,
at slíðrloga sennu
Svelnis[2] hamri[3] þæfðar;
rendi ormr til unda,
eitrhvass, drifinn sveita.
13. Hjuggu vèr með hjörvi,
hèldum Hlakkar tjöldum
hátt at Hildar leiki
fyrir Hèðnínga vâgi;
sjá knáttu þá seggir,
er sundruðum[4] skjöldu,
at hræsílna hjaldri

1) *þannig B, M, W*; skarru, *A og fl.* 2) Svolnis, *B. E, W*; Svalnis, *U.* 3) *þó heldr ógreiniligt í A*; hampe, *D*; hange, *C, F, H, M*; hatti, *B, U, W.* 4) sverð rifu, *B, U, W.*

hjálm slitnaðar[1] gotna;
varat sem bjarta brúði
í býng hjá sèr leggja.
14. Hjuggu vèr með hjörvi,
hörð kom hríð á skjöldu,
nárr[2] fèll niðr til jarðar
á Norðimbralandi[3];
varat um eina óttu
öldum þörf at frýja[4]
Hildar leik, þar er hvassir
hjálmstofn bitu skjómar;
böðmána[5] sá ek bresta,
brá því fíra lífi.
15. Hjuggu vèr með hjörvi,
Herþjófi varð auðit
í Suðreyjum sjálfum
sigrs á vorum mönnum;
varð at randar regni
Rögnvaldr fyrr hníga,
sá kom hæstr [of hölda[6]
harmr at sverða gusti;
hvast kastaði hristir
hjálms[7] strenglögar pálmi.
16. Hjuggu vèr með hjörvi,
hverr lá þverr of annann;

1) *þannig A;* slitnaðan, *B, E, U, W.* 2) *þannig B, U;* nær, *A.* 3) Norðumbralandi, *B, U;* Norðhumralandi, *W.* 4) flýja, *B, U, W.* 5) *þannig W og fl., er hèr reyndar setja niðrlags hendingarnar úr 20 vísunni, en þær tilsvarandi hèðan, þángat;* bænmána *líkl.* benmána, *A.* 6) yfir hauka, *B, W.* 7) *þannig B, U, W;* álmr, *A.*

glaðr varð gera bróðir
[getu við sóknar læti[1];
lèt ei örn nè ýlgi
sá er Írlandi stýrði,
mót varð málms ok rítar,
Marsteinn konúngr fasta;
varð í Veðrafirði
valtafn gefit hrafni[2].

17. Hjuggu vèr með hjörvi,
hundmarga[3] sá ek falla
morginstund fyrir meiði[4]
menn at odda sennu;
syni mínum hneit snemma
slíðra þorn við hjarta,
Egill lèt Agnar[5] ræntan
úblauðan hal lífi;
glumdi geirr við Hamdis
grán serk, bliku merki.

18. Hjuggu vèr með hjörvi,
haldorða sá ek brytja
ekki smátt fyrir úlfa
Endils niða bröndum;
varat á [Vika-skerði[6]
sem vín konur bæri,
roðinn var Ægis asni
ófárr í dyn geira;
skorin var Sköglar kápa
at skjöldúnga hjaldri.

---

1) gaukr at sverðaleiki, *B*, *U*, *W*. 2) *vísuna v. í A*. 3) *þannig Jóhnstóne*; hunmargan, *A*; hrun margan, *B*, *C*, *D*, *E*, *F*, *M*; hermargan, *hin*. 4) mæki, *B*, *W*. 5) *óljóst í A*. 6) *þannig A*; vika skæði, *hin*.

19. Hjuggu vèr með hjörvi,
háðum suðr[1] at morni
leik fyrir Lindiseyri
við lofðúnga þrenna[2];
fárr átti því fagna,
fèll margr í gyn úlfi,
haukr sleit hold með vargi,
at hann heill þaðan kæmi;
Íra blóð í ægi
ærit fèll um skæru[3].

20. Hjuggu vèr með hjörvi,
hárfagran sá ek hrökkva
meyjar dreng[4] at morni
ok málvini ekkju;
varat sem varmar laugar[5]
vínkers njórun[6] bæri
oss í Álasundi[7],
áðr enn Örn konúngr fèlli;
varat sem únga ekkju
í öndugi kyssa.

21. Hjuggu vèr með hjörvi,
há sverð bitu skjöldu,
þar er gullroðinn glumdi
geirr við Hildar næfri;
sjá mun í Aunguls eyju
of aldr mega síðan,

1) sverðs, *B*, *W*. 2) *v. í A; tekið úr hinum.* 3) *óljóst í A; tekið úr H.* 4) enn, *b. v. hin.* 5) lögur, *B*, *W*. 6) *þannig B*, *W*; njúrn, *A og hin.* 7) Ilasundi, *B*, *W*.

hversu[1] at lögðis[2] leiki
lofðúngar fram gengu;
roðin var út fyrir eyri
ár flugdreki sára.

22. Hjuggu vèr með hjörvi,
hví[3] sè drengr[4] at feigri[5],
at hann í odda èli
öndurðr látinn[6] verði?
opt sýtir[7] sá æfi,
er aldreigi nístir;
illt kveða argan eggja
örum at sverða leiki;
hugblauðum kemr hvergi
hjarta sitt at gagni.

23. Hjuggu vèr með hjörvi,
hitt tel ek jafnt at gángi
at samtogi sverða
sveinn í móti sveini;
hrökkvat þegn fyrir þegni!
þat var drengs aðal lengi;
æ skal ástvinr meyja
einharðr[8] í dyn sverða!

24. Hjuggu vèr með hjörvi,
hitt sýnist mèr raunar,
at forlögum fylgjum,

---

1) *óljóst í A;* hví vèr, *hin.* 2) lögðu, *B, C, D, E, F, M.* 3) hvat, *B, W.* 4) drengi, *hjá Barthólín Ant. bls.* 41. 5) fegri, *hjá Jóhnstóne.* 6) *óljóst í A; tekið úr hinum.* 7) *hèr endar A; niðrlagit er tekið úr H.* 8) einarðr, *B, W.*

fárr gengr of sköp norna;
eigi hugða ek Ellu
at aldrlagi mínu,
þá er ek blóðvali bræddak
ok borð á lög keyrðak;
víðt fengum þá vargi
verð í Skotlands fjörðum.

25. Hjuggu vèr með hjörvi,
hitt hlæir mik jafnan,
at Baldurs feðr bekki
búna veit ek at sumblum;
drekkum bjór at bragði
or bjúgviðum hausa!
sýtir ei drengr við dauða
dýrs at Fjölnis húsum;
eigi kem ek með æðru
orð til Viðris hallar[1].

26. Hjuggu vèr með hjörvi,
hèr vildu nú allir
burir Áslaugar bröndum
bitrum[2] Hildi vekja,
ef vandliga vissi
of viðfarar ossar,
hve úfáir ormar
eitrfullir mik slíta;
móðernis fèkk ek mínum
mögum, svât hjörtu duga.

27. Hjuggu vèr með hjörvi,
harðla[3] líðr at arfi,

[1]) borða, *M.* [2]) *þannig B, W*; björtum, *H og hin.* [3]) harða, *D.*

grimt stendr grand af naðri,
Góin byggir sal hjarta;
væntum hins, at Viðris
vöndr í Ellu standi[1];
sonum mínum man svella
sinn[2] föður[3] ráðinn[4] verða,
ei munu snarpir sveinar
sitt kyrt vera láta.

28. Hjuggu vèr með hjörvi,
hefik fimmtygum sinna
fólkorrostur framdar,
fleinþíngs boði, ok eina;
minnst hugða ek manna,
at mèr vera skyldi,
úngr namk odd at rjóða,
annar konúngr frægri[5];
oss munu Æsir bjóða,
erat sýtandi dauði.

29. Fýsumst hins at hætta,
heim bjóða mèr Dísir,
sem frá Herjans höllu
hefir Óðinn mèr sendar;
glaðr skal ek öl með Ásum
í öndvegi drekka;
lífs eru liðnar stundir
læjandi skal ek deyja!

---

1) blóði, *B, W.* 2) *þannig C og fl.*; sín, *B.* 3) móður, *B, W.* 4) roðinn, *B, W.* 5) fremri, *B, W.*

## Söguþáttr af Norna-Gesti.

Sva er sagt, at á einum tíma, þá er Ólafr konúngr (Tryggvason) sat í Þrándheimi, bar svâ til, at einn maðr kom til hans at áliðnum degi, ok kvaddi hann sæmiliga. Konúngr tók honum vel ok spurði, hverr hann væri; en hann sagðist Gestr heita. Konúngr svarar: Gestr muntu hèr vera, hversu sem þú heitir. Gestr segir: satt segi ek þèr til nafns míns, herra! en gjarna vilda ek af yðr gistíng þiggja, ef kostr væri. Konúngr sagði honum þat til reiðu vera; en með því at áliðinn var dagrinn, vildi konúngr ekki tala við Gest, þvíat hann gekk þá skjótt til aptansaungs ok síðan til borðs, ok þá til[1] náða. Ok á þeirri sömu nótt vakti Ólafr konúngr í sæng sinni[2], ok las bænir sínar, en aðrir menn svófu í því herbergi. Þá þótti konúngi einn álfr eða andi nokkr koma inní húsit, ok þó at luktum dyrum öllum; hann kom fyri rekkju hvers manns, er þar svaf, ok

[1]) svefns ok, *b. v.* þ. [2]) *það undanfarna v. í S, sem byrjar þannig:* þat var á einni nótt, at Olafr konúngr Tryggvason vakti á bæn í sæng sinni, *o. s. frv.*

at lyktum kom hann til sængr eins manns, er þar var utarliga. Þá mælti álfrinn, ok nam staðar: furðu sterkr lás er hèr fyri tómu húsi, ok er konúngr eigi jafnvíss um slíkt, sem aðrir láta, at hann sè allra manna spakastr, er hann sefr nú svâ fast[1]; eptir þat hverfr sá í burt at lyktum dyrum. En snemma um morguninn eptir sendi konúngr skósvein sinn at verða víss, [hverr þá sæng hefði byggt um nóttina, ok prófaðist svâ, at þar hafði legit gestrinn. Konúngr lèt kalla hann fyri sik, ok spurði, hverr hann væri[2]; en hann svarar: Þórðr hèt faðir minn, ok var kallaðr þíngbítr[3], Danskr at kyni; hann bjó á þeim bæ í Danmörk, er Græníngr heitir. Þrifligr maðr ertu! segir konúngr. Gestr sjá var djarfr í orðum, ok meirri[4], enn flestir menn aðrir, sterkligr ok nokkut hníginn á efra aldr; [hann biðr konúng[5] at dveljast þá lengr hjá hirðinni. Konúngr spurði, ef hann væri skírðr. Gestr lèzt vera primsigndr, en eigi skírðr. Konúngr sagði honum heimilt, at vera með hirðinni: en skamma stund muntu með oss vera óskírðr. En því hafði álfrinn svâ til orðs tekit um lásinn, at Gestr signdi sik um

1) *v. í S.* 2) hvat komit væri. Sveinninn kemr, ok segir þar kominn ókunnan mann mikinn. Konúngr mælti: far enn, ok kalla hann til mín! Svâ var gert; kemr þessi maðr fyri konúng, ok kvaddi hann vel. Konúngr spyrr, hvat hann hèt; hann kveðst Gestr heita. Konúngr mælti: hvers son ertu? *S.* 3) *þannig B, F,* Þ; þībítr, *A*; þíngh'b., *S*; þimbmt, *G.* 4) vexti, *b. v. S.* 5) biðr konúngr hann, *B, F, G.*

kveldit, sem aðrir menn, en var þó reyndar heiðinn. Konúngr mælti: ertu nokkr íþróttamaðr? Hann kvaðst leika hörpu, eðr segja sögur, svâ at gaman þætti at. Konúngr segir: illa gjörir Sveinn konúngr þat, at hann lætr óskírða menn fara úr ríki sínu landa á meðal. Gestr segir: ekki er þat Dana konúngi at kenna, þvíat miklu furr fór ek burt úr Danmörk, enn Otta[1] keisari lèt brenna Danavirki, ok kúgaði Harald konúng Gormsson ok Hákon blótjarl at taka við kristni. Margra hluta spurði konúngr Gest, en hann leysti flest vel ok vitrliga. Svâ segja menn, at Gestr þessi kæmi á þriðja ári ríkis Ólafs konúngs; á því ári komu ok til hans tveir menn, er Grímar hètu, ok voru sendir af Goðmundi[2] af Glæsisvöllum[3]; þeir færðu konúngi horn tvö, er Goðmundr gaf honum; þau kölluðu þeir ok Gríma; þeir höfðu ok fleiri eyrendi til konúngs, sem síðarr mun sagt verða[4]. Nú er at segja, at Gestr dvaldist með konúngi; er honum skipat utar frá gestum; hann var siðsamr maðr [ok vel látinn, var hann ok þokkasamr af flestum mönnum, ok virðist vel[5].

2. Litlu fyri jól kom Úlfr inn rauði heim ok sveit manna með honum; hann hafði verit [um sumarit[6] í konúngs eyrendum, [þvíat hann[7] var

---

1) *þannig S;* Ottu, *A, F, G;* Ottó, *B,* þ. 2) Guðmundi, þ. 3) Glasis völlum, *F, S.* 4) *sbr. Fornmanna sögur,* 3 B. *bls.* 138. 5) *v. í S.* 6) *v. í B, F, G.* 7) en, *S.*

settr til landsgæzlu um haustit í Víkinni við áhlaupum Dana; var hann jafnan vanr at vera með Ólafi konúngi um hávetr. Úlfr hafði átt at færa konúngi marga góða gripi, er hann hafði aflat um sumarit, ok einn gullhríng hafði hann aflat, er Hnituðr hèt; hann var hnitaðr saman í sjö stöðum[1], ok var með sínum lit hverr hlutrinn; miklu var hann gullbetri enn aðrir hríngar. Þann hríng hafði gefit Úlfi bóndi einn, er Loðmundr hèt, en þenna hríng hafði átt áðr Hálfr konúngr, er Hálfsrekkar eru frá komnir ok við kendir, er þeir höfðu kúgat fè[2] af Hálfdáni[3] konúngi í[4] Ylfíng[5]; en Loðmundr beiddi Úlf ímóti, at hann mundi halda bænum fyrir honum með fulltíngi Ólafs konúngs; Úlfr játaði því. Heldr konúngr nú ríkuliga jól sín, ok sitr í Þrándheimi. En hinn átta dag jóla gefr Úlfr inn rauði hrínginn Hnituð Ólafi konúngi. Konúngr þakkar honum gjöfina, ok alla sína trúlynda þjónustu, er hann hafði jafnan veitt honum. Ferr þessi hríngrinn víða um herbergit, þar er menn drukku inni, þvíat þá voru enn eigi hallir smíðaðar í þann tíma í Noregi; sýnir nú hverr öðrum, ok þikkjast menn eigi sèt hafa jafngott gull, sem í hríngnum var; ok at lyktum kemr hann á gestabekk, ok svâ fyri Gest hinn nýkomna[6]; hann lítr á, ok selr

---

1) hlutum, *S.* 2) *þannig B, F, S,* Þ; *v. í A.* 3) *þannig F, S;* Háldáni, *A, B.* 4) *þannig A, F,* Þ; *v. í B, S.* 5) Jylfíng, *G.* 6) ókunna, *S,* Þ.

aptr hrínginn yfir þvera höndina þá, er hann hèldt áðr á horninu[1]; finnst honum fátt um, ok talar ekki til þessa gripar, en hefir gamanræður sem áðr við sína fèlaga. Einn herbergis sveinn skeinkti utar á gestabekkinn; hann spyrr: lízt yðr vel á hrínginn? Allvel, sögðu þeir, utan Gesti inum nýkomna, honum finnst ekki til, ok hyggjum vèr, at hann kunni ekki til at sjá, er hann ansar aungu til um slíka hluti. Herbergis sveinninn gengr innar fyrir konúng, ok segir honum þessi inu sömu orð gestanna, ok þessi inn nýkomni gestr, hversu at hann ansaði[2] lítt til þessa gripar, er honum var sýnd slík gersemi. Konúngr kvað Gest inn nýkomna fleira vita mundu enn þeir ætluðu: ok skal hann koma til mín á morgin, ok segja mèr nokkra sögu[3]. Nú talast þeir við gestirnir utar á bekkinn; þeir spyrja inn nýkomna gest, hvar hann hefir sèt jafngott gull eðr hríng, eða betra. Gestr segir: með því, at yðr þikkir ek svâ fátt til tala, þá hefir ek víst sèt þat gull, at aungum mun er verra, nema betra sýnist. Nú hlægja konúngsmenn mjök, ok segja, at þar horfi til gamans mikils: ok muntu vilja veðja við oss, at þú hafir sèt jafngott gull, sem þetta, svâ at þú megir þat sanna; skulu vèr viðsetja fjórar[4] merkr gángsilfrs, en þú kníf þinn ok belti, ok skal konúngr um segja, hvorir sannara hafa.

1) kerinu, *B*, *S*, þ. 2) ansvaraði, *S*. 3) með því at hann þóttist þat kunna, *b. v. S*. 4) 7, *S*.

Gestr svarar þá: eigi skal hvorttveggja gjöra, at vera í kalsi með yðr, enda halda eigi ummæli þau, sem þèr bjóðið, ok skal víst veðja hèr um, ok svâ mikit viðliggja, sem þèr hafið ummælt, en konúngr skal um segja, hvorir sannara hafa; hætta þeir þá sínu tali. Tekr Gestr þá[1] hörpu sína, ok slær vel ok lengi um kveldit, svâ at öllum þikkir unatí á at heyra, ok slær þó Gunnarsslag[2] bezt[3]; ok at lyktum slær hann Guðrúnarbrögð hinu fornu, þau höfðu menn eigi fyrr heyrt; ok eptir þat svófu menn af um nóttina[4].

3. Konúngr stendr snemma upp um morguninn, ok hlýddi tíðum[5]; ok er þeim var lokit, gengr konúngr til borðs með hirð sinni; ok er hann er kominn í hásæti, gengr gestasveitinn[6] innar fyri konúng, ok Gestr með þeim[7], ok segja honum sín ummæli öll ok veðjan þá, sem þeir höfðu haft áðr. Konúngr segir: lítit er mèr um veðjan yðra, þó[8] at þèr leggið penínga yðra [við Gest[9], get ek þess til, at yðr hafi drukkr í höfuð fengit, ok þikki mèr ráð, at þèr hafið at aungu, allra helzt ef Gesti þikkir[10] svâ betr. Gestr segir: þat vil ek, at haldist öll ummæli vor. Konúngr mælti[11]: svâ lízt mèr á þik, Gestr! at mínir menn muni hafa mælt

[1]) síð um kveldit, *S.* [2]) Gunnarsslagi, *S.* [3]) *þannig A, B, F, S*; læst, *G.* [4]) ok er þá kyrt um síðir um þá bekkjunautana, *b. v. S.* [5]) morgintíðum, ok aðrir menn með honum, *S.* [6]) *þannig F, S*; sveinninn *A, B, G.* [7]) honum, *B, G.* [8]) *þannig A, B, F,* Þ; svâ, *S.* [9]) út, *B*; *v. í F, S.* [10]) líkar, *S.* [11]) at svâ skyldi vera, en, *b. v. S.*

sik í þaular um þetta mál, meirr enn þú, en þó mun þat nú skjótt reynt verða. Eptir þat gengu þeir í burt ok fóru at drekka; ok er drykkjuborð voru upptekin, lætr konúngr kalla Gest, ok talar svâ til hans: nú verðr þú skyldr til, at bera fram gull nokkut, ef þú hefir til, svâ at ek megi segja um veðjan yðra. [Þat munu þèr vilja, herra! segir Gestr; hann þreifar þá til sjóðs eins, er hann hafði við sik, ok tók þar upp eitt knýti, ok leysir til, ok fær í hendr konúngi. Konúngr sèr, at þetta er brotit af söðulhríngju, ok sèr, at þetta er allgott gull; hann biðr þá taka hrínginn Hnituð[2], ok svâ var gjört; berr konúngr saman [gullit ok hrínginn[3], ok mælti: víst lízt mèr þetta betra gull, er Gestr hefir framborit, ok svâ mun lítast fleirum mönnum, þótt sjái; sönnuðu þetta þá margir menn með konúngi; síðan sagði[4] hann Gesti veðfèt[5]; þóttust gestirnir þá ósvinnir vorðnir um þetta mál. Gestr mælti þá: takið fè yðvart sjálfir, þvíat ek þarf eigi at hafa, en veðlð ekki optarr við ókunna menn, þvíat eigi viti þèr, hvar þèr hittið þann fyrir, at bæði hefir fleira heyrt ok sèt enn þèr; en þakka vil ek yðr, herra! úrskurðinn. Konúngr mælti þá: Nú vil ek at þú segir, hvaðan þú fèkst gull þetta, er þú ferr með. Gestr svarar: trauðr em ek til þess, því-

---

[1]) hvat mun annat heldr til? *S.* [2]) ok vita, hvârt þat er fegra gull, enn hríngju brotit, *b. v. S.* [3]) gullin, *S.* [4]) dæmir, *S.* [5]) veðjunar fè, *S.*

at þat mun flestum þikkja ótrúligt, er ek segi þar til. Þó viljum vèr heyra, segir konúngr[1], með því at þú hefir oss heitit sögu þinni. Gestr svarar: ef ek segi yðr, hversu farit er um gullit, þá get ek, at þèr villð heyra aðra sögu hèr með. Vera má þat, segir konúngr, at rètt getir þú þessa.

4. Þá mun ek segja frá því, er ek fór suðr í Frakkland; vilda ek forvitnast um konúngs siðu, ok mikit ágæti, er fór frá Sigurði Sigmundarsyni um vænleik hans ok þroska. Varð þá ekki til tíðenda, fyrr enn ek kom til Frakklands, ok til móts við Hálfrek[2] konúng; hann hafði mykla hirð um sik. Þar var þá Sigurðr Sigmundarson, Völsúngssonar, ok Hjördísar, Eylimadóttur. Sigmundr fèll í orrostu fyrir Hundíngs sonum, en Hjördís giptist Hálfi[3], syni Hálfreks konúngs. Vex Sigurðr þar upp í barnæsku, ok allir synir Sigmundar konúngs; voru þeir umfram alla menn um afl ok vöxt, Sinfjötli, ok Helgi, er drap Hundíng konúng, ok því var hann Hundíngsbani kallaðr; þriðí hèt Hámundr; Sigurðr var þó allra þeirra bræðra framastr; er mönnum þat ok kunnigt, at Sigurðr hefir verit allra göfgastr herkonúnga, ok bezt at sèr í fornum[4] siðum. Þá var ok kom-

[1]) ok mun þat vel fallit, *b. v. S.* [2]) *þannig ágizkað*; Hálf... *A*; Hálf, *G*; Hjálprek, *allstaðar B, F, S,* Þ. [3]) þegar Álfi, *S.* [4]) heiðnum, *S.*

inn til Hálfreks konúngs Reginn[1], son Heiðmars[2]; hann var hverjum manni hagari ok dvergr á vöxt, vitr maðr, grimmr ok fjölkunnigr; Reginn kendi Sigurði marga hluti, ok elskaði hann mjök. Hann segir þá frá forellrum sínum, ok svâ atburðum undarligum, er þar höfðu gjörst: ok er ek hafða skamma stund þar verit, gjörðumst ek þjónustumaðr Sigurðar, sem margir aðrir; allir elskuðu hann mjök, þvíat hann var bæði blíðr ok lítilátr, ok mildr af fè við oss.

5. Þat var einn dag, at vèr kvomum til húsa Regins, ok var Sigurði vel fagnat; þá kvað Reginn vísu þessa:

Kominn er híngat
konr[3] Sigmundar,
seggr inn snarráði,
til sala vorra,
megn hefir mikit,
en ek[4] maðr gamall;
er mèr fángs vân
at frekum úlfi.

Ok enn kvað hann:

Ek mun fræða
fólkdjarfan gram;
nú er Yngva konr
með oss kominn;
sjá mun ræsir,

[1]) *v í A.* [2]) Hreiðmars, *B og fl.* [3]) *þannig S;* son, *A, B, F, G,* þ. [4]) em, *S.*

rîkr[1] und sólu,
frægr um lönd öll
með lofi mínu[2].

Sigurðr var þá jafnan með Reginn, ok hann sagði honum margt af Fofni[3], er hann lá á Gnîparheiði[4] í orms líki, ok at hann var undarliga mikill vexti. Reginn gjörði Sigurði sverð þat, er Gramr hèt; þat var svâ snarpeggjat, at hann brá því í ána Rín, ok lèt reka ofan at ullarlagð fyri strauminum, ok tók í sundr lagðinn[5]; síðan klauf Sigurðr steðja Regins með sverðinu. Eptir þat eggjaði Reginn Sigurð, at drepa Fofni, bróður sinn; [Sigurðr kvað þá[6] vísu:

Hátt munu hlægja
Hundíngs synir,
þeir er Eylima
[aldrs vörnuðu[7],
ef mik tregar[8]
meirr, at sækja
hrínga rauða
enn hefna[9] föður.

Eptir þetta býr Sigurðr ferð sína, ok ætlar at herja á Hundíngs sonu, ok fèkk Hálfrekr honum margt lið ok nokkur herskip. Í þessari ferð voru með Sigurði Hámundr, bróðir hans, ok Reginn; ek var ok þar, ok kölluðu þeir mik þá Norna-Gest; var Hálfreki konúngi kunnleiki

[1]) rîkstr, *hin.* [2]) sínu, *B*, *F*, *S*, þ. [3]) Fâfni, *F*, *S*, þ. [4]) Gnípaheiði, *F*, *S*, þ; Gnítaheið (Gnýparheiði), *B*; Gnýpurheiði, *G*. [5]) sem vatnit, *b. v. S.* [6]) *þannig S*; ok kvað, *A og hin.* [7]) aldr svörfuðu, *G.* [8]) *þannig S*, þ; tegar, *A*; teygir, *F*, *G.* [9]) hefnd, *S.*

á mèr, þá er hann var í Danmörku með Sigmundi Völsúngssyni; þá átti Sigmundr Berghildi[1], ok skildu þau svâ, at Berghildr[2] drap Sinfjötla, son Sigmundar, með eitri. Síðan fèkk Sigmundr suðr í Frakklandi Hjördísar dóttur Eylima, er Hundíngs synir drápu, ok átti Sigurðr bæði at hefna föður síns ok móðurföður síns. Helgi Sigmundarson, er Hundíngsbani var kallaðr, var bróðir Sigurðar, er síðan var kallaðr Fofnisbani. Helgi[3], bróðir Sigurðar, hafði drepit Hundíng konúng ok sonu hans þrjá, Eyjólf, Herruð ok Hjörvarð; Lýngvi komst undan ok tveir bræðr hans, Álfr ok Hemíngr; voru þeir hinir frægustu menn um alla atgjörfi, ok var Lýngvi fyri þeim bræðrum; þeir voru mjök fjölkunnigir; þeir höfðu kúgat marga smákonúnga ok marga kappa drepit, ok margar borgir brendt, ok gjörðu it mesta hervirki í Spaníalandi[4] ok Frakklandi, en þá var eigi keisararíki komit norðr híngat yfir fjallit. Hundíngs synir höfðu tekit undir sik þat ríki, er átt hafði Sigurðr í Frakklandi, ok voru þeir þar mjök fjölmennir.

6. Nú er at segja frá því, er Sigurðr bjóst til bardaga ímóti Hundíngs sonum; hann hafði fengit mikit lið ok vel vopnat. Reginn hafði mjök ráðagjörð fyri liðinu; hann hafði sverð þat, er Riðill hèt, er hann hafði smíðat; Sig-

1) Borghildi at Brálundi, *S.* 2) Borghildr, *S.* 3) *v. í A.* 4) Spánlandi, *S.*

urðr bað Reginn ljá sèr sverðit; hann gjörði svâ, ok bað hann drepa Fofni, þá er hann kæmi aptr úr þeirri ferð; Sigurðr hèt honum því. Síðan sigldum vèr suðr með landi; þá fengum vèr gjörnínga veðr stór, ok kendu þat margir Hundíngssonum; sigldu vèr nokkuru landhallara. Þá sá vèr mann einn á bjargsnös nokkuri, er gekk fram af sjófarhömrum; hann var í heklu grænni ok blám brókum, [ok knepta skó á fótum upphára, ok spjót[1] í hendi; þessi maðr ljóðar á oss, ok kvað:

Hverir ríða hèr
ræfils hestum
[hafri unnar[2]
hafi[3] glymjanda;
eru [segl yðr[4]
sjófi stokkin,
munu at vopnaðir[5]
vind[6] of standast.

Reginn kvað ámóti:

Hèr erum[7] vèr Sigurðr[8]
á sjó komnir,
er oss byrr gefinn
við bana sjálfan;
fellr brattr[9] breki
bárundum[10] hægir[11]

1) uppháfa skúa ok knepta at legg, laufsprota, *S.* 2) *þannig F, S, Þ*; hafunnar, *A*; háfar unnir, *B*; höfnum at, *G.* 3) haf, B, *S.* 4) seglvigg, B. 5) vogmarar, *B.* 6) við, *S.* 7) 'ro, *S.* 8) *eða* sigri, *A.* 9) brátt, *F, S, Þ.* 10) bröndum, *B, F, Þ*; *v. í S.* 11) hærri, *B, F, G, Þ*; hömrnm, *S.*

hlunnvígg[1] hrapa,
hverr spyrr at því?

Heklumaðr kvað:

Hnikar heitum[2] mik
þá er Huginn[3] gladdi
Völsúngr víða[4]
ok vegit hafði;
nú máttu kalla
karl á bjargi
Feng eða Fjölni,
far vil ek þiggja[5]!

Þá vikum vèr at landi; þá lægði skjótt veðrit, ok bað Sigurðr karl gánga útá skipit; hann gjörði svâ; þá [fèll þegar veðrit, ok[6] gjörði hinn bezta byr. Karl settist niðr fyri fætr[7] Sigurði, ok var mjök makráðr[8]; hann spurði, ef Sigurðr vildi nokkut ráð at honum þiggja. Sigurðr kveðst vilja; sagði þat, at hann mundi vera mönnum ráðdrjúgr, ef hann vildi[9] gagn gjöra. Sigurðr kvað til heklumannsins:

Segðu mèr þat, Hnikarr!
alls þú hvorttveggja veizt
goða heill ok gumna:
hverjar eru beztar,
ef berjast skal,
heillir at sverða svipan?

---

1) *þannig F, S,* þ; hlynníng, *A;* hlymmíng, *G.* 2) hètu, S. 3) *þannig B, S;* hug, *A, G,* þ. 4) úngi, *B.* 5) *þannig S,* þ; þeigja, *A, F.* 6) *v. í S.* 7) knè, *F, S,* þ. 8) máldjarfr, S. 9) mönnum, *b. v. F,* þ.

Hnikar kvað:

Mörg eru góð,
ef gumnar vita,
heill at sverða svipan:
dyggva [fylgju
hygg ins[1] dökkva vera
af hrotta meiðar[2] hrapi.

Þat er annat,
ef þú ert úm[3] kominn
ok til burtferðar búinn;
tvo þú lítr [ára
í -stirða[4]
hróðrfulla[5] hali.

Þat er et þriðja,
ef þú þjóta heyrir
úlf undir askinum[6],
heilla auðit
verðr þèr af hjálms töfum,
ef þú lítr þá fyri farast[7]

Engi skal gumna
í gegn vega
síð sitjanda[8]
systur veri[9];
þeir sigr hafa,

1) fylgin h. i., *A*; fylgju h. ek ens, *B*; fylgja hyggins, *F*, *G*; fylgjo hygg ek at ins, *S*; fylgju ens, þ. 2) meiða, *B*,*F*,*S*, þ. 3) *þannig A*, *B*, *F*, *G*, þ; um vin, *S*. 4) *þannig A*, *G*, þ; á tái standa, *B*, *S*; á rái standa, *F*. 5) hróðfúsa, *B*. 6) *þannig F*, þ; á-skinnum, *A*, *G*; asklimum, *B*. 7) fyrr fara, *B*; fyri fara, *hin*. 8) (at síð) sitjandi, *B*, þ; sinnandi, *G*; skínandi, *S*. 9) mána, *B*, *S*, þ; maka, *F*, *G*.

sem sjá kunna
hjörleiks hvatir,
eðr hamalt fylkja[1].

Þá[2] er fár mikit[3],
ef þú fæti drepr,
þá er at [vígi vegr[4];
tálar dísir
standa þèr á tvær hliðar,
ok vilja þik sáran sjá.

Kembdr[5] ok þveginn
skal kennast hverr,
ok at[6] morgni[7] mettr,
þvíat óvíst er,
[hvar at aptni kemr[8],
íllt er[9] fyrri heill at hrapa.

Ok eptir þat sigldum vèr suðr fyrir Hollsetuland, ok svâ fyrir austan Frísland, ok þar at landi. Þegar fregna Hundíngs synir um ferð vora, ok samna liði, ok verða brátt [fjölmennari enn vèr[10]; tókst þar harðr bardagi; var Lýngvi þeirra[11] framastr í allri framgaungu, sóttu þó allir fast fram. Sigurðr sækir ímóti svâ hart, at allt hrökk fyrir honum, þvíat sverðit Gramr varð þeim skeinusamr[12], en Sigurði þarf eigi hugar at frýa. Ok

1) *þannig B, F, S,* þ; fylgja, *A.* 2) þat, *F, S,* þ. 3) innit, *G.* 4) vega ferr, *B.* 5) kendr, *sum.* 6) af, *hin.* 7) *þannig B;* minni, *A, F, G,* þ; minnum, *S.* 8) *þannig B, S;* hvat er af inni, *A, G;* hvat er aptni kemr, þ. 9) *v. í A, G.* 10) fjölmennir, ok er vèr finnumst, *F, S,* þ. 11) bræðra, *b. v. F, S,* þ. 12) skeinuhætt, *F,* þ; *óglögt í S.*

er þeir Lýngvi fundust, skiptust þeir mörgum höggum við, ok berjast alldjarfliga; verðr þá hvíld á bardaganum, þvíat menn horfðu á þeirra einvígi; þat var lánga hríð, at hvorgi þeirra kom sári á annann, svâ voru þeir vígfimir. Síðan sækja bræðr Lýngva fast fram, ok drepa margan mann, en sumir flýja. Þá snýr Hámundr bróðir Sigurðar ímóti þeim, ok ek með honum, verðr þá enn[1] nokkur móttaka; en svâ lýkr með þeim Sigurði ok Lýngva, at Sigurðr gjörði hann handtekinn, ok var hann settr í járn. En er Sigurðr kom til vor, þá verða skjót umskipti; falla þá Hundíngs synir ok allt lið þeirra, enda myrkir þá af nótt. Ok þá er lýsti um morgininn var heklumaðrinn horfinn, ok sást eigi síðan; hyggja menn, at þat hafi Óðinn verit reyndar; var þá um þat talat, hvern dauða Lýngvi skyldi hafa. Reginn lagði þat til ráðs, at rista skyldi blóðörn á baki honum; tók Reginn þá við sverði sínu af mèr, ok risti með því bak Lýngva, svâ at hann skar rifinn frá hryggnum, ok dró þar út lúngun; svâ dó Lýngvi með mikilli hreysti. Þá kvað Reginn:

Nú er bloðugr örn
breiðum[2] hjörfi
bana Sigmundar
á baki ristinn;
fárr[3] var fremri,
---

[1]) *v. í F*, þ. [2]) bitrum, *S.* [3]) fyrr, *B*, *G*.

sjá er fold rýðr
hilmis hnefi[1]
ok Huginn gladdi.

Þar var allmikit herfáng; tóku liðsmenn Sigurðar þat allt, þvíat hann vildi ekki af hafa; var þat mikit fè í klæðum ok vopnum. Síðan drap Sigurðr þá Fofni ok Reginn, þvíat hann vildi svíkja Sigurð; tók Sigurðr þá gull Fofnis, ok reið á burt með; var hann síðan kallaðr Fofnisbani. Eptir þat reið hann uppá Hindarheiði[2], ok fann þar Brynhildi, ok fóru svâ þeirra skipti, sem segir í sögu Sigurðar Fofnisbana.

7. Síðan fær Sigurðr Guðrúnar Gjúkadóttur; var hann þá um hríð með Gjúkúngum mágum sínum. Ek var [með Sigurði[3] norðr í Danmörku; ek var ok[4] með Sigurði, þá er Sigurðr hríngr sendi Gandálfs sonu, mága sína, til móts við Gjúkúnga, Gunnar ok Högna, ok beiddi, at þeir mundi lúka honum skatt, eðr þola her ella, ef þeir vildu verja land sitt. Þá hasla Gandálfs synir Gjúkúngum völl við landamæri, ok fara aptr síðan. En Gjúkúngar biðja Sigurð Fofnisbana fara til bardagans með sèr; hann sagði svâ vera skyldu; ek var þá enn með Sigurði; sigldu vèr þá enn norðr fyrir[5] Hollsetuland, ok lendum þar, sem Járnamóða[6] heitir; en skamt frá höfninni voru settar upp heslisstengr, þar sem

---

1) arfi, *B*; nefi, *S*. 2) Hindarfjall, *S*. 3) ýmist með Sigurði eðr, *S*. 4) *frá* [ *v. í* þ. 5) til, *hin*. 6) Járnamóðir, *B*, *F*, þ.

orrostan skyldi vera. Sjám vèr þá mörg skip sigla norðan, voru Gandálfs synir fyri þeim; sækja þá hvorirtveggju [fast fram[1]. Sigurðr hríngr var eigi þar, þvíat hann varð at verja land sitt Svíþjóð, þvíat Kúrir ok Kænir[2] herjuðu þángat; Sigurðr var þá gamall mjök. Síðan lýstr þar saman liðinu, ok verðr þar mikil orrosta ok mannskæð. Gandálfs synir gánga fast fram, þvíat þeir voru bæði meiri ok sterkari, enn aðrir menn. Í þeirra liði sást einn maðr mikill ok sterkr, drap þessi maðr menn ok hesta, svâ at ekki stóð við, þvíat hann var líkari jötnum, enn mönnum. Gunnarr bað Sigurð sækja ímóti þeim mannskelmi, þvíat hann kvað svâ eigi duga mundu. [Nú bjóst Sigurðr[3] í móti þeim mikla manni, ok nokkurir menn með honum, ok voru þó þess flestir ófúsir; finnum vèr þá skjótt inn mikla mann, ok frètti Sigurðr hann at nafni, ok hvaðan hann væri. Hann kveðst Starkaðr heita Stórverksson[4], norðan af Fenhríng úr Noregi. Sigurðr kveðst hans heyrt hafa getit, ok optarr[5] at illu: eru slíkir menn eigi sparandi til ófagnaðarins. Starkaðr mælti: hverr er þessi maðr, er mik lýtir svâ í orðum? Sigurðr sagði til sín. Starkaðr mælti: ertu kallaðr Fofnisbani? Svâ er, segir Sigurðr. Starkaðr vill þá undan leita; en Sigurðr snýr eptir, ok færir á lopt sverðit Gram, ok lamdi

[1]) á land upp, *S.* [2]) Kvænir, *F*, þ; Kvínir, *S.* [3]) *máð í A.* [4]) þorverksson, *rángt S.* [5]) optast, *F*, þ.

hann með hjöltunum á jaxlgarðinn[1], svâ at hrutu úr honum tveir jaxlarnir, var þat meiðsla högg. Sigurðr bað þá mannhundinn í brott dragast þaðan. Starkaðr snarast þá í burt þaðan: en ek tók annann jaxlinn ok hafða ek með mèr, er sá nú hafðr í klukkustreng[2] í Danmörk, ok vegr sjö[3] aura; þikkir mönnnm forvitni á at sjá hann. Þegar er Starkaðr lagði á flótta, flýðu Gandálfs synir; tóku vèr þar mikit herfang; [fór Sigurðr heim í ríki sitt, ok setjast þar um hríð[4].

8. Litlu síðarr heyrðum vèr getit níðíngs vígs Starkaðar, er hann hafði drepit Ála[5] konúng í laugu. Var þat einn dag, at Sigurðr Fofnisbani reið til einhverrar stefnu, þá reið hann í eina veisu, en hestrinn Grani hljóp upp svâ hart, at í sundr gekk brjóstgjörðin, ok fell niðr hríngjan; en er ek sá, hvar hún glóaði í leirinum, tók ek upp, ok færða Sigurði, en hann gaf mèr; hafi þèr nú fyri litlu sèt þetta sama gull. Þá stökk Sigurðr af baki, en ek strauk hest hans, ok þvó ek leir af honum, ok tók ek einn lepp úr tagli hans, til sýnis vaxtar[6] hans; sýndi Gestr þá leppinn, ok var hann 7 álna hárr. Ólafr konúngr mælti: gaman þikki mèr at sögum þínum; lofuðu nú allir frásagnir hans ok færleik; vildi konúngr, at

[1]) tanna jaxlgarðinn, *S.* [2]) í Lundi, *b. v. S.* [3]) 6, *S.* [4]) eptir þetta halda konúngar heim í ríki sín ok setjast nú um kyrt, *S.* [5]) Armóð, *B*, *F*, *S*, þ. [6]) um mikilleika, *S.*

hann segði miklu fleira um atburði frænda sinna. Segir Gestr þeim marga gamansamliga hluti allt til aptans; fóru menn at sofa; en um morguninn eptir lèt konúngr kalla Gest, ok vill enn fleira tala við Gest. Konúngr mælti: eigi fær ek skilit til fulls um aldr þinn, hver líkendi þat má vera, at þú sèrt maðr svâ gamall, at þú værir við staddr þessi tíðendi; verðr þú at segja sögu aðra, svâ at vèr verðum sannfróðir um slíka hluti[1]. Gestr svarar: vita þóttumst ek þat fyrir, at þèr mundið heyra vilja aðra sögu mína, ef ek segða um gullit, hversu farit væri. Konúngr mælti: segja skaltu víst.

9. Þá er nú at segja, segir Gestr, at ek fór norðr til Danmerkr, ok settumst ek þar at föðurleyfð minni, þvíat hann andaðist skjótt; ok litlu síðarr frètta ek dauða Sigurðar, ok svâ Gjúkúnga, ok þotti mèr þat mikil tíðendi. Konúngr mælti: hvat varð Sigurði at bana? Gestr segir: sú er flestra manna sögn, at Guttormr Gjúkason legði hann með sverði í gegnum sofanda í sæng Guðrúnar[2]; en Þýðeskir[3] menn segja Sigurð drepinn hafa verit úti á skógi; en [igðurnar segja[4] svâ, at Sigurðr ok Gjúka synir[5] hefði riðit til þíngs nokkurs, ok þá dræpi þeir hann; enn er alsagt, at þeir vógu at honum liggjanda ok óvörum, ok sviku hann í trygðum.

[1]) atburði, *F*, *S*, þ. [2]) hjá Guðrúnu, *S*. [3]) Þýverskir, *F*; Þýðverskir, *S*, þ. [4]) í Guðrúnar ræðu segir svâ, *S*. [5]) ok G., *b. v. S*.

Einn hirðmaðrinn spurði: hversu fór Brynhildr þá? Gestr segir: þá drap Brynhildr sjö[1] þræla sína ok fimm ambáttir, [en lagði sik[2] sverði í gegnum, ok bað sik aka með þessa menn til báls, ok brenna sik [hjá Sigurði[3]; ok svâ var gjört, at henni var gjört annat bál, en Sigurði annat, ok var hann fyrr brendr enn Brynhildr. Henni var ekit í reið einni, ok var tjaldat um guðvef ok purpura, ok glóaði allt við gull, ok svâ var hún brend. Þá spurðu menn Gest, [hvert Brynhildr hefði nokkut kveðit dauð[4]; hann kvað þat satt vera; þeir báðu hann kveða, ef hann kynni. Þá mælti Gestr: þá er Brynhildi var ekit til brennunnar á helveg, ok var farit með hana nær hömrum nokkurum; þar bjó ein gýgr; hún var úti fyrir hellis dyrum, ok var í skinnkirtli, ok svört yfirlits[5]; hún hefir í hendi sèr skógarvönd lángan[6], ok mælti: þessu vil ek beina til brennu þinnar, Brynhildr! segir gýgr, ok væri betr, at þú værir lifandi brend fyrir ódaðir þínar þær, at þú lèzt drepa Sigurð Fofnisbana, svâ ágætan mann, ok opt var ek honum sinnuð, ok fyri þat skal ek hljóða á þik með hefndar orðum þeim, at[7] öllum sèr þú at leiðari, er slíkt heyra frá þèr sagt. Eptir þat hljóðast þær á, Brynhildr ok gýgr. Gýgr kvað:

1) *eða: 4, F.* 2) *óljóst í A; tekið úr F.* 3) dauða, *S.* 4) er þat nokkut satt, at Brynhildr kvæði dauð, þá er hún var ekin til bálsins? *S.* 5) ásýndar, *S.* 6) einu loganda, *S.* 7) *v. í A.*

Skaltu í gegnum
gánga eigi
grjóti studda
garða mína;
betr sæmdi þèr
borða [at reki[1],
enn[2] at vitja
vorra ranna.

Hvat skaltu vitja
[af Vallandi[3],
hverflyndt[4] höfuð!
húsa minna?
þú hefir vörgum,
ef [þín vitja[5],
[mörgum til matar[6]
manns hold[7] gefit.

Þá kvað Brynhildr:

Bregtu eigi mèr,
brúðr úr steini!
þótt væra ek fyrr
í víkíngu;
ek mun okkar
æðri þikkja
[þeim, er eðli mitt
um þat kunna[8].

---

1) at rekja, *B*, *F*, *S*, þ. 2) heldr enn, *B*, *F*, *S*, þ. 3) *þannig leiðrétt eptir Eddu*; vor á landi *A*, *G*; va á landi, S, þ; va af landi, *B*. 4) hverblynt, *A*, *G*; hvarflynt, *S*. 5) þik vita lystir, *S*. 6) meini blandat, *S*. 7) blóð, *B*, *F*, *S*, þ. 8) þat, *v. í B*, *F*, þ; þar, er eðli menn okkart kunnu, *S*.

Gýgr kvað:

Þú ert Brynhildr
Buðladóttir!
heilli verst[1]
í heim borin;
[þú hefir of glatat
börnum ok búi[2],
[ok þeirra brugðit
góðu gamni[3].

Brynhildr kvað:

Ek mun segja þèr
sanna ræðu,
vèlgjarnt höfuð!
ef þik vita lystir:
hve gjörðu mik
Gjúka arfar
ástalausa
ok eiðrofa.

Lèt mik af harmi
hugfullr konúngr
Atla systur
undir eyk búa;
var ek vetra tólf,
ef þess[4] vita lystir,
þá er ek úngum gram
eiða svarða.

---

[1]) vestu, *B*, *F*, *S*, þ. [2]) þú hefir Gjúka of glatat börnum, *B*, *S*. [3]) þeirra brugðit góðu, *F*; ok búi þeirra brugðit góðu, *B*, *S*, þ. [4]) þik, *S*.

Ek[1] lèt gamlan
[gýgjar bróður[2]
Hjálmgunnar nest[3]
heljar gánga;
gaf ek úngum sigr
Auðar[4] bróður,
[þar var[5] mèr Óðinn
of greypr fyrir.

Lauk hann mik skjöldum
í Skatalundi
rauðum ok hvítum,
reyndar[6] svæfði[7];
þann bað hann slíta
svefni mínum,
er hvergi lands[8]
hræðast kynni.

Lèt hann um sal minn
sunnanverðan
háfan brenna
hrottgram[9] viðar;
þar bað hann þegar[10] einn
yfir um ríða,
þann er færði mèr
Fofnis dýnu[11].

---

1) Ok, *S.* 2) á goð þorðu, *S.* 3) *þannig B, F, S*; vest, *A, G,* þ. 4) Auða *eða* Anda, *S.* 5) því varð, *S.* 6) randi, *B.* 7) svefða, *B*; svæfða, *S.* 8) lunds, *B.* 9) hrottgarm, *F, S.* 10) þegn, *B, F, S,* þ. 11) gull þat, er undir Fafni lá, *S.*

Reið góðr Grana
gull miðlandi,
þar er fóstri minn[1]
fletum stýrði;
einn þótti[2] þar
öllum betri
víkíngr Dana
í virðíngu.

Svófu við ok undum
í sæng einni,
sem hann bróðir minn
of borinn væri;
hvorki mátti[3]
hönd yfir annat
á átta nóttum
[enn at[4] leggja.

Því brá mèr Guðrún
Gjúkadóttir,
at ek Sigurðar
svæfa á armi;
þá varð ek þess vís,
er[5] ek vilda ei,
at þau villtu[6] mik
í verfángi[7].

Munu vèr of stríð[8]
alls of[9] lengi

1) *v. í A.* 2) hann, *b. v. B, F,* þ. 3) knátti, *S.* 4) okkar, *B.* 5) at, *B, F.* 6) væltu, *B,* þ; vèltu, *F, S.* 7) vetfángi, *B.* 8) síð, *S.* 9) til, *S.*

kvinnur ok karlar
kvikir um fæðast[1];
við skulum okkrum
aldri slíta
Sigurðr saman[2],
sökztu[3] nú[4], gýgr!

Þá æpti gýgr ógrligri röddu, ok hliðar[5] inní bjargit. Þá sögðu hirðmenn, at þetta væri gaman: ok segðu enn fleira. Konúngr mælti: eigi er nauðsyn at segja fleira frá slíkum hlutum. Konúngr spyrr: vartu nokkut með Loðbrókar sonum? Gestr svarar: skamma stund var ek með þeim; ek kom til þeirra, þá er þeir herjuðu suðr at Mundíafjalli[6] ok brutu Vífilsborg[7]; þá var allt við þá hrætt, þvíat þeir höfðu sigr, hvar sem þeir fóru, ok þá ætluðu þeir at fara til Rómaborgar. Þat var einn dag, at maðr nokkr kom fyri Björn konúng járnsíðu, ok heilsaði honum; konúngr tekr honum vel, ok spyrr, hvaðan hann væri at kominn[8]. Hann sagðist[9] kominn sunnan frá Rómaborg. Konúngr spurði: hve lángt er þángat? Hann[10] svaraði: hèr máttu sjá, konúngr! skó[11], er ek hefir á fótum; tók hann þá járnskó af fótum sèr, ok

---

1) forðast, *F*, Þ. 2) aldrei-samförum, *B*. 3) söktu, *B*. 4) rög, *b. v. S*. 5) hljóp, *B*, *F*, *S*, Þ. 6) *þannig B*, *F*, *S*, Þ; Indíafjalli, *A*, *G*. 7) Vívelsborg, *S*. 8) eðr hvat hann hèti, *b. v. S*. 9) Sónes heita ok, *b. v. S*. 10) Sónes, *S*. 11) *v. í A*.

voru allþykkir ofan, en mjök sundr[1] neðan: svâ er laung leið hèðan til Rómaborgar, sem þèr megið nú sjá á skóm mínum, hversu hart at þeir hafa þolat. Konúngr mælti: furðu laung leið er þetta at fara, ok mun ek aptr snúa, ok herja eigi á Rómaríki; ok svâ gjöra þeir[2], at þeir fara eigi lengra, ok þótti hernum[3] þetta undarligt, at snúa [svâ skjótt sínu skapi[4] við eins manns orð, [er þeir höfðu áðr allt ráð fyri gjört[5]. Fóru Loðbrókar synir við þetta aptr, ok heim norðr, ok herjuðu eigi lengra suðr. Konúngr segir: auðsýnt var þat, at helgir menn í Róma vildu eigi yfirgáng þángat, ok mun sá andi [af guði sendr verit hafa, at snúa svâ skjótt þeirra fyriræltan[6], at gjöra ekki spèllvirki[7] hinum helgasta stað [Jesú Kristí í Rómaborg[8].

10. Enn spyrr konúngr Gest: hvar hefir þú þess komit til konúnga, er þèr hefir bezt þótt? Gestr svarar: mest gleði þótti mèr með Sigurði ok Gjúkúngum; en þeir Loðbrókar synir voru menn sjálfráðastir at lifa, sem menn vildu; en með Eireki at Uppsölum var sæla mest; en Haraldr hinn hárfagri var vandastr[9] at hirðsiðum allra fyrrnefndra[10] konúnga. Ek var ok með Hlöðvi konúngi á Saxlandi, ok þar var ek primsigndr,

1) slitnir, *hin.* 2) bræðr, *b. v. S.* 3) hverjum, *S.* 4) aptr, *S.* 5) *v. í S.* 6) af guðligum mætti, er svâ skipast þeirra fyriætlan, *S.* 7) illvirki, *S.* 8) *v. í S.* 9) at háttum ok, *b. v. S.* 10) *v. í S.*

þvíat ek mátti eigi þar vera elligar, þvíat þar var kristni vel haldin, ok þar þótti mèr at öllu bezt. Konúngr mælti: mörg tídendi muntu segja kunna, ef vèr viljum spyrja. Konúngr frèttir nú margs Gest; en Gestr segir þat allt greiniliga; ok um síðir talar hann svâ: nú má ek segja yðr, þvíat ek em Norna-Gestr kallaðr. Konúngr sagðist þat heyra vilja.

11. Þat var, þá er ek var uppfæddr með föður mínum í þeim stað, er Græníngr heitir; faðir minn var ríkr at peníngum, ok hèldt ríkuliga herbergi sín. Þar fóru þá um landit völvur, er kallaðar voru spákonur, ok spáðu mönnum aldr[1], því buðu menn þeim ok gjörðu þeim veizlur, ok gáfu þeim gjafir[2] at skilnaði. Faðir minn gjörði ok svâ, ok komu þær til hans með sveit manna, ok skyldu þær spá mèr örlaga; lá ek þá í vöggu, er þær skyldu tala um mitt mál; þá brunnu yfir mèr tvö kertisljós. Þær mæltu þá til mín, ok sögðu mikinn auðnumann verða mundu [ok meira, enn aðra mína frændr eðr forellra, eðr höfðíngja syni þar í landi[3], ok sögðu allt svâ fara skyldu um mitt ráð. Hin ýngsta nornin þóttist oflítils metin hjá[4] hinum tveimr, er þær spurðu hana eigi eptir [slíkum spám, er svâ voru mikils verðar[5]; var þar ok mikil rifbalda sveit, er henni hratt úr sæti sínu, ok fèll hún til jarðar. Af þessu varð hún

[1]) örlög, *S.* [2]) gripi, *S.* [3]) *v. í S.* [4]) af, *S.* [5]) *v. í S.*

ákafliga stygg; kallar hún þá hátt ok reiðuliga, ok bað hinar hætta svâ góðum ummælum um mik: þvíat ek skapa honum þat, at hann skal eigi lifa lengr, enn kerti þat brennr, er upp er tendrat hjá sveininum. Eptir þetta tók hin eldri völvan kertit, ok slökti, ok biðr móður mína varðveita, ok kveikja eigi fyrr, enn at [síðasta degi[1] lífs míns. Eptir þetta fóru spákonur í burt, ok bundu hina úngu norn, ok höfðu hana svâ í burt, ok gaf faðir minn þeim góðar gjafir at skilnaði. Þá er ek var roskinn maðr, fær móðir mín mér kerti þetta til varðveizlu; hefi ek þetta nú með mèr. Konúngr mælti: því fórstu nú híngat til vor? Gestr svarar: þessu sveif mèr í skap, ætlaða ek mik af þèr nokkura auðnu[2] hljóta mundu, þvíat þèr hafið [fyri mèr[3] verit mjök lofaðir af góðum mönnum ok vitrum. Konúngr segir: viltu nú taka helga skírn? Gestr svarar: þat vil ek gjöra at yðru ráði; var nú svâ gjört, ok tók konúngr hann í kærleika við sik, ok gjörði hann hirðmann sinn. Gestr varð trúmaðr mikill, ok fylgdi vel konúngs siðum, var hann ok vinsæll af mönnum.

12. Þat var einn dag, at konúngr spyrr Gest: hversu lengi vildir þú nú lifa, ef þú rèðir? Gestr svarar: skamma stund hèðan af, ef guð vildi svâ. Konúngr mælti: hvat mun nú líða, ef þú tekr kerti þitt[4]? Gestr tók kerti sitt úr

[1]) síðastum dögum, *S.* [2]) bragð, *b. v. S.* [3]) *v. í S.* [4]) er þú hefir frá sagt, *b. v. S.*

hörpustokki sínum. Konúngr bað þá kveikja; svâ var gjört; ok er kertit var tendrat, brann þat skjótt. Konúngr spurði Gest: hversu gamall maðr ertu? Nú hefir ek 300 vetra, (segir Gestr). Gamall[1] ertu, sagði konúngr. Gestr lagðist þá niðr; hann bað þá ólea sik; þat lèt konúngr gjöra; ok er þat var gjört, var lítit óbrunnit af kertinu. Þat fundu menn, at þá leið at Gesti. var þat ok jafnskjótt, at kertit var brunnit, ok Gestr andast, ok þótti öllum merkiligt hans andlát; þótti konúngi ok mikit mark at sögum hans, ok þótti sannast um lífdaga hans, sem hann sagði; [ok lýkr þar frá Norna-Gesti at segja[2].

[1]) allgamall, *B, F, S, þ*. [2]) *v. í B, F, S, þ*.

# Þ Á T T R

AF

# RAGNARS SONUM.

## Hèr segir af Ragnars sonum, ok hversu margir konúngar eru komnir af þeim.

Eptir dauða Ríngs konúngs tók Ragnar sun hans konúngdóm yfir Svíaveldi ok Dana; þá gengu margir konúngar á ríkin, ok lögðu undir. En þvíat hann var úngr maðr, ok sýndist þeim hann lítt fallinn til ráðagerðar eða landstjórnar, þá var einn jarl í vestra Gautlandi, er Herrauðr hèt; hann var jarl Ragnars konúngs; manna var hann vitrastr ok hermaðr mikill. Hann átti eina dóttur, er Þóra borgarhjörtr var kölluð; hún var allra kvenna fríðust þeirra, er konúngr hafði spurt til. Jarlinn, faðir hennar, hafði gefit henni einn yrmlíng í morgingjöf; hún fæddi hann fyrst í eski sínu; en þessi ormr varð svâ mikill um síðir, at hann lá í kríngum skemmuna, ok beit í sporð sèr; hann gerðist þá svâ ólmr, at menn þorðu eigi at koma nær skemmunni, nema þeir, er honum gáfu mat, eða þjónaðu jarls dóttur; en hann (át) uxa um dag; fólkit óttaðist mjök, ok vissu, at hann mundi mikinn skaða gera, svâ mikill ok ólmr, sem hann var þá orðinn. Jarl strengdi þá þess heit at Bragar-

fulli, at hann skyldi þeim einum manni gipta dóttur sína Þóru, er dræpi orminn, eða þyrði at gánga til tals við hana fyrir orminum. Ok er Ragnarr konúngr spyrr þessi tíðendi, þá ferr hann í vestra Gautland; ok er hann átti skamt til bíar jarlsins, þá fór hann í raggaðar klæði, brækr ok kápu, ok ermar á ok höttr; þau klæði voru þæfð með sand ok tjöru, ok tók í hönd sèr eitt mikit spjót, en var girðr sverði, ok gekk svâ einn frá sínum mönnum, ok til bíar jarlsins ok skemmu Þóru. Ok þegar ormrinn sá, at þar var kominn úkunnr maðr, þá reistist hann upp, ok blès eitri móti honum; en hann skaut móti skildinum, ok gekk at honum djarfliga, ok lagði hann með spjóti í hjartat; ok síðan brá hann sínu sverði, ok hjó af orminum höfuðit; ok fór þat svâ, sem segir í sögu Ragnars konúngs, at hann fèkk síðan Þóru borgarhjört; ok síðan lagðist hann í hernað, ok frelsti allt sitt ríki. Hann átti með Þóru 2 syni, hèt annar Eiríkr, en annar Agnarr; ok er þeir voru nokkurra vetra gamlir, þá tekr Þóra sótt, ok andaðist. Síðan fèkk Ragnar Áslaugar, er sumir kalla Randalín, dóttur Sigurðar Fâfnisbana ok Brynhildar Buðladóttur. Þau áttu 4 syni; Ívar beinlausi var elztr, þá Björn járnsíða, þá Hvítserkr, þá Sigurðr; þat var mark í auga honum, at svâ var sem ormr lægi um sjáldrit, ok því var hann kallaðr Sigurðr ormr í auga.

2. Nú er synir Ragnars voru vaxnir, þá

herjuðu þeir víða um lönd. Þeir bræðr Eiríkr ok Agnarr fóru í öðrum stað, en í þriðja stað fóru þeir Ívar ok þeir enir ýngri bræðr hans með honum, ok gerði hann ráð fyri þeim, þvíat hann var forvitri; þeir lögðu undir sik Selund ok Reiðgotaland, Eygotaland ok Eyland, ok öll smálönd í hafinu. Settist þá Ívar með enum ýngrum bræðrum sínum at Leiðru á Selundi, ok var þat þó móti vilja Ragnars konúngs; fóru synir hans með hernaði allir, þvíat þeir vildu eigi úfrægri vera, enn Ragnar konúngr, faðir þeirra. Þat líkaði Ragnari konúngi illa, er synir hans hèldu móti honum, ok tóku skattlönd hans móti hans vilja. Hann setti þann konúng yfir Upp-Svíaveldi, er Eysteinn beli hèt, ok bað hann halda því ríki sèr til handa, en verja fyri sunum sínum, ef þeir kallaði til. Þat var eitt sumar, er Ragnar konúngr var farinn í Austrveg með her sinn, at Eiríkr ok Agnarr, synir hans, komu til Svíþjóðar, ok hèldu skipum sínum uppí Löginn; gerðu þeir þá boð Eysteini konúngi til Uppsala, at hann kæmi til þeirra. Ok er þeir fundust, sagði Eiríkr, at hann vildi at Eysteinn konúngr hèldi Svíaríki undir þá bræðr, ok kveðst þá fá vilja Borghildar, dóttur hans, ok segir, at þá megu þeir vel halda því ríki fyri Ragnari konúngi. Eysteinn kveðst þetta vilja tjá innanlands höfðíngjum, ok skildust þeir svâ. Ok er Eysteinn konúngr bar þetta mál upp, þá urðu allir landsmenn á þat sáttir, at verja landit fyri

sunum Ragnars; ok dregst nú saman úvígr herr, ok ferr Eysteinn konúngr móti Ragnars sunum; ok er þeir finnast, verðr þar mikil orrosta, ok verða nú synir Loðbrókar ofrliði bornir, ok fellr svâ lið þeirra bræðra, at fátt eitt stóð upp; þá fèll ok Agnarr, en Eiríkr varð handtekinn. Eysteinn konúngr bauð Eiríki grið, ok svâ mikit fè af Uppsala veldi fyrir Agnar bróður sinn, sem sjálfr vildi hann, ok þarmeð dóttur sína, þá er áðr hafði hann beðit. Eiríkr vildi engar fèbætr ok eigi konúngs dóttur, ok eigi kveðst hann vilja lifa eptir þann úsigr, er hann hafði fengit, en þat kveðst hann þiggja vilja, at hann kjósi sèr sjálfr dauðdaga. Ok af því, at Eysteinn konúngr mátti enga sætt fá af Eiríki, þá játtar hann honum því. Eiríkr bað, at þeir tæki undir hann spjótsoddum, ok hefi hann svâ upp yfir allan valinn. Þá kvað Eiríkr:

Vil ek eigi boð fyri bróður,
nè baugum mey kaupa,
Eystein kveða orðinn
Agnars bana, heyra;
grætr eigi mik móðir,
mun ek efstr á val deyja,
ok geirtrè í gegnum
gjörr látið mik standa!

Ok áðr hann væri hafinn uppá spjótin, þá sá hann einn manna ríða mikit; þá kvað hann:

Þau berið orð it efra,
eru austr farar liðnar,

at mær[1] hafi mína
mjó, Áslaugu, bauga;
þá man mest af móði,
ef mik spyrja dauðan,
mín stjúpmóðir mildum
mögum sínum til segja.

Var nú svâ gjört, at Eiríki var lypt upp á spjóts oddunum, ok dó hann svâ uppi yfir valnum. Ok er þessi tíðendi spyrjast útá Selund til Áslaugar, þá ferr hún þegar á fund suna sinna, ok segir þeim þessi tíðendi. Þeir Björn ok Hvítserkr lèku tafl, en Sigurðr stóð at framan. Þá kvað Áslaug:

Eigi mundi yðar,
ef èr dæið fyrri
eitt missari[2] eptir
úhefnt vera, bræðra;
lítt ráðumst því leyna,
ef líf hafa knætti
Eiríkr sitt ok Agnarr
úbornir mèr niðjar.

Þá svarar Sigurðr ormr í auga:

Þat skal þriggja vikna,
ef þik tregar, móðir!
leið eigu vèr lánga,
leiðángr búinn verða;
skal Uppsölum eigi
þóat ofrfè bjóði,

1) *þannig leiðrètt úr:* meirr. 2) *þannig.*

ef oss duga eggjar
Eysteinn beli ráða.

Þá kvað Björn járnsíða:

Duga man hugr ok hjarta
í hauksnöru brjósti,
þótt minnr um þat mæli,
manni innan rifja;
eigi er oss í augum
ormr nè fránir snákar,
bræðr glöddu mik mínir,
man ek stjúpsunu þína.

Þá svarar Hvítserkr:

Hyggjum at, áðr heitim,
at hefnt megi verða,
látum ýmsu illu
Agnars bana fagna;
hrindum húf á rannir[1],
höggum ís fyri barði,
sjám á hitt, hverr snekkjur
[vârr snemst fáim búnar[2].

Þá kvað Ívar beinlausi:

Hafið ofrhuga ærinn[3]
ok áræði bæði!
þess mundi þá þurfa,
at þrá mikit fylgdi;
bera man mik fyri bragna
beinlausan fram verða,
þó gat ek hönd til hefnda,
at ek hvâriga nýta.

[1]) rán, *rángt lesið í L.* [2]) vârar snemst farmbonar verða, *rángt lesið í L.* [3]) *L. hefir rángt lesið:* orm.

Eptir þat drógu Ragnars synir saman úvígan her; ok er þeir voru búnir, þá fóru þeir með skipaher til Svíþjóðar; en Áslaug drottníng ferr með 15 hundruðum riddara landveg, ok var þat fólk allvel búit; sjólf[1] bar hún herklæði, ok var formaðr þess hers, ok kallaðist Randalín, ok mætast þau í Svíþjóð, ok ræna ok brenna, hvar sem þau fara yfir. Þetta spyrr Eysteinn konúngr, ok samnar her ímóti þeim, hverjum þeim manni, er vígr var í hans ríki; ok er þeir mætast, verðr þar mikil orrosta, ok fá Loðbrokar synir sigr, en Eysteinn konúngr fèll; spyrst þetta, (ok) verðr mjök frægt. Ragnar konúngr, þar sem hann var í hernaði, spyrr þetta, ok líkar stórilla við sunu sína, at þeir lètu eigi hefndina bíða hans. Ok er hann kom heim í ríki sitt, þá segir hann Áslaugu, at hann skal gera eigi minna frægðarverk, enn synir hans höfðu þá gert: hefi ek nú flest allt þat ríki aptr unnit undir mik, er mínir forellrismenn hafa átt, utan England eigi, ok því hefi ek nú látit gera knörru 2 í Líðum á Vestfold, þvíat hans ríki stóð allt til Dofrafjalls ok Líðandisness. Áslaug svarar: mörg lángskip máttu þèr hafa gera látit með verði þessa knarra, vitu þèr ok, at stórskipum er ekki gott at halda at Englandi sakir straums ok útgrynnis, ok er þetta ekki vitrliga ráðit. En allt at einu ferr Ragnar konúngr með þessum knörrum vestr til Englands

[1]) *þannig.*

með 500 manna, ok brýtr bæði skipin við England, en sjálfr hann, ok allr herr hans, kom heill á land; tekr hann nú at herja, hvar sem hann ferr.

3. Í þenna tíma rèð sá konúngr fyri Norðhumrulandi, er Ella hèt; ok er hann spyrr, at herr er kominn í ríki hans, þá samnar hann miklu liði, ok ferr móti honum með úvígan her, ok verðr þar orrosta mikil ok hörð. Ragnar konúngr var ytst í silkihjúp þeim, er Áslaug gaf honum at skilnaði; en þvíat landherrinn var mikill, svâ at ekki mátti viðhaldast, þá fèll náliga allt fólk hans, en hann gekk sjálfr vel fjórum sinnum í gegnum fylkíng Ellu konúngs, en ekki járn festi á silkiskirtu hans; varð hann um síðir handtekinn, ok settr í einn ormgarð, ok vildu ormarnir ekki koma nær honum. Ella konúngr sá, at hann bitu eigi járn um daginn, er þeir börðust, ok nú vildu eigi ormarnir granda honum; þá lèt hann fletta af honum klæði þat, er hann hafði ytst haft um daginn; ok þegar hèngu ormarnir á honum alla vega, ok lèt hann þar líf sitt með miklum raustleik. Ok er synir Ragnars konúngs spyrja þessi tíðendi, þá fara þeir vestr til Englands, ok berjast við Ellu konúng; ok af því, at Ívar vildi eigi berjast ok ekki hans fólk, en landherrinn var drjúgr, þá fengu þeir úsigr, ok flýðu til skipa, ok fóru við svâ búit heim til Danmarkar. En Ívar var eptir í Englandi, ok fór á fund Ellu konúngs, ok beiddist

af honum bóta fyri föður sinn. Ok fyri því at Ella konúngr sá, at Ívar vildi eigi berjast með bræðrum sínum ímóti honum, þá þótti honum trúligt at gera sætt við hann. Ívar bað konúng gefa honum svâ mikit af landi í föðurgjöld, sem hann breiddi yfir ena mestu öldúngshúð, þvíat hann segir sèr eigi vel munu frítt at fara heim fyri bræðrum sínum. Ellu þótti þetta eigi útrúligt, ok bundu þeir með þessu sætt sína. Tekr Ívar nú húðina ráblauta, ok lætr þenja sem mest; ok síðan lætr hann rista húðina í enn mjóvasta streng, ok klýfr síðan sèr hvârt, hárham ok holdrosu; síðan lætr hann draga um einn slèttan völl, ok marka þarum utan grundvöll; hann reisir þar á sterka borgarveggi, ok er sú borg nú kölluð Jórvík. Hann vingaðist við allt landsfólk, ok mest við höfðíngja, ok svâ kom, at allir höfðíngjar hètu honum trúnaði ok bræðrum hans. Síðan sendir hann boð til bræðra sinna, ok segir, at þá er meiri von, at þeir meigi hefna föður síns, ef þeir koma með her til Englands. Ok er þeir spyrja þat, bjóða þeir her út, ok halda til Englands. Ok er Ívar verðr þess varr, ferr hann þegar á fund Ellu konúngs, ok segir, at hann vill eigi leyna hann slíkum tíðendum, en segir, at hann má eigi berjast móti bræðrum sínum, en þó vill hann fara á fund þeirra, ok leita um sættir; konúngr þiggr þetta. Kemr Ívar á fund bræðra,

sinna, ok eggjar þá at hefna föður síns, ok ferr síðan aptr til Ellu konúngs, ok segir, at þeir eru svâ ólmir ok óðir, at þeir vilja fyrir hvetvetna fram berjast. Konúngi sýnist þetta enn mesti trúleikr, er Ívar gerði; ferr hann nú móti þeim bræðrum með sinn her. Ok er þeir koma saman, þá snèrust margir höfðíngjar frá konúnginum ok til Ívars; varð konúngr þá borinn ofrliði, svâ at mikill þorri liðs hans fèll, en sjálfr varð hann handtekinn. Ívar ok þeir bræðr minntust nú, hversu faðir þeirra var píndr, lètu þeir nú rista örn á baki Ellu, ok skera síðan rifin öll frá rygginum með sverði, svâ at þar voru lúngun útdregin. Svâ segir Sigvatr skáld í Knúts drápu:

Ok Ellu bak
at lèt hinn er sat
Ívar ara
Jórvík skorit.

Eptir þessa orrostu gerðist Ívar konúngr yfir þeim luta Englands, sem hans frændr höfðu fyrri átt; hann átti þá 2 bræðr[1] frilluborna, inn annar hèt Yngvar, en annar Hústó; þeir pínuðu Játmund konúng enn helga eptir boði Ívars, ok lagði hann síðan undir sik hans ríki. Loðbrókar synir fóru um mörg lönd með hernaði: England ok Valland ok Frakkland, ok útum Lúmbarðí; en svâ er sagt, at þar hafi þeir framast komit, er þeir unnu þá borg, er Lúna heitir;

[1]) *þannig úgizað*; bræ, *A.*

ok um eina stund ætluðu þeir at fara til Rómaborgar ok vinna hana, ok hefir þeirra hernaðr frægstr verit um öll Norðrlönd af Danskri túngu. Ok er þeir koma aptr í Danmörk í ríki sitt, þá skipta þeir löndum með sèr: tók Björn járnsíða Uppsala ríki ok alla Svíþjóð, ok þat, er þartil heyrir; en Sigurðr ormr í auga hafði Selund ok Skáni ok Halland, ok alla Víkina ok Agðir til Líðandisness, ok mikinn þorra af Upplöndum, en Hvítserkr hafði Reiðgotaland ok Vindland. Sigurðr ormr í auga (átti) Blæju, dóttur Ellu konúngs; þeirra sun var Knútr, er kallaðr var Hörða-Knútr, er ríki tók eptir föður sinn í Selund, Skáni ok Hallandi, en Víkin hvarf þá undan honum; hann átti þann sun, er Gormr hèt; hann var heitinn eptir fóstra hans, syni Knúts fundna; hann hèldt allt land af sunum Ragnars, meðan þeir voru í hernaði. Gormr Knútssun var allra manna mestr ok sterkastr, ok enn mesti atgerfimaðr um alla luti, en ekki var hann svâ vitr, sem verit höfðu enir fyrri frændr hans.

4. Gormr tók konúngdóm eptir föður sinn; hann fèkk Þyri, er kölluð var Danmarkarbót, dóttur Klakk-Haralds, er konúngr var í Jútlandi; en er Haraldr var andaðr, þá tók Gormr þat ríki allt undir sik. Gormr konúngr fór með her yfir allt Jútland, ok eyddi öllum neskonúngum allt suðr til Slès, ok svâ vann hann mikit

af Vindlandi, ok margar orrostur átti hann við Saxa, ok gerðist hann enn ríkasti konúngr; hann átti 2 syni, hèt enn ellri Knútr, en Haraldr enn ýngri. Knútr var allra þeirra manna fegrstr, er menn hafa sèt; konúngr unni (honum) umfram hvern mann, ok þarmeð öll alþýða; hann var kallaðr Danaást. Haraldr líktist í móðurætt sína, ok unni móðir hans honum eigi minna enn Knúti. Ívar enn beinlausi var lengi konúngr í Englandi; hann átti ekki barn, því at hann var svâ skapaðr, at honum fylgdi engi girnd nè ást, en eigi skorti hann spekt eða grimd, ok varð hann ellidauðr á Englandi, ok var þar heygðr. Þá voru allir Loðbrókar synir dauðir. Eptir Ívar tók konúngdóm í Englandi Aðalmundr; hann var bróðursun Játmundar ins helga, ok kristnaði hann víða England; hann tók skatta af Norðhumrulandi, því at þat var heiðit. Eptir hann tók konúngdóm sun hans, er Aðalbrigt hèt; hann var góðr konúngr ok varð gamall. Ofarliga á hans dögum kom Danaherr til Englands, ok voru formenn hersins Knútr ok Haraldr, synir Gorms konúngs; þeir lögðu undir sik mikit ríki í Norðhumrulandi, þat er Ívar hafði átt. Aðalbrigt konúngr fór móti þeim, ok börðust þeir fyri norðan Klifllönd, ok fèll þar margt af Dönum; ok nokkuru síðarr gengu Danir upp við Skarðaborg[1], ok börðust þar, ok fengu sigr; síðan fóru þeir suðr

[1]) Skarðabg̃, *A.*

til Jórvíkr, ok gekk þar undir þá allt fólk, ok ugðu þeir þá ekki at sèr. Ok einn dag, er heitt veðr[1] var, fóru menn á sund; ok svâ sem konúngssynir voru á sundi millim skipanna, lupu menn af landi ofan, ok skutu á þá; var þá Knútr lostinn öru til bana, ok tóku þeir líkit, ok fluttu útá skip. Ok er landsmenn[2] spyrja þetta samnast þeir saman, svâ at síðan fá Danir engar uppgaungur sakir samnaðar landsmanna, ok fara síðan heim aptr til Danmarkar. Gormr konúngr var þá á Jútlandi; ok er hann spurði þessi tíðendi, þá hnè hann aptr, ok sprakk af harmi annann dag eptir at jamlengd; þá[3] tók konúngdóm eptir hann yfir Danaveldi Haraldr, sun hans; hann tók fyrstr trú ok skírni sinna ættmanna.

5. Sigurðr ormr í auga ok Björn járnsíða ok Hvítserkr höfðu herjat víða um Frakkland; þá snèri Björn heim til ríkis síns. Eptir þat barðist Örnúlfr[4] keisari við þá bræðr, ok fèll þá af Dönum ok Norðmönnum 100 þúsundraða; þar fèll þá Sigurðr ormr í auga, ok Guðröðr[5] hèt annar konúngr, er þar fèll; hann var sun Ólafs, Ríngssunar, Íngjaldssunar, Íngasunar, Ríngssunar, er Ríngaríki er viðkendt, hann var sun Dags, ok Þóru drengjamóður; þau áttu 9 syni, ok er af þeim komin Döglínga ætt. Helgi hvassi hèt bróðir Guðröðar, hann hafði brott or orrost-

---

1) *ágizkað*; vegr, *A.* 2) menn, *rángt lesið í L.* 3) *máð í A.* 4) Arnúlfr, *A.* 5) *leiðrètt*; Gavðroðar, *hèr, A.*

unni merki Sigurðar orms í auga, ok sverð hans ok skjöld; hann fór heim til Danmarkar með sínu liði, ok fann þar Áslaugu, móður Sigurðar, ok sagði henni tíðendin. Þá kvað Áslaug vísu:

Sitja[1] veiði vitjar
vals á borgar hálsum,
böl er þat, hefir um hafnat
hrafn Sigurðar nafni;
blási nýti njótar
nás í spán at hánum,
ofsnemma lèt Óðinn
álf valmeyjar deyja.

En af því, at Hörðaknútr var úngr, þá var Helgi þar með Áslaugu lengi til landvarnar. Sigurðr ok Blæja áttu dóttur; hún var tvíbura við Hörðaknút; Áslaug gaf henni nafn sitt, ok fæddi hana upp síðan ok fóstraði; hana fèkk síðan Helgi hvassi; þeirra sun var Sigurðr hjörtr; hann var allra þeirra manna fríðastr ok mestr ok sterkastr, er menn höfðu sèt. Þeir voru jamgamlir Gormr Knútssun ok Sigurðr Hjörtr. En er Sigurðr var 12 vetra, þá drap hann berserk þann í einvígi, er Hildibrandr hèt, ok þá 12 saman; eptir þat gipti Klakkharaldr honum dóttur sína, er Íngibjörg hèt; þau áttu 2 börn: Guðþorm ok Ragnildi. Þá spurði Sigurðr, at Fróði konúngr, föðurbróðir hans, var dauðr, fór hann þá norðr til Noregs, ok gerðist konúngr yfir Ríngaríki, ættleifð sinni; frá honum er

[1]) Sitra, *rángt lesið í L.*

laung saga, þvíat hann vann margskyns þrekvirki. En þat er at segja frá lífláti hans, at hann reið útá eyðimerkr at veiða dýr, sem vandi hans var til, ok kom þar móti honum Háki Haðaberserkr með 30 manna alvâpnaðra, ok barðist við hann; þar fèll Sigurðr, ok hafði drepit áðr 12 menn, en Háki konúngr hafði látit hönd sína hægri, ok hafði þó 3 sár önnur. Eptir þat reið Háki konúngr með sínum mönnum á Ríngaríki til Steins, sem bú Sigurðar var, ok tók brott Ragnildi, dóttur hans, ok sun hans Guðþorm ok mikit góðs annat, ok flutti heim með sèr á Haðaland; ok litlu síðarr lèt hann efna til veizlu mikillar, ok ætlaði at gera brullaup sitt, en þat dvaldist, þvíat sár hans höfðust illa. Ragnildr var þá 15 vetra gömul, en Guðþormr 14 vetra. Leið svâ haustit ok vetrinn fram um jól, at Háki lá í sárum. Þá var Hálfdán konúngr svarti á Heiðmörk at búum sínum; hann sendi Hárek gand, ok með honum 100 manna, ok fóru þeir yfir um ís á Mjörs á Haðaland á einni nótt, ok komu í dagan á bæ Háka konúngs, ok tóku allar dyr á þeim skála, er hirðmenn sváfu í; ok síðan gengu þeir til svefnskemmu Háka konúngs, ok tóku Ragnildi ok Guðþorm, bróður hennar, ok allt þat fè, er þar var, ok hafa brott með sèr þaðan, ok brendu skálann, ok þar inni í alla hirðmenn, ok fara síðan brott. En Háki konúngr stóð upp ok klæddi sik, ok gekk eptir þeim um ríð; ok er hann kom at vatns ísinum

þá snèri hann niðr hjöltunum á sverðinu, ok lagðist á blóðrefilinn, ok fèkk þar bana, ok er þar heygðr á vatns bakkanum. Hálfdán konúngr sá, at þeir óku [yfir ísinn með vagn[1] tjaldaðan, ok þóttist vita, at þeirra erendi mundi orðit hafa slíkt, [sem hann vildi[1]; lèt hann þá senda boð um alla bygð, ok bauð til öllu stórmenni á Heiðmörk, ok gerði þann dag mikla[1] veizlu; gerði hann þá brullaup til Ragnildar, ok voru þau saman síðan marga daga. Þeirra sun var Haraldr konúngr enn hárfagri, er fyrstr varð einvaldskonúngr yfir öllum Noregi[2].

---

[1]) *er máð, en sèr þó til stafanna, þó þat vanti í L.* [2]) Noregs, *rángt lesið í L.*

# SÖGUBROT

AF

# NOKKRUM FORNKONÚNGUM

Í

# DANA OK SVÍA VELDI.

---

# Sögubrot af nokkrum fornkonúngum í Dana ok Svía veldi[1].

***NEITA. Konúngr svarar: sè ek, at þetta mál þarf at lítt sè á lopt borit, at menn biðì þín, þvíat þat var siðr fyrri konúnga dættra, láta koma þrjá biðla eða fleiri, en taka eigi enn fyrsta, ok eru konúngar fleirri vel menntir, enn Helgi. Auðr svarar: því skiptir litlu, hvârt þú spyrr mik at þessu, eða eigi, þvíat ek veit, at áðr muntu fastráðit hafa, at öðruvíss mun fara, enn at mínum vilja, ok eigi líkligt, at þú mundir mèr svâ góðs gjaforðs unna, ok annat muntu mèr ætla. Konúngr stóð upp ok svarar: rètt getr þú þess: aldrí skaltu fá Helga konúng, ok því síðr, sem þú girnist meirr; hittir nú Helga konúng, ok segir honum, at hann hafi rædt þetta mál fyri dóttur sinni, ok kveðst þat hugatsamliga[2] gert hafa, lèzt því ómerkiligarr virðast

[1]) *í A er engin fyrirsögn, en er tekin úr hinum, sem þarað-auki bæta við:* Ivari víðfaðma, Hræreki, Helga inum hvassa, Haraldi hilditönn með Brávallar bardaga, ok nokkut af Sigurði hríng, eptir því sem fundizt hafa ritut á niðlags saurblaða rifr-ildum sundrlaus. 1 kap. Brot um konbónarför Helga hins hvassa til Auðar hinnar djúpauðgu Ivarsdóttur víðfaðma í Svíaríki, ok tálsvör Ivars. Upphafslaust. Orð Auðar við föður sinn, framberanða erendi Helga með undirhyggju. [2]) hugarlátliga, *D*; hugarsamliga, *P*.

hennar svör, sem þau ræddust lengr við; kvað engan konúngsson þann, er henni þætti sèr fullkosta, miklu er ofsi hennar meirri; en þó lèzt hann enn tala mundu málit fyrir hans hönd: en at svâ búnu tjár ekki. Helgi ferr heim, ok spyrr þetta Hrærekr bróðir hans; ok með því at hann sat heima í ríkinu, eggja vinir Hræreks hann at kvænast; honum fellst þat vel í skap, ok ræddu, at hann mundi biðja dóttur Ívars konúngs, er þá var ágætastr konúngr; hann lèt eigi vænt, at hann mundi þann kost fá, er bróðir hans fèkk eigi, er miklu var framarr í hvern stað; þeir kváðu hann eigi mundu fá háfan kost, ef hann bæði eigi, en sögðu honum enga svívirðíng, þótt honum væri synjat konunnar. Þá berr hann upp fyri bróður sinn málit, ok spyrr hann ráða um; en hann kvað vera mikit happaráð, ef hann fengi, kveðst ok eigi vita hverr fengi, en kvað vænt til gæfu, þeim er hlyti. Nú biðr Hrærekr, at Helgi muni fara at biðja honum konu; en hann lèzt fara munu: en meiri von at ekki muni tjóa, sem fyrr. Helgi ferr til Svíþjóðar á fund Ívars konúngs, ok er honum þar vel fagnat, sem fyrr; hann hafði þar skamma stund verit, áðr hann berr upp málit, ok biðr Unnar nú fyrir hönd bróður síns. Konúngr svarar þúngliga, ok lèt þess óvitrliga leitat, kvað þess enga von: ok þat undra ek, at þú ferr með því máli, ef henni sýndist eigi með yðr at gánga, eða hví mun hún þann vilja, er miklu

er ófframarr. Helgi lèt hann í engan stað minna verðan enn sik, en fyri þá sök eigi jafnfrægan, at hann var heima jamnan í ríkinu, ok því frá honum minni sögur, ok biðr hann þetta mál bera fyrir Unni. Konúngr lèzt þess ófúss, ok kveðst vetta at henni illra svara, sem fyrr. Annann dag eptir kallar hann til sín dóttur sína, ok heimtir hana á einmæli, ok segir þar kominn Helga konúng, ok biðr hennar til handa bróður sínum: ok vill hann vita svör af yðr þessa máls. Hún svarar, kvað nú eigi vera skyldu sem fyrr, at hún gerði svâ óvegliga för Helga, at hún tæki svâ vel þessu máli, at hún væri Hræreki gipt. Konúngr svarar: ómerkilig virðast mèr þín svör, ok eigi veit ek hvar þú ætlar til um gjaforðit, er þú synjast hverjum konúngi, er þín biðr, ætla ek at þú verðir oss skjótt ofstýri, ef þú villt ekki hafa vâr ráð. Hún svarar: því mun engu skipta, enn sem fyrr, at tala við mik um málit, at þú munt áðr fastráðit hafa, hvert gjaforð ek skal hafa, ok mun því engu máli skipta, hvârt ek em Hræreki gefin, eða öðrum manni, at íllt eitt gjaforð mun ek hljóta þèr undan hendi. Konúngrinn gengr á brott, ok hittust þeir Helgi. Hann spyrr, hvert örendi hans skal þángat vera. Konúngr svarar, at mikit hefir honum íbrugðizt: ferr þat orð á, dóttir mín sè kvenna vitrust, en [hún væri it mesta fól, mundi hún eigi annann veg um þetta kjósa, at neita þèr þvílíkum

konúngi, en mèr virðist miklu heldr Hræreki[1], þikki mèr þat ok vænast, at hún hafi þat, er hún beiðist; ok luku þeir svâ þessu máli, at hann heitr Hræreki dóttur sinni, ok var hún nú búin til ferðar með Helga; fara þau nú sína leið. Ok er þau komu or Svíaveldi, tala þau þetta mál sín ímilli hve farit hafði, ok hvat Ívar konúngr hefir rædt fyrir hvâru þeirra; koma nú heim í ríkit á Selund; verðr Hrærekr varr við, lætr senda ímóti þeim reiðskjóta ok mikit lið, lætr búa veizlu, ok at þeirri veizlu fær hann Unnar. Helgi dvelst heima á Selund þann vetr; ok at sumri fór hann í hernað, sem vandi hans var til. Hrærekr átti son við konu sinni, ok hèt Haraldr; þat mark var á honum: at-tennr[2] í öndverðu höfði, ok[3] voru miklar ok gulls litr á; hann var mikill ok fríðr sýnum; ok er hann var þrèvetr, var hann svâ mikill, sem 10 vetra gamlir sveinar.

2. Þat vâr eitt sumar, at Ívar konúngr kom með her sinn austan af Svíþjóð til Reiðgotalands, hann lagði öllu liðinu við Selund; hann gerði orð Hræreki, mági sínum, at hann kæmi til hans. Konúngr segir Unni konu sinni. Hún spyrr, hvârt hann ætlaði at fara á fund mágs síns at bjóða honum til veizlu uppá land.

---

1) en nú kalla ek at hún sè hit mesta fól, mundi hún þetta eigi annars kjósa, en neita þèr, þvílíkum konúngi, því nú virðist mèr svar hennar miklu greiðligra, *hin.* 2) *þannig:* at teñ, *A;* tennur, *P;* at tennur, *hin.* 3) *v. í hin.*

Ok um kveldit, er Hrærekr konúngr gekk at sofa, hafði Auðr búa látit nýa rekkju, ok þar með öll klæðin í, ok var sett á miðt gólf, ok bað hún konúng þar í sofa, ok hugsa, hvat hann dreymdi: ok seg mèr at morni! en hún fèkk sèr aðra sæng. Ok um morgininn kemr þar Auðr, ok spyrr eptir draumum hans. Mik dreymdi, segir hann, at ek væra staddr nær skógi nokkurum, ok hjá völlr slèttr ok fagr, ok þar sá ek einn hjört standa á vellinum; þá rann or skóginum einn hlèbarðr, ok þótti mèr fax hans sem gull, ok hjörtrinn stakk hornunum undir bóg dýrinu, en þat fèll dauðt niðr; þar næst sá ek, hvar flaug flugdreki mikill, ok kom þar, sem hjörtrinn var, ok greip þegar í klór sèr, ok sleit allan í sundr; þá sá ek bjarndýr eitt, ok fylgdi húnn úngr, ok vildi drekinn taka hann, en beran varði, ok vaknaða ek þá. Hún mælti: þetta er mikill draumr, ok varast þú Ívar konúng, föður minn, at hann vèli þik[1], er þú hittir hann, þvíat þar hefir þú sèt konúnga fylgjur, ok munu þeir eigast við orrostur, ok væri betr, at eigi ættir[2] þú þann hjörtinn, er þèr sýndist, en til þess þætti mèr þú líkligastr. Þann sama dag fór hann með marga menn á fund Ívars konúngs, ok gekk á konúngs skipit, ok fyri lyptíngina, ok heilsaði Ívari konúngi, en hann svaraði engu, ok lèt, sem hann sæi hann eigi. Þá segir Hrærekr, at hann hefir látit búa veizlu ímóti hon-

1) eigi, *b. v. hin.* 2) ettir, *A*; ætlir, *P*; ættir, *hin.*

um, ok vildi honum til sín bjóða. Konúngr svaraði, kvaðst hafa illa gipt dóttur sína, ok kvað eigi vera undir[1] fyri þá sök, þótt hún hefði illa við hann búit. Hann svarar, kveðst vel við una, kveðst ok ætla, at hún yndi eigi illa við sitt gjaforð. Þá svarar konúngr reiðuliga, segir, at hann vissi ógerla, hversu þau bjuggu við hann Helgi ok Auðr, kvað þat í hvers manns munni, at Haraldr væri son Helga konúngs, ok hans mynd væri á þeim sveini, ok lèzt til þess kominn, at láta hann vita þessi svik, ok kveðst honum sýnast, at eigi ætti þeir hana báðir: ok heldr vil ek, at þú gefir hana bróður þínum, enn þannig fari lengr fram, at þú þorir eigi at hefna. Hrærekr lèzt þat ekki heyrt hafa, en fyrir hvetvetna fram vill hann eigi láta konu sína, ok bað Ívar konúng ráð til leggja; en hann kveðst ekki kunna öðruvíss tilleggja, enn hann dræpi Helga, lèt ok aldrí fyrr mundu verða með þeim vel; eða hinn ella, at hann lèti konuna fyrir Helga; kvað óhæft svâ búit. Hrærekr kvaðst aldrí mundu konuna láta, ok heldr hefna; ríðr á brott við sína menn; en konúngr fór suðr til Reiðgotalands. Um haustit, er Helgi kom heim, var Hrærekr svâ ókátr, at engi maðr fèkk orð af honum; en Auðr lèt búa veizlu ríkuliga ímóti honum, ok at þeirri veizlu voru margskonar leikar, ok þótti Helga mikit mein, er bróðir hans var svâ ókátr, ok bað hann fara í

[1]) undur, P.

leik með sèr; en hann kveðst ekki leika mundu at svâ búnu; hann bað hann vera kátan: ok tökum hesta okkra, ok *ríðum í turniment*, sem við erum vanir. Hrærekr spratt upp, gekk til sinna manna þegjandi, tekr vâpn sín, hjálm ok brynju, ok sverð ok spjót, ríðr út; aðrir menn riðu með burtstengr; Helgi bróðir hans kemr móti honum með burtstaung; Hrærekr leggr undir hönd honum með spjóti ok ígegnum hann, ok fèll hann dauðr af hestinum. Nú riðu til allir þeir, sem hjá voru, ok spurðu, hví hann hefir þetta it illa verk gert; hann lèt ærnar sakir til, kveðst at sönnu spurt hafa, at hann hefir glapit konu hans; allir duldu þess, ok kváðu vera mikla lýgi. Ok er Auðr spyrr þetta, lèzt hún vita, at þat voru ráð föður hennar: ok er enn eigi allt framkomit, þat er hann hyggr, kvað þat mundu sýnast brátt; hún tók son sinn Harald, ok reið brott við marga menn; en Hrærekr fór at veizlum, sem vandi var til. Ok litlu síðarr kom sunnan Ívar konúngr; ok er Hrærekr spyrr þat, reið hann á fund hans. Ok er Ívar konúngr spyrr, at Helgi var drepinn, segir hann þetta vera níðíngsverk mikit, ok biðr vâpnast lið sitt skjótt, ok hefna vinar síns Helga, ok spyrr, at Hrærekr ætlar á fund hans, ok býr lið sitt til atgaungu; fara á land upp, ok í skóg þann, er var á leið þeirri, er von var, at Hrærekr mundi ofan ríða, ok hann kom ofan til sjófar; ok gekk Ívar kon-

úngr sjálfr á land með því liði, er eptir var hjá skipum, ok lèt setja upp merki sitt, ok gekk ímóti Hræreki. Ok er þeir heyrðu lúðr Ívars konúngs, er í skóginum voru, runnu þeir or skóginum eptir þeim Hræreki ok hans liði; ok er þeir fundust, börðust þeir; fèll þar Hrærekr ok allt lið hans. Ok þá beiddist Ívar konúngr, at þat ríki væri honum gefit til forráða, ok allir þeir, sem nærstir voru, gengu undir hann. Litlu síðarr kom af landi ofan Auðr en djúpúðga[1], dóttir hans, með her allan þann, sem hún fèkk. Ok með því, at Ívar konúngr hafði ekki svâ mikinn her, at hann mætti berjast við landsherinn at sinni, þá fór hann brott, ok til Svíþjóðar. Þann sama vetr samnar Auðr til sín öllu gulli ok dýrgripum, er hún mátti fá í því ríki, er átt hafði Hrærekr konúngr, ok sendi til Eygotalands; ok þegar vârar, býr hún ferð sína, ok hefir með sèr Harald son sinn, ok margt stórmenni fór með henni or landi, ok hefir með sèr allt þat fè, sem hún mátti með komast; fór fyrst til Eygotalands, ok síðan austr í Garðaríki; þar rèð fyri sá konúngr, er Raðbarðr hèt; hann tók vel við henni ok liði hennar, ok bauð henni með sèr at vera ok öllu liði hennar, ok hafa gott yfirlæti í sínu landi; þetta þiggr hún. Ívar konúngr lagði undir sik ríki þat allt, er átt höfðu þeir bræðr. En Raðbarðr konúngr

[1]) djúpauðga, *hin.*

biðr Auðar, ok með því, at hún var landflótta af Selundi með son sinn, þikkir henni þurfa nokkurt traust, þat er syni hennar væri til hjálpar, er hann yxi upp; ok með því, at Raðbarðr var ríkr konúngr, þá var hún gipt honum með ráði Haralds, en at var ekki spurðr Ívar konúngr.

3. Ok[1] er Ívar konúngr spyrr þessi tíðendi, at Auðr var gipt, þikkir (honum) Raðbarðr konúngr firna djarfr, er hann fèkk hennar án hans leyfi, samnar her miklum um öll sín ríki, Svíþjóð ok Danmörk, ok samnar svå miklum her, at eigi kunni telja, hve mörg skip hann hafði; hann stefnir her þeim í Austrríki á hendr Raðbarði konúngi, kveðst eyða skulu ok brenna allt hans ríki. Ívar konúngr var þá gamall mjök; ok er hann kom liðinu austr í Karjálabotna[2], ok ætla upp at gánga af skipum með herinum, þar tók til ríki Raðbarðar konúngs. Þat var eina nott, er konúngr svaf á dreka sínum í lyptíngu, at [honum þótti sem[3] dreki mikill flýgi utan af hafinu, ok þótti litr hans, sem gull eitt, ok sindra af honum uppá himininn, sem sjór[4] flýgi or afli, ok lýsir á öll lönd in nærstu af honum; ok þar eptir fljúga allir fuglar þeir, sem honum þóttu vera á Norðrlöndum; ok þá sá hann í annann stað, at dregr upp ský mikit af landnorðri, ok sèr, at þar fylgir svå mikit regn ok hvassviðri, at honum þótti, sem allir skógar ok allt land flyti í vatni því,

[1]) líflát Ívars konúngs, *yfirskr. kap. í A.* [2]) *þannig A.* [3]) *b. v. hin; v. í A.* [4]) sindr, *P.*

sem ofan rigndi; þar fylgdu reiðar ok eldíngar. Ok er sá enn mikli dreki fló af sænum á landit, þá kom móti honum regnit ok illviðrit, ok svâ mikit myrkr, at því nærst sá hann eigi drekann nè fuglana, en heyrði þó gný mikinn af reiðunum ok af illviðrinu, ok gekk allt svâ suðr ok vestr um landit, ok svâ víða, sem hans ríki var; ok þá þóttist hann sjá þar til, sem skipin voru, at öll voru orðin at hvölum einum, ok renna útí haf, ok síðan vaknar hann; ok hann lèt kalla til sín Hörð, fóstra sinn, ok segir honum drauminn, ok bað hann ráða. Hörðr kveðst vera svâ gamlaðr, at hann kvaðst ekki kunna at skynja drauma; hann stóð í bjargi fyrir ofan bryggjusporð, en konúngr lá í lyptíngu, ok sprettir lángskarir, er þeir ræddust við. Konúnginum var óskaplètt, ok mælti: gakk á skip, Hörðr! ok ráð draum minn! Hörðr segist eigi munu útgánga: ok þarf eigi at ráða draum þinn, sjálfr máttu vita, hvat hann er, ok meiri vân, at skamt líði hèðan, áðr skipast munu ríki í Svíþjóð ok Danmörk, ok er nú kominn á þik helgraðr[1], er þú hyggst öll ríki munu undir þik leggja, en þú veizt eigi, at hitt mun framkoma, at þú munt vera dauðr, en óvinir þínir munu fá ríkit. Konúngr mælti: gakk híngat, ok seg illspár þínar! Hörðr mælti: hèr mun ek standa, ok hèðan segja. Konúngr mælti: hverr var Hálfdán snjalli með Ásum? Hörðr svarar: hann var Baldr með

[1]) helgarði, *E, F, P;* helgraði, *B, C, D.*

Ásum, er öll regin grètu, ok þèr ólíkr. Vel segir þú, kvað konúngr; gakk híngat, ok seg tíðendi! Hörðr svarar: hèr mun ek standa ok hèðan segja. Konúngr spyrr: hverr var Hrærekr með Ásum? (Hörðr svarar): hann var Hænir, er hræddastr var Ása, ok þó þèr illr. Hverr var Helgi enn hvassi með Ásum? segir konúngr. Hörðr svarar: hann var Hermóðr, er bazt var hugaðr, ok þèr óþarfr. Konúngr mælti: hverr var Guðröðr með Ásum? Hörðr svarar: Heimdallr var hann, er heimskastr var allra Ása, ok þó þèr illr. Konúngr mælti: hverr em ek með Ásum? (Hörðr svarar): muntú vera ormr sá, sem verstr er til, er heitir Miðgarðsormr. Konúngr svarar, reiðr mjök: ef þú segir mèr feigð mína, þá segi ek þèr, at þú munt eigi lengr lifa, því at ek kenni þik, hvar þú stendr, þrúðna þussinn! Þá far þú nú nærr, Miðgarðsormrinn[1], ok reynum með okkr! Þá hljóp konúngr or lyptínginni, ok var hann svâ reiðr, at hann hljóp út um skarirnar. En Hörðr steyptist or bjarginu ok á sæinn út, ok sá þat þeir menn, er vörð hèldu á konúngs skipinu síðarst til konúngs ok Harðar, at hvârgi kom upp síðan. Ok eptir þessi tíðendi er blásit liðinu til landgaungu, ok eiga þíng. Þessi tíðendi spyrjast nú um allan herinn, at konúngr er dauðr; ok þá er ráðs leitat, hve með þessum mikla her skal fara. Þat sýnd-

[1]) Miðgarðsormi, *B*; með Miðgarðsorminum, *C*, *D*, *E*, *F*, *P*.

ist þeim, þar sem Ívar konúngr var dau*r, en áttu engar sakir við Raðbarð konúng, at hverr færi heim sem skjótast at góðum byr; þat var ráðs tekit, rofinn leiðángrinn; siglir hverr til síns lands. Ok er þetta spyrr Raðbarðr konúngr, setr hann Harald stýpson sinn yfir sunnan[1] herinn; ferr þá Haraldr með liðinu á Selund, ok var hann þar til konúngs tekinn; því nærst fór hann á Skáni til þess ríkis, er átt höfðu móðurfrændr hans, ok var þar tekit við honum vel, ok efldist þaðan mjök at liði. Þá fór hann upp á Svíþjóð, ok leggr undir sik allt Svíaveldi ok Jótland, er átt hafði Ívar móðurfaðir hans; hóf þá upp marga fylkiskonúnga, er áðr voru teknir af ríki fyrir Ívari konúngi. Haraldr konúngr hefir starfsamt ríki öndverða daga sína, fyri þá sök, at hann er úngr maðr; þótti mönnum sem dælla mundi at leita eptir föðurleyfðum sínum, er áðr voru teknir af ríki fyrir Ívari konúngi eða Íngjaldi konúngi.

4. Haraldr[2] var þá 15 vetra, er hann var til ríkis tekinn; ok með því at vinir hans vissu, at hann mundi eiga mjök herskátt at verja ríkit, er hann var úngr at aldri, þá var þat ráð gert, at aflat var at seið miklum, ok var seidt at Haraldi konúngi, at hann skyldi eigi bíta járn, ok svâ var síðan, at hann hafði aldregi hlíf í orrostu, ok festi þó eigi vâpn á honum. Hann gerðist brátt hermaðr mikill, ok átti svâ margar orrostur, at

[1]) *eða sunnan, A.* [2]) frà Haraldi hilditönn ok ríki hans, *yfirskrift kap. í A.*

engi maðr var sá í ætt hans, at þvílíkan herskap hafi haft með ríki sem hann, ok því var hann kallaðr Haraldr hilditönn. Hann eignaðist með orrostum ok hernaði öll þau ríki, er átt hafði Ívar konúngr, ok því meira, at engi konúngr var sá í Danmörk eða Svíþjóð, at eigi gyldi honum skatt, ok allir gerðust hans menn. Hann lagði undir sik þann hlut Englands, er átt (hafði) Hálfdán snjalli ok síðan Ívar konúngr. Hann setti konúnga ok jarla, ok lèt sèr skatta gjalda; hann setti Hjörmund konúng, son Hervarðar Ylfíngs, yfir Eystra-Gautland, er átt hafði faðir hans ok Granmarr konúngr.

5. Ok[1] í þann tíma, er Haraldr konúngr hilditönn settist í ríkin, Svíþjóð ok Danmörk, var sá konúngr í Reiðgotalandi, er hèt Hildibrandr, ok var ríkr konúngr (ok) hermaðr mikill; ok er hann tók at eldast, settist hann at löndum; hann átti tvö börn; son hans hèt Hildir, en Hildr dóttir; hún var allra meyja fríðust, ok skapstór mjök. Ok er konúngr var mjök gamall, tók hann banasótt; ok er sóttin tók at honum at líða, heimtir hann son sinn til sín, ok rèð honum mörg heilræði, ok segir, at þat var hit fyrsta, at hann gipti systur sína lángt í brott; ok þat annat, at hann miðlaði henni engan hlut af jörðum í landi sínu; ok þat it þriðja, at hann fengi (henni) enga þjónunarmenn, at hún mætti með valdi halda sik ok menn sína: munn nú skilja vârar samvistur; haldt ok sömum

[1]) um kapp Hildar, *yfirl. kap. í 4.*

vinum, sem ek hefi haft, er þú ert úngr maðr, ok þarft forsjá at skipa ríkit. Konúngr andaðist; en landsmenn stefna fjölmennt þíng at landslögum; ok (á) þínginu setja þeir Hildi konúngs son í hásæti, ok gefa honum konúngs nafn; sverja þeir honum hlýðni, en hann þeim landslög. Ok eptir þat gerir hann veizlu mikla, ok erfi eptir föður sinn, ok fagnaðaröl vinum sínum, gefr nafnbætr öllum vinum sínum ok ríkísmönnum, sem fyrr höfðu haft með gamla konúngi. Ok er skipat var ríkit með þessum hætti, gengr Hildr konúngsdóttir fyri bróður sinn, lýtr honum, ok kveðr hann blíðum orðum ok fögrum[1], talar ok * * *.

6. * * *[2] má í hernað. Ok á einu hausti sótti hann[3] á fund Haralds konúngs, föðurbróður síns, ok fèkk þar góðar viðtökur, ok var þar um hríð í góðu yfirlæti. Ok fyri því, at Haraldr konúngr tók mjök at eldast, setti hann Hríng frænda sinn yfir her sinn, at hegna lönd sín, ok dvalðist Hríngr með Haraldi lángar stundir. Ok er elli tók mjök at síga á hendr konúngi, þá setti hann Hríng frænda sinn konúng yfir Uppsölum, ok gaf honum til forráða Svíþjóð alla ok Gautland vestra, en hann sjálfr hefir yfirsókn um alla Danmörk ok Eystra-Gautland. Hríngr konúngr fèkk Álfhildar, dóttur Álfs konúngs, er land átti milli elfa tveggja, Gautelfar ok Raumelfar, þat voru

1) Hèr vantar mikið við, fram at ellidögum Haralds hilditannar, *b. v. hin.* 2) *Hèr vantar í skinnbókina að minnsta kosti 2 blöð.* 3) Hríngr, *hin.*

ok þá kallaðir Álfheimar; þat voru marklönd mikil. Hríngr átti einn son við konu sinni, sá hèt Ragnar. Haraldr konúngr átti 2 sonu við konu sinni, var annar Hrærekr slöngvandbaugi, en annar Þrándr gamli.

7. Ok[1] er Haraldr konúngr hilditönn var orðinn svâ gamall, at hann hafði hálft annat hundrað vetra, þá lá hann í rekkju, ok mátti eigi gánga, ok var þat víða um ríki hans, er ágengu víkíngar með hernað; ok þá þótti vinum hans illa fara ríkin, er eyðast tók lands stjórnin, þótti ok mörgum hann fullgamall, ok nokkrir ríkismenn gerðu ráð, er konúngr tók kerlaug, at þeir lögðu yfir ofan viðu ok báru á grjót, ok vildu kæfa hann í lauginni. Ok er hann vissi, at þeir vildu tapa honum, bað hann þá láta sik í brott or lauginni: veit ek, at yðr þikkir ek ofgamall; þat er ok satt, en vel mætta ek verða skapdauði; eigi vil ek þenna dauðan, at deyja í lauginni, vil ek deyja miklu konúngligarr; þá komu til vinir hans ok tóku hann í brott. Ok litlu síðarr gerði hann menn upp á Svíþjóð til Hríngs konúngs, frænda síns, með þeim orðsendíngum, at hann skyldi samna her um allt þat ríki, sem hann varðveitti, ok koma ímóti honum at landamæri, ok berjast við hann, ok lèt segja honum allan atburð, er til hafði komit, at Dönum þótti hann til gamall. Ok eptir þetta samnar Hríngr konúngr liði um allt Svíaveldi ok Vestra-Gautland, ok mikit lið hafði

[1]) frá Haraldi hilditönn, *yfirskr. kap. í A.*

hann af Noregi; ok er svâ sagt, at þá er Svíar ok Norðmenn fóru út með leiðángrinn um Stokksund, at þá var hálfr þriði tugr hundraða skipa. En Hríngr konúngr reið með hirð sína ok Vestr-Gautum it efra um Eyrasund, ok sótti svâ vestr landveg til skógarins Kolmerkr, er skilr Svíþjóð ok Eystra-Gautland. Ok þá er Hríngr konúngr kom af skóginum vestr þar, sem heitir Brávík, þá kom þar ímót skipaherr hans, ok setti Hríngr konúngr þar herbúðir sínar á Brávelli undir skóginum, milli ok víkrinnar. Haraldr konúngr dregr nú saman her um allt Danaveldi, ok mikill herr kom or Austrríki ok allt or Kœnagarði, ok af Saxlandi. Ok þá er herr hans var saman kominn á Selund, þar sem Sögja[1] heitir, ok yfir til Skáneyrar [af Landeyri[2], máttu menn gánga þar yfir at skipum einum, ok allr særr þótti þakiðr af skipaher hans. Þá sendir hann þann mann, er Herleifr hèt, ok með þeim Saxa her, á fund Hríngs konúngs, ok láta hasla honum völl, ok taka þeim orrostustað, ok segja í sundr griðum ok friði. Haraldr konúngr fór með herinn á 7 dögum, áðr hann kom austr í Brávík; ok þá bjöggust hvârirtveggju til orrostu, ok fylktu liði sínu.

8. Svâ[3] er sagt, at í her Haralds konúngs var höfðíngi sá, er Bruni hèt; hann var allra

[1]) *A. Magnússon hefir lesið* Sýgja; segja, *C, F*; Sogja, *D, E*; *fyrstu tveir bókstafirnir eru ógreiniligir, og þikkir sem sá, er skrifaði, ei sjálfr vitað hafi hvörnin lesa eða rita skyldi; máske:* Högja *eða* Kögja. [2]) *er máð og óskirt í A; v. í hin.* [3]) kappatal þeirra, *yfirskr. kap. í A.*

þeirra manna vitrastr, er með honum voru; hann lèt Bruna fylkja liðinu, ok skipa höfðíngjum undir merki; stóð merki Haralds konúngs í miðri fylkíngu, ok var um hans merki hirð hans. Þessir kappar voru með Haraldi konúngi: Sveinn, Sámr, Gnepi enn gamli, Garðr, Brandr, Blœngr, Teitr, Tyrvíngr, Hjalti; þeir voru skáld Haralds konúngs ok kappar. Þeir voru heiman or hirð Haralds konúngs: Hjörtr, Borgarr, Beli, Barri, Beigaðr, Tóki. Þar var skjaldmærin Visma, ok önnur Heiðr, ok hefir hvártveggi komit með mikinn her til Haralds konúngs; Visma bar merki hans; með henni voru þessir kappar: Karri[1] ok Milva. Vebjörg hèt enn skjaldmær, er kom til Haralds konúngs með mikinn her sunnan af Gotlandi, ok fylgdu henni margir kappar; af þeim öllum var mestr ok ágætastr Ubbi enn Fríski, Bratr Írski, Ormr Enski, Búi Brámuson, Ari eineygi, Geirálfr. Vismu skjaldmeyju fylgdi mikill Vinda herr, voru þeir auðkendir; þeir höfðu laung sverð ok buklara, en þeir höfðu ekki lánga skjöldu, sem aðrir menn. Ok í annann fylkíngar arm Haralds konúngs var Heiðr skjaldmær með sínu merki, ok hefir hún með sèr hundrað kappa; þeir voru berserkir hennar: Grímr, Geirr, Hólmsteinn, Eysöðull, Hèðinn mjófi, Dagr Lífski, Haraldr Ólafsson; þar voru margir höfðíngjar með Heiði í arminn. Í annann fylkíngar arm var sá höfðíngi, er hèt Háki

[1]) eða Kári.

höggvinkinni, ok voru fyrir honum merki borin; margir voru konúngar ok kappar með honum; þar voru þeir Alfarr ok Alfarinn, synir Gandálfs konúngs, er þá höfðu áðr verit hirðmenn ok heimilismenn Haralds konúngs. Haraldr konúngr var í vagni, þvíat hann var eigi vâpnfærr, svâ at hann mætti í orrostu gánga. Konúngr sendir Bruna ok Heiði at skynja, hversu Hríngr hefði fylkt liði sínu, ok hvârt hann væri búinn til orrostu. Bruni segir: svâ lízt mèr, sem Hríngr muni búinn at berjast ok hans lið; hann hefir undarliga fylkt; hann hefir svínfylkt her sínum, ok mun eigi gott at berjast við hann. Þá segir Haraldr konúngr: hverr mun Hríngi hafa kennt hamallt at fylkja; ek hugða engan kunna, nema mik ok Óðinn, eða mun Óðinn vilja skjóplast í sigurgjöfinni við mik, þat hefir aldrí fyrr verit, ok enn bið ek hann, at hann geri eigi þat; en með því, at hann vill nú eigi veita mèr sigr, þá láti hann mik falla í orrostu með her minn allann, ef hann vill eigi, at Danir hafi sigr, sem fyrr; ok allan þann val, sem fellr á þeima velli, gef ek Óðni. Svâ var, sem Bruni hafði (sagt), at Hríngr hafði svínfylkt öllu liði sínu; þá þótti þó svâ þykk fylkíngin yfir at sjá, at hrani var í brjósti, en hún var þó svâ laung, at armrinn tók at á þeirri, er Úatá[1] hèt, en annar ofan til Brávíkr. Hríngr konúngr hafði með sèr til orrostu marga konúnga ok kappa; þar

[1]) eða Vátá.

var enn æðsti maðr með honum konúngr sá, er hèt Ali enn frækni, er mikinn fjölda hers hafði ok marga aðra ágæta konúnga ok kappa; með honum var sá kappi, er ágætastr hefir verit í fornsögum: Störkuðr inn gamli Stórverksson, er upp hafði fæðst í Noregi á Hörðalandi í eyjunni Fenríng, ok farit hafði víða um lönd, ok verit með mörgum konúngum. Margir kappar aðrir voru komnir or Noregi til þessarar orrostu: Þrándr Þrænzki, Þórir Mærski, Helgi inn hvíti, Bjarni, Hafr, Fiðr Firðski, Sigurðr, Erlíngr snákr af Jaðri, Sögu-Eiríkr, Hólmsteinn hvíti, Einarr Egðski, Hrútr vafi, Oddr víðförli, Einarr þrjúgr, Ívar skagi. Þessir voru kappar miklir Hríngs konúngs: Áki, Eyvindr, Egill skjálgi, Hildir, Gautr guði, Tollus, Steinn af Væni, Styrr enn sterki. Þessir höfðu enn eina sveit: Hrani Hildarson, Sveinn uppskeri, Hlaumboði ok Sóknarsóti, Hrokkell hækja, Hrólfr kvennsami. Þeir voru enn: Dagr enn digri, Gerðarr glaði, Dúkr Vindverski, Glúmr Vermski vestan af Elfinni, Saxi flettir, Sali Gauzki. Þessir voru ofan af Svíaveldi: Nori, Háki, Karl kekkja, Krókarr af Akri, Gunnfastr, Glismakr góði. Þessir voru ofan af Sigtúnum: Sigmundr kaupángskappi, Tolufrosti, Aðils ofláti frá Uppsölum; hann gekk fyri framan merki ok skjöldu, ok var eigi í fylkíngu: Sigvaldi, er komit hafði til Hríngs konúngs 11 skipum: Tryggvi ok Tvívívill höfðu komit 12 skipum: Læsir hafði skeið, ok alla skipaða með köppum: Eiríkr helsíngr hafði

dreka mikinn, vel skipaðan hermönnum. Menn voru ok komnir til Hríngs konúngs af Þelamörk, er kappar voru, ok höfðu minnst yfirlát, þvíat þeir þóttu vera dragmálir ok tómlátir; þessir voru þaðan: Þorkell þrái, Þorleifr goti, Haddr harði, Grettir rángi, Hróaldr tá. Sá maðr var enn kominn til Hríngs konúngs, er hèt Rögnvaldr hái, eða Raðbarðr hnefi, allra kappa mestr; hann var fremstr í rananum, ok nærst honum voru þeir Tryggvi ok Læsir, ok útífrá Álreks synir ok Yngvi; þá voru Þilirnir, er allir vildu sízt hafa, ok hugðu litla liðsemd mundu at vera; þeir voru bogmenn miklir.

9. Ok[1] er þessi herr var allr búinn til orrostu, lètu hvârirtveggju blása lúðrum, ok (æptu) því nærst heróp. Þá gengu saman fylkíngar, ok var sú orrosta svâ snörp ok mikil, sem segir í öllum fornum sögum, at engi orrosta á Norðrlöndum hafi háit verit með jammiklu ok jamgóðu mannvali til orrostu at telja. Ok er litla hríð hafði orrostan staðit, sótti sá kappi fram í her Haralds konúngs, er hèt Ubbi Fríski, ok rèð hann þar at, sem var raninn á fylkíng Hríngs konúngs, ok átti it fyrsta víg við Rögnvald raðbarð, ok var þeirra skipti allharðligt, ok ógrlig högg mátti þar sjá í herinum, er þessir ofrhugar gengust at; veitti hvârr öðrum mörg högg ok stór; en svâ var Ubbi mikill kappi, at eigi lèttir hann fyrr, enn með því skilðist þeirra einvígi, at Rögn-

1) Orrosta á Brávelli, *yfirskr. kap. í A.*

valdr fèll fyrir Ubba; ok því nærst hljóp hann at Tryggva, ok særði hann banasári. Ok er þat sjá Álrekssynir, hve ógrliga hann ferr í herinum, ráðast þeir ímóti honum, ok berjast við hann; en svâ var hann harðgjörr ok mikill kappi, at báða þá drepr hann; ok eptir þat drepr hann Yngva; ok þá fór hann svâ geystr í herinum, at hvetvetna stökk fyrir, ok feldi hann alla þá, sem fremstir stóðu í rananum, nema þá, sem viku ímóti öðrum köppum. Ok er þetta sèr Hríngr konúngr, eggjaði hann herinn, at eigi sækti einn maðr yfir alla, þvílíkir yfirgángsmenn sem með honum voru: eða hvar er kappinn Störkuðr, er enn hèrtil bar ávalt hærra skjöld? vinn oss sigr! Hann svaraði: höfum vèr ærit at vinna, herra! segir hann, en við skulum vèr leita, at vinna slíkan sigr, sem vèr megum, en þar er sá maðr, er Ubbi er, at maðr má koma í fulla raun. En við konúngs áeggjan hleypr hann fram í herinn ámot Ubba, ok verðr þar orrosta mikil millum þeirra sett með stórum höggum ok miklu afli, er hvârrtveggi var ofrhugi, ok gekk svâ um hrið, ok veitti Starkaðr[1] honum eitt mikit sár, ok þar ímóti fèkk Störkuðr 6 sár, ok öll stór, ok þóttist varla komit hafa í slíka raun af einum manni; ok með því, at fylkíngar voru svâ styrkjar, reiddi (þá) ýmsa vega, ok sleit fyri því þetta einvígi. Síðan vegr Ubbi þann kappa, er

[1]) *þannig A.*

Agnarr hèt, ok ruddi æ jafnan fyri sèr stíginn, ok höggr á tvær hendr, hefir báðar hendr blóðgar til axlar; ok þá sótti hann at þeim þilunum. Ok þá er þeir sá hann, mæltu þeir: nú þurfum vèr eigi annarstaðar í herinum at leita fram, ok látum þenna mann sækja örvar um stund, ok fyrr[1] ** sigrinn, ok svâ lítit sem öllum þikkir til vâr koma, gerum nú því meira um oss, ok sýnum oss vaska menn. Þeir taka (at) skjóta á hann, er ágætastir voru af þeim þilunum, Haddr harði ok Hróaldr tá, ok voru svâ *ágætir menn* at skotum, at þeir skutu at honum tvennum tylftum örva ok í brjóst honum, ok eigi var honum lítit til fjörs; þessir menn veittu honum bana; ok áðr hafði hann drepit 6 kappa, en umfram veitt stór sár 11 köppum, en drepit 16 menn af Svíum ok Gautum, er framarla stóðu (í) fylkíngu. Ok á þeirri stundu sótti Vebjörg skjaldmær mjök á hendr Svíum ok Gautum; hún sótti fram at þeim kappa, er hèt Sóknarsóti; ok svâ hefir hún vant sik með hjálmi ok brynju ok sverði, at hún var framarla í riddaraskap, sem Störkuðr inn gamli segir; hún fær stór högg kappanum, ok sækir lengi; ok eitt högg höggr hún á kinnina, ok sneið sundr kjálkann ok af hökuna; hann drap í munn sèr skegginu, ok beit á, ok hèldt svâ upp at sèr hökunni; ok hún vinnr mörg stór verk í herinum. Litlu síðarr mætir henni Þorkell Þrái, kappi Hríngs konúngs, ok eigust þau

1) *Hèr er óskrifuð eyða fyri 2 eða 3 orðum í skinnbókinni.*

við harða sókn; ok áðr enn lètti, drap hann hana með mörgum sárum ok mikilli hugprýði. Nú verða þar mörg stór tíðendi á skammri stundu, ok gánga ýmsar fylkíngar betr; misti þar margr maðr heimkvâmu, eða fèkk örkuml af hvârutveggja liði. Nú sækir Störkuðr á hendr Dönum; hann ræðst ímóti þeim kappa, er Húnn hèt, ok egast þeir við orrostu, ok lýkr svâ, at Störkuðr drepr hann, ok litlu síðarr þann, er hans vill hefna, er Ella hèt; ok þá sótti hann at þeim, er Borgarr hèt, ok áttu hart víg saman, ok lýkr svâ, at hann drap þann. Störkuðr hleypr nú um fylkíngar með brugðit sverð, ok höggr hvern (at) öðrum; ok þvínærst hjó hann þann, er Hjörtr hèt; ok þá mætti honum Visma skjaldmær, er bar merki Haralds konúngs; Störkuðr sækir at henni fast. Hún mælti þá til Störkuðar: nú er kominn á þik helfíkr, ok muntu nú deyja skulu, þussinn! Hann svaraði: fyrr muntu þó halla merkinu Haralds konúngs, ok hjó af henni vinstri hönd; ok þá gerðist sá maðr ímóti honum, at hefna hennar, er hèt Brái Sækálfs faðir, ok leggr Störkuðr hann ígegnum með sverði; ok víða í herinum mátti nú sjá stóra valköstu á valfalli. Nokkuru síðarr kom ímóti Störkuði Gnepja, mikill kappi, ok áttust við harða sókn, ok veitti Skörkuðr honum banasár; ok þvínærst drap hann þann kappa, er Háki hèt, ok þá fèkk hann þar mörg stór sár í þeirri svip-

an; hann var höggvinn á hálsinn við herðarnar, svâ at sá inní holit, ok framan á brjóstinu hafði hann mikit sár, svâ at lúngun fèllu út, ok látit hafði hann einn fíngr á hægri hendi. Ok er Haraldr konúngr sá svâ mikit mannfall af hirð sinni ok köppum, þá reis hann upp á knèin, ok tók tvö söx, ok keyrði fram fast hestinn, er fyri vagninum var, ok lagði hvârutveggja saxinu báðum höndum, ok veitti mörgum manni bana með sínum höndum, þóat hann mætti eigi gánga nè á hesti sitja. Gekk nú orrostan svâ um hríð, at konúngrinn vann mörg stórvirki. Ok ofarla þessa bardaga var konúngrinn Haraldr hilditönn sleginn kylfu í höfuðit, svâ at haussinn rifnaði í sundr, ok var þat hans banasár, ok drap Bruni hann. Ok þá sá Hríngr konúngr vagn Haralds konúngs auðan, ok þóttist vita, at konúngrinn mundi vera fallinn; lèt hann blása, ok kallaði, at herinn stöðvaðist. Ok er Danir urðu þessa varir, þá staðnaði orrostan, ok bauð Hríngr konúngr grið öllum her Haralds konúngs, ok þat þágu allir. Ok annann dag eptir at morni lætr Hríngr konúngr kanna valinn, ok leita at líki Haralds konúngs, frænda síns, ok var mikill herr valsins fallinn yfir, þar sem líkit lá; var þá orðinn miðr dagr, er líkit fannst, ok valrinn var rofinn; ok lèt Hríngr konúngr þá taka lík Haralds konúngs frænda síns, ok þvâ af blóð, ok búa um vegliga eptir fornri siðvenju, lèt leggja líkit í þann vagn,

er Haraldr konúngr hafði til orrostu; ok eptir þat lèt hann kasta mikinn haug, ok lèt þá [líki hans[1] aka í þeim vagni, á þeim hesti, er Haraldr konúngr hafði til orrostu, ok lèt svâ aka í hauginn; ok síðan var sá hestr drepinn. Ok þá lèt Hríngr konúngr taka þann söðul, er hann sjálfr hafði riðit í, ok gaf þann Haraldi konúngi, frænda sínum, ok bað hann gera hvârt er hann vildi, ríða til Valhallar eða aka; ok þá lèt hann gera þar mikla veizlu, ok veita útferð Haralds konúngs, frænda síns. Ok áðr enn haugrinn væri aptr lokinn, þá biðr Hríngr konúngr til gánga allt stórmenni ok alla kappa, er við voru staddir, at kasta í hauginn stórum hríngum ok góðum vâpnum, til sæmdar Haraldi konúngi hilditönn; ok eptir þat var aptr byrgðr haugrinn vandliga.

10. Sigurðr Hríngr var konúngr yfir Svíþjóð ok Danmörk eptir Harald konúng hilditönn; ok þá óx upp son hans Ragnar í hirð föður síns; hann var allra þeirra manna mestr ok fríðastr, er menn hefði sèt, ok var hann líkr móður sinni ásýndar, ok í hennar ætt at sjá, þvíat þat er kunnigt í öllum fornum frásögnum um þat fólk, er Álfar hétu, (at þat) var miklu fríðara enn[2] önnur mankind á Norðrlöndum[3]; þvíat allt forellri Álfhildar móður hans, ok allr ætt-

[1]) lèt h' *A, líkliga rángt skrifað fyrir:* líki hans. [2]) *í A stendr:* engi, *en líkliga rángt lesið af þeim, er afskrifaði; fyrir:* enn. [3]) *hèr enda C, D, E, F, P; en B hefir ennfremr:* allt foreldri Alf......

bálkr, (var) kominn frá Álfi gamla; þat voru þá kallaðar Álfa ættir; af honum tóku nöfn þær 2 meginár, er elfr heitir hvârtveggi síðan; önnur skildi ríki hans af Gautlandi, var sú fyri því kölluð Gautelfr; en önnur fèll at því landi, er nú heitir Raumaríki, ok heitir Raumelfr. Ragnar var líkr feðr sínum, ok föðurfrændum, á vöxt, sem verit hafði Haraldr konúngr hilditönn, eða Ívar víðfaðmi. Ok er Hríngr konúngr tók at eldast ok þúngfærast, tók at mínkast ríki hans, ok tók mest af því, er first honum var. Sá konúngr er nefndr Aðalbrikt, er kominn var af ætt Ellu konúngs, þess er drepit hafði Hálfdán Ylfíngr, ok lagði undir sik þann hluta Englands, er Norðimbraland heitir; þann hlut átti Hríngr konúngr, ok áðr Haraldr konúngr; Aðalbrikt konúngr rèð því ríki lángar stundir; synir hans hètu Áma ok Ella, er konúngar voru í Norðimbralandi eptir föður sinn. Þá er Sigurðr Hríngr var gamall, var þat á einu hausti, er hann hafði riðit um ríki sitt, Gautland vestra, at dæma mönnum landslög, at þá komu ímóti honum Gandálfs synir, mágar hans, ok báðu, at hann mundi veita þeim lið at ríða á hendr þeim konúngi, er Eysteinn hèt, er því ríki rèð, er þá hètu Vestmarar, en nú heitir Vestfold. Þá voru höfð blót í Skíríngssal, er til var sótt um alla víkina . . . . . . . . . . . . . . . . .

## Hèr hefr Sörla þátt[1].

Fyrir[2] austan Vanakvísl í Asía var kallat [Asíaland eðr Asíaheimr[3], en þat fólk var kallat Æsir, er þar bygðu, en höfuðborgina kölluðu þeir Ásgarð; Óðinn var þar nefndr konúngr yfir; þar var blótstaðr mikill. Njörð ok Frey setti Óðinn blótgoða[4]; dóttir Njarðar hèt Freyja; hún fylgdi Óðni, ok var friðla hans. [Menn þeir voru í Asía, er einn hèt Álfrigg, annar Dvalinn, þriði Berlíngr, fjórði Grèrr[5]; þeir áttu heima skamt frá höll konúngs; þeir voru menn svâ hagir, at þeir lögðu á allt gerva hönd; þessháttar menn, sem þeir voru, kölluðu menn dverga; þeir bygðu einn stein; þeir blönduðust þá meirr við mannfólk, enn nú. Óðinn unni mikit Freyju, enda var hún allra kvenna fegurst í þann tíma; hún átti sèr eina skemmu, hún var bæði fögr ok sterk, svâ at þat segja menn, at ef hurðin var aptr ok læst, at engi

1) *þannig F;* Sagan af Hèðni ok Högna, *R.* 2) Efni þessarar sögu byrjast á þennan hátt, at fyrir, *R.* 3) þat vatn kalla sumir Tanis, eðr Tanais, *b. v.R*; Asaland eða Asheimr, *Sk.* 4) næst sèr, *R.* 5) þeir voru jafníngir í Asgarði: einn hét Frigg, annar Jadúlla, þriði Berlíngr, fjórði Knepi, *R.*

maðr mætti koma í skemmuna án vilja Freyju. Þat var einn dag, er Freyju varð gengit til steinsins[1]; hann var þá opinn. Dvergarnir voru at smíða eitt gullmen, þat var þá mjök fullgert. Freyju leizt vel á menit; dvergunum leizt ok vel á Freyju; hún falaði menit at dvergunum, bauð ímóti gull ok silfr, ok aðra góðagripi[2]. Þeir kváðust ekki fèþurfi; sagðist hvörr vilja sjálfr sinn part selja í meninu, ok ekki annat fyri vilja hafa, enn hún lægi sína nótt hjá hvörjum þeirra; ok hvort sem hún lèt at þessu komast betr eða verr, þá keyptu þau þessu. Ok at liðnum fjórum náttum ok enduðum öllum skildaga, afhenda þeir Freyju menit, fór hún heim í skemmu sína, ok lèt kyrt yfir sèr, sem ekki hefði í orðit.

2. Maðr hèt Farbauti, hann var karl einn, ok átti sèr kellíngu þá, er Laufey er nefnd; [hún var bæði mjó ok auðþreiflig, því var (hún) Nál kölluð[3]. Þau áttu sèr einn son barna, sá var Loki nefndr; hann var ekki mikill vöxtum, orðskárr var hann snemma, ok skjótligr í bragði; hann hafði fram yfir aðra menn vizku, þá, er slægð heitir. [Hann var mjök kyndugr þegar á únga aldri, því var hann kallaðr Loki lævíss[4]; hann rèðst til Óðins í Ásgarð, ok gerðist hans maðr. Óðinn [mælti hvetvetna eptir honum, hvat sem hann tók til, enda lagði hann

1) sem dvergarnir rèðu fyrir, *b. v R.* 2) aðrar gersemar, *R.* 3) *v. í R.* 4) hann var kallaðr Loki Laufeyjarson, *R.*

opt stórar þrautir fyrir hann, ok leysti hann þær allar vonu betr af höndum[1]; hann varð ok náliga alls víss, þess er viðbar, sagði hann ok allt Óðni, þat er hann vissi. Þat er ok sagt, at Loki varð víss, er Freyja hafði fengit menit, ok svâ, hvat hún hafði ímóti gefit; sagði hann þetta Óðni. En er Óðinn varð þess víss, sagði hann, at Loki skyldi ná meninu, ok fá sèr. Loki kvað þat úvænligt: sakir þess, at engi maðr má í skemmuna komast, fyrir utan vilja Freyju. Óðinn sagði, at hann skyldi fara verða, ok eigi aptr koma, fyrr enn hann hefði náð meninu. Loki snèri þá í brottu æpandi; flestir urðu við þat kátir, er Loka gekk lítt til. Hann gengr til skemmu Freyju, ok var hún læst; hann leitaði við inn at komast, ok gat eigi. Kuldaveðr var úti mikit, ok tók honum fast at kólna; hann varð þá at einni flugu; hann flökti þá um alla lása, ok með öllum fellum, ok gat [hvergi lopt[2] fundit, svâ at hann mætti inn komast; uppi allt hjá bustinni [ok þó eigi meiri boru fann hann[3], enn sem stínga mætti í nál; þá [boru bograr[4] hann inn. En er hann kom inn, var hann flenneygr[5] mjök, ok hugði at, ef nokkurir vekti; en hann gat þat sèt, at allt svaf í skemmunni; hann ferr þá innar at sænginni Freyju, ok skynjar þá, at hún hefir

1) lagði miklar mætr á Loka, því hann vann margar þrautir, *R.* 2) ekki eina minnstu smugu, *R.* 3) fann hann eina holu, en þó eigi meiri, *R.* 4) holu fór, *R.* 5) flekeigðr, *R.*

menit á hálsi[1] sèr, [ok at nistin horfðu niðr á[2]. Loki verðr þá at einni fló; hann sezt á kinn Freyju, ok höggr svâ, at Freyja vaknar, ok snèrist við, ok sofnar aptr. Þá dregr Loki af sèr flóar haminn, [lokkar þá af henni menit[3], lýkr þá upp skemmunni, ok ferr í burt, ok færir Óðni. Freyja vaknar um morgininn, ok sèr, at opnar eru dyrnar, en ekki brotit, en menit var í brottu hit góða; hún þikkist vita, hver brögð í muni vera, gengr inní höllina, þegar hún er klædd, fyrir Óðinn konúng, ok talar um, at hann hafi illa látit gera, at stela frá henni góðgrip hennar, ok biðr hann fá sèr aptr góðgrip sinn. Óðinn segir, at hún skal þat aldrí fá, svâ at eins hefir hún at því komizt: nema þú orkir því, at þeir konúngar tveir, [at 20[4] konúngar þjóna hvorum, verði missáttir, ok berist með þeim álögum [ok atkvæðum, at þeir skulu jafnskjótt uppstanda ok berjast, sem þeir áðr falla[5], utan nokkr maðr kristinn verði svâ röskr, ok honum fylgi svâ mikil gipta síns lánardrottins, at hann þori at gánga í bardaga þeirra, ok vega með vopnum þessa menn; þá hit fyrsta skal þeirra þraut lyktast, hverjum höfðíngja sem þat verðr lagit, at leysa þá svâ or ánauð ok erfiði sinna fárligra framferða. Freyja játtaði því, ok tók við meninu.

---

1) höfði, *R.* 2) *v. í R.* 3) náði svâ meninu, at hann tók þat af henni, *R.* 4) sem nú eru mestir í heiminum ok tín, *R, sem allstaðar hefir* 10 *fyrir* 20. 5) at þeir skuli berjast eins dauðir ok lifandi, *R.*

3. Í þann tíma, er liðnir voru frá falli Friðfróða 4 vetr ok 20[1], rèð sá konúngr Upplöndum í Noregi, at Erlíngr hèt. Hann átti sèr drottníngu ok 2 sonu, hèt Sörli sterki hinn ellri, en Erlendr hinn ýngri; þeir voru efniligir menn; Sörli[2] var þeirra sterkari; þeir lögðu í hernað, þegar þeir höfðu aldr til. Þeir börðust við [Sindra víkíng, Sveigisson, Hákasonar sækonúngs, í Elfarskerjum[3], ok fèll þar Sindri víkíngr ok allt lið hans; í þessari orrostu fèll ok Erlendr Erlíngsson. Eptir þat hèldt Sörli í hit Eystra-salt, ok herjaði þar, ok vann svâ mörg stórvirki, at seint er öll at skrifa.

4. Hálfdán[4] hefir konúngr heitit; hann rèð fyri Danmörk; hann sat í stað, er Hróiskelda[5] heitir; [hann átti Hveðnu hina ellri; þeirra[6] synir voru þeir Högni ok Hákon; þeir voru afburðarmenn á vöxt ok afl, ok alla atgervi; þeir lögðu ok (í) hernað, þegar þeir voru þroskaðir. Nú er þar til at taka, þar sem at Sörli er, at á einu hausti heldr hann til Danmerkr. Hálfdán konúngr hafði þá ætlat í konúngastefnu; hann var þá mjök hníginn í efra aldr, er sjá saga gerðist; hann átti dreka svâ góðan, at eigi fannst annar slíkr á Norðrlöndum, sakir sterkleika ok alls hagleiks; hann flaut um strengi í höfninni, en Hálfdán konúngr var á landi, ok

[1]) 27, *R.* [2]) *þannig leiðrètt;* Haugni, *F.* [3]) Sviða víkíng Sveinsson í Ölvarskerjum, *R.* [4]) Háldán, *R.* [5]) Herjanskelda, *R.* [6]) hans, *R.*

hafði látit [heita farar munngát[1] sitt. En er Sörli sá drekann, rann í hjarta hans egingirnd mikil, svâ at hann vildi drekann eiga fyrir hvern mun ok einn, enda er þat ok flestra manna sögn, at eigi hafi betri gripr verit í skipi, enn í þessu, at fráteknum [drekanum Elliða ok Gnoð, ok[2] Orminum lánga, á Norðrlöndum; hann talaði þá við menn sína, at þeir skyldu búast til bardaga: þvíat vèr skulum drepa Hálfdán konúng, en eignast drekann. Máli hans svarar sá maðr, er Sævar[3] hèt, hann var stafnbúi hans [ok stallari[4]: þat er eigi ráð, herra! segir hann, þvíat Hálfdán er höfðíngi mikill, ok frægr maðr; hann á ok sonu þá 2, er ráðnir eru til hefnda, þvíat þeir eru nú einir hverir frægastir menn. Þóat þeir sè goðunum[5] fremri, sagði Sörli, þá skal ek einnveg berjast ok áðr. Búast þeir nú til bardaga. Kemr nú njósn Hálfdáni konúngi; bregðr hann við, ok ferr til skipa, ok menn hans allir, búast þegar til bardaga; lögðu þat sumir menn til með Hálfdáni, at honum væri úráð í at berjast, ok hann skyldi flýja, sakir liðsmunar. Konúngr sagði, at fyrr skyldi hverr falla um annann þveran, enn hann skyldi flýja. Búast nú hvorirtveggju til orrostu, ok slær nú í hinn harðasta bardaga, ok lýkr með því, at Hálfdán konúngr fellr ok allt lið hans; síðan tók Sörli drekann, ok allt þat, er á honum var fèmætt. Síð-

[1]) flytja fram munngát, *R.* [2]) *v. í R.* [3]) Sæfinnr, *R.* [4]) *v. í R.* [5]) flestum, *R.*

an spurði Sörli, at Högni var kominn or hernaði, ok lá við Óðinsey; þángat heldr Sörli skipum sínum; ok þegar þeir finnast, sagði (hann) honum fall Hálfdánar föður síns, ok býðr honum sættir ok sjálfdæmi, ok þarmeð fóstbræðralag; en Högni neitaði því öllu. Síðan börðust þeir, sem segir í Sörla stikka[1]; gekk Hákon allvel fram, ok drap Sævar, merkismann Sörla ok stafnbúa; eptir þat drap Sörli Hákon, en Högni drap Erlíng konúng, föður Sörla. Síðan börðust þeir Högni ok Sörli, ok fèll Sörli fyrir Högna af mæði ok sárum, ok lèt Högni síðan græða hann, ok svörðust þeir í fóstbræðralag, ok hèldu þat vel, meðan þeir lifðu báðir; en Sörli lifði þeirra skemr, ok fèll í Austrvegi fyri víkíngum, sem segir í Sörla stikka[2], ok hèr segir:

Fèll enn forsnjalli
[fyst inn víglysti[3]
ýgr[4] í Aurtrvegi
allr á helpalla[5];
dauðr um dalreyðar[6]
dáðkunnr[7] miskunnar,
[beit at brandmóti[8]
brynstíngr[9] víkíngum.

En sem Högni frètti fall Sörla, herjaði hann í Austrveg á sama sumri, ok hafði allstaðar sigr, ok varð þar konúngr yfir, ok segja menn svâ,

1) sögu, *R.* 2) stokki, *R.* 3) flestum vígleisti, *R.* 4) iggr, *R.* 5) helpalli, *R.* 6) dal rauðan, *R.* 7) dáðrunar, *R.* 8) beita branda njóti, *R.* 9) bristýngr, *R.*

at 20 konúngar urðu skattgyldir undir Högna konúng, ok hèldu af honum ríki. Högni varð svâ frægr af sínum stórvirkjum ok hernaði, at hans nafn var jafnvel kunnigt norðr við Finnabú[1], sem útí París, ok allt þar ímilli.

5. Hjarandi hefir konúngr heitit, hann rèð fyri Serklandi; hann átti sèr drottníngu ok einn son, þann er Hèðinn er nefndr; hann var snemma afreksmaðr at afli, vexti ok atgervi. Hann lagði í hernað á æskualdri, ok gerðist sækonúngr, ok herjaði víða um Spanía ok Græcía[2], ok öll nálæg ríki, svâ at hann skattgyldi undir sik 20 konúnga, svâ at allir hèldu af honum land ok lèn[3]. Hèðinn sat á vetrum heima í Serklandi. Þat er sagt einhvern tíma, at Hèðinn fór á skóg með hirð sinni; hann varð staddr í rjóðri, [einn sinna manna[4]; hann sá konu sitja á stóli í rjóðrinu, mikla vexti ok fríða sjónum, hún kvaddi Hèðinn kurteisliga; hann spurði hana at nafni; en hún nefndist Göndul[5]. Síðan talast þau við; spyrr hún hann af stórvirkjum sínum; en hann sagði henni allt af lètta, ok spurði hana, hvort hún vissi nokkurn konúng sèr jafnan at hreysti ok harðræði, frægðum ok framkvæmdum. Hún kveðst þann vita, er ekki skyrti við hann, ok eigi þjónuðu síðr 20 konúngar enn honum, ok kvað hann Högna

[1]) Finna só, *R.* [2]) *þannig leiðrètt;* Græsna, *F*; *v. í R.* [3]) tign, *R.* [4]) með nokkrum sínum mönnum, *R.* [5]) Golna, *allstaðar, R.*

heita, ok sitja norðr í Danmörk. Þat veit ek sagði Hèðinn, at þat skulum við reyna, hvorr okkarr fremri er. Mál mun þèr, segir Göndul, til manna þinna, þeir munu leita þín; síðan skilja þau; ferr hann til manna sinna, en hún sat þar eptir. Þegar at vordögum, býr Hèðinn ferð sína, hefir einn dreka ok á [þrjú hundruð[1] manna; hann heldr norðr í heima; hann siglir þat sumar ok þann vetr; at vordögum kom hann í Danmörk.

6. Högni konúngr sat þá heima; ok er hann spyrr, at ágætr konúngr er þar við land kominn, býðr hann honum heim til ágætrar veizlu; Hèðinn þekktist þat. Ok er þeir sátu við drykk, spurði Högni, hvat eyrendi Hèðinn hefði, er hann fýstist svâ lángt norðr í heima. Hèðinn sagði þat sitt eyrendi, at þeir reyndi með sèr hug ok hreysti, íþróttir ok alla atgervi; Högni lèzt þess búinn. Ok annan dag árla fóru þeir á sund ok í skotbakka; þeir frömdu ok [burtreið ok[2] vopnfimi, ok allar íþróttir, ok voru svâ jafnir á alla atgervi, at engi þóttist mega í milli sjá, hvorr fremri væri. Eptir þetta gjört sverjast þeir í fóstbræðralag, ok skyldu allt eiga at helmíngi. Hèðinn var úngr ok úkvæntr, en Högni var nokkuru ellri; hann átti Hervöru Hjörvarðsdóttur, Heiðrekssonar, Úlfhamssonar[3]. Högni átti dóttur, er Hildr hèt; hún var allra

1) 30, *R.* 2) *v. í R.* 3) Ulfhamss., *F.*

kvenna vænst ok vitrust, hann unni mikit dóttur sinni; ekki átti hann barna fleira.

7. Þat er sagt, at nokkuru síðarr færi Högni í hernað, en Hèðinn sat eptir, ok skyldi geyma ríkis. Þat var einn dag, at Hèðinn fór á skóg at skemta sèr, þá var blíðt veðr; honum varð, enn vikit í brott frá mönnum sínum; hann kom í eitt rjóðr, þar sá hann sitja konu á stóli þá sömu, er hann sá fyrr á Serklandi, ok leizt honum, sem hún væri nú allt fegri enn fyrr. Hún kastaði enn [orðum fyrr[1] á hann, ok gerði sik blíða í máli; hún hèldt á einu horni, ok var lok yfir; konúngi rann hugr til hennar. Hún bauð honum at drekka, en konúngr þystr, því-at honum var varmt orðit, tekr við ok drekkr; en er hann hafði drukkit, brá honum mjök undarliga við, þvíat hann mundi aungvan hlut þann, sem áðr hafði yfirgengit; hann settist þá niðr, ok töluðust þau við. Hún spurði, hvort honum hefði nokkut svâ reynst, sem hún hafði sagt honum fyrr, um íþrottir Högna ok harðræði. Hèðinn sagði þat satt vera: þvíat hann skorti ekki við mik neina atgervi, er við reyndum, ok því höfum við kallast jafnir. Ekki eru þið þó jafnir, segir hún. Hvat finnr þú til þess? segir hann. Þat finn ek til, segir hún, at Högni á sèr drottníngu af stórum ættum, en þú átt þèr aunga konu. Hann svarar: Högni giptir mèr þegar Hildi, dóttur sína, er ek vil biðja, ok er

[1]) kveðju, *R.*

ek þá ekki verr kvæntr enn hann. Mínkast þá metnaðr þinn, segir hún, ef þú biðr Högna mægða; hitt væri heldr til, ef þik skyrti hvorki hug nè hreysti, sem þú lætr at sè, at nema Hildi í burtu, en drepa drottníngu með því móti, at taka hana, ok leggja hana niðr fyri barðit á drekanum[1], ok láta hann sníða hana sundr, þá er hann er framsettr. Svâ var Hèðinn fánginn í illsku ok óminni af öli því, er hann hafði drukkit, at honum sýndist ekki annat ráð enn þetta, ok ekki mundi hann til, at þeir Högni væri fóstbræðr. Síðan skildu þau, ok fór Hèðinn til manna sinna; þetta var at áliðnu sumri. Hèðinn skipar þá mönnum sínum at búa til drekann, þvíat (hann) kveðst heim vilja til Serklands. Síðan gekk hann til skemmu, ok tók sinni hendi hvora, drottníngu ok Hildi, ok gengr út með þær. Menn tóku klæði ok gripi Hildar. Þeir einir voru menn í ríkinu, at ekki þorðu at gera, sakir Hèðins ok manna hans, þvíat hann var mjök[2] ófrýnligr. Hildr spurði Hèðinn, hvat er hann ætlaði; en hann sagði henni; hún bað hann eigi svâ gera: þvíat faðir minn mun gipta mik þèr, ef þú villt biðja mín. Eigi vil ek þat gera, segir Hèðinn, at biðja þín. Ok þóat þat sè, segir hún, at þú vilir ekki annat, enn flytja mik í burt, þá munu þið faðir minn þó sættast, en ef þú gerir svâ illa ok úmannliga, at þú vinnir

[1]) sem er bezt skip Högna, *b. v. R.* [2]) nú, *R.*

bana móður minni, þá munu þið faðir minn aldrí sættast, ok þessliga hafa mèr draumar gengit, sem þið munið berjast, ok drepast niðr, ok þó muni þar annat þýngra á koma, ok mun mèr þat mikill harmr, ef ek skal horfa uppá föður minn, at hann skuli standa undir meingerðum ok miklum álögum, en mèr er þó engi gleði í, at sjá þik í illendum ok erfiðismunum. Hèðinn kveðst aldrí hirða, hvat er bak kæmi, ok sagðist gera mundu sem áðr. Eigi máttu nú atgera, segir Hildr, þvíat þèr er eigi sjálfráðt um. Síðan gekk Hèðinn til strandar; var þá settr fram drekinn, skaut hann þá drottníngu niðr fyri barðit; lèt hún þar líf sitt; en Hèðinn gengr útá drekann. Ok er hann er albúinn, fýsir hann at gánga á land einn sinna manna, ok í þann sama skóg, sem fyrr hafði hann gengit; ok er hann kom fram í rjóðrit, sá hann þar Göndul sitja á stóli; þau kvöddust kunnliga[1]. Hèðinn sagði henni frá framferðum sínum; hún lèt vel yfir. Hún hafði þar hornit þat, er hún fór fyrr með, ok bauð honum at drekka af. Hann tók við, ok drakk; en er hann hafði drukkit, seig at honum svefn, ok hallaði hann sèr í knè henni. En er hann var sofnaðr, fór hún undan höfði honum, ok mælti: nú vígi ek þik undir öll þau atkvæði ok skildaga[2], sem Óðinn fyrimælti ok ykkr Högna báða, ok allt lið ykkart. Síðan vaknaði Hèðinn, ok sá svipinn af Göndul, ok sýndist honum þá svört ok mikil, mundi nú allt,

[1]) kurteisliga, *R.* [2]) álög, *R.*

ok þótti mikit slis sitt; hugsar nú, at fara nokkut lángt í burt, svâ at hann mætti eigi dagliga heyra brígsli sinna vondra framferda; ferr nú til skips, lætr skjótt or landfestum[1], stendr byrr af landi, ok siglir svâ í burt með Hildi.

8. Nú kemr Högni heim, verðr nú víss hins sanna, at Hèðinn hefir siglt í brott með Hildi ok drekann Hálfdánarnaut, en drottníng lá dauð eptir. Högni varð við þetta mjök reiðr, ok bað menn viðbregða þegar, ok sigla eptir Hèðni; gera þeir nú ok svâ, ok fá hinn bezta byr, koma æ þar at kveldi á þær hafnir, sem Hèðinn hafði burt siglt áðr um morgininn. Þat var einn dag, er Högni hèldt til hafnar[2], [at þá voru segl Hèðins at sjá við hafi[3]; þá halda þeir Högni þegar eptir. Þat er sannliga sagt, at þá fèkk Hèðinn andviðri ímóti sèr, en Högna hèlzt hinn sami byrr. Hèðinn leggr þa upp at eyju þeirri, er Há[4] heitir, ok leggr þar í lægi; bráðliga kemr Högni eptir; ok er þeir finnast, kveðr Hèðinn hann blíðliga. Þat er þèr at segja, fóstbróðir! segir Hèðinn, at mik hefir hendt svâ mikit slis, at þat má engi bæta, nema þú: ek hefir hertekit dóttur þína ok dreka, en veitt líflát drottníngu þinni, ok þó eigi af eginligri illsku minni, heldr af vondum spám ok illum álögum; vil ek nú, at þú skerir einn ok skapir

1) landsteinum, *R.* 2) *eða* hafnir, *F.* 3) at þar voru segl fyri, þau er Hèðinn átti, þó við haf at sjá, *R.* 4) Hæ, *rángt*, *R.*

okkar ímilli; þat vil ek ok bjóða þèr, at leggja bæði af Hildi ok drekann, menn alla ok fè, en fara svâ lángt útí heima, at ek koma aldrí til Norðrlanda, nè þèr í augsýn, meðan ek lifi. Högni svarar: ek hefði gipt þèr Hildi, ef þú hefðir hennar beðit; nú þó ok, at þú hefðir hertekit Hildi, þá mætti við þó sættast fyri þat; en nú, er þú hefir gjört svâ mikit úverkan, at þú hefir níðst á drottníngu, ok drepit hana, er engi von á, at ek vili sættum taka; skulu [vèr ok reyna þegar í stað, hvorir stærst kunna at höggva[1]. Hèðinn svarar: hitt er ráð, ef þú villt ekki annat, enn berjast, at við reynum tveir með okkr, þvíat hèr áttu við aungvan mann sakir, nema við mik, dugir þat eigi, at ómakligir menn gjaldi glæpa minna ok illgerða. Fylgdarmenn þeirra svöruðu allir sem eins munni, at þeir skyldu fyrr[2] falla hverr á fætr öðrum, [heldr enn þeir næði höggum við at[3] skiptast. En er Hèðinn sá, at Högni vildi ekki annat, enn berjast, þá bað hann sína menn á land gánga: skal ek eigi lengr bila við Högna, nè biðjast undan bardaga, ok dugi nú hverr eptir drengmennsku! Gánga þeir nú á land ok berjast, er Högni allæfr, en Hèðinn bæði vopnfimr ok stórhöggr. Þat er með sannendum sagt, at svâ mikil atkvæði ok illska[4] fylgdi þessum álögum[5], at þóat þeir klyf-

1) við ok berjast í stað, ok allt lið með okkr, *R.* 2) hverr, *R.* 3) ef þeir skildu vopnum við, *R.* 4) álög, *R.* 5) bardaga, *R.*

ist í herðar niðr, þá stóðu þeir upp sem áðr, ok börðust. Hildr sat í einum[1] lundi, ok sá uppá þenna leik. Þessi armæða ok ánauð gekk alla stund, frá því, er þeir tóku til at berjast, ok framan til þess, er Ólafr Tryggvason varð konúngr at Noregi. Segja menn, at þat væri [fjórtán tígir ára ok þrjú[2] ár, áðr enn þessum ágæta manni, Ólafi konúngi, yrði þat lagit, at hans hirðmaðr leysti þá frá þessu aumliga áfelli ok skaðligum skapraunum.

9. Á fyrsta ári ríkis Ólafs konúngs er sagt, at hann kæmi við eyna Há, ok legði þar í lægi eitt kveld. Sá var þar vani við fyrr sagða ey, at þar hurfu hverja nátt varðmenn, svâ at eigi vissi, hvat af varð. Ívar ljómi átti vörð at halda þessa nátt. En er allir menn voru sofnaðir á skipum, tók Ívar sverðit, er átt hafði Járnskjöldr[3], en Þorsteinn, son hans, hafði gefit honum ok öll herklæði sín, ok gekk uppá eyna; en er hann er upp kominn á eyna, sá hann mann gánga ímót sèr, sá var mikill vexti ok allr blóðigr, með miklum áhyggju svip. Ívar spurði þenna mann at nafni. Hann kveðst Hèðinn heita, ok vera Hjarandason, kynjaðr utan or Serklandi: er þèr þat satt at segja, at þóat hèr hafi horfit vökumenn, at þat er mèr at kenna ok okkr Högna Hálfdánarsyni, þvíat við erum orðnir fyri svâ miklum [atkvæðum ok ánauðum[4], ok okkrir menn,

[1]) sínum, *R.* [2]) 223, *R.* [3]) á Heiðarskógi, *b. v. R.* [4]) ósköpum, *R.*

at vèr berjumst [bæði nætr ok daga[1], ok hefir þessu gengit marga mannsaldra, [en Hildr Högnadóttir sitr ok sèr uppá[2], en Óðinn[3] hefir þetta lagit á oss, ok ekki annat til undanlausnar, enn nokkr kristinn maðr [berìst við oss[4], þá skal sá eigi uppstanda, er hann drepr, ok þá er hverr sá leystr frá sinni ánauð. Nú vilda ek biðja þik, at þú færir til bardaga með oss, þvíat ek veit, at þú ert vel kristinn, svâ ok at konúngr sá, er þú þjónar, er mikillar hamíngju; [segir mèr ok svâ hugr um, at vèr munum af honum ok hans mönnum nokkut gott hljóta[5]. Ívar játtar at fara með honum. [Hèðinn varð glaðr við þat, ok mælti: þess skaltu varast, (at) gánga eigi framan at Högna, ok þess annars, at drepa mik eigi fyrr enn Högna, sakar þess, at þat er einkis mensks manns, at gánga framan at Högna, eðr drepa hann, ef ek er áðr dauðr, þvíat hann hefir ægishjálm í augum, ok hlífir aungu vætta, ok því er þat eina til, at ek gángi at honum framan, ok berjumst ek við hann, en þú gángir at baki honum, ok veitir honum banatilræði, þvíat þèr man lítit fyri verða, at bana mèr, þóat ek lifi vor allra lengst. Síðan gánga þeir til bardaga, ok sèr Ívar, at þetta er allt satt, sem Hèðinn hafði sagt honum; gengr hann at baki Högna, ok höggr í höfuð honum, ok klýfr hann

[1]) dauðir sem lifandi, *R.* [2]) svâ þat hefir verit 123 ár, *R.* [3]) konúngr, *b. v. R.* [4]) kæmi ok dræpi þá alla, *R.* [5]) *v. í R.*

í herðar niðr; fellr Högni þá dauðr, ok stóð aldrí upp síðan. Síðan drap hann þar þá menn alla, er at bardaganum voru, en síðast Hèðinn, ok varð honum lítit fyri því[1]. Síðan gekk hann til skipa, [ok var þá lýst af degi[2]; hann fór til konúngs, ok sagði honum. Konúngr lèt vel yfir verki hans, ok sagði honum giptuliga tekizt hafa. Eptir um daginn [gengu þeir[3] á land, ok þartil, sem bardaginn hafði verit, ok sá [þar aungvan stað þeirra tíðenda, er þar höfðu vorðit, en blóð sást á sverði Ívars til merkja, ok aldrí hurfu þar varðhaldsmenn síðan. Konúngr fór heim eptir þetta í ríki sitt[4].

---

1) ok gánga þeir einsaman uppá eyna Hæ brattar götur ok þröngvar, þartil hann gengr uppá einn dalsbarm, sèr hann þar til allra þeirra merkja, sem Hèðinn hafði sagt honum, var þar eigi dælligr atgángr með ópi miklu. Ivari miklast at gánga; Hèðinn hreysti hann, ok segir, honum skuli eigi skaða: er þú ok eigi þeirrar trúar, sem þeir vökumenn, er hèr hafa horfit ok fyrr um gengit, vildi þeirra liðsinni oss eigi at gagni koma; bið ek þik, at þú drepr Högna fyrst allra manna, ok svâ hvörn at öðrum. Ivar gjörði nú sem Hèðinn hafði beðit hann, ok höggr Högna fyrst, ok svâ hvörn at öðrum; en síðast gengr hann at Hèðni, ok klýfr hann í herðar niðr; en þá hann kemr at lundi þeim, sem Hildr átti at vera í, var hún í burtu horfin, *R.* 2) *v. í R.* 3) gekk konúngr, *R.* 4) hann mikil merki, ok þótti konúngi undarligt. Konúngr fór til skipa aptr, ok heim til Noregs, settist at sínu ríki; ok lýkr hèr þessari sögu, *R.*

---

## Hèr hefr upp Hervarar sögu ok Heiðreks konúngs[1].

SVA finnst skrifat í fornum bókum, at Álfheimar[2] voru kallaðir norðr í[3] Gandvík, en Ýmisland fyri sunnan í milli Hálogalands. En áðr enn Tyrkjar ok Asíamenn komu í Norðrlönd, bygðu Norðrálfuna[4] risar ok[5] hálfrisar; gjörðist þá mikit sambland þjóðanna; risar fengu sèr kvenna or Mannheimum, en sumir giptu þángat dætr sínar. Goðmundr hèt konúngr[6] í Jötunheimum; bær hans hèt á Grund, en hèraðit Glæsisvellir; hann var ríkr maðr, ok var svâ gamall ok allir hans menn, at þeir lifðu marga mannsaldra, ok því trúðu heiðnir menn, at í hans ríki mundi Ódáins-akr vera; sá staðr er hvörjum manni svâ heilnæmr, er þar kemr, at af honum hverfr sótt ok elli, ok má engi deyja. Svâ er sagt, at eptir dauða Goðmundar blótuðu menn hann, ok kölluðu goð sitt. Goðmundr konúngr átti son þann, er Höfundr hèt; hann var bæði forspárr ok spakr at viti; hann var settr dóm-

---

1) Sagan af Heiðreki konúngi ok hans ættmönnum, *A*; Hervarar þáttr hinn gamli finnst svâ skrifaðr, sem hèr fylgir, *J*.
2) Jötunheimar, *J*. 3) um, *J*. 4) Norðrálfurnar, *J*. 5) sumt, *b. v. J*. 6) höfðíngi, *J*.

ari yfir öll þau lönd, er honum láu í nánd; hann dæmdi aldrí rángan dóm, enginn þorði nè þurfti hans dóm at rjúfa. Maðr hèt Arngrímr, hann var risi ok bergbúi; hann nam or Ýmislandi Ámu Ýmisdóttur, ok gekk at eiga hana; son þeirra var Hergrímr, er kallaðr var hálftröll; hann var stundum með bergrisum, en stundum með mönnum; hann hafði afl sem jötnar; hann var allfjölkunnugr ok berserkr mikill; hann nam or Jötunheimum Ögn Álfasprengi, ok gekk at eiga hana; þau áttu þann son, er Grímr[1] hèt. [Sá maðr bjó þá við Ölfossu, er Starkaðr hèt[2]; hann var kominn af þussum, hann var þeim ok líkr at afli ok eðli; Störkviðr[3] hèt faðir hans. Ögn Álfasprengi var festarmey Starkaðs, en Hergrímr tók hana frá honum, þá Starkaðr var farinn norðr yfir Elivoga; en er hann kom aptr, skoraði hann á Hergrím til konunnar, ok þarmeð hólmgaungu. Þeir börðust við enn efsta foss at Eyði. Starkaðr hafði 8 hendr, ok vó með fjórum sverðum í senn; fèkk hann þar sigr, en Hergrímr fell. Ögn sá á hólmgaungu þeirra; ok er Hergrímr var fallinn, lagði Ögn sik með sverði ígegnum, ok vildi ekki giptast Starkaði. Starkaðr tók nú fè allt undir sik, er Hergrímr hafði átt, ok hafði með sèr, ok svâ son hans Grím, óx hann upp með Starkaði. Grímr var bæði mikill ok sterkr,

[1]) Gunnar, J. [2]) hana hafði fyrr Starkaðr Aladrengr, (sem) bjó þá við Alufossa, J. [3]) Stórvirkr, J.

er honum óx aldr. Álfr hèt konúngr, er rèð fyrir Álfheimum; Álfhildr hèt dóttir hans. Álfheimar hètu þá á milli Gautelfar ok Raumelfar. Eitt haust var gjört dísablót mikit hjá Álfi konúngi, ok gekk Álfhildr at blótinu; hún var hvörri konu fegri, ok allt fólk í Álfheimum var fríðara at sjá, enn annat fólk því samtíða; en um nóttina, er hún rauð hörgin, nam Starkaðr Áludrengr Álfhildi á burt, ok hafði hana heim með sèr. Álfr konúngr hèt þá á Þór, at leita eptir Álfhildi; en síðan drap Þór Starkað, ok lèt Álfhildi fara heim til föður síns, ok með henni Grím, son Hergríms. Ok þá er Grímr var 12 vetra, fór hann í hernað, ok varð hinn mesti hermaðr, ok fèkk hann Baug gerðar, dóttur Álfhildar ok Starkaðs. Grímr fèkk sèr bústað á ey þeirri á Hálogalandi, er Bólm hèt, ok var síðan kallaðr Eygrímr Bólmr. [Son þeirra hèt Arngrímr berserkr, er síðan bjó í Bólmi[1], ok var hinn ágætasti hermaðr.

2. Þessu samtíða komu austan Asíamenn ok Tyrkjar, ok bygðu Norðrlöndin; Óðinn hèt formaðr þeirra; hann átti marga syni, urðu þeir allir miklir menn ok sterkir[2]. Einn hans son hèt Sigrlami; honum fèkk Óðinn þat ríki, sem nú er kallat Garðaríki, gjörðist hann þar höfðíngi mikill yfir því ríki; hann var manna fríðastr sýnum. Sigrlami átti Heiði, dóttur Gylfa konúngs[3]; þau áttu son saman, sá hèt

[1]) *þannig b. v. J; v. í A.* [2]) ríkir, *J.* [3]) *v. í J.*

Svafrlami. Sigrlami fèll í orrostu, er hann barðist við jötun Þjassa. Nú sem Svafrlami frètti fall föður síns, tók hann undir sik ríki þat allt til forráða, sem faðir hans hafði átt; hann varð ríkr maðr. Þat barst at einn tíma, at Svafrlami konúngr reið á veiðarskóg, ok sókti hjört einn lengi, ok náði eigi at öðrum[1] degi, fyrr enn á sólarfalli; hann var þá riðinn svâ lángt í skóginn, at hann vissi varla, hvat [af honum var[2]. Hann sá stein einn mikinn um sólarsetr, ok þar hjá dverga tvo; konúngr vígði þá utan steins með málajárni; hann brá sverði yfir þá. Þeir báðu þá fjörlausnar. Svafrlami spyrr þá at nafni. Annar nefndist Dýrinn[3], en annar Dvalinn. Svafrlami veit, at þeir eru allra dverga hagastir; hann leggr þat á[4] þá, at þeir gjöri honum sverð, sem bezt kunnu þeir, þar skulu hjölt af gulli ok svâ meðalkafli; búa skulu þeir umgjörð, ok fella af gulli; hann segir, at sverðit skal aldrí bila ok aldrí við ryði taka, ok bíti jafnt járn ok steina, sem klæði, ok fylgi sigr í orrostum öllum ok einvígum, hvörr sem bæri; þetta voru fjörlausnir þeirra. Á stefnudegi kom Svafrlami til steinsins; fengu dvergar honum sverð sitt, ok var þat hit fríðasta. En er Dvalinn stóð í steinsdyrum, þá mælti hann: sverð þitt, Svafrlami! verði mannsbani í hvört sinn, er brugðit er, ok með því sverði sè

1) á öllum, J. 2) heim var, J. 3) Dúrinn, J. 4) fyrir, J.

unnin 3 níðíngsverk hin mestu, þat verði ok þinn bani! Þá hjó Svafrlami[1] til dvergsins, ok fal eggteinana í steininum, en dvergrinn hljóp í steininn. Svafrlami átti þetta sverð, ok kallaði Tyrfíng, bar hann þat í orrostum ok einvígum; hann feldi jötun Þjassa í einvígi, [sinn föðurbana[2], en tók dóttur hans, þá er Fríðr hèt, ok átti hana síðan. Þau áttu dóttur, er Eyvöra[3] hèt, kvenna vænst ok vitrust.

3. Nú er þar til at taka, at Arngrímr berserkr er í víkíng, ok rèði þá fyri liði miklu; hann herjar á ríki Svafrlama, ok átti við hann orrostu ok höggva viðskipti. [Arngrímr hafði aftaks-skjöld mikinn, settan stórum járnslám. Svafrlami hjó í skjöldinn, ok sneiddi hann niðr ígegnum[4], ok nam sverðit í jörðu stað. Þá sveiflaði Arngrímr sverðinu á hönd Svafrlama, svâ af tók; tók Arngrímr þá Tyrfíng, ok [hjó til Svafrlama, ok klauf hann at endilaungu, en sverðit nam í jörðu staðar[5]. Síðan tók Arngrímr þar herfáng mikit ok Eyvöru, dóttur Svafrlama, ok hafði í burt með sèr. Arngrímr fór þá heim í Bólm, ok gjörði brúðkaup til Eyvarar. Þau áttu 12 sonu: Ángantýr var elztr, annar Hervarðr, þriði Semíngr, fjórði Hjörvarðr, fimti Brani[6], sjötti Brami, sjöundi Barri[7], áttundi Reytnir[8], níundi Tindr, tíundi Búi, ellefti ok

1) sverðinn, *b. v. J.* 2) *v. í J.* 3) Eyfura, *allstaðar J.* 4) hjó Svafrlami hlut af skildi Arngríms, *J.* 5) vó með, ok feldi Svafrlama með honum, *J.* 6) Hrani, *J.* 7) Bori, *J.* 8) Reifnir, *J.*

tólfti Haddíngjar, ok unnu þeir báðir verk eins hinna[1], en Ángantýr vann tveggja verk; hann var höfði hærri, enn þeir[2] aðrir; allir voru þeir miklir berserkir. [Fóru þeir í hernað þegar á únga aldri, ok herjuðu víða um lönd, ok fundu aungva sína jafníngja til afls ok áræðis, gjörðust þeir af því nafnfrægir mjök ok sigrsælir; eigi voru þeir fleiri saman á skipi, enn þeir 12 bræðr, höfðu þeir þó opt fleiri skip í hernaði. Faðir þeirra hafði tekit í hernaði þau ágætustu vopn, þar er hann hafði barizt; eignaðist[3] Ángantýr Tyrfíng, Hervarðr Hrotta, Semíngr Mistiltein; [þann sókti Þráinn síðan í haug hans[4]. Allir höfðu þeir ágæt hólmsverð bræðr. Þat var siðvenja þeirra, ef þeir voru með sínum mönnum einum, er þeir fundu at berserksgángr fór at þeim, at þeir gengu á land upp ok brutust við stóra steina eðr skóga, því þeim hafði þat at voða orðit, at þeir höfðu drepit sína menn[5], þá berserksgángr fór at þeim. [Aldrei komu þeir þar til orrostu, at eigi hefðu þeir sigr[6]; af þessu gengu af þeim stórar sögur. [Enginn konúngr var sá, at eigi gæfi þeim þat þeir vildu hafa, heldr enn líða yfirgáng þeirra, liðu svâ fram tímar, at þeir voru í hern-

[1]) manns, *J.* [2]) *v. í J.* [3]) ok umfram alla berserki at afli ok áræði; ok er þeir fóru at herja, þá höfðu þeir ekki fleiri menn á skipi sínu, enn þeir bræðr tólf voru á skipi; höfðu þeir opt fleiri skip haft í sinni ferð; þeir fóru víða um lönd at herja, ok voru allir sigrsælir, ok urðu hinir frægustu, hafði, J. [4]) *v. í J.* [5]) ok hroðit skip sín, *b. v. J.* [6]) *v. í J.*

aði á sumrum, en á vetrum sátu þeir heima í Bólmey með föður sínum[1].

4. Þat bar til tíðenda einn jólaaptan í Bólmey, at menn skyldu heit strengja at Bragar fulli. Þá strengdu heit Arngríms synir[2]; Hjörvarðr strengdi þess heit, at hann skyldi eiga

[1]) *v. í J.* [2]) o. s. frv., *b. v. J. sem hèr endar frásögnina þannig, samhljóða A, en byrjar af nýu:* Söguþátt af Heiðreki konúngi ok hans ættmönnum, *eins og M, með svá látandi frásögn, sama höfuðinnihalds, sem annar og þriði kap. þannig:* Sigurlami hèt konúngr, er rèð fyri Garðaríki; hans dóttir var Eyfura, er allra meyja var fríðust; þessi konúngr hafði eignazt sverð þat af dvergum, er Tyrfíngr hèt, ok allra sverða var bitrast; ok hvert sinn, er því var brugðit, þá lýsti af, svà sem af sólargeizla; aldre mátti hann svà beran hafa, at eigi yrði hann mannsbani, ok með vörmu blóði skyldi hann jafnan slíðra, en ekki var þat kvikt, hvorki menn nè kvikindi, er lifa mætti til annars dags, ef sár fèkk af honum, hvort sem var meira eða minna; aldre hafði hann brugðizt í höggi, eðr staðar numit, fyrr enn hann kom í jörð, ok sá maðr, er hann bar í orrostu, mundi sigr fá, ef honum var vegit; þetta sverð er frægt í öllum fornsögum. Maðr hèt Arngrímr; hann var víkíngr ágætr; hann sókti austr í Garðaríki, ok dvaldist um hríð með Sigrlama konúngi, ok gjörðist forstjóri fyri liði hans, bæði lands at gæta ok þegna, þvíat konúngr var gamall. Arngrimr gjörðist nú svâ mikill höfðíngi, at konúngr gipti honum dóttur sína, ok setti hann mestan mann í ríki sinu; hann gaf honum þá sverðit Tyrfíng. Konúngr settist þá um kyrt, ok er ekki frá honum sagt fleira. Arngrímr fór með konu sinni Eyfuru norðr til ættleifðar sinnar, ok nam staðar í ey þeirri, er Bólmr (Hólmr, *M.*) hèt; þau áttu 12 sonu; enn elzti ok ágætasti hèt Angantýr, 2ar Hjörvarðr, 3ði Hervarðr, 4ði Hrani ok Haddíngjar 2, eru eigi nefndir fleiri. Allir voru þeir berserkir svâ sterkir, ok miklir kappar, at aldrí vildu þeir fleiri fara í hernað, enn 12, ok kvomu þeir aldrei svâ til orrostu, at eigi hefði þeir sigr. Af þessu urðu þeir ágætir um öll lönd, ok engi konúngr var sá, er eigi gæfi þeim þat, er þeir vildu hafa. Þat var tíðenda eitthvört sinn. jólaaptan, at menn skyldu heit strengja at Bragar fulli, sem siðr er til; þá strengdu heit Arngríms synir.

þá mey, er Íngibjörg hèt, dóttur Ýngva[1] Svía konúngs [at Uppsölum[2], sem frægð vann um öll lönd at fegurð ok atgjörfi, en aungva konu ella. Þat sama vor gjöra þeir bræðr ferð sína[3] til Uppsala, ok gánga fyri konúngs borð, sat dóttir hans hjá honum. Þá sagði Hjörvarðr konúngi heitstrengíng sína ok eyrendi; en allir hlýddu, er inni voru. Hjörvarðr biðr konúng at segja sèr skjótt, hvort eyrendi hann skal þángat eiga. Konúngr hugsar þetta mál, ok veit, hvörsu miklir þeir bræðr eru fyri sèr, ok af ágætu kyni komnir. Í því bili stígr fram fyri[4] borðit sá maðr, er Hjálmar hèt enn hugum-stóri, ok mælti til konúngs: minnist þèr, herra! hvörsu mikinn sóma ek hefi yðr veitt, síðan ek kom í þetta land, [þar ek hefi aukit yðar ríki til helmínga, ok haldit hèr landvörn, þarmeð borit á yðvart vald enu beztu gripi or hernaði, ok hèr á ofan[5] látit yðr heimila mína þjónustu; nú bið ek yðr, at þèr veitið mèr til sæmdar, ok gefið mèr dóttur yðar, er minn hugr hefir jafnan áleikit, ok er þat makligra, at þèr veitið mèr þessa bón, heldr enn berserknum[6], er íllt eitt hefir[7] gjört bæði í yðar ríki ok margra annarra konúnga. Nú hugsar konúngr hálfu meirr, ok þikkir nú þetta mikit

---

[1]) Ingjalds, *J*, *M*; *en J hefir á spáziunni þetta:* Exemplar membranaceum habet: Ingva konúngs at Uppsölum, þá mey, er fegurst var ok vitrust á Danska túngu, eðr falla dauðr öðrum kosti, ok eiga öngva konu aðra, etc. [2]) *v. í J*, *M*. [3]) tólf, *b. v. J*, *M*. [4]) yfir konúngs, *J*, *M*. [5]) ok hvorsu margar orrostur ek átta, at vinna ríki undir yðr, ok hefi ek, *J*, *M*. [6]) berserkjunum, *J*, *M*. [7]) hafa, *J*, *M*.

vandamál, er þessir 2 höfðíngjar keppa svâ mikit um dóttur hans. Konúngr svarar á þessa leið: hvorrtveggi sá er svâ mikill mann ok vel borinn[1], at hvorigum vill hann synja mægða, ok biðr hana kjósa, hvorn hún vill eiga. Hún svarar, at þat er jafnt, ef faðir hennar vill gipta hana, þá vill hún þann eiga, er henni er kunnigr at góðu, en eigi hinn, er hún hefir sögur einar af, ok allar illar, sem er frá Arngríms sonum. Ok er Hjörvarðr heyrði orð hennar, bauð hann Hjálmari hólmgaungu suðr í Sámsey, ok bað hann vera hvörs manns níðíng, ef hann gengr fyrr at eiga frúna, enn þetta einvígi væri reynt; en Hjálmar kveðr sik ekki dvelja; [var þegar ákveðin með þeim hólmstefnu tími[2]. Fóru nú Arngríms synir heim, ok sögðu föður sínum sitt eyrendi [ok einvígi[3]. Arngrímr svarar: aldrei hefi ek fyrr, enn nú, óttast um yðar ferðir, [því at hvorgi veit ek Hjálmars maka vera at hreysti ok harðfengi, fylgir honum ok einninn sá kappi, er honum gengr nærst til afls ok áræðis; lètta þeir nú svâ sínu tali[4].

5. [Jarl sá rèð fyrir Aldeigjuborg, er Bjartmar hèt, hann var ríkr mjök, ok bardagamaðr mikill; jarl var mikill vin Arngríms sona, ok höfðu þeir þar friðland jafnan[5]. Nú fara þeir bræðr á fund Bjartmars[6] jarls, ok gjörir hann þegar ímóti þeim veizlu mikla; at þeirri

[1]) ættborinn, *J*, *M*. [2]) *v. í J*, *M*. [3]) *v. í J*, *M*. [4]) *v. í J*, *M*. [5]) *v. í J*, *M*. [6]) Bjarmars, *allstaðar*, *J*, *M*.

veizlu bað Ángantýr dóttur jarls, er Svafa hèt, ok var [þat auðsótt; var þegar aukin veizlan ok[1] drukkit brullaup þeirra, [stóð hófit í hálfan mánuð[2]; [ok at þeirri veizlu er leidd í eina rekkju Ángantýr ok Svafa, dóttir Bjartmars jarls. En er veizluna þverrar, byrja Arngríms synir ferð sína til Sámseyjar; ok þá síðurstu nótt, áðr þeir fóru, dreymdi Ángantýr draum[3]; ok nú segir Ángantýr jarli draum sinn: mèr þótti, segir hann, vèr bræðr staddir í Sámsey, ok fundum þar fugla marga, ok drápum þá alla; síðan þótti mèr vèr snúa annann veg á eyna, ok flugu ámóti oss ernir 2, ok þóttumst ek eiga við annann hörð viðskipti, settumst við niðr báðir, áðr enn linnti[4]; en annar örninn átti við bræðr mína, ok þótti mèr [hann öllum[5] efri verða. Jarl svarar: svoddan draum þarf eigi at ráða; er þèr þar sýnt fall nokkurra[6] manna, [ok ætla ek stappi nærri yðr bræðrum; þeir kváðust því eigi kvíða mundu. Jarlinn mælti: allir fara, þá feigðin kallar; ok lyktast síðan tal með þeim. At enduðu þessu hófi, snúa þeir bræðr heim, en Svafa sat eptir með jarli[7]; búast þeir nú til hólmstefnunnar, ok leiðir faðir þeirra þá til skips, ok gaf [þeim öllum góð herklæði[8]: hygg ek, sagði hann, nú muni þörf vera góðra

1) *v. í J, M.* 2) *v. í J, M.* 3) *þannig V; v. í hin.* 4) lètti, *J, M.* 5) örninn, *J, M.* 6) ríkra, *M.* 7) En er þeir Hjörvarðr koma heim, *J, M.* 8) þá sverðit Tyrfíng Angantýr, *J, M.*

vopna, því þèr berìst við þá fræknustu fullhuga; síðan skilja þeir, ok biðr hann þá vel fara. Sigla þeir nú, unz þeir koma til Sámseyjar, ok [tóku höfn í Munarvogi; ok er þeir bræðr gengu uppá eyna, kom at þeim berserksgángr, brutust þeir þá við skóginn at vanda sínum. En frá Hjálmari er þat at segja, at hann lendti skipum sínum hinumegin Sámseyjar í höfn þeirri, er Unavogr heitir; hafði hann 2 skip, ok hètu bæði askar, ok hundrað manns á hvörju hinna vöskustu drengja. Þeir bræðr sjá nú skipin, ok[1] þóttust vita, at Hjálmar mundi eiga, ok Oddr hinn víðförli, er kallaðr var Örvar-Oddr. Brugðu þá Arngríms synir sverðum, ok bitu í skjaldar rendrnar[2]; snèru þeir nú til skipanna, ok gengu 6 útá hvorn askinn, en þar voru svâ góðir drengir fyrir, at allir tóku sín vopn, ok enginn flýði or sínu rúmi, eða mælti æðruorð. Berserkirnir gengu með öðru borði fram, en öðru aptr, ok drápu hvört mannsbarn; síðan gengu þeir á land grenjandi. [Þá mælti Hjörvarðr: elliglöp stríða nú á Arngrím, föður vorn, er hann sagði oss, at þeir Hjálmar ok Oddr væri hinir hraustustu kappar, en nú sá ek aungvan duga öðrum framarr. Ángantýr svarar: sökumst eigi um þat, þó vèr eigi findum vora maka, má ok ske, at þeir Oddr ok Hjálmar sèu enn eigi dauðir[3]. Nú er at segja frá Hjálmari ok Oddi, at þeir höfðu

[1]) sjá þeir, hvar 2 skip liggja í höfn þeirri, er Unavogr (Munarvogr, *J.*) heitir; þau skip hètu askar, þeir, *J*, *M.* [2]) ok kom á þá berserksgángr, *b. v. J*, *M.* [3]) *v. í hin.*

gengit uppá eyna, at vita, ef berserkirnir væri komnir; ok er þeir komu fram úr skóginum, þá gengu Arngríms synir á land af skipum þeirra með blóðugum vopnum ok brugðnum sverðum; var þá af þeim berserksgángrinn, ok þá voru þeir máttminni þess á milli, sem eptir nokkurs kyns sóttir. Oddr kvað:

Þá var[1] ótti
einu sinni,
er þeir grenjandi
gengu af öskum,
[ok emjandi
á ey stigu[2],
týrarlausir
ok[3] voru 12 saman.

Hjálmar mælti: þat sèr þú, at fallnir eru menn okkrir, ok sýnist mèr líkast, at vèr munum allir Óðinn gista í Valhöll í kvöld; þat eitt æðruorð mælti Hjálmar. Oddr svarar: [eigi hefi ek slíka fjandr litit, ok[4] mundi þat mitt ráð, at við flýðum undan á skóg, munum við ekki megna 2 at berjast við þá 12, er drepit hafa 12 hina fræknustu menn í Svíaveldi[5]. Þá mælti Hjálmar: flýjum vèr aldrí undan óvinum okkrum, þolum heldr vopn þeirra, ok fara vil ek at berjast við berserkina. Oddr segir: ekki mun ek gista Óðinn í kvöld, ok munu þessir allir dauðir, áðr kvöld komi, en við 2 lifa.

1) mèr, *b. v. M.* 2) *v. í J, M.* 3) *v. í J, M.* 4) *v. í J, M.* 5) Svíaríki, *J, M.*

þetta viðrmæli þeirra sanna vísur þessar, er Hjálmar kvað:

Fara halir hraustir
af herskipum,
tólf menn saman
týrarlausir;
við munum í aptan
Óðinn gista
tveir fullhugar[1],
en þeir tólf lifa.

Oddr svarar:

því mun ek orði
andsvar veita:
þeir munu í aptan
Óðinn gista
tólf berserkir,
en við tveir lifa[2].

þeir Hjálmar sjá, at Ángantýr hefir Tyrfíng í hendinni, þvíat lýsti af honum, sem sólargeisla. Hjálmar mælti: hvort viltu heldr eiga við Ángantýr einn, eða við bræðr hans 11? Oddr svarar: ek vil berjast við Ángantýr, hann mun gefa stór högg með Tyrfíngi, en ek trúi betr skyrtu minni, enn brynju þinni til hlífðar. Hjálmar mælti: hvar kvâmu við þar til orrostu, at þú gengir fram

[1]) *þannig leiðrètt í A*; berserkir, *J. M.* [2]) Nú mælti Oddr: tveir eru kostir fyrir höndum: at flýja í skóginn, eða bíða, ok verja hendr vorar. þá kvað Hjálmar: flýjum vèr aldrei fyrir herjendum okkrum, þó nokkut údælir þikki. Berserkirnir sóktu nú á móti þeim með brugðnum sverðum, voru alblóðugir, ok einn var höfði hærri enn aðrir, *b. v. V.*

fyri mik; viltu því berjast við Ángantýr, at þèr þikkir þat meira þrekvirki; nú em ek höfuðsmaðr þessarar hólmgaungu, [ok þarmeð konúngborinn til ríkis, á ek því at ráða fyrir okkur[1]; hèt ek öðru konúngsdóttur heima í Svíþjóðu, enn láta þik, eðr annann, gánga í þetta einvígi fyri mik, ok skal ek berjast við Ángantýr. [Oddr kvað hann kjósa þat verr gengdi, varð þó svâ at vera, sem Hjálmar vildi[2]; brá hann þá sverðinu, ok gekk fram ímóti Ángantýr, vísaði þá hvorr öðrum til Valhallar. Ángantýr mælti: þat vil ek, sagði hann, at ef nokkr vor kemst á burt hèðan, þá skal enginn annann ræna at vopnum, ok vil ek hafa Tyrfíng í haug með mèr, þótt ek deyì; svâ skal Oddr hafa skyrtu sína, en Hjálmar hervopn, ok svâ viðskilja, at þeir skulu verpa haug eptir hina, er lifa. Síðan gánga þeir Hjálmar ok Ángantýr saman, ok berjast með hinum mesta ákafa, var þar hvorigum um sókn nè vörn at frýja; hjuggu þeir bæði hart ok tíðum, ok óðu jörðina at knjám; var því líkast, sem logandi bál, er stálin mættust; gáir nú hvorigr annars, enn höggva sem tíðast, en landit skalf, sem á þræði lèki, af sameign þeirra; börðust þeir svâ lengi, þartil hlífar þeirra tóku at höggvast; veitti þá hvorr öðrum stór sár ok mörg; en svâ mikill reykr gaus af nösum þeirra ok munni, sem ofn brynni; hefir Oddr svâ sagt síðan, at aldrí mundi sjást her-

1) *v. í J, M.* 2) *v. í J, M.*

mannligri sókn eða fegri vopn, enn í því einvígi, er þat ok frægt víða í sögnum, at fáir muni frægri fundizt hafa, eðr drengiligar barizt. Ok er þeir Oddr höfðu lengi hèr á horft, gengu þeir í annann stað, ok bjuggust til bardaga. Oddr mælti til berserkjanna: þèr munuð vilja hafa hermanna sið, en eigi þræla, ok skal einn yðarr berjast við mik um sinn, en eigi fleiri, svâ framt sem yðr bilar eigi hugr; þeir játa því. Gekk þá fram Hjörvarðr; en Oddr snèri honum ímóti; hafði Oddr svâ gott sverð, at þat beit svâ vel stál, sem klæði; síðan hófu þeir sitt einvígi með stórum höggum, ok var eigi lángt, áðr enn Hjörvarðr fèll dauðr til jarðar; en er hinir sáu þat, afmynduðust þeir ákafliga, ok gnöguðu í skjaldar rendrnar, en froða gaus úr kjapti þeim. Þá stóð upp Hervarðr, ok sókti at Oddi; ok fór sem fyrr, at hann fèll dauðr niðr. Við þessi atvik eyskraði sút í berserkjunum, rèttu út túngurnar, ok urguðu saman tönnunum, öskrandi sem blótneyti, svâ buldi í hömrunum. Óð þá fram Semíngr; hann var þeirra 11 mestr, ok gekk nærst Ángantýr; sókti hann svâ fast at Oddi, at hann hafði nóg at verjast fyrir honum; börðust þeir svâ lengi, at eigi mátti í milli sjá, hvorr sigrast mundi; hjuggust af þeim allar hlífar; en skyrtan dugði svâ Oddi, at hann sakaði eigi; bárust þá sár á Semíng, ok gaf hann sik eigi við þat, fyrr enn nær var höggvit allt hold hans af beinunum, sá Oddr hvörgi óblóðugan stað á honum;

ok er blóð hans var allt úr æðum runnit, fèll hann með mikilli hreysti, ok var þegar dauðr. Síðan stóð upp hvörr af öðrum, en svâ lauk, at Oddr feldi þá alla; var hann þá ákafliga móðr, en ekki sárr. Snýr hann síðan þángat til, sem þeir Ángantýr ok Hjálmar höfðu barizt; var Ángantýr þá fallinn, en Hjálmar sat við þúfu eina, ok var fölr sem nárr[1]. Oddr gekk at honum, ok kvað:

Hvat er þèr? Hjálmar!
hefir þú lit brugðit,
þik kveð ek mæða
margar undir;
hjálmr þinn er höggvinn
ok [á hlið[2] brynja,
nú tel[3] ek fjörvi
ok farit þínu.

---

1) *I stað þess undanfarna frá:* Angantýr mælti: þat vil ek, *o. s. fr.*, *hafa J, M. þannig:* snúast þeir ímóti, Hjálmar ok Angantýr, ok láta skamt stórra höggva á millí. Oddr kallar á berserkína, ok kvað:

Einn skal við einn eiga, hvatra drengja,
nema sè deigr, eða hugr bili.

þá gekk fram Hjörvarðr, ok áttust þeir Oddr við hart vopnaskipti, en silkiskyrta Odds var svà traust, at ekki festi vopn á, en hann hafði sverð svâ gott, at svà beit brynju sem klæði; ok fá högg hafði hann veitt Hjörvarði, áðr hann fèll dauðr. þá gekk til Hervarðr, ok fór sömu leið; þá Hrani, þá hverr at öðrum; en Oddr veitti þá svà harða atsókn, at alla feldi hann þá 11 bræðr. En frá leik þeirra Hjálmars er þat at segja, at hann fèkk 16 sár, en Angantýr fèll dauðr. Oddr gekk þar til, er Hjálmar var, ok kvað; *V segir nærstum eins frá, en hefir vísuna þannig:* Einn skal við einn orrostu heyja, *o. s. fr.* 2) in síða., *J, M.* 3) kveð, *J, M.*

Hjálmar kvað:

Sár hefi ek sextán,
slitna brynju,
svart er mèr fyri sjónum,
sèkat ek gánga;
hneyt mèr við hjarta
hjörr Ángantýrs,
hvass blóðrefill,
herðr í eitri.

Ok enn kvað hann:

Áttak at fullu
[fimm tún[1] saman,
en ek því aldrí
unda ráði;
nú verð ek liggja
lífs andvani,
sverði sundraðr,
Sáms í eyju.

Drekka í höllu
húskarlar mjöð,
[menn mjök[2] göfgir,
at míns föður;
mæðir marga
munngát firða[3],
en mik eggja spor
í eyju þjá.

Hvarf ek frá hvítri
[hlaðbeðs gunni[4]

---

[1]) *þannig J, M;* 15 bú, *A.* [2]) menjum, *J, M.* [3]) fenja, *J, M.* [4]) hlaðs beð gúngi, *J, M.*

á Agnafit
utanverðri;
saga mun sannast,
er hún sagði mèr,
at aptr koma
eigi munda ek.

Drag þú mèr af hendi
hrínginn rauða,
ok fær hinni úngu
Íngibjörgu!
sá mun henni
hugfastr tregi,
er ek eigi kem
til Uppsala.

Hvarf ek frá fögrum
fljóða saungi,
ótrauðr gamans,
austr[1] með[2] Sóta;
för skundað' ek,
ok fórk í lið
fyrsta[3] sinni
frá hollvinum.

Hrafn flýgr austan
af há[4] meiði,
ok[5] eptir honum
örn í sinni;
þeim gef ek erni

[1]) *þannig J, M;* traustr, *A.* [2]) við, *J, M.* [3]) hinnsta, *J, M.* [4]) hám, *M;* háfa, *J.* [5]) flýgr, *J, M.*

efstum bráðir,
sá mun á blóði
bergja mínu.

Eptir þat dó Hjálmar. [Oddr var þar um nóttina; um morguninn bar hann saman alla berserkina, ok tók síðan til haugagjörðar; roðuðu eyjarskeggjar saman stórar eykr eptir fyrisögn Odds, ok jusu síðan yfir grjóti ok sandi, var þat mikit þrekvirki ok traust gjört; var Oddr at þeirri yðju í hálfan mánuð; síðan lagði hann þar í berserkina með vopnum þeirra, ok byrgði síðan aptr haugana. Þessu nærst tók Oddr Hjálmar, ok bar hann á skip út, ok flutti heim til Svíþjóðar, segjandi þessi tíðendi konúngi ok dóttur hans; fèkk henni svå mikils fall Hjálmars, at hún sprakk þegar af harmi, ok voru þau Hjálmar í einn haug lagin, ok drukkit erfi eptir þau. Dvaldist Oddr þar um hríð, ok er hann úr sögunni[1].

6. [Nú víkr sögunni til Bjartmars jarls, at sem hann frètti fall Arngríms sona, þótti honum þat mikill skaði. Svafa, dóttir hans, var þá með barni; hún harmaði mjök fall Angantýrs, bónda síns, en jarl huggaði hana jafnan; en er stundir liðu fram, fæddi hún meybarn mikit ok fríðt, ok bað þess margr, at þat væri

[1]) Oddr segir þessi tídendi heim í Svíþjóð; en konúngs dóttir má eigi lifa eptir hann, ok ræðr sèr sjálf bana. Angantýr ok bræðr hans voru lagðir í haug í Sámsey með öllum vopnum sínum, *J, M.*

af dögum ráðit, ok kváðu varla kynni kvenna skap í verða. Bjartmar leit á meyjuna, ok kvaðst vona, at betr gegndi, at hún næði lífi at halda; er mèr skildt at stoða Arngríms sonu eptir megni, sagði hann; mun sú raun á verða, ef hún kemst til aldrs, at Arngríms synir sèu eigi með öllu dauðir, þvíat ek hygg, at af henni muni fæðast stórar ættir ok göfugmenni[1]; var hún síðan vatni ausin, ok kölluð Hervör. Hún fæddist upp með jarli, ok var sterk sem karlmenn; ok sem hún mátti sèr nokkut, samdist[2] hún meirr skoti, skildi ok sverði, enn við sauma ok borða; hún gjörði ok optarr íllt, enn gott; en er [jarlinn fann at slíku[3], hljóp hún á skóga, [ok gjörði sèr þar skála[4], ok drap menn til fjar sèr. Ok er jarl spyrr til þessa[5], fór hann á skóg með liði sínu, ok tók Hervöru [höndum; varð hún þó áðr margs manns bani í liði hans[6]; hafði jarl hana heim með sèr, ok dvaldist hún með honum um hríð. Þat var eitt sinn, at Hervör var úti stödd þar, er þrælar nokkrir voru, ok gjörði hún þeim íllt, sem öðrum. Þá mælti þrællinn einn: Þú Hervör! villt íllt eitt gjöra, ok íls er at þèr von, ok því bannar jarl öllum at segja þèr þitt faðerni, at honum þikkir skömm ein, at þú vitir þat, þvíat [menn vita, at svínahirðir[7] lagðist með dóttur hans, ok ertu þeirra barn. Hervör varð

[1]) Dóttir Bjarmars jarls var með barni, þat var mær einkar fögur, *J, M.* [2]) tamdist, *J, M.* [3]) henni var þat bannat, þá, *J, M.* [4]) *v. í J, M.* [5]) stigamanns, *b. v. J, M.* [6]) *v. í J, M.* [7]) enn versti þræll, *J, M.*

við þessi orð afar reið, gengr þegar fyri jarlinn, ok kvað:

Áka[1] ek vorri
vegsemd hrósa,
þótt hún Froðmar[2]
fengist[3] hylla[4];
föður hugðumst ek
frægan[5] eiga,
nú er sagðr fyri mèr
svínahirðir.

Jarl kvað:

Logit er margt at þèr
lýti[6] of frètt[7],
frækinn[8] með firðum
faðir þinn taldr;
stendr Ángantýrs[9]
ausinn moldu
salr[10] í Sámsey
sunnanverðri.

Hún kvað:

Nú fýsir mik,
fóstri! at vitja
framgenginna
frænda minna;
auð mundu þeir
eiga nógan,
þann skal ek eignast[11],
nema áðr förumst.

1) *þannig J, M;* áktta, *A.* 2) Fróðmars, *J, M.* 3) fengit, *M;* fengin, *J.* 4) hylli, *J, M.* 5) fræknan, *J, M.* 6) lítil, *M.* 7) *þannig J, M;* rètt, *A.* 8) *b. v. V; v. í A, J, M.* 9) Angantýr, *J, M.* 10) halr, *J.* 11) öðlast, *J, M.*

Skal skjótliga
um skör búa
blæis lín[1],
áðr braut fari;
mikit býr í því,
er á morgun skal
skera bæði mèr
skyrtu ok ólpu.

Síðan mælti Hervör við móður sína, ok kvað:

Bú þú mik at öllu,
sem þú bráðast[2] kunnir,
sannprúð[3] kona!
sem þú son mundir;
mun fátt eitt
mèr í svefn bera,
fæ ek ekki hèr
yndis et nærsta.

7. Síðan bjóst hún í burt einsaman, ok tók sèr karlmanns gjörfi ok vopn, ok sókti þar til, er víkíngar nokkrir voru, nefndist hún þá Hjörvarðr[4]; kom hún sèr í sveit með þeim, ok tók litlu síðarr forræði liðsins. [Herjaði nú Hjörvarðr þessi víða um lönd, ok hèldt at lyktum til Sámseyjar. Ok sem víkíngar höfðu höfn tekit[5], beiddist Hjörvarðr at fara uppá eyna, ok sagði, at þar mundi vera fjár von í haugi. Allir liðmenn mæla ímóti, ok segja, at svâ

1) blæis línn, *J*; blæu líni, *M*. 2) hvata, *J*; hvatast, *M*. 3) sannfund, *rángt í J*, *M*. 4) Hervarðr, *allstaðar J*, *M*. 5) Ok er þeir komu til Sámseyjar, *J*, *M*.

miklar meinvættir gángi þar öll dægr, at þar er verra um daga, enn víða um nætr annarstaðar. En þó fèkkst þat um síðir, at akkerum var í grunn kastat, en Hjörvarðr tók sèr bát, ok rèri til lands, ok lendti í Munavogi[1], í þann tíma, er sól settist; gekk hann síðan á land upp, þar hitti hann einn mann, þann er hjörðu hèldt; sá kvað:

Hvörr ertu íta
í ey kominn?
gáktu sýsliga
gistíngar til!

[Hjörvarðr kvað[2]:

Munka'k gánga
gistíngar til,
[því ek engi kann
eyjarskeggja;
seg þú elligar,
áðr[3] skiljum[4],
hvar eru Hjörvarðs
haugar kendir.

Hann kvað:

Spyrir[5] þú at því,
spakr ert eigi,
vinr víkínga!
ertu vanfærinn[6]?
förum fráliga[7],

[1]) Munarvogi, *J*, *M*. [2]) *v. í M.* [3]) við, *b. v. J*, *M*. [4]) *Með þessum 4 stökum endar fyrri vísan ránglíga í A, J, M; eru þær því híngað færðar.* [5]) spyrjat, *J*, *M*. [6]) vanfarinn, *J*, *M*. [7]) *þannig J*, *M*; farliga, *A*.

sem fætr toga,
allt er úti[1]
á náttförum[2].

Hjörvarðr kvað:

[Þeigi hirðum[3] fælast
við þrösun slíka,
þótt um alla ey
eldar brenni;
látum okkr ei
lítit hræða
rekka slíka,
ræðumst fleira við!

Hann kvað:

Heimskr þikki mèr
sá, er hèðan ferr,
maðr einnsaman
myrkvar grímur;
hyrr [leikr um mann[4],
haugar opnast,
brennr fold ok fen,
förum harðara!

Enda tók hann þá hlaup heim til bæjar, ok skildi þar með þeim. Nú sèr Hervör þvínærst útá eyna, hvar hauga-eldarnir brenna, ok gengr hún þángat til, ok hræðist þat ekki, þótt [eldar brenni[5] á götu hennar, ok óð hún þá fram, [sem myrkva þoku[6], þartil hún kom at haugum[7]

1) víti, *J*, *M*. 2) náttfýrum, *J*; náttfirum, *M*. 3) Hirð-um eigi at, *J*, *M*. 4) er á sveimon, *J*, *M*. 5) allir haugar væri, *J*, *M*. 6) í elda þessa, sem í myrkva, *J*, *M*. 7) haugi, *J*. *M*.

berserkjanna; [snýr hún þá fram at hinum stærsta haugnum[1], ok kvað:

Vakna[2] þú, Ángantýr!
vekr þik Hervör,
einkadóttir
ykkar Svâfu[3];
seldu[4] úr haugi
hvassan mæki,
þann er Svafrlama[5]
slóu dvergar.

Hjörvarðr! Hervarðr!
Hrani! Ángantýr!
vek ek yðr alla
undir viðar rótum,
hjálmi ok brynju[6]
ok hvössu sverði,
[röndum skrýddir
ok[7] roðnum geiri.

Mjök eruð[8] orðnir,
Arngríms synir!
megin-meingjarnir[9]
at moldar auka,
[er engi[10] gjörir[11]
sona[12] Eyfuru
við mik mæla
í Munarvogi.

---

1) *v. í J, M.* 2) vaki, *J, M.* 3) Svöfu, *M;* Tófu, *J.* 4) mèr, *b. v. J.* 5) Sigrlama, *M.* 6) með brynjum, *J, M.* 7) rönd ok með, *J;* r. o. reiða, ok, *M.* 8) eru, *M.* 9) meinsamir, *J.* 10) *þannig J, M;* erfingi, *A.* 11) skal, *J.* 12) *þannig J, M;* sonar, *A.*

Hjörvarðr! Hervarðr!
Hrani! Ángantýr!
svâ sè yðr öllum
innan rifja,
sem þèr í maura
mornið haugi[1],
nema sverð selið[2],
þat er sló Dvalinn;
sæmir ei draugum
dýrt vopn bera[3].

Þá kvað Ángantýr:

Hervör dóttir!
hvat kallar þú[4] svâ
full feiknstafa,
ferr þú þèr at illu;
ær ertu orðin
ok örvita[5],
vill-hyggjandi,
vekr[6] menn dauða.

Grófat mik faðir[7],
nè frændr aðrir,
þeir höfðu Tyrfíng
tveir, er lifðu;
[varð þó[8] egandi
einn[9] um síðir.

Hún kvað:

Segir[10] þú ei[11] satt mèr[12];

1) *þannig M;* hauga, *A, J.* 2) mèr, *b. v. J.* 3) fela, *J.* 4) *v. i J, M.* 5) örviti, *M.* 6) upp, *b. v. M.* 7) niðr, *b. v. J, M.* 8) urðu, *M.* 9) enn, *M.* 10) *þannig M*; seg, *A, J.* 11) *þannig M*; enn, *A*; einn, *J.* 12) *v. i M.*

svâ láti Áss[1] þik
heilan í haugi[2],
sem þú hefir
eigi Tyrfíng;
[trauðr ertu
arf at veita
einu barni[3].

Þá opnast haugrinn, ok var at sjá, sem eldr ok logi væri um allan hauginn. Þá kvað Ángantýr:

Hnígin er helgrind[4],
haugar opnast,
allr[5] er í eldi
eybarmr[6] at sjá,
[ok allt[7] er úti
um at litast;
skyndtu, mær! ef þú mátt,
til skipa þinna.

Hún svarar:

Brennið[8] eigi svâ
bál á nóttu[9],
at ek við elda
ykkar hræðumst[10];
skelfrat meyju
munntún[11] hugar,
þótt hún draug sjái
í[12] dyrum standa.

1) oss *J, M.* 2) sitja, *b, v. M.* 3) *þannig M;* með þér, er traull veitir arfa (veita arfi, J.) þínum einar bónir, *A, J.* 4) *þannig M;* helgrund, *A, J.* 5) *þannig J;* allt, *A, M.* 6) *þannig J;* Eygríms, *A;* eygins, *M.* 7) at alt, *J, M,* 8) þèr, *b. v. J.* 9) nóttum, *J,* M. 10) fælumst, *J.* 11) *þannig J, M;* munntrum, *A.* 12) fyrir, M.

Þá kvað Ángantýr:

Segi ek þèr, Hervör!
hlýð þú til meðan[1],
vísa[2] dóttir!
þat er verða mun:
sjá mun Tyrfíngr,
ef þú trúa mættir,
ætt þinni, mær!
allri spilla.

Muntu son geta,
þann er síðarr mun
Tyrfíng bera[3],
ok trúa magni[4];
þann mun Heiðrek
heita lýðr,
sá mun ríkstr alinn
undir röðuls tjaldi.

Þá kvað Hervör:

Ek vígi svâ
virða dauða,
at þèr skuluð
aldregi[5] liggja
dauðir með draugum
í dys fölvir[6];
[nema selir[7] mèr, Ángantýr!
út úr haugi
hlífum hættan
Hjálmars bana.

1) *v. í M.* 2) en vísa, *J, M.* 3) hafa, *M.* 4) afli, *J.*
5) allir, *J.* 6) fynir, *J.* 7) sel, *J.*

Hann kvað:

Kveðkat ek þik, mær úng!
mönnum líka,
er þú um hauga
hvarflar [á nóttu[1]
gröfnum geira[2],
ok með gota málmi[3],
hjálmi ok með brynju
fyrir hallar dyr.

[Þá kvað Hervör[4]:

Maðr þóttumst ek
[mennskr til[5] þessa,
áðr sali yðra
sækja [rèð ek[6];
sel þú mèr or haugi,
þann er hatar brynjur,
[dverga smíði,
dugir ei þèr at leyna[7].

Þá kvað Ángantýr:

Liggr mèr und herðum
Hjálmars bani,
allr er hann utan
eldi svifinn[8];
mey veit ek aunga
fyri [mold ofan[9],
at hjör þann þori[10]
í [höndum nema[11].

1) um nóttir, *J.* 2) geiri, *J.* 3) málum, *V.* 4) *b. v. M, sem í vantar þær tvær undanfarandi vísur.* 5) mestr, *M.* 6) hafðak, *M.* 7) *þannig J*; hlífum hættan Hjálmars bana, *A, J, M.* 8) sveipinn, *J;* sveifinn, *M.* 9) moldar hvergi, *J.* 10) *þannig J, M;* moni, *A.* 11) hönd bera, *M.*

Hún kvað:

Ek mun hirða
ok í hendr[1] nema
hvassan mæki,
ef hafa mættak;
uggi ek eigi
eld brennanda,
þegar loga lægir,
er ek lýt yfir.

Þá kvað Ángantýr:

Heimsk ertu, Hervör!
hugar eganði,
er þú allgunn[2]
í eld hrapar;
vil ek heldr selja þèr
vopn[3] úr haugi,
mær hin únga!
[mákat ek þèr synja[4].

[Var þá kastat út sverðinu í hönd Hervarar[5].
Þá kvað hún:

Vel gjörðir þú,
víkínga niðr!
er þú seldir mèr
sverð or haugi;
betr þikkjumst ek[6],
buðlúngr[7]! hafa,
enn þó[8] Noreg
næðak öllum.

---

1) hönd, *M.* 2) at augum, *J, M.* 3) sverð, *J, M.* 4) má ek þik ei dylja, *M.* 5) *v. í J, M.* 6) nú, *J, M.* 7) bragníngr, *M.* 8) ek, *J, M.*

Ángantýr kvað:

Veist eigi þú,
vesöl ertu [máls
full feikn[1], kona!
hví þú fagna skalt;
sjá mun Tyrfíngr,
ef þú trúa mættir,
þinni ætt, mær!
allri spilla.

Hún svarar:

Ek mun gánga til
gjálfr-mara[2];
[nú er[3] hilmis mær
í huga góðum;
lítt hræðumst[4] ek þat,
lofðúnga niðr[5]!
hvat synir mínir
síðan deila.

Hann kvað:

Þú skalt eiga,
ok unna[6] lengi,
haf þú á huldu
Hjálmars bana;
takattu[7] á eggjum,
eitr er í báðum,
sá er manna[8] mjötuðr
meini verri.

---

1) *þannig M*; mál afla, full feiknum, *A*; m. a. full fláráð, *J*. 2) manna, *M*. 3) *þannig J, M*; ver, *A*. 4) ræki, *M*. 5) vinr, *M*. 6) una, *J*. 7) taktu, *M*. 8) manns, *J, M*.

Far vel, dóttir!
fljótt gæfa ek þèr
tólf manna fjör,
ef þú trúa mættir;
afl ok eljun,
allt hit góða,
þat er synir Arngríms
at sik leifðu.

Hún kvað:

Búi þèr allir,
burt fýsir mik,
heilir í haugi!
hèðan vil ek fara[1];
helzt þóttumst nú
heima á millum,
er mik umhverfis
eldar brunnu.

Síðan gekk hún til sjóar[2]; ok er lýsti, sá hún, at skipin voru í burtu; höfðu víkíngar hræðst dunur ok eldíngar[3] í eyjunni. Fær hún sèr þá far þaðan, ok er ekki um getit ferð hennar, fyrr enn hún kemr á Glæsisvöllu[4] til Goðmundar konúngs[5], ok var hún þar um vetrinn, ok nefndist enn Hjörvarðr; [vantaði þá Goðmund konúng fátt á 5 hundruð ára, hafði Höfundr, son hans, öll forráð ríkisins[6]. Einn dag, sem Goðmundr kon-

1) skjótla, *J, M.* 2) skipa, *J, M.* 3) elda, *J, M.* 4) Glasisvöllu, *J, M.* 5) *v. í J, M.* 6) lèzt vera ein kempa; þessi Hervarðr var þá einkanliga vel tekinn. Hafði Goðmundr konúngr mikit fjölmenni; hann var þá svâ gamall, at þat er sögn manna, at hann skorti eigi um 100 vetr, ok var þó fullhraustr, *V.*

úngr lèk at skáktafli, [bar svâ til, at honum gekk miðr, ok var búit við máti. Konúngr spurði[1], ef nokkr kynni honum ráð tilleggja [at hjálpa við taflinu[2]; þá gekk til Hjörvarðr, ok lagði litla stund til, áðr Goðmundar var vænna. [Hjörvarðr hafði lagt Tyrfíng í sæti sitt, meðan hann gekk at taflinu[3]. Einn maðr tók upp sverðit, ok brá, [ok fannst honum mikit um þat, lýsti af því, sem sólargeisla[4]. Þetta sèr Hjörvarðr, ok þreif af honum sverðit, ok drap hann, ok gekk út síðan; menn vildu hlaupa eptir honum. Þá mælti Goðmundr: verið kyrrir! ekki mun svâ mikil hefnd í manninum, sem þèr ætlið, þvíat þèr vitið ekki, hverr hann er; mun þessi kvennmaðr yðr dýrkeyptr, áðr enn þèr fáið lífi hans náð; [var henni þá engin eptirför veitt. Kom hún sèr þá enn í för til sjóvíkínga, ok nefndist samt Hjörvarðr[5]; var hún síðan í hernaði lángar stundir, ok var mjök sigrsæl; ok er henni leiddist þat, fór hún (heim) til móðurföður síns; fór hún þá fram, sem aðrar meyjar, at hún vandist við borða ok hannyrðir; [tók hún þá at gjörast vinsæl ok veitul af peníngum, fór ok mikit orð af fríðleik hennar[6]. Þetta spyrr Höfundr, son Goðmundar konúngs[7], [ok þikkir mikils umverðt; eitt sinn kom hann at máli við föður sinn, ok segir sèr hug at kvænast, ok biðr hann ráð tilleggja, hvert leita skyldi. Konúngr mælti:

[1]) ok hans tafl var mjök svâ farit, þá spurði hann, *J, M.* [2]) *v. í J, M.* [3]) *v. í J, M.* [4]) *v. í J, M.* [5]) *v. í J, M.* [6]) *v. í J, M.* [7]) *v. í J, M.*

þat er mitt ráð, at þú biðlr Hervarar hinnar vænu, dóttur Ángantýrs, er hún nú beztr kostr þeirra, sem ek hefi spurn af. Síðan sendu þeir 12 menn á fund Bjartmars jarls, at biðja frúinnar. Jarl tók því vel, ok bar þetta mál upp fyrir Hervöru; en hún veitti engin afsvör, ok bað jarl sjá fyri sínum kosti; urðu þau málalok, at hún var fest Höfunði; hèldt Goðmundr konúngr heima á Glæsisvöllum brullaup þeirra með mikilli rausn; at þeirri veizlu gaf hann Höfundi konúngs nafn, gull ok ríki; voru þau síðan til hvílu leidd, stóð þetta hóf fullan mánuð. En at endaðri veizlunni fóru höfðíngjar heimleiðis með ágætum gjöfum burtleystir. Tókust nú upp góðar ástir með þeim Höfundi konúngi ok Hervöru[1]; þau áttu 2 sonu, hèt Ángantýr sá eldri, eptir móðurföður sínum, en hinn ýngri Heiðrekr, voru þeir báðir miklir menn ok sterkir, vitrir ok vænir. Ángantýr var líkr föður sínum at skaplyndi, ok vildi hvörjum manni gott, ok unni konúngr honum mikit, ok þarmeð öll alþýða; en svâ margt gott, sem hann gjörði, þá gjörði Heiðrekr þó meira íllt; Hervör unni honum [meirr; ok er hann var lítt af æsku aldri, sendi Höfundr hann til fóstrs þeim manni, er Gissr hèt; hann var vitr maðr, ok mikill kappi, ok ólst konúngs son þar upp með

1) ok ferr hann, ok biðr Hervarar, ok fær, ok flytr heim. Höfundr var manna vitrastr ok svâ rèttdæmr, at hann hallaði aldrí rèttum dómi, hvort sem í hlut áttu innlenzkir eða útlenzskir, ok af hans nafni skyldi sá höfundr heita í hvörju ríki, er mál manna dæmdi, *J, M.*

honum þartil hann var 18 vetra gamall, ok lærði allskyns íþróttir ok þarmeð riddaraskap; var hann svâ mikill hreystimaðr, at enginn fèkkst sá, er hans jafníngi væri; en þó gekk Gissr honum nærst um allar íþróttir; en sömu hèldt Heiðrekr á um skaplyndi sitt[1].

8. Eitt sinn hèldt Höfundr konúngr veizlu mikla, [ok bauð til öllu stórmenni í sínu ríki, utan þeim Heiðreki ok Gissuri, fóstrum. Heiðreki líkaði þetta stórilla, ok kvað vænt, at gjöra veizluspjöll í höll föður síns; Gissr afrèð honum þat, ok kvað annat vænligra, enn fara þángat til stríðs föður sínum; fór hann þó allt at einu, ok kvaðst skyldi gjöra honum nokkut íllt. Ok er hann kom í höllina, kvaddi hann föður sinn ok móður. Konúngr tók honum fáliga, en móðir hans fagnaði honum vel[2]; Ángantýr stóð upp ímóti honum ok leiddi hann til hásætis hjá sèr; [var þar listiliga drukkit. Höfundr konúngr gekk snemma til hvílu um kvöldit, en boðsmenn drukku eptir. Ok eitt sinn, er Ángantýr gekk burt, stè Heiðrekr úr hásæti, ok settist á hinn óæðra bekk, ok talaði[3] við þá menn, er honum voru nærstir, ok kom svâ sinni ræðu, at þeir urðu rángsáttir[4], ok mælti hvorr íllt við annann; þá kom Áng-

1) mikit. Fóstri Heiðreks hèt Gissr, *J, M.* 2) var öllum hóf þat tilboðit í hans ríki, utan Heiðreki; honum líkaði þat illa, ok fór allt at einu, ok kvaðst skyldi gjöra þeim nokkut íllt; *J, M.* 3) Heiðrekr var ekki kátr, ok sat lengi við drykkju um kvöldit; en er Angantýr, bróðir hans, gekk út, þá talaði Heiðrekr, *J, M.* 4) missáttir, *M.*

antýr aptr, ok bað þá þegja, en leiddi Heiðrek til sætis síns. Ok í annat sinn, þá Ángantýr var útgenginn, minnti Heiðrekr þá á, hvat þeir höfðu viðmælzt; kom þá svâ, at annar þeirra sló hinn hnefahögg; þá kom Ángantýr ok bað þá sátta vera til morguns. Í þriðja sinn, sem Ángantýr gekk burt, spurði Heiðrekr þann, er höggit hafði fengit, hvort hann þyrði eigi at hefna sín, ok kvað eigi hæfa blauðum manni vín at drekka; kom hann þá svâ sinni fortölu, at hinn lostni hljóp upp, ok drap sessunaut sinn. [Heiðrekr hló at þessu, ok mælti, at veizlan væri at rausnarligri, er rauðr lögr rinni um dúka[1]. Í því kom Ángantýr í höllina [ok þótti stórilla; leiddi hann þá Heiðrek til sængr. Ok um morguninn, er konúngr frètti þenna atburð, varð hann ákafliga reiðr, ok mælti: eigi mun ek rètti halla, þóat Heiðrekr sè mèr nákominn, ok skal hann útlægr gjörr sem hverr annar, er manndrápi veldr innan hirðar hjá oss. Ángantýr ok Hervör báðu fyrir Heiðrek, ok var þat sem ógjört; inntu þau Heiðreki þá útlegð sína; en hann brá sèr lítt við þat. Heiðrekr mælti þá: gángi þið fyri föður minn, ok segið, ek biði hann ráða mèr heilræði nokkr; þau gjörðu svâ[2]. Höfundr konúngr mælti:

[1]) *v. í J, M.* [2]) En er Höfundr varð þessa varr, bað hann Heiðrek íburt gánga, ok gjöra eigi fleira íllt í þetta sinn. Síðan gekk Heiðrekr út, ok Angantýr, bróðir hans, ok í garðinn, ok skildust þar. Þá er Heiðrekr hafði litla hríð gengit frá bænum, þá hugsaði hann, at hann hefði þar oflítit íllt gjört; snýr þá aptr til hallarinnar, ok tók upp stein einn mikinn, ok kastaði þángat, sem hann heyrði

fá ráð mun ek kenna honum, því ek hygg honum muni þau illa í hald koma; en af því þiðbiðið þessa, þá ræð ek honum þat fyrsta ráð, at hann hjálpi aldrei þeim manni, sem svikit[1] hefir lánardrottinn sinn: þat ræð ek honum annat, at hann gefi þeim mönnum aldrei frið, sem fèlaga sinn myrðt hafa: þat þriðja, at hann láti eigi konu sína vitja opt frænda sinna, þótt hún beiði þess: þat fjórða, at hann [segi eigi frillu sinni allan trúnað sinn[2]: fimta, at hann ríði eigi bezta hesti sínum, ef hann þarf skjótt at skunda: þat sjötta, at hann aldrei fóstri göfugra manns barn, enn hann er sjálfr: [þat sjöunda, at hann gángi aldrei á grið sín: þat áttunda, at hann hafi aldrei marga hertekna præla með sèr; ok ef hann rækir öll þessi ráð, þikki mèr von, at hann muni lukkumaðr verða, þótt hann gjaldi nú af mèr lagabrotsins[3]. [Síðan gekk drottníng til Heiðreks, sonar síns, ok sagði honum, hvat konúngr hafði hon-

menn nokkra talast við í myrkrinu; hann fann, at steinninn mundi eigi manninn mist hafa, ok gekk til, ok fann mann dauðan, ok kendi Angantýr, bróður sinn. Heiðrekr gekk þá í höllina fyri föður sinn, ok segir honum þetta. Höfundr kveðr hann skyldu verða í brottu, ok koma aldrí honum í augsýn, ok kvað hitt makligra, at hann væri drepinn eðr heingdr. Þá mælti Hervör drottníng, ok sagði, at Heiðrekr hafi illa tilgjört: enda er mikil hefndin, ef hann skal aldrí koma í ríki föður síns, ok fara svâ eignalauss í brott. En orð Höfundar stóðust svâ mikils, at þat gekk fram, sem hann dæmdi, ok engi var svâ djarfr, at móti þyrði at mæla, eðr Heiðreki friðar at biðja. Drottníng bað þá Höfund ráða honum nokkr heilræði at skilnaði þeirra, *J, M.*

[1]) drepit, *J, M.* [2]) sè eigi síð úti staddr hjá frillu sinni, *J, M.* [3]) en meir von þikki mèr, at þú munir þetta eigi hafa, *J, M.*

um ráðit[1]. Heiðrekr kvað hann hafa ráðit af illum hug, ok sagði sèr óskyldt at hafa; [bjóst hann nú á burt; drottníng gekk á veg með honum, ok Ángantýr, bróðir hans. Hervör tók þá sverðit Tyrfíng undan skykkju sinni, ok gaf Heiðreki; kvaddi hann síðan móður sína, en bað Ángantýr lengra gánga; hann gjörði svâ, gaf hann þá Heiðreki fèsjóð mikinn, fullan af gulli. Heiðrekr þáði gjöfina, ok mælti síðan: mikinn mun ætla ek Höfundar konúngs ok móður minnar, er hann gjörði mik útlægan, en hún gaf mèr sverð þetta; brá hann þá Tyrfíngi, ok hjó Ángantýr banahögg, ok vann hann fyrstr níðíngsverk með sverðinu. Ok er Höfundr konúngr frá þessi tíðendi, harmaði hann mjök Ángantýr, son sinn, var hann ok mörgum öðrum harmdauði; lèt konúngr hann í haug setja eptir þeirra siðvenju; biðr hann nú leita Heiðreks, svâ hann mætti drepinn verða; en Hervör latti þess, ok komst hann við þat undan á skóga[2].

9. Þat bar til[3] tíðenda einn dag, at Heiðrekr fór um braut nokkra, at menn komu á

1) *v. í J, M.* 2) Gengr þá Heiðrekr út or höllinni; móðir hans stendr þá upp, ok gengr út með honum, ok fylgir honum or garðinum, ok mælti: nú hefir þú svâ fyri þèr búit, son minn! at þú munt eigi aptr ætla; þá hefi ek lítil föng á at hjálpa þèr; mörk gulls er hèr, ok eitt sverð, er ek vil gefa þèr, en þat heitir Tyrfíngr, ok hefir átt Angantýr berserkr, móðurfaðir þinn; engi maðr er svâ ófróðr, at eigi hafi heyrt þess getit; ok er þú kemr þar, er menn skiptast höggum, láttu þèr hugkvæmt vera, hversu Tyrfíngr hefir opt sigrsæll verit; nú biðr hún hann vel fara, ok skiljast síðan, *J, M.* 3) Heiðrekr undi illa við verk þat, er hann hafði gjört; gekk

móti honum með einn mann fjötraðan, er til straffs var ætlaðr; Heiðrekr spurði um sök hans; þeir kváðu hann hafa svikit sinn lánardrottinn. Heiðrekr spurði, ef þeir vildu taka fè fyrir hann; en þeir játa því; hann fær þeim hálfa mörk gulls; en þeir láta bandíngjann lausan, ok býðr hann Heiðreki sína þjónustu; hann svarar: því muntu mèr heldr trúrr, er þú sveikst þinn lánardrottinn? ok far þú frá mèr burt! Litlu síðarr hitti Heiðrekr enn nokkra menn, ok einn bundinn; Heiðrekr spurði, hvat sá hefði rángt gjört; þeir sögðu, at hann hefði myrðt fèlaga sinn; hann bað þá taka fè fyrir hann; en þeir játa því; hann fèkk þeim þá aðra hálfa mörk gulls, en tók við manninum; sá býðr honum ok sína þjónustu, en hann neitar; gjörði hann þetta mest til þess, at ónýta ráð föður síns. Síðan hitti hann sjóvíkínga, ok rèðst með þeim í hernað, ok gjörðist hinn grimmasti hervíkíngr, varð hann mjök víðfrægr af sigrsæld sinni ok orrostum.

10. Í þann tíma rèð fyri Reiðgotalandi konúngr sá, er Haraldr hèt, hann var þá mjök gamall ok hafði mikit ríki til forráða; hann átti eina dóttur barna, er Helga hèt, kvenna kurteisust. Jarlar

---

hann þá burt á merkr, ok skaut dýr ok fugla til matar sèr; ok er hann hugsaði um sitt mál, leizt honum ekki gott frásögu, ef ekkert skyldi spyrjast til hans lengra, enn þat sem liðit var, svâ hann mætti frægr verða af stórum verkum ok framgaungu, sem hans ættmenn enir fyrri; hann snýst nú af mörku ok leitar bygðar. þat bar til, *b. v. T.*

tveir herjuðu á ríki konúngs, átti hann við þá orrostur nokkrar, ok hafði jafnan ósigr; sættust þeir þá at því, at konúngr skyldi lúka þeim skatt á hvörjum 12 mánuðum. Nú heldr Heiðrekr skipum sínum til Reiðgotalands; ok þá konúngr frá þat, býðr hann honum heim til virðugligrar veizlu, ok bað hann hafa þar friðland; Heiðrekr tók því glaðliga, ok gekk til borgar með liði sínu, ok dvaldist þar um hríð. Svâ bar til einn dag, at Haraldr konúngr taldi silfr mikit á borð; ok er Heiðrekr sèr þat, mælir hann: hvörr skal velja silfrit? herra! eðr hyggi þèr, at selja þat fyri kost? ek mun sjálfr tilleggja skotpenínga fyri mik ok mína menn, á meðan vèr dveljumst hèr; konúngr kvað því á aðra leið varit: skal ek þetta fè í skatt gjalda. Heiðrekr mælti: þetta lízt mèr stór lægíng ríkum konúngi ok voldugum, at gjalda skatt leiðum ok lítilsháttar jörlum, væri hitt meira snjallræði, at halda við þá bardaga. Konúngr kvaðst þat reynt hafa, ok fengit ósigr: eðr er nokkut svâ, at þú vogir at berjast við þá, minna vegna, ok þiggja at launum gull ok silfr. Heiðrekr mælti: eigi veit ek um mik glöggt, en eigi hefði sú för ægt enum fyrri frændum mínum, ok mun ek gjöra yðr kost á því, at berjast við jarlana, ef þèr vilið gipta mèr dóttur yðar; konúngr tók því líkliga, ok varð sá endir á þeirra tölu, at júngfrúin var föstnuð Heiðreki; bjóst hann síðan til orrostu, ok fèkk konúngr honum mikit lið ok fríðt; fór hann þegar á móts við

jarlana; ok er hann kom í ríki þeirra, tók hann at herja ok ræna. Ok er jarlarnir spurðu þetta, fóru þeir ímóti honum með miklum her; ok er þeir fundust, verðr orrosta allhörð. Heiðrekr var í öndverðri fylkíngu, ok bar Tyrfíng í hægri hendi, ok hjó niðr lið jarlanna, sem hráviði, ok stóð hvorki við honum hjálmr nè brynja, drap hann þá alla, er honum voru næstir; gekk hann ígegnum liðit, ok feldi þat unnvörpum; lauk svâ, at þar fèllu jarlarnir ok mestr hluti liðs þeirra, en þat flýði, sem eptir var; fèkk hann þar mikit herfáng. Síðan fór Heiðrekr yfir landit, ok skattaði þat undir Harald konúng, sem fyrr hafði verit, ok fór heim við svâ búit; hafði hann fengit ógrynni fjár ok mikinn sigr. Haraldr konúngr fagnaði honum afarvel, ok þakkaði honum með mörgum fögrum orðum. Var þá við brullaupi búizt, ok gekk Heiðrekr at eiga konúngs dóttur, veitti Haraldr konúngr brullaup þeirra með miklum sóma; gaf hann þá Heiðreki konúngs nafn ok helmíng ríkis síns til forráða; rèð hann Reiðgotalandi lengi síðan, ok þótti spakr ok sigrsæll; hann átti son við konu sinni, þann er Ángantýr hèt. Haraldr konúngr gat ok son í elli sinni, [þann er Hálfdan var[1] nefndr; voru þeir báðir hinir efniligustu, ok þótti lángt fyrir öðrum mönnum á Reiðgotalandi.

11. Í þann tíma kom hallæri mikit á Reið-

[1]) ok er sá ekki, *J*, *M*.

gotaland, svâ at til landauðna þótti horfa; voru þá gjörðir hlutir af vísendamönnum, ok feldr blótspónn til; en svâ gekk frèttin, at aldrí mundi ár fyrri koma á Reiðgotaland, enn þeim sveini væri blótat, er æðstr væri þar í landi. [Síðan var þíng stefnt, ok kom þat öllum ásamt, at Ángantýr Heiðreksson væri þar æðstr fyrir ættar sakir, en þat þorði enginn upp at bera. Tóku menn þat þá til ráðs, at dæma þetta mál undir úrskurð Höfundar konúngs á Glæsisvöllum, skyldu hinir æðstu menn til þessarar ferðar veljast; en allir töldust undan. Bað þá Haraldr konúngr ok margir aðrir Heiðrek konúng, at orka um úrlausn þessara mála; konúngr kvað svâ vera skyldi; lèt hann þegar búa eitt skip úr landi, ok stè þár á, ok margir ágætir menn með honum; sigldi hann svâ til Risalands. Ok er Höfundr konúngr spurði komu hans, vildi hann þegar láta drepa hann; en Hervör drottníng mælti ímóti, ok fèkk hún svâ tilstillt, at þeir feðgar sættust heilum sáttum. Bar þá Heiðrekr fram eyrendi sitt fyri konúng, ok baðst[1] dóms á þessu; en Höfundr segir, at son hans væri þar æðstr í því landi. Heiðrekr konúngr skipti þá litum, ok þótti vandast málit, bað

[1]) Haraldr konúngr segir, at sonr Heiðreks konúngs væri æðstr; en Heiðrekr segir, at sonr Haralds væri æðstr; en úr þessu mátti engi leysa, fyrr enn þángat væri farit, er allar úrlausnir voru trúar, til Höfundar konúngs. Heiðrekr er hinn fyrsti maðr til þessar ferðar tekinn, ok margir aðrir ágætir menn. Sem Heiðrekr kom á fund föður síns, þá var honum vel fagnat; hann segir öll erendi sín föður sínum, ok beiðir, *J*, *M*.

hann þá föður sinn leggja sèr ráð, at hjálpa lífi sveinsins. Höfundr mælti: þá þú kemr heim í Reiðgotaland, skaltu stefna saman mönnum til þíngs af beggja ykkar Haralds konúngs ríkjum, ok seg þar upp gjörð mína um son þinn; skaltu þá spyrja, hvörju þeir muni launa vilja, ef þú lætr þeim hann til blóta; seg þú, at þú sèrt útlendr, ok muni land gánga undan þèr, ok svâ fólk, ef þessu skal fram fara; gjöri þú þá þann kost, at [annarhvârr af Haralds mönnum[1] sè á þínu valdi, sem [á þíngínu[2] er staddr, ella munir þú eigi láta son þinn, ok skal þat eiðum bundit; ok ef þat fæst, mun ek eigi ráð þurfa at kenna þèr síðan, hvat þú skalt athafast; kveðr hann síðan föður sinn ok móður, ok siglir burt af Risalandi.

12. Nú sem Heiðrekr kom heim í Reiðgotaland, lèt hann þíngs kveðja. Heiðrekr tekr svâ til orða: þat er atkvæði Höfundar konúngs, föður míns, at son minn sè ágætastr í landi hèr, ok til blóts kosinn, en þar ámóti vil ek eiga ráð á öðrum[3] hvörjum manni Haralds konúngs, er kominn er til þíngs þessa, ok vil ek þèr handfestið mèr þetta; var nú svâ gjört, ok síðan heimtust þeir í lið hans; þá báðu bændr, at hann lèti fram son sinn, ok bætti svâ árferði þeirra. En er skilit var liðit, beiddist Heiðrekr trúnaðareiða af mönnum sínum;

---

1) hinn fjórði hvorr maðr, *J*, *M*. 2) við blótit, *J*, *M*.
3) hinum fjórða, *J*, *M*.

þeir gjörðu svâ, ok sóru honum svoddan eið, at þeir vildu honum fylgja utanlands ok innan, til þess, sem hann vildi. Hann mælti þá: svâ lízt mèr, at goldit muni vera Óðni fyrir einn sveín, ef þar kemr fyrir Haraldr konúngr ok son hans, ok herr hans allr; hann bað nú setja upp merki sitt, ok veita Haraldi konúngi atgaungu, ok drepa hann, ok allt hans lið. Eptir þetta lèt hann blása í herlúðra, ok gánga at Haraldi ok hans mönnum; hallaðist skjótt á þá bardaginn, því þeir feðgar höfðu lið miklu minna, ok voru þarmeð óviðbúnir; ok er þeir sáu, at eigi var undanfæri, börðust þeir með miklum drengskap, ok drápu niðr lið Heiðreks konúngs svâ ákafliga, at ósýnt þótti, hvorr sigrast mundi. Ok er Heiðrekr sèr lið sitt falla svâ unnvörpum, óð hann fram með sverðit Tyrfíng, ok feldi hvörn á fætr öðrum; ok lauk svâ, at þeir fèllu þar feðgar, ok mikill hluti liðs þeirra, ok varð Heiðrekr konúngr banamaðr mága sinna; er þat talit annat níðíngsverk unnit með Tyrfíngi, eptir álögum dvergsins. Lèt Heiðrekr konúngr þá rjóða goðastalla blóði Haralds konúngs ok Hálfdánar, en fal Óðni allan þann val, er þar hafði fallit, til árbótar, í stað Ángantýrs, sonar síns. Ok er Helga drottníng frètti fall föður síns, fengu henni svâ mikils þessi tíðendi, at hún heingdi sik í dísarsal[1]. Heiðrekr lagði nú land allt undir sik, ok gjörðist konúngr yfir,

[1]) *þannig J, M;* Dísardal, *A.*

varð hann mjök víðfrægr, ok þótti varla hans líki vera í þann tíma.

13. Þat var eitt sinn, at Heiðrekr konúngr fór með her sinn suðr um Húnaland[1], ok barðist við konúng þann, er Humli hèt, ok fèkk sigr, en Humli flýði; tók hann þar fè mikit, ok dóttur Humla konúngs, er Svafa[2] hèt, ok hafði hana heim með sèr, tók hana síðan til frillu, ok hafði hana við hönd sèr um stund; en at öðru sumri sendi hann hana heim aptr til föður síns, ok var hún þá með barni. Litlu síðarr fæddi hún sveinbarn, ok var hann kallaðr Hlöðr; hann var allra manna fríðastr sýnum, ok þótti afbragð annarra manna þegar á únga aldri; óx hann þar upp á Húnalandi með Humla, móðurföður sínum. Á einu sumri fór Heiðrekr til Saxlands með her sinn; sá konúngr hèt Áki, er þar rèð fyrir; hann gjörði veizlu ímóti Heiðreki konúngi, ok biðr hann hafa þat af sínu ríki, sem honum líkaði; þetta þiggr Heiðrekr konúngr. At þeirri veizlu sá hann dóttur konúngs, er Óluf hèt, ok leizt honum allvel á hana, ok þeirrar meyjar biðr hann sèr til handa, var hún honum gipt; var þá aukin veizlan, ok drukkit brullaup þeirra; leysti konúngr út mund dóttur sinnar í gulli ok dýrmætum gripum; stóð hófit í 20 daga, ok at því enduðu, fór Heiðrekr konúngr heim með Ólufu konu sína ok ógrynni fjár. Heiðrekr gjörðist þá hermaðr mikill, ok

[1]) Hundland, *J*, *M*. [2]) Sifka, *J*, *M*.

jók á marga vegu ríki sitt. Drottníng beiddist optliga at fara til Saxlands, á fund frænda sinna ok vina, ok veitti Heiðrekr henni þat; sveinninn Ángantýr fór jafnan með henni. Ok eitt sinn, er konúngr var í hernaði, fór drottníng til Saxlands, á fund frænda sinna, at vanda sínum; konúngs son fór með henni. Heiðrekr konúngr spurði þetta, ok hèldt skipum sínum til Saxlands, ok eigi allnær konúngs atsetri; síðan bjó hann eina snekkju, ok sigldi til hafnar, ok lendti í leynivog nokkrum; hann gengr á land, ok einn maðr með honum. Þeir komu um nótt á konúngsbæinn, ok vendu at skemmu þeirri, er kona hans var vön at sofa í, ok urðu varðhaldsmenn eigi varir við komu þeirra. Þeir gengu nú inní skemmuna, ok sáu, at maðr einn hvíldi hjá drottníngu; hann hafði mikit hár ok fagrt; konúngr skar lokk[1] úr hári hans, ok hafði með sèr. Sá maðr, er með honum var, kvað hann vera hefnisaman um minni sakir; eigi mun ek þess at sinni hefna, sagði hann; hann sá, hvar Ángantýr lá í annari hvílu, ok hafði hann burt með sèr. Gengu þeir síðan til skips, ok lèttir konúngr eigi fyrr, enn hann hittir lið sitt. Um morguninn, er drottníng vaknar, saknar hún Ángantýrs, varð hún þá mjök hrædd ok harmsfull; tók hún þá þat ráð, at hún hjúpaði einn hund, ok sagði konúngs son bráðdauðan orðit hafa. Nú er at segja frá Heiðreki, at

[1]) lepp, *J*, *M*.

hann held skipum sínum á hafnir Saxa konúngs. Ok er konúngr varð þess varr, lèt hann veizlu búa, ok gekk sjálfr ímóti honum, ok fagnaði honum vel. Heiðrekr konúngr gengr til borgar með öllu liði sínu, ok settist undir drykkjuborð. Ok er þeir höfðu drukkit um stund, gekk Óluf drottníng í höllina, ok fagnaði vel Heiðreki konúngi, ok breiddi báðar hendr um háls honum; hann tók því fáliga; ok leið svâ af nóttin. Um morguninn frètti hann drottníngu at sveininum Ángantýr; en hún kvað hann bráðdauðan orðit hafa, ok væri í mold lagðr; konúngr baðst at sjá lík hans; drottníng kvað honum þat mikinn harms auka; varð Heiðrekr þó at ráða; var honum þá þángat fylgt; lèt hann þegar ryðja moldu af leiðinu, var þar dúkr samanvafðr ok hundr innaní. Heiðrekr konúngr mælti: illa hefir nú sonr minn skipazt, er hann er orðinn at hundi; síðan lèt hann leiða fram sveininn, ok kvaðst hafa reynt mikil svik af drottníngu, ok tèði allan atburð; biðr hann nú þíngs stefna, ok safna þángat öllum mönnum í borginni, er til máttu sækja. Ok er alþýða manna var komin, mælti konúngr: eigi er enn gullhárinn[1] kominn. Þá var enn leitat, ok fannst maðr í steikarahúsi með band um höfuð; margir undruðust, þat hann skyldi til þíngs, leiðr þræll. Ok er hann kom á þíngit, mælti Heiðrekr: hèr megi þèr þann sjá, er konúngs

[1]) gullkárinn, *J*, *M*.

dóttir vill heldr eiga, enn mik; tók hann þá upp lokkinn, ok bar við hárit, ok fèll þat saman; lèt konúngr hann nú segja allan sannleik um þetta mál. Áki konúngr verðr nú reiðr dóttur sinni, ok biðr Heiðrek umdæma, sem honum líkaði. Heiðrekr svarar: þú, Áki konúngr! hefir oss jafnan gott gjört, ok skal af því ríki þitt standa í friði fyrir oss, en dóttur þína vil ek eigi eiga lengr, ok skal skilit með okkr, dæmi ek mèr fè þat allt, er henni fylgdi heiman; en sá, er með henni hefir legit, skal fara útlægr af beggja okkar ríki, en verði hann í þeim fundinn, skal hann dræpr; þökkuðu menn konúngi þessa gjörð, ok þótti rèttdæmi; hèlzt samt vinátta með þeim konúngunum, ok skildu at svâ mæltu. Ferr nú Heiðrekr konúngr heim í ríki sitt, ok sonr hans Ángantýr með honum; hèldt hann þá enn í hernað, ok fór svâ fram um hríð. Hann herjaði eitt sinn norðr á Finnland, ok gjörði þar mikit hervirki; þar tók hann eina mey, þá er Sifka hèt; aungva þóttust menn fríðari sèt hafa; konúngr hèldt mikit til hennar, ok flutti hana heim með sèr, ok gjörðist hún frilla hans.

14. Í þann tíma rèð fyri Garðaríki konúngr sá, er Hrollaugr hèt; hann var ríkr ok víðlendr, vinfastr ok bardagamaðr mikill; drottníng hans hèt Herborg; þau áttu 2 börn, hèt sonr þeirra Herlaugr, en Hergerðr dóttir; var sveinninn þá tvævetr, er hèr var komit söguinni, en konúngs dóttir eldri. Heiðrekr kon-

úngr ferr nú til Garðaríkis, ok þiggr þar veizlu; hann hyggr at konúngs börnum vandliga, ok leizt honum vel á; honum kemr nú í hug, at ónýta ráð föður síns, ok býðr Herlaugi konúngs syni til fóstrs. Konúngr kvað þess aungva von, at hann fengi þeim manni son sinn, er kendr er at mörgum illum hlutum. Þá sagði drottníng: mæl ekki svâ, herra! heyrt hafi þèr, hvat mikill maðr hann er ok sigrsæll, ok er meiri vizka, at taka vel hans boði, stendr annars ríki þitt í mikilli hættu. Konúngr mælti: þú munt mikit ávinna um þetta mál. Rèðst þá þat af, at sveinninn Herlaugr var seldr Heiðreki til fóstrs. Fór Heiðrekr þá í burt úr Garðaríki, ok sveinninn með honum; hèldt hann þá enn í hernað, ok fylgdi sveinninn honum jafnan, ok Sifka[1] frilla hans, hvar sem hann barðist; ok liðu svâ 5 vetr. Eitt sinn hèldt Heiðrekr konúngr skipum sínum til Garðaríkis; ok er Hrollaugr konúngr spyrr komu hans, lèt hann veizlu búa ámóti honum, ok bauð honum heim með liði sínu. Heiðrekr tók því glaðliga; brá hann þá svâ háttum, at hann skipti liði sínu í þrjá flokka; lèt hann einn gæta skipa, en öðrum skipaði hann, at felast í skóginum, en gekk sjálfr til borgar með hinn þriðja hlut; Hrollaugr konúngr fagnaði honum með allri blíðu, ok leiddi hann til hallar; reis þar upp hin sæmiligasta veizla, ok stóð hún lengi. Menn höfðu þat til skemtunar jafnan, at þeir

[1]) *I J, M, kallast hún* Humladóttir, *ok er þar en sama, sem á bls.* 455; *er þar ei getið um seinna frillutak konúngs eða herferð til Finnlands, sbr. bl.* 458.

riðu á dýraveiðar, en hvört sem Heiðrekr fór, þá fylgdi Herlaugr honum. Ok eitt sinn riðu þeir báðir á skóg, Heiðrekr ok konúngs son; sendi þá konúngr sveininn til liðs síns, ok bað hann þar dveljast; reið hann síðan heimleiðis, ok kemr seint heim um kvöldit. Sifka var úti, ok laut honum hæverskliga; hún þóttist sjá hann með hryggvu bragði, ok lagði hendr um háls honum með mikilli sorg, ok mælti síðan: segið mèr, herra! hvat ógleði yðar veldr, ok skal ek skjótt bót á vinna, ef ek má. Heiðrekr svarar: þèr einni þori ek frá at segja, en þó vil ek, at þú birtir þat aungvum manni, því líf mitt liggr við, ef nokkr fær þat at vita; hún bað þá konu á báli brenna, er hygði at svíkja hann. Konúngr sagði: ek var á dýraveiði í dag, ok elti einn villigölt; vildi mèr svâ slisliga til, at ek braut spjót mitt, brá ek þá Tyrfíngi, ok drap dýrit, var þat fyrri gjört, enn ek hugði, hvat við lá; kom mèr þá í hug um álög sverðsins, at þat má eigi skeiða, nema með vörmu manns blóði; var þá engi maðr hjá mèr, nema Herlaugr, ok hlaut ek at deyða hann með sverðinu. Síðan gekk Heiðrekr til hallar, ok fór skömmu síðarr til sængr. Sifka ferr nú á fund drottníngar, ok lætr merkja á sèr stóra sorg; drottníng spurði um ógleði hennar; Sifka segir henni nú frá öllu, eptir því, sem Heiðrekr hafði henni frásagt; gekk þá drottníng til sængr með miklum harmi. Konúngr frètti, hvat hana ángraði; en hún sagði

honum. Konúngr varð þá bæði hryggr ok reiðr, ok stóð upp snemma um morguninn; bað hann þá hirð sína herklæðast, ok drepa Heiðrek konúng, ok alla hans menn; var þá mikit vopnabrak ok lúðragángr. Heiðrekr bjóst til varnar með þat lið, er hjá honum var, ok tókst þar hinn harðasti bardagi; falla menn Heiðreks konúngs sem hráviði, því liðsmunr var mikill. Heiðrekr konúngr barðist allhraustliga, ok drap svâ margan mann með Tyrfíngi, at seint er at telja, ok fór hann um herinn sem annat ljón, er þat kemr í sauðaflokk; var þá sleginn um hann hríngr; en hann hjó þá alla til bana, er hann náði til með sverðinu. Hrollaugr bað bera at honum skjöldu ok viðu; var þat þegar gjört, ok varð Heiðrekr um síðir höndlaðr; gengu þá til 2 menn, ok lögðu fjötr á hann mjök óþyrmiliga; er þat sögn flestra manna, at þat væri bandíngjar þeir, er Heiðrekr leysti frá dauða fyrrum. Hrollaugr lèt þá færa Heiðrek konúng til skógar, ok skyldi hann þar á báli brenna; en áðr þat yrði gjört, heyrðu þeir lúðragáng ok vopnaglumr; var þar komit lið Heiðreks konúngs, ok veittu hina hörðustu atsókn Hrollaugi ok hans mönnum, ok sóktu Heiðrek konúng í hendr þeim, en ráku þá á flótta, ok tóku þar mikit herfáng; fóru síðan til skipa sinna, ok hèldt Heiðrekr konúngr heim til Reiðgotalands. Safnaði hann þá liði miklu, ok hèldt við hundrað skipum til Garðaríkis, ok gekk þar á land með eldi

ok vopnum, ok gjörði hit mesta hervirki. Þetta frèttir Hrollaugr konúngr, ok býst til varnar; reið hann þegar útaf borginni með lið sitt á slètta völlu móts við Heiðrek konúng; hafði hann þá spurt, at Herlaugr, son hans, var með Heiðreki konúngi vel haldinn, ok vildi gjarnan at sátt mætti takast með þeim konúngunum; lèt hann þá um morguninn snemma halda upp friðarskildi, ok bað Heiðrek konúng gánga á einmæli við sik. Heiðrekr gjörði svâ, ok skyldi beggja þeirra lið í kríng standa með vopnum; gjörðu þeir um síðir opinbert, at þeir voru sáttir, ok skyldi Hrollaugr konúngr gipta Heiðreki Hergerði dóttur sína; urðu menn þessu fegnir, ok gengu síðan til hallar, ok var nú Hergerðr fest Heiðreki konúngi. Síðan var við veizlu búizt, ok drukkit brullaup þeirra; þóttist enginn spurn af hafa, at heiðarligra hóf hefði verit haldit í þeim löndum, ok stóð þat í mánuð; ok at því enduðu, voru höfðíngjar með gjöfum á burt leiddir. Greiddi nú Hrollaugr konúngr út mund dóttur sinnar í gulli ok silfri ok góðum gripum; henni skyldi ok heiman fylgja Vindaland, er nærst liggr Reiðgotalandi. Eptir þetta sigldi Heiðrekr konúngr heim með drottníngu sína, ok tókust upp með þeim góðar ástir; lètti hann þá öllum hernaði, en setti lög ok landsrètt; valdi hann til 12 menn, hina vitrustu, at dæma um þau mál, er stórsökum gegndu í hans ríki, en tók af allan hernað innanlands; gjörðist hann

hann nú höfðíngi mikill, ok hinn vinsælasti. [Heiðrekr konúngr lèt ala gölt einn; hann var svâ mikill, sem hinn stærsti öldúngr, en svâ fagr, at hvört hár þótti úr gulli vera. Konúngr lagði hönd sína á höfuð geltinum, en aðra á bust, ok[1] strengdi þess heit, at aldrei skyldi nokkr maðr svâ mikit afgjöra, at hann skyldi eigi hafa rèttan dóm spekínga hans, ok skyldu þeir 12 gæta galtarins; ella skyldi hann bera upp gátur þær, er konúngr gæti eigi ráðit. Þessu samtíða andaðist Hervör, móðir hans, ok var hennar útför gjör sæmiliga eptir fornum sið. Litlu síðarr fæddi Hergerðr drottníng meyju eina, ok var henni nafn gefit, ok kölluð Hervör, eptir föðurmóður sinni, ok lærði hún skjótt allar riddara íþróttir þegar á únga aldri; [konúngr sendi hana til fóstrs jarli þeim, er Ormar hèt, ok var hún hin fríðasta[2].

15. Maðr hèt [Gestr, ok var kallaðr hinn blindi[3]; hann var hersir ríkr þar á Reiðgotalandi, illr var hann ok ódæll; hann hafði haldit skatti fyrir Heiðreki konúngi, ok var mikill fjandskapr á millum þeirra. Konúngr sendi

[1]) Hann blótaði Freyju, ok tignaði hana mest af öllum sínum goðum. Þat var siðvenja, at taka einn gölt, þann stærstan fèkk, ok skyldi ala hann, ok gefa Freyju til árbótar í upphafi mánaðar þess, er febrúaríus heitir; þá skyldi blót hafa til farsældar. Konúngr sagði, at þessi göltr væri svâ heilagr, at menn skyldu fyri þetta offr kunna at dæma um öll stórmál. Jólaaptan skyldi leiða þenna sama gölt til konúngs; lögðu menn þá hendr yfir burst hans, ok strengdu heit. Heiðrekr konúngr, *V.* [2]) ok fæddist upp í Englandi með Froðmari jarli, *M.* [3]) Gestumblindi, *víðarst* (*sumstaðar*: Gestr), *J. M.*

honum orð, at hann kæmi á sinn fund, ok hlýddi dómi spekínga sinna, eðr hèldi bardaga. Þessi kostr þótti Gesti hvorigr góðr, ok gjörðist hann mjök hugsjúkr, þvíat hann vissi margar sakir sèr á hendi; tók hann þá þat ráð, at hann blótaði Óðinn til fulltýngis sèr, ok biðr hann líta á sitt mál, ok heitir honum miklum launum. Eitt kvöld síðla er þar drepit á dyr, ok gengr Gestr hinn blindi til dyra; hann spyrr þann mann at nafni, er kominn var, en hann kvaðst Gestr heita; síðan spurðust þeir almæltra tíðenda. Komumaðr spurði, ef þat væri nokkut, er hann ángraði; Gestr blindi sagði honum allt hit ljósasta. Komumaðr mælti: ek mun fara þinna vegna á konúngs fund, ok vita, hvörninn gengr, skulu við skipta litum ok klæðum; ok svâ gjörðu þeir. Ferr nú bóndi burt, ok felr sik, en gestrinn gengr inn, ok er þar um nóttina, ok þikkjast allir kenna Gest hinn blinda. Um daginn eptir gjörir Gestr för sína á konúngs fund, ok lèttir eigi fyrr, enn hann kemr í Árheima; hann gengr í höllina, ok kveðr vel konúnginn. Konúngr þagði, ok leit til hans reiðugliga. Herra! segir hann, því kom ek híngat, at ek vil við yðr sættast. Þá svarar konúngr: villtu þola dóm spekínga minna? Hann svarar: eru ekki fleiri undanlausnir? Konúngr mælti: vera skulu fleiri: þú skalt bera upp gátu þá, er ek kann eigi ráða, ok kaupa þik með því í frið. Gestr svarar: lítt er ek til þess færr,

enda mun hart á annat borð. Viltu heldr þola dóm spekínganna? segir konúngr. Þat kýs ek fyrr, segir Gestr, at bera upp gátur nokkrar; konúngr kvað þat vel fallit; voru þá teknir tveir stólar, ok settust þeir þar á. Þá mælti Gestr hinn blindi:

Hafa vildak[1]
þat í gær hafðak,
vittu[2] hvat þat var[3],
lýða semill!
orða tefill[4]!
ok orða upphefill!
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[mungát semr æði,
ok örvar mælgi,
en öðrum vefst túnga um tönn[5].

Þá mælti Gestr:

[Heiman ek fór[6],
heiman [ek ferðaðist[7],
sá ek á[8] veg vega,

---

1) mundak, *A, J, M.* 2) villtu, *A.* 3) er, *M.* 4) temill, *A.* 5) færið honum munngát, þat semr margra manna (manna, *v. í M.*) vit, ok margir eru þá málgari (margmálga, *M.*), er munngát færir, (ferr á, *M.*) en sumum vefst túnga, ok verðr ekki at orði, *A, J, M.* 6) *v. í M.* 7) ferð gjörðak, *A, J*; för gerða, *M.* 8) *v. í A.*

[vegr var[1] undir,
[vegr var[2] yfir,
ok vegr á alla vegu.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[fugl þar yfir fló,
fiskr þar undir svamm,
fórtu á brú[3].

Þá mælti Gestr:

Hvat var[4] þat drykkjar,
er ek drakk í gær?
varat þat vatn nè vín,
[mjöðr nè[5] mungát,
nè matar ekki,
þó[6] gekk ek þostlauss þaðan.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[fórtu sólu í,

---

[1]) var þeim vegr, *M.* [2]) ok vegr, *J, M.* [3]) þar fórstu yfir árbrú, ok var árvegr undir þèr, en fuglar flugu yfir höfði þèr, hjá þèr tveim megin, ok var þat þeirra vegr, *A, J, M.* [4]) er, *J, M.* [5]) nè enn heldr, *M.* [6]) ok, *M.*

falst þik í skugga,
þar fèll dögg í dali;
þá namtu þèr
at náttdöggu,
ok kældir svâ kverkr þaðan[1].

Þá mælti Gestr:

Hverr er sá hinn hvelli,
er gengr harðar götur,
ok hefir hann þær fyrr um farit,
nokkut[2] fast kyssir,
ok[3] hefir munna tvâ,
[gengr á gulli einu[4]?
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[gengr hamar
á glóð Rínar,
kveðr við hátt
ok kemr á steðja[5].

1) þar lagðist þú í forsælu, en dögg var fallin á grasit, ok kældir svâ varir þínar, ok stöðvaðir svâ þorsta þinn, *A, J, M; en A ok J b. v. enn fremr:* En ef þú ert sá Gestr blindi, sem ek ætlaða, þá ertu vísari, enn ek hugða, því ekki hefi ek spurt orð þín vitrlig, en gjörðir aungan veginn (aungva leið, *J.*) spakligarr. Gestr mælti: þat er von, at mik þrjóti brátt, en þó vilda ek enn þèr hlýdduð. 2) mjök, *A, J, M.* 3) sá er, *M.* 4) ok á gulli einu gengr, *M*; sá er á gulli einu gengr, *A, J.* 5) þat er gullsmiðs hamar, er gull er með slegit (en þat er hamar sá, er hafðr

Þá mælti Gestr:

Hvat er þat undra,
er ek úti sá
fyri Dellíngs dyrum?
ókvikir tveir,
andalausir,
száralauk suðu.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[erat blærr, nè bruni,
í belgjum smiða,
hafat þeir líf nè lá;
má þó fyri þeim
mæki smíða
við þann gust, er gefa[1].

Þá mælti Gestr:

Hvat er þat undra,
er ek úti sá
fyri Dellíngs dyrum?
fætr hefir átta,
fjögr augu,
ok berr ofarr knè enn kvið.

---

er at gullsmíð, *M.*), hann kveðr hátt við, er hann kemr á harðan steðja, ok er þat hans gáta, *A*, *J*, *M*.

[1]) þat eru smiðbelgir; þeir hafa öngvan vind, nema þeim sè blásit, ok eru þeir dauðir, sem annat smíði, en fyri þeim má líkt smíða sverð sem annat, *A*, *J*, *M*.

Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[austan gekkstu
at Ymis dyrum
salkynni at sjá;
komstu þar at,
er konúngr vafa
vef úr þörmum vaf[1].

Þá mælti Gestr:

Hvat er þat undra,
er ek úti sá
fyri Dellíngs[2] dyrum?
höfði sínu vísar
á helvegu,
en fótum til sólar snýr.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[höfuð veit
í hlóðynjar skaut,
en blöð í lopt, á lauk[3].

---

1) þat eru kóngurófur, *A*; kavngurórur, *J. M.* 2) döglíngs, *J.*
3) þat er laukr, höfuð hans horfir í jörðu, en blöðin í lopt upp, *A*, *J*;

Þá mælti Gestr:

Hvat er þat undra,
[er ek úti sá
fyri Dellíngs dyrum[1]?
horni harðara,
hrafni svartara,
skildi skygnara[2]
skapti rèttara.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

[Smækka tekr nú
smíði gátu,
hvat skulu búnum bið?
leiztu á leiðir,
lá hrafntinna,
glóði geisla mót[3].

Þá mælti Gestr:

Báru hrundir[4],
bleikhaddaðar
ambáttir tvær,
öl til skemmu;
varat[5] þat höndum horfit,

---

þat er laukr, höfuð hans er fast í jörðu, en hann kvíslar, er hann vex upp, *M*.

[1]) *v. í A, J, M.* [2]) hvítara, *A, J, M.* [3]) smækkast nú gáturnar, Gestr blindi! hvat þarf nú lengr yfir þessu at sitja? þat er hrafntinna, ok skein á hana sólargeisli, *A, J, M.* [4]) brúðir, *A, J, M.* [5]) ei var, *A, J, M.*

nè hömrum[1] klappat;
[sjá var út við[2] eyjar
örðigr[3], er gjörði.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:
Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[ham bera svanir
hvítfjaðraðan,
er við eyjar
á viði sitja;
hreiðr þeir bygðu,
hendr nè höfðu,
á gaglhálsum
egg við gátu[4].

Þá mælti Gestr:
Hverjar 'ro þær rigna[5]
á regin fjalli,
elr kvân[6] kona?
[mær við meyju
mög of getr[7],
ok [eigot þær[8] varðir vera.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

---

1) hamri, *A, J, M.* 2) þó var fyrir eyjar utan, *A, J, M.* 3) sá, *b. v. A, J, M.* 4) þar fara svanbrúðir til hreiðrs síns, ok verpa eggi; ei er þat (skurm á eggi er ei, *M.*) höndum gjört, nè hamri klappat, en svanr er fyrir eyjar utan, örðugr, sá er þær gátu eggin við, *A, J. M.* 5) rýgjar, *A. J. M.* 6) við kvið, *A*; við kvað, *J*; við kvan, *M.* 7) þartil sèr mörgum girtr, *A*; þartil er mög um getr, *J, M.* 8) eigi þar. *A, J.*

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[fjallhvannir tvær
fanntu standa,
ok þriðja únga
þeirra í millum[1].

Þá mælti Gestr:

Fara ek sák
foldar mold-auka[2],
ok sat naðr[3] á nái;
blindr reið blindum
brimreiðar[4] til,
[þá jór var andarvani[5].
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[jór fanntu dauðan
á jaka liggja,
örn á tafni;
þat bar á ísi
ár til samans
straumr ströndu at[6].

---

1) þat eru hvannirtvær, ok hvannar- (hönar, *A*, *J*.) kálfr á millum þeirra, *A*, *J*, *M*. 2) búa, *A*, *J*, *M*. 3) *þannig A*, *M*; nár, *E*; norðr, *J*. 4) brimheiðar, *A*. 5) *v. í A*; -vanr, *J*, *M*. 6) þar fannstu hest dauðan á ísjaka, ok örn dauðan á hestinum, ok rak þat allt saman fyrir (eptir, *M*.) ánni, *A*, *J*.

Þá mælti Gestr:

Hverir 'ro[1] þegnar,
er ríða þíngi at,
sáttir allir saman?
lýða[2] sína senda þeir
lönd yfir,
at byggja bólstaði.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[Ítrekr ok Öndóttr
um aldrdaga
tefla teitir skák;
sátt er þeim lið allt,
er í sjóð kemr,
en á reitum reitt[3].

Þá mælti Gestr:

Hverjar 'ro þær drósir[4];
er sinn drottinn
vâpnlausan vega?
enar dökkvari[5] hlífa
um [alla daga[6],
en enar fegri fara[7].
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

---

[1]) 3, *b. v. A.* [2]) liði, *A.* [3]) þat er Itrekr ok Andaðr, er þeir sitja at tafli sínu, *A, J, M.* [4]) brúðir, *A, J, M.* [5]) jarpari, *A, J, M.* [6]) allat, *A, J.* [7]) fá, *A.*

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[duga hnefatöflur
dökkvar í tafli,
en hvítar herja ámót[1].

Þá mælti Gestr:

Hverr er sá, enn eini,
er sefr í ösgrúa[2],
af[3] grjóti einu gjörr?
föður nè móður á sá
enn fár[4]-gjarni,
þar mun hann sinn aldr ala[5].
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[eld elr aska
í arni fólginn,
tinnu getr hann grjót[6].

Þá mælti Gestr:

Hverr er sá enn mörkvi[7],
[er mold ferr yfir[8],

---

[1]) þat er hneftafl, (hnettafl, *M*; hnètafl, *J*.); enar dökkri verja hnefann, en hinar hvítari sækja, *A*, *J*, *M*. [2]) os gráa, *A*. [3]) ok af, *A*, *J*, *M*. [4]) *eða* far; fagr, *A*, *M*; fafr, *J*. [5]) tala, *A*, *J*. [6]) þat er eldr, fólginn á arni, ok tekinn (tekr, *M*.) úr eldtinnu, *A*, *J*, *M*. [7]) mikli, *A*, *J*, *M*. [8]) líðr mold yfir, *A*, *J*, *M*.

svelgr hann vatn ok við?
glygg hann óast,
en guma ekki,
ok yrkir á sól til saka.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[gengr op mörkvum
ör Gýmis fletjum,
ok heldr af hlírni sýn,
sá drepr skini
Dvalins leiku,
flýr einn Fornjóts bur[1].

Þá mælti Gestr:

Hvert er þat dýra,
er drepr fè manna,
ok er járni[2] [allr
urinn í kríng[3]?
horn hefir átta,
en höfuð ekki,
ok fylgja því margir mjök.

---

[1]) þat er mörkvi, er fyri kemr, sèr eigi sólin; rýfr, þegar er vindr kemr, en menn megu ekki at honum gjöra; (hann drepr skini sólar, *b. v. J.*); en vitsamliga (vèlasamliga, *J.*) berr þú upp slíkar gátur (slík vanmæli, *J.*) hvörr sem þú ert, *A, J*; þat er myrkvi, hann líðr yfir jörðina, svâ at eigi sèr fyrir honum, ok eigi sól, en hann er af, þegar vind gerir, *M.* [2]) í arni, *M.* [3]) kríngr utan, *A, M*; kríngdr utan, *J.*

Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[húni man sjá vera
í hnottafli,
frekr ok flárr til fjár[1].

Þá mælti Gestr:

Hvert er þat dýra,
er Dönum[2] hlífir?
berr blóðugt bak,
en benjar[3] fyri[4],
geirum mætir,
gefr líf [sitt fram[4],
leggr við lófa
lík sitt guma[5].
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[skildir blika

---

[1]) þat er húninn í hneftafli (hnet tafli, *M*; hnètafli, *J*.), *A*, *J*, *M*. [2]) dómum, *A*. [3]) bergr, *A*, *J*, *M*. [4]) fyrrum, *A*; firum, *J*, *M* [5]) gumni, *A*, *M*; gumi, *J*.

í bardögum,
en verja þá, er valda[1].

Þá mælti Gestr:

Hverjar eru þær leikur,
er líða lönd yfir,
[ok leika at muni margt[2]?
hvítan skjöld þær
of[3] vetr[4] bera,
en svartan of sumar.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[rjúpur kalla
rekka synir
fiðr-varðan[5] fugl;
sortnar fiðr
á sumar tíma,
en bliknar um bjarnar nótt[6].

Þá mælti Gestr:

Hverjar 'ro snótir,
er[7] syrgjandi gánga
at forvitni föður?

---

1) þat er skjöldr; hann verðr opt blóðugr í bardögum, ok hlífir vel þeim mönnum, sem at skjaldfimir eru, *A, J, M.* 2) *v. í A, J, M.* 3) við, *A, J.* 4) haust, *J.* 5) fiðrverðan, *E.* 6) *frá* ([) þat eru rjúpur; þær eru hvítar um vetrinn, en svartar um sumarit, *A, J, M.* 7) margar, *b. v. A, J, M.*

mörgum[1] þær hafa
at meini[2] orðit,
[við þat[3] sinn aldr ala.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:
Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[eldis[4] brúðir,
eitri blandnar,
fara mörgum fyrir[5].

Þá mælti Gestr:
Hverjar eru þær meyjar,
er gánga margar saman
at forvitni föður?
hadda bleika hafa þær
enar hvitfölduðu,
[megat þeim varða verar[6].
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:
Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[Gýmir hefir sèr

1) manni, *b. v. A, J*; mönnum, *b. v. M.* 2) inni nè, *A.* 3) ok þat munu þær, *A*; við þat munu þær, *J, M.* 4) *þannig E.* 5) þat eru eðlis brúðir, er svâ heita, *A, J, M.* 6) ok eiga þær þar varðir vera, *A, J*; ok eiga þ. þ. verðir vera, *M.*

getit dætr,
ráðsviðar við Rán;
bylgjur þær heita
ok bárur,
verr þeim vera enginn .

Þá mælti Gestr:

Hverjar 'ro ekkjur,
er allar gánga saman
at forvitni föður?
sjaldan 'ro[2] blíðar
við seggja lið,
ok egu í vindi vaka.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[öldur þat eru,
Ægis dætr,
þær láta fallast fast[3].

Þá mælti Gestr:

Nóg[4] var forðum
nös-gás vaxin
barngjörn, sú er bar
bútimbr[5] saman;

---

[1]) þat eru bylgjur, er svâ heita, *A*, *J*, *M*. [2]) eru þær, *A*, *J*, *M*, [3]) þat eru Ægis ekkjur, svà heita öldur, *A*, *J*, *M*. [4]) mjök, *A*, *J*, *M*. [5]) bútúngr, *A*; bútúnkr *eða* búteym, *J*.

hlífðu henni
hálms[1] bitskálmir,
þó lá drykkjar
drynhrön[2] yfir.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[áttir þú líta
andarfygli
eggjum sitja á;
numit var staðar
með nauts hausi,
en kjálkar gerðu kví[3].

Þá mælti Gestr:

Hverr er sjá enn mikli,
er mörgu ræðr,
sèr[4] til heljar hálfr?
höldum hann bergr,
en [við svörð[5] sakast[6],
ef hann hefir sèr vel traustan vin.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,

---

1) hjálms, *A*, *M*. 2) *eða* drynhraun. 3) þar hafði önd búit hreiðr sitt milli nauts kjálka, ok lá hausinn ofan yfir, *A*, *J*, *M*. 4) hæfir, *A*; horfir, *J*, *M*. 5) við sverð, *A*; við jörð, *M*. 6) saka, *A*.

Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[dugir atkeri
með digru togi,
flotna skaut á sæ,
fleini þat hrífr
í fold niðr,
ok horfir til heljar svå[1].

Þá mælti Gestr:

Hverjar 'ro brúðir,
[er í brimskerin gánga[2],
ok egu eptir firði[3] för?
harðan beð hafa
enar hvítföldudu konur,
ok leika í logni fátt.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[bárur ok brekar,
ok boðar gjörvallir,
leggjast loks á sker;

---

[1]) þat er akkeri með digrum ok sterkum streng; þat hrífr öðrum fleini í jörð, ok horfir þá til heljar; hann bergr mörgum manni. En mjök undrast ek orðfimi þína ok vitrleik. Gestr (Gestum blindi, *J.*) mælti: ek em nú náliga þrotinn, *A og J*, *sem enn bætir við:* at gátum, en frekr er hvörr til fjörsins; þat er akkeri með góðum streng, er fleinn hans er í grunni, þá bergr þat, *M.* [2]) þær er gánga á brimskerjunn, *A.* [3]) friði, *A*, *J.*

heðir eru þeirra
björg ok urðir,
en sátt er sæfar logn[1].

Þá mælti Gestr:

Sá ek á sumri,
[sólbjörgum í[2]
[verðúng vaka[3]
vilgi teiti;
drukku jarlar
öl þegjandi,
en æpandi
ölker stóðu[4].
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[grísar þegjandi
giltu drukku,
en hún rítti af raun[5].

Þá mælti Gestr:

Hverr byggir há fjöll?
hverr fellr í djúpa dali?
hverr andalauss lifir?
hverr æva þegir?

---

1) þat eru bárur, en beðr þeirra eru sker ok urðir, en þær verða lítit sénar í logni, *A*, *J*, *M*. 2) sólbjörg ofar (ófá, *J*, *M*.), *A*, *J*, *M*. 3) bað ek vel lifa, *A*, *J*, *M*. 4) stóð, *A*, *J*, *M*. 5) þá drukku grísir giltu, en hún hrein fyrir, *A*, *J*, *M*.

Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.
Heiðrekr svarar:
Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
hrafn byggir há fjöll,
[dögg fellr í djúpa dali,
fiskr án anda
í flóði lifir[1],
en þjótandi foss
þegir aldrègi[2].
Þá mælti Gestr:
Meyjar ek sá
moldu líkar,
voru þeim at beðjum björg,
svartr samr[3]
ok sólviðja,
en þessir fegri
er fæða af sèr.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.
Heiðrekr svarar:
Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
í ösku fólgnar,

[1]) en dögg fellr jafnan í djúpa dali; fiskr lifir andalauss, *A, J.*
[2]) vandast mun nú, segir Gestr blindi, ok veitka ek nú ei, hvat fyri verðr, *b. v. A, J; báðar vísurnar vanta í M.* [3]) *eða:* samar.

á arni fölnaðar,
gatstu glæður sjá[1].

Þá mælti Gestr:

Fjórir gánga,
fjórir hánga,
tveir veg vísa,
[tveir hundum varða[2];
einn eptir drattar
[æfi daga,
sá er jafnan[3]
saurugr.
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[kýr er þat dýra,
er þú knáttir sjá
fjórum gánga fótum;
fjórir hánga spenar,
en horn hana vörðu,
hali hèkk at baki[4].

Þá mælti Gestr:

Sat ek á segli,
sá ek[5] dauða menn
blóðs[6] hold bera
í björk[7] viðar[8].

1) *báðar vísurnar v. í A, J, M, sem og raða öðruvíss niðr þeim 6 fylgjandi vísum.* 2) *v. í M.* 3) ok jafnan heldr, *A, J, M.* 4) þat eru kýr, *A, J, M.* 5) á, *b. v. A.* 6) blóð, *M.* 7) börk, *eða* björk, *A, J, M.* 8) virðar', *M.*

Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[satstu á arni,
þar sástu val fljúga,
sá barr æðarfugl
sèr í klóm[1].

Þá mælti Gestr:

Hvat er þat undra,
er ek úti sák
fyri Dellíngs dyrum?
tíu[2] hefir túngur,
tuttugu augu,
fjörutígi fóta,
framlíðr [sjá vætt[3].
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

[Vonum þikki mèr þú nú
vitrari vera,
ef sá ert, er segir,
er þú gautar
of giltu úti,
þá er í garði gekk;
var sú þá sundruð

---

[1]) þar satstu á veg, ok sást val bera æði í hamra, *A*, *J*, *M*. [2]) níu, *A*, *J*. [3]) sú vettr, *J*, *M*.

at vísirs ráði,
ok gekk hún með grísi níu[1].

Þá mælti Gestr:

[Hverir eru þeir tveir,
er til þíngs fara,
þrjár hafa þeir sjónir saman,
tíu fætr ok
tagl eitt báðir,
ok líða svâ lönd yfir[2]?
Heiðrekr konúngr!
hygg þú at gátu.

Heiðrekr svarar:

Góð er gáta þín,
Gestr blindi!
getit er þeirrar:
[þat er Óðinn,
þá Sleipni ríðr fram;
eitt á hann auga,
(en) marr bæði,
dregr skeið fótum
drösull átta,
iggr[3] tveimr;
hestr á hala einn[4].

---

1) ef þú ert Gestr hinn blindi, sem ek ætlaða, (sá Gestumblindi, sem ek hugða, *J, M.*), þá ertu vísari, enn ek hugða; en frá giltunni segir þú nú útí garðinum; lèt konúngr þá taka giltuna, ok hafði hún níu grísa, sem Gestr hinn blindi sagði; ok nú grunar konúng, hvörr maðrinn muni vera, *A, J, M.* 2) Hverir eru þeir tveir, er tíu hafa fætr, augu þrjú ok einn hala? *A, J, M.* 3) Siggeir, *eitthvört.* 4) þat er, þá Oðinn ríðr Sleipni, *A, J, M*; ok ber þú fram fleiri gátur, ef þú þorir, *bætir A við.*

Þá mælti Gestr:

Seg þú mèr þat eina[1],
[alls þú vera þikkir
hverjum kóngi hyggnari[2]:
hvat mælti Óðinn
í eyra Baldri,
áðr hann var á bál borinn[3]?

Heiðrekr svarar:

[Undr ok argskap
ok alla bleyði,
skí ok skrípi ein,
en engi veit þau orð þín,
utan þú sjálfr,
ill vættr ok örm!

Brann skap konúngi,
brá hann Tyrfíngi,
ok hugði at höggva Gest;
en hann viðbrást
í vals líki,
ok forðaði svâ fjörvi.

Leitaði undan
á ljóra valr,
en hilmir eptir hjó;
vèli skar aptan
ok skemdi fjaðrar,
því berr hann stýfðan stert[4].

---

[1]) fyrst, *A*, *J*, *M*. [2]) ef þú ert hvörjum konúngi vitrari, *A*, *J*, *M*. [3]) hafðr, *A*, *J*, *M*. [4]) þat veiztu einn, ragr (rög, *M*.) vættr! ok þá bregðr hann Tyrfíngi, ok höggr til hans; en Oðinn brást í valslíki, ok fló upp (ábrott, *J*, *M*.) *A*, *J*, *M*.

Kom sverðit á vèlit, ok tók af, þat er nam, ok því er valrinn vèlstuttr ávalt síðan; varð þá fyrir hirðmaðr einn, ok fèkk hann þegar bana. Óðinn mælti þá: fyri þat, Heiðrekr konúngr! at þú rèðst sverði til mín, ok vildir drepa mik[1], ok gekkst sjálfr á grið þau, er þú settir millum okkar, skulu þèr hinir verstu þrælar at bana verða! Fló Óðinn þá burt, ok skildi svâ með þeim.

16. Nokkru síðarr býst konúngr heiman, ok vildi skipa lögum um ríki sitt; hann hafði sèr náttstað settan undir fjöllum þeim, er Hávaðafjöll voru köllut; þótti mönnum hans sú dagferð ærit laung. Konúngr bað velja þann frásta hest sèr til reiðar; valdi hann til ferðar með sèr 9 þræla, þá hafði hann tekit í vestrvíkíng, ok voru þeim fengnir þeir beztu reiðskjótar; riðu þeir nú með konúngi, ok margir menn aðrir. Konúngr reið svâ mikit, at enginn gat fylgt honum, nema þrælarnir, ok fáir menn aðrir; komu þeir um kvöldit undir Hávaðafjöll, ok reistu þar tjöld sín. En er konúngr var sofnaðr með sínum mönnum, stóðu upp þrælarnir ok drápu alla varðmennina; síðan gengu þeir í tjaldit, þángat sem konúngr lá, tóku þeir nú Tyrfíng ok brugðu, ok myrðtu með honum Heiðrek konúng ok alla þá, þar inni voru; er þetta talit hit þriðja níðíngsverk unnit með Tyrfíngi, eptir því, sem dvergrinn hafði fyrimælt, voru nú endut þau álög. Höfðu nú

1) saklausan, *b. v. J, M.*

þrælarnir Tyrfíng í burt með sèr, ok allt þat í tjaldinu var fèmætt. Um morguninn eptir komu menn Heiðreks konúngs, ok fundu hann dauðan; sendu þeir þá heim, at segja Ángantýr tíðendin; hann lætr þegar reisa haug mikinn þar undir Hávaðafjöllum í þeim stað, sem konúngrinn var drepinn; var sá haugr viðum snúinn ok gjörr rambyggiligr; var Heiðrekr þar í lagðr, ok þeir menn, er myrðtir voru með honum. Síðan var þíng stefnt, ok Ángantýr til konúngs tekinn yfir öll þau ríki, er Heiðrekr konúngr hafði átt; á þessu þíngi strengdi hann heit, at aldrei fyrr skyldi hann setjast í hásæti föður síns, enn hann hefði hefnt hans. Litlu síðarr hverfr Ángantýr í burt einnsaman, ok ferr víða at leita þrælanna; eitt sinn gengr hann til sjófar með á þeirri, er Greipá[1] hèt; þar sá hann menn á báti, ok sátu at fiski; því nærst sá hann, at maðr dró fisk, ok kallar, at annar skuli fá honum agnsaxit at höfða fiskinn; en sá kveðst eigi laust mega láta. Hinn mælti: taktu sverðit [í lyptíngunni[2], ok fá mèr. En sá tók ok brá, ok sneið höfuð af fiskinum; þá kvað hann vísu;

> Þess galdt hún gedda
> fyri Greipár[3] ósi,
> at Heiðrekr var veginn
> undir Hávaðafjöllum[4].

Ángantýr kendi þegar Tyrfíng; gekk hann þá

---

1) Grafá, *M.* 2) undan höfða-fjölinni, *J*, *M.* 3) Grafár, *M.* 4) Harvaðafjöllum, *J*, *M.*

í burt í skóginn ok dvaldist þar; en fiskimenn þessir rèru at landi, ok fóru til tjalds þess, er þeir áttu, ok lögðust til svefns. En nær miðri nóttu kom Ángantýr þar, ok feldi á þá tjaldit, ok drap þá 9 saman, ok tók sverðit Tyrfíng, ok var þat til marks, at hann hafði hefnt föður síns; fór Ángantýr nú heim. Síðan lèt hann efna veizlu mikla á [þeim bæ, er Dampstaðir heita í Árheimum, er sumir kalla Ernar hèrað, var þat höfuðborg á Reiðgotalandi í þann tíma[1], ok drakk þar erfi eptir föður sinn. Þessir konúngar rèðu þá löndum, sem hèr segir:

Ár kváðu Humla
fyrir her ráða,
Gizr Gautum,
Gotum Ángantýr,
Valdar Dönum,
en [Völlum Ákjar[2],
Álfrekr hinn frækni
Enskri þjóðu.

Hlöðverr[3], son Heiðreks konúngs, fæddist upp með Humla konúngi, móðurföður sínum, sem fyrr er sagt, ok var allra manna fríðastr sýnum ok drengiligastr. En þat var fornt mál í þann tíma, at maðr væri borinn með vopnum eðr hestum; en þat var til þess haft, at þat var mælt um þau vopn, er þá voru þeim gjör þann tíma, svâ ok

---

1) Dauparstöðum (Dampstöðum, *J.*) á þeim bæ er Arheimar heita, *J, M.* 2) Völum Kjar, *J, M.* 3) Hlöðr, *allstaðar J, M.*

fè, ok kvikendi ok hestar, ef þat var þá fædt, ok var þat alltsaman fært til virðíngar tignum mönnum, sem hèr segir um Hlöðver Heiðreksson:

Hlöðr var þá[1] borinn
í Humlalandi[2]
saxi ok með sverði,
síðri brynju,
hjálmi hríngreifðum[3]
ok hvössum mæki,
mari vel tömdum[4],
á mörk hinni helgu.

Nú spyrr Hlöðverr fráfall föður síns, ok þat með, at Ángantýr, bróðir hans, var til konúngs tekinn yfir öll þau ríki, er faðir hans hafði átt. Nú vilja þeir Humli ok Löðr, at hann fari at krefja arfs Ángantýr, bróður sinn, fyrst með góðum orðum; sem hèr segir:

Hlöðr reið utan[5],
Heiðreks arfi[6],
kom at garði þar,
er Gautar[7] byggja,
á Árheima
arfs at krefja[8],
þar drakk Ángantýr
erfi Heiðreks kóngs.

Nú kom Hlöðr í Árheima með miklu liði, sem hèr segir:

1) þar, *J*, *M*. 2) Húnalandi, *M*. 3) hugreifðum, *M*. 4) tömum, *J*, *M*. 5) austan, *J*, *M*. 6) mögr, *M*. 7) Gotar, *M*. 8) kveðja, *J*, *M*.

Segg fann hann úti
fyri sal háum,
ok síðförlan
síðan kvaddi:
inn gakk þú, seggr!
í sal háan,
bið mèr Ángantýr
annspjöll bera.

Sá gekk inn fyri konúngsborð, ok kvaddi Ángantýr konúng, ok mælti síðan:

Hèr er Hlöðverr kominn,
Heiðreks arfþegi,
bróðir þinn
enn beðrammi[1],
mikill er sá maðr[2]
á mars baki,
vill nú þjóðáss[3]
við þik tala.

En er konúngr heyrði þetta, þá varpaði hann knífnum á borðit, en stè undan borðinu, ok steypti yfir sik brynju, ok tók hvítan skjöld í hönd sèr, en sverð í aðra. Þá gjörðist gnýrr mikill í höllinni, sem hèr segir:

Rymr var í ranni,
risu með goðum[4],
vildi hvörr heyra,
hvat er Hlöðr mælti,
ok þat er Ángantýr
andsvör veitti.

---

[1]) beðskammi. *J, M.* [2]) mjök. *b. v. J;* úngr, *b. v. M.* [3]) þjóðann, *M.* [4]) *eða* góðum, *eða* Goðum.

þá mælti Ángantýr: vel þú kominn! vel þú verir! gakk inn með oss til drykkju, ok drekkum mjöð eptir föður okkar, fyrst til sama ok öllum oss til vegs, með öllum vorum sóma[1]. Hlöðr mælti: til annars fóru vèr híngat, enn kýla vömb vora; þá kvað Hlöðr:

Hafa vil ek hálft[2],
þat er Heiðrekr átti,
af al ok af oddi,
einnin skatti,
kú ok af kálfi,
kvern þjótandi;

þý ok af þræli
ok þeirra börnum[3],
[hrísi því hinu[4] mæta[5],
er Myrkviðr heitir,
gröf þá hinu helgu[6],
er stendr á [götu þjóða[7];

Stein þann hinn fagra[8]
á stöðum Damptar[9],
hálfar herborgir,
er Heiðrekr átti,
[landa ok lýða
ok ljósra[10] bauga.

Ángantýr kvað:

Bresta[11] mun[12], bróðir minn[13]!

---

[1]) *þannig öll.* [2]) allt, *b. v. J. M.* [3]) barni, *M.* [4]) hrís þat it, *M.* [5]) mæra, *J.* [6]) góðu, *M.* [7]) Goðþjóðu, *J.* [8]) mæra er stendr, *M.* [9]) Dampnar, *J*; Dampar, *M.* [10]) land ok lýði ok ljósa, *M.* [11]) bera, *J.* [12]) fyrr, *b. v. M.* [13]) *v. í M.*

[blikhvíta hönd[1]
[ok kaldr geirr
koma við randir[2],
ok margr gumi
í gras hníga,
[áðr enn Tyrfíng
í miðt deilik,
eða þèr, Humlúngr!
hálfan arf gefak[3].

Ok enn kvað Ángantýr:
Ek mun bjóða þèr
fagrar veigar,
fè ok fjöld meiðna,
sem mik fremst tíðir;
tólf hundruð gef ek þèr manna,
tólf hundruð gef ek þèr mara,
tólf hundruð gef ek þèr skálka,
þeirra er skjöld bera.

Manni gef ek hvörjum
margt at þiggja[4]
meyju spenni ek hvörri
men at hálsi.

Mun ek (um) þik sitjanda
silfri mæla,
en gánganda þik
gulli steypa,

---

1) lindinn blikhvíta, *M.* 2) *v. í M;* o. k. g. k. v. annat, *J.* 3) ek mun Humlúng hálfan láta, eða Tyrfíng í tvö deila. Býð ek þèr, frændi! til heilla sáttu, mikit ríki ok ærit fè, 12 hundrað vápna, *M, sem hèr er úti.* 4) annat æðra, enn hann ányði; mey gef ek hvörjum manni at þiggja, *b. v. J.*

svâ á vegu alla
velti baugar;
þriðjúng Goðþjóðar,
því skaltu ráða!

17. Gizr Gertíngaliði[1], fóstri Heiðreks konúngs, var þá með Ángantýr konúngi; hann var þá ofr gamall; ok er hann heyrði boð Ángantýrs, þótti honum hann ofmikit bjóða, ok mælti:

Þetta er þiggjanda
þýar barni,
[barni þýa[2],
ok þótt sè borinn konúngr;
þá hornúngr[3]
á haugi sat,
er öðlíngr
arfi skipti.

Hlöðverr reiddist nú mjök, er hann var þýarbarn ok hórnúngr kallaðr, ef hann þægi boð bróður síns; snèri hann þá þaðan burt með alla sína menn, til þess hann kom í Húnaland til Humla konúngs, móðurföður síns, ok sagði honum, at Ángantýr, bróðir hans, hefði unnat honum þriðjúnga[4] skiptis. Humli konúngr spurði þá allt tal þeirra, ok varð mjök reiðr, er Hlöðr, dótturson hans skyldi ambáttarson heita, ok mælti:

Sitja skulu við í vetr
ok sælliga lifa,

---

[1]) Gyrtíngaliði, *J.* [2]) *þannig b. v. J.* [3]) *þannig J*; Humlúngr, *A.* [4]) helmínga, *J.*

drekka ok dæma
dýrar veigar,
kenna Húnum
vopn at búa,
þau er djarfliga
skulum frambera.

Ok enn kvað hann:

Vel skulu vèr[1], Hlöðr!
herlið búa,
ok ramligar[2]
hildir heyja,
með tólf vetra gömlu mengi
ok tvævetrum fola,
svâ skal Húna
her um safna.

Þenna vetr sátu þeir Humli konúngr ok Hlöðr um kyrt; um vorit drógu þeir her saman, svâ mikinn, at aleyða var eptir í Húnalandi[3] vígra manna. Allir menn fóru 12 vetra gamlir, ok [þat at sextugs aldri[4]; var þat svâ mikill herr, at þúsundum mátti telja, en eigi smærra, enn þúsundir í fylkíngar; [en höfðíngi var settr yfir þúsund hvörja, en merki yfir hvörja fylkíng[5], en 5 þúsund í hvörja fylkíng, þeirra er 13 hundruð[6] voru í hvörri, en í hvört hundrað fernir 40[7], en þessar fylkíngar voru 3 ok 30. Sem þessi herr kom saman, ríða þeir á skóg þann, er Myrkviðr heitir; hann skilr Húnaland ok Reiðgota-

[1]) þèr, *J.* [2]) fráliga, *J.* [3]) Humlalandi, *J.* [4]) eldri, þeir eð herfærir voru at vopnum ok hestum, þvíat allir fóru tvævetrir ok eldri, *J.* [5]) *þannig J; gleymt úr A.* [6]) *þannig J;* 16 hundrað, *rángt, A; sbr. bls.* 502. 505. [7]) *þannig J;* 60, *rángt, A.*

land[1]. En sem þeir komu af skóginum, þá voru slèttir vellir ok bygðir stórar, en á völlunum stóð borg ein fögur; þar rèð fyrir Hervör, systir Ángantýrs ok Hlöðvers, ok með henni Ormar[2], fóstri hennar; voru þau sett þar til landgæzlu fyrir her Húna, höfðu þau þar mikit lið.

18. Einn morgun um sólarupprás, sem Hervör stóð uppá kastala einum yfir borgarhliði, sá hún jórreyki stóra suðr til skógarins, svâ laungum fól sólina; því nærst sá hún gjörla undir jórreykinn, sem á gull eitt liti, fagra skjöldu ok gull-lagða, gylta hjálma ok hvítar brynjur; sá hún þá, at þat var Húna herr ok mikill mannfjöldi. Hervör gekk ofan skyndiliga, ok kallar á lúðrsvein sinn, ok bað hann blása saman lið. Síðan mælti Hervör: takið vopn yðar, ok búist til orrostu, en þú, Ormar! ríð ímót Húnum, ok bjóð þeim til bardaga fyri borgarhliði enu syðra. Ormar svarar: svâ mikinn her hafa Húnar, at eigi fáu vèr viðstaðizt, er þat því mitt ráð, at þú ríðir undan til Ángantýrs konúngs, bróður þíns, ok segir honum, hvörsu komit er. Hervör mælti: ertu nú hræddr, Ormar! at finna Húna? gjör, sem ek sagða, ok bjóð þeim bardaga! Ormar kvað:

Skal ek víst ríða,
ok[3] rönd bera
Gauta kyndum[4],
gunni at heyja.

1) Gotaland, *J.* 2) Ormr, *allstaðar J.* 3) *ágizkat*; 1, *J.* 4) þjóðum, *J.*

Síðan reið Ormar af borginni ímót Húnum; hann kallaði þá hátt, ok bað þá ríða til borgarinnar, ok fyri borgarhliðinu syðra: þar býð ek yðr til orrostu, bíði þeir þar annarra, er fyrr koma. Nú reið Ormar aptr til borgarinnar, var þá Hervör búin til bardaga. Síðan riðu þau með allan sinn her útaf borginni ímót Húnum; var þá í lúðra blásit, ok því nærst hófst orrosta mikil, ok snèri skjótt mannfallinu í lið Hervarar, því Húnar höfðu her miklu meira. Ormar reið framí her Húna, ok drap svâ margan mann, at seint er at telja, ok var þeim aungum lífs von, er hann náði til með sverðinu, ok báðar hendr hefir hann blóðugar til axla. Nú sem Hervör sèr, at hennar lið fellr, varð hún ákafliga reið, ok höggr til beggja handa bæði menn ok hesta, drap hún jafnan 6 menn í hvörju höggi, ok hrökk allt undan henni, var hún líkari leóni, enn manni, at sjá; aungum mætti hún svâ hraustum, at eigi tæki skjótt dauðann fyri lífit; mátti hún þó ekki mótstanda þvílíku ofrefli, sem við var at eiga; voru þá fallnar af henni 10 þúsundir; hún kallar þá á Hlöð, ok mælti: kom þú til einvígis við mik, Hlöðr! ef þú hefir örrugt karlmanns hjarta. Hlöðverr svarar: ekki er ek þyrstr í líf þitt, systir! hèt hann þá á sína menn, at taka hana höndum: ok skal hún bíða fyrst á voru valdi. Þegar Hervör heyrði þetta, eyrði hún aungu, ok drap allt, hvat fyri varð, gekk svâ lengi; sókti þá at henni

herinn; en hún drap alla, er henni voru nærstir, þángattil hún fèll dauð niðr af hestinum; runnu þá blóðstraumar miklir af munni hennar, ok meintu allir, at hún mundi hafa sprúngit af mæði; þóttist enginn hafa spurn af, at nokkr kvennmaðr hefði svâ hreystiliga barizt; síðan lèt Hlöðverr heygja hana með mikilli virðíngu. Nú sem Ormar getr at líta fall Hervarar, hleypti hann mjök sárr úr orrostunni, ok lètti eigi, fyrr enn hann kom í Árheima; en þat lið, sem eptir lifði, flýði til borgarinnar. En sem Ormar hitti Ángantýr konúng, fagnaði konúngr honum vel, ok spyrr tíðenda. Ormar kvað:

Sunnan em ek kominn,
at segja spjöll þessi:
sviðin er öll
Myrkviðar heiði,
drifin öll Goðþjóð
gumna blóði.

Ok enn kvað hann:

Mey veit ek Heiðreks,
. . . . . . .[1]
systur þína,
svigna til jarðar;
hafa Húnar
hana felda,
ok marga aðra
yðar þegna;
littari[2] gjörðist

[1]) *hèr mun v. hendíngu, þó ekkert auðt bil sè í handritunum.*
[2]) *þannig J;* líttek, *A.*

hún á hauðri,
. . . . . . .[1]
enn við biðil ræða,
eðr í bekk at fara
at brúðargángi.

En þá Ángantýr heyrði þetta, brá hann grönum, ok tók seint til orða; hann mælti um síðir: óbróðrliga varstu leikin, hin ágæta systir! ok síðan leit hann yfir hirð sína, ok var ekki margt lið með honum; hann kvað þá:

Mjök voru vèr margir,
er vèr mjöð drukkum,
nú eru vèr færri
er vèr fleiri skyldum;
sè ek eigi þann
í mínu liði,
þótt ek biðì
ok baugum kaupi,
er muni ríða
ok[2] rönd bera,
ok þeirra Húna
herlið finna.

Gizr gamli sagði:

Ek mun þar einkis
eyris krefja,
nè skuldanda
skarfs úr gulli;
þó skal ek ríða
ok[2] rönd bera,

1) *hèr mun og vanta í vísuna, þó eigi sè eyða þar fyrir í handritunum.* 2) *ágizkað;* í, *A, J.*

Húna þjóðum
gunni at bjóða.

Þat voru lög Heiðreks konúngs, ef herr var í landi, at landkonúngr haslaði orrostuvöll, ok lagði orrostustað, þá skyldu víkíngar ekki herja, fyrr enn orrosta væri reynd. Gizr herklæddist nú með góðum vopnum, ok hljóp á sinn hest, sem úngr væri; þá mælti hann til konúngs:

Hvar skal ek Húnum
hervíg kenna?

Ángantýr konúngr kvað:

Kendu á Dylgju[1]
ok á Dúnheiði,
ok á þeim öllum
Jossar[2] fjöllum;
báru opt Gotar
ok geir háðu,
ok fagran sigr
frægir fengu.

Nú reið Gizr í burt, ok þartil, er hann kom í her Húna; hann reið eigi nærr, enn svâ, at hann mátti tala við þá; þá kallaði hann hárri röddu, ok kvað:

Felmtr er yðarr fylki,
feigr er yðarr vísir,
græfr[3] yðurr gunnfari,
gramr er yðr Óðinn.

Ok enn:

Býð ek yðr at Dylgju
ok á Dúnheiði

[1]) Dýngju, *allstaðar J.* [2]) Josur, *allstaðar J.* [3]) gnæfr, *J.*

orrostu, undir
Jossar fjöllum;
hræsi yðr
at há hvörju[1],
ok láti svâ Óðinn
flein fljúga,
sem ek fyrimæli.

Þá Hlöðr hafði heyrt orð Gizrs, kvað hann:

Taki þèr Gizr,
mann Ángantýrs,
kominn af Árheimum!

Humli konúngr sagði:

eigi skulum
árum spilla,
þeim er fara
einir saman.

Gizr mælti: eigi gjöra Húnar oss vèsaða, nè hornbogar yðar. Gizr drap þá hest sinn sporum, ok reið á fund Ángantýrs, gekk fyrir hann, ok kvaddi hann vel. Konúngr spyrr, hvort hann hefði fundit Húna her[2]; Gizr mælti: talaða ek við hann, ok stefnda ek þeim á vígvöll at Dúnheiði á Dylgjudölum. Ángantýr spyrr, hvat mikit lið Húnar hafa. Gizr mælti: mikit er þeirra mengi: [3 ok 30 eru[3] fylki, í fylki hvörju 5 þúsund, í hvörri þúsund 13 hundruð manna, í hundraði hvörju [halir 20[4] fjórtaldir. Ángantýr lèt þá herör uppskera, ok sendi menn alla vega frá sèr, ok stefndi

[1]) *Hèr sýnist eitthvað ívanta.* [2]) konúng, *J.* [3]) *þannig leiðrètt eptir bls.* 496; 500 eru í, *A*, *J.* [4]) *þannig leiðrètt;* hálfs, *A*; háls, *J.*

hvörjum manni til sín, er honum vildi lið veita, ok vopnum mátti valda; fór hann þá á Dúnheiði með lið sitt, ok hafði 50 þúsundir; kom þá ámóti honum Húna herr, ok er svâ sagt, at liðsmunr væri svâ mikill í fyrstu, at 7 væri um einn Ángantýrs manna. Reistu nú hvorutveggju sínar herbúðir, ok sváfu af um nóttina.

19. At morgni komanda bjuggust hvorutveggju til orrostu, ok skipuðu fylkíngum; var þá blásit í lúðra, svâ at heyrðist um 20 mílur á hvörn veg, en landit allt skalf, sem á þræði lèki; síga nú saman fylkíngar; var fyrst skotit spjótum ok örfum, gaflokum ok flettiskeptum, armbristum ok pálstöfum, ok allt var þat á lopti haft, er mannsbani mátti verða, ok gekk þat lengi. En er skothríðinni lètti, brugðu þeir sverðum, ok tókst þá höggorrosta áköf, ok börðust þann dag allan; foru síðan til herbúða um kvöldit, ok hafði nú þríðjúngr fallit af liði Ángantýrs, en fátt af Húnum; dreif þá lið til Ángantýrs á nótt ok degi af öllum áttum. Um morguninn í ár tóku þeir til bardaga, ok var hann aungu óákafari, enn hinn fyrra daginn; var þar margr skjöldr brotinn ok brynja slitin, ok margr góðr riddari lèt þar sitt líf; gekk svâ allan daginn; snèri þá enn mannfallinu í lið Ángantýrs, ok skildi nótt bardagann; gekk þat eins til hinn þriðja daginn, at þeir börðust til kvölds, ok veitti Húnum betr. Hinn fjórða dag blèsu þeir öllu liðinu til mótvallar, ok hófu orrostuna með ógrligum trumbuþit ok lúðrs

hljóðum, ok varð nú ákafligt mannfall í liði Ángantýrs. Þetta getr at líta Gizr hinn gamli, ok eyrir hit versta; reið hann þá fram í her Húna, sem barnúngr væri, ok drap svâ margan mann, at seint er at telja; var enginn skjöldr svâ harðr, eðr hlíf traust, at stæðist fyrir hans höggum. Ormar barðist ok ágætavel í liði Gota, var hann þó lítt gróinn sára þeirra, er hann fèkk í hinum fyrra bardaganum. En hvar sem Ángantýr fór um herinn, hrökk allt undan honum; var þeim auugum lífs von, er hann náði til með Tyrfíngi; var nú svâ mikit blóð á vígvelli, at í belti tók. En sem daginn endaði, fóru þeir til tjalda, ok bundu sár manna sinna; var nú illr kurr í liði Gota, því Húnum veitti jafnan betr. Fóru þeir þó enn til orrostu hinn fimmta daginn, ok vörðu sik vaskliga, því Ángantýr sýndi jafnan hina drengiligustu framgaungu. Ok er áleið daginn, heyrðu þeir herblástr ok trumbuþit; var þar þá kominn Herlaugr með 60 þúsundir manna til liðs við Ángantýr; Ángantýr bað hann velkominn vera sèr í þörfum; síðan settu þeir sèr sínar herbúðir. Tók nú allr herinn á sik náðir um nóttina. En sem vígljóst var, tóku þeir til orrostu; var svâ mikit mannfall þann dag, at enginn vissi tölu á, en hestar óðu blóðit í brjóstgjarðir; varð þá eigi barizt lengr á vígvelli fyri dauðra manna búkum, ok hallaðist nú mjök bardaginn á Húna. Hinn níunda daginn sendi Hlöðr boð til Ángantýrs, ok bað, at þeir hvíld-

ust þann dag, til at skepta spjót ok styrkja skildi; Ángantýr játaði því; voru þá höfðíngjar allir heilir. Hafði nú Ángantýr eigi minna lið, enn í fyrstu, er bardaginn hófst, 50 þúsundir, því alltíð hafði safnast at honum lið, bæði á nóttu ok degi; en Hlöðr hafði þá eigi meira eptir af öllum sínum her, enn 40 þúsundir, en af hans liði voru fallnar þrisvarsinnum hundrað þúsundir, þrjátígi þúsundir ok átta hundruð betr; en eigi greinir, hvat margt lið Ángantýr hafði mist, ok nefna fornsögur eina þessa orrostu mesta fyri norðan haf. En er sá tíundi dagr kom, skyldi til stáls sverfa með þeim, svâ annarhvârr yrði frjáls at kvöldi; eggjar Hlöðverr nú Húna af megni, ok kvað íllt mundi Gota griða at biðja: vilda ek finna Gizr enn gamla, áðr enn lýkr þessari orrostu, því við egum nokkut við skrafast. Í annann stað mælti Ángantýr til sinna manna: sækju vèr fram hermannliga, ok verjum frelsi vort ok fóstrjörð; Herlaugr kvaðst honum gjarnan fylgja skyldu, ok sagðist eiga at hefna systurdóttur sinnar á Húnum. Síðan setti hvorutveggi herinn horn at munni sèr, ok blèsu herblástr, svâ fjöllin tóku undir, en heyra mátti vel 20 mílur, er þeir riðu til orrostunnar. Síðan brugðu þeir sverðum, ok tóku at berjast, var þar aungum hugar at frýja. Hlöðr reið nú fram fremstr sinna manna, ok drap liðit á tvær hendr, sem hit ólmasta león, ok hvar sem hann hitti á þykkva fylkíng, hjó hann 12 í höggi til bana;

skaut nú mörgum skelk í brîngu, ok sögðu, at engi mundi í hernum hans líki vera, barr hann sína báða arma blóðuga uppá axlir, ok lètti aldrí þessari sókn, til þess hrökk undir miðdegi. Humli konúngr gekk bezt fram í liði Húna, nærst Hlöðvi, ok var þeim aungvum lífs von, er hann kom sverðshöggi á. En í Gotaher sýndu þeir ágætasta framgaungu, Ángantýr konúngr, Herlaugr ok Gizr gamli; feldi Ángantýr jafnan 12 í höggi, ef hann fann þá svâ saman; sáust þeir bræðr lengi við, ok riðust hjá í orrostunni, svâ hvorigr rèð at öðrum. Var nú margr þykkr hjálmr klofinn, ok sterk brynja rifin; mátti þar líta margan riddara holhöggvinn, ok hest lausan með söðli hlaupa. Flugu þá örvar ok spjót svâ þykkt, at eigi sá sólina fyrir, en vopnagnýrinn svâ mikill, at enginn skildi, hvat annar talaði; urðu þá margir skjótir atburðir, þótt hèr sèu fáir greindir. Nú hittast þeir í bardaganum Humli konúngr ok Ormar, ok áttust við hart vopnaskipti, ok lauk svâ, at Ormar fèll dauðr niðr. Þetta gat at líta Gizr hinn gamli, ok hjó til Humla konúngs; kom sverðit á öxlina, ok leysti frá höndina með síðunni, fèll konúngr þá dauðr af hestinum. Þetta sèr Hlöðr ok ríðr at Gizuri, ok höggr til hans af öllu afli í hjálminn, ok klýfr hausinn, brynjuna ok búkinn, söðulinn ok hestinn, sundr í miðju; nam sverðit í jörðu staðar. Herlaugr er nú nær staddr, ok reið at Hlöðvi, svâ mælandi: þora mun ek at

deyða þetta tröll, ella skal ek fá slíkt högg af honum sem Gizr; hann höggr nú af öllu afli til Hlöðvers, ok kom í hjálminn, ok tók af þat, er nam; hrökk þá sverðit útaf á öxlina, svâ brynjan falsaðist, ok varð konúngsson lítt sárr; hann höggr nú ímóti til Herlaugs, en hann veik sèr undan; nam þó oddrinn brjóstit, ok risti brynjuna, ok þar með kviðinn. Ángantýr sèr nú þetta, ok ríðr fram ímilli þeirra, ok höggr til Hlöðvers með Tyrfíngi; en hann barr undir sverðit, ok tók Tyrfíngr þat til miðs í sundr; varð hèr af gnýrr mikill; börðust þeir svâ lengi dags, at Ángantýr kom hvârki á hann höggi nè lagi; höggr þá Ángantýr hjöltun bæði af sverði Hlöðvers með Tyrfíngi, ok sljófgaðist hann eigi við þat. Nú höggr Hlöðr til Ángantýrs í hjálminn, en hann var svâ harðr, at ekki sakaði, stökk þá sverðit í sundr þar, sem Tyrfíngr hafði áðr tekit. Ángantýr hjó enn til Hlöðvers; en hann barr undir þat, sem eptir var af sverðinu; nam Tyrfíngr öxlina við brjóstit, ok gekk oddrinn á hol; gjörði þá Ángantýr ekki at meira, ok skildu við þat, gafst þegar upp bardaginn; var þá svâ fallinn herr Húna, at ekki lifðu eptir meira, enn 3 hundruð manna af öllum þeim mikla fjölda, en þó allir sárir ok móðir; en 15 þúsundir lifðu eptir af mönnum Ángantýrs ok Herlaugs; býðr nú Ángantýr Húnum grið, ok þáu þeir þat gjarna. Ferr nú Ángantýr at leita Herlaugs, ok fann hann um síðir;

hafði Herlaugr riðit lángt í burt af vígvelli til herbúðanna, ok lág nálægt konúngs tjöldum, hafði hann vafit klæðum um lífit, en ekki mátti hann mæla; flutti konúngr hann heim í tjald sitt, ok saumaði saman kviðinn með silkiþræði, ok lagði hann síðan í silkisæng; var þá orðit myrkt af nótt; gengu menn nú til náða, ok sváfu af um nóttina[1].

20. At morgni komanda lætr konúngr kanna valinn, ok fannst þar enginn lifandi maðr, höfðu þeir allir druknat í blóðinu, er sik báru eigi af vígvelli. Fór þá konúngr at leita Hlöðvers, ok fann hann dauðan á einum háum hól; þá kvað hann þetta:

Bauð ek þèr, bróðir!
óskir tvær[2],
fè ok fjöld[3] meiðna,
sem mik framast tíði[4];
nú hefir þú hvorki
hildar at gjöldum
ljósa bauga,
nè land ekki.

Ok enn kvað hann:

Bölvat er okkr, bróðir!
bani em ek þinn orðinn,
þat mun enn uppi,
illr er dómr norna.

[Lèt Ángantýr síðan heygja hann á þeim sama hól, sem hann hafði fallit, ok þrjá aðra með

[1]) *þessi kapituli er allr fáorðari í J.* [2]) *hèr er eyða fyrir 1 eða 2 hendíngum í J.* [3]) fold, *J.* [4]) tiddi, *J.*

honum, þá fremstu, sem áðr eru nefndir; en öllum almúga var rudt saman í stóra búnka, ok ausit moldu yfir; var þessi orrostustaðr 8 mílur í kríng, sem valrinn hafði fallit; sèr nú enn í dag merki til hauganna. Er þat sagt, at Reiðgotaland ok Húnaland sè nú Þýðskaland kallat; Þýðskaland er talit 12 konúngaríki, sem Norvegr. Ekki er þess getit, hvort Ángantýr tæki undir sik Húnaland eðr eigi. En þá Herlaugr var gróinn sára sinna, fór hann til Garðaríkis, ok þótti hinn bezti drengr; höfu vèr eigi heyrt sagt af honum framarr[1]. En Ángantýr konúngr stýrði Reiðgotalandi til dauðadags, ok líktist mjök Höfundi konúngi, afa sínum; hans son var Heiðrekr úlfshamr, er ríki tók eptir föður sinn, ok rèð hann því lánga tíma; hann átti dóttur, er Hildr hèt; hún var móðir Hálfdánar snjalla, föður Ívars hins víðfaðma[2]. Ívar hinn víðfaðmi kom með her sinn í Svíaveldi, sem segir í konúngasögum; en Íngjaldr konúngr hinn illráði hræddist her hans, ok brendi sik sjálfan inni með allri hirð sinni[3]. Ívar hinn víðfaðmi lagði þá undir sik allt Svíaveldi; hann vann ok Danaveldi, Kúrland, Saxland ok Eystland, ok öll austrríki allt til Garðaríkis; hann rèð ok Vestra-Saxlandi, ok vann einn hluta Englands, er þat kallat Norðymbraland; setti hann þá Valdar konúng yfir Danaveldi, ok gipti honum Álfhildi

---

1) *frá merkinu* [ *v. í J.* 2) víðfarna, *allstaðar J.* 3) á þeim stað, er Ræníngi heitir, *b. v. J.*

dóttur sína; þeirra synir voru þeir Haraldr hilditönn ok Randverr[1]. Valdar andaðist í Danmörk[2]; en Haraldr hilditönn lèt gefa sèr konúngsnafn í Gotlandi, ok síðan lagði hann undir sik öll þau ríki, er Ívar konúngr hinn víðfaðmi hafði átt[3]; sonr Randvers, bróður hans,

[1]) er síðan fèll á Englandi, *b. v. J.* [2]) tók þá Randverr Danaríki, ok gjörðist konúngr yfir, *b. v. J.* [3]) *I stað þess sem eptir fylgir hefir J þannig niðrlagið:* Randverr konúngr fèkk Asu, dóttur Haralds konúngs ens gotrauða norðan úr Noregi; son þeirra var Sigurðr hríngr. Randverr konúngr varð bráðdauðr, en Sigurðr hríngr tók konúngdóm í Danmörk; hann barðist við Harald konúng hilditönn á Brávelli í Eystra-Gotlandi, ok þar fèll Haraldr konúngr ok mikill fjöldi liðs; þessarar orrostu hefir helzt verit getit í fornum sögum, ok mest mannfall í orðit, ok sú, er Angantýr ok hans bróðir Hlöðr börðust á Dúnheiði. Sigurðr konúngr hríngr rèð Danaríki til dauðadags; en eptir hann Ragnar konúngr loðbrók, son hans. Sonr Haraldar hilðitannar hèt Eysteinn hinn illráði; hann tók Svíaríki eptir föður sinn, ok rèð því, þartil er synir Ragnars konúngs feldu hann, svâ sem segir í hans sögu. Þeir synir Ragnars konúngs lögðu þá undir sik Svíaveldi; en eptir dauða Ragnars konúngs tók Björn, son hans, járnsíða Svíaveldi, Sigurðr Danaveldi, Hvítserkr Austrríki, Ivar hinn beinlausi England. Synir Bjarnar járnsíðu voru þeir Eirekr ok Refill; hann var herkonúngr ok sækonúngr; en Eirekr konúngr yfir Svíaríki eptir föður sinn, ok lifði litla hríð. Þá tók ríkit Eirekr, son Refils; hann var mikill hermaðr ok allríkr konúngr. Bjarnar synir voru þeir Eirekr Uppsali ok Björn konúngr; þá kom Svíaríki enn í bræðra skipti; þeir taka ríki eptir Eirek Refilsson. Björn konúngr efldi þann stað, er at Haugi heitir; hann var kallaðr Björn at Haugi; með honum var Bragi skáld. Önundr konúngr hèt son Eireks konúngs, er ríki tók eptir föður sinn at Uppsölum; hann var ríkr konúngr; á hans dögum hófst til ríkis í Noregi Haraldr konúngr hinn hárfagri, er fyrstr kom einvaldi í Noregi sinna ættmanna. Björn hèt son Önundar konúngs at Uppsölum; hann tók ríki eptir föður sinn, ok rèð lengi. Synir Bjarnar voru þeir Eirekr hinn sigrsæli ok Olafr; þeir tóku ríki eptir föður sinn ok konúngdóm; Olafr

var Sigurðr hríngr, faðir Ragnars loðbrókar. Sonr Ragnars var Björn járnsíða; hans son var Áslákr; sonr Ásleiks var Haraldr hryggr, faðir Björns byrðusmjörs; hans son var Þórðr, er nam fyrstr Höfðaströnd í Skagafirði á Íslandi,

var faðir Styrbjarnar hins sterka; á þeirra dögum andaðist Haraldr, konúngr hinn hárfagri. Styrbjörn barðist við Eirek konúng, föðurbróður sinn, á Fírisvöllum; þar fèll Styrbjörn; síðan rèð Eirekr Svíaríki til dauðadags; hann átti Sigríði ena stórráðu; Olafr hèt son þeirra, er til konúngs var tekinn í Svíþjóð eptir Eirek konúng; hann var þá barn, ok báru Svíar hann eptir sèr, því kölluðu þeir hann skautkonúng, en síðan Olaf Sænska; hann var lengi konúngr ok ríkr; hann tók fyrst kristni Svía-konúnga, ok um hans daga var Svíþjóð kölluð kristin. Önundr hèt son Olafs konúngs Sænska, er konúngdóm tók eptir hann, ok varð sóttdauðr; á hans dögum fèll Olafr konúngr helgi á Stiklastöðum. Eyvindr hét annar son Olafs Sænska, er konúngdóm tók eptir hróður sinn; um hans daga hèldu Svíar illa kristni. Eyvindr var litla hríð konúngr. Steinkell hèt ríkr maðr í Svíaríki ok kynstórr; móðir hans hèt Astríðr, dóttir Njáls Finnssonar ens skjálga af Hálogalandi; en faðir hans var Rögnvaldr hinn gamli. Steinkell var fyrstr (fyrst) jarl í Svíþjóð, en eptir dauða Eyvindar konúngs, tóku Svíar hann til konúngs; þá gekk konúngdómrinn úr lángfeðgaætt í Svíþjóð enna fornu konúnga. Steinkell var mikill höfðingi; hann átti dóttur Eyvindar konúngs; hann varð sóttdauðr í Svíþjóð, nær því, er Haraldr konúngr fèll á Englandi. Ingi hèt son Steinkels, er Svíar tóku til konúngs nærst eptir Steinkel; Ingi var þar lengi konúngr ok vinsæll, ok vel kristinn; hann eyddi blótum í Svíþjóð, ok bað fólk allt þar at kristnast; en Svíar höfðu ofmikinn átrúnað á heiðnum goðum, ok hèldu fornum siðum. Ingi konúngr gekk at eiga þá konu, er Mær hèt; bróðir hennar hèt Sveinn; Inga konúngi þóknaðist enginn maðr svâ vel, ok varð Sveinn því í Svíþjóð hinn ríkasti maðr. Svíum þótti Ingi konúngr brjóta forn landslög á sèr, er hann vandaði um þá hluti marga, er Steinkell, faðir hans, hafði standa látit. A þíngi nokkru, er Svíar áttu við Inga konúng, gjörðu þeir honum tvo kosti, hvort hann vildi heldr halda við þá forn lög, eða láta af konúngdómi. Þá mælti Ingi konúngr,

einn hinn ágætasti landnámsmanna; hann átti 11 syni ok 8 dætr, ok eru miklar ættir frá þeim komnar; ok endum vèr svâ söguna af Hervöru ok Heiðreki konúngi, syni hennar.

ok kvaðst eigi mundi kasta þeirri trú, sem rètt væri; þá æptu Svíar upp, ok þreyngdu honum með grjóti, ok ráku hann af lögþínginu. Sveinn, mágr konúngs, var eptir á þínginu; hann bauð Svíum, at efla blót fyri þeim, ef þeir gæfi honum konúngdóm; því játa þeir allir við Svein; var hann þá til konúngs tekinn yfir alla Svíþjóð; var þá framleidt hross eitt á þíngit, ok höggvit í sundr, ok skipt til áts, en rjóðuðu blóðinu blóttrè; köstuðu þá allir Svíar kristni, ok hófust blót; en þeir ráku Inga konúng í burt, ok fór hann í Vestra-Gautland. Blót-Sveinn var 3 vetr konúngr yfir Svíum. Ingi konúngr fór með hirð sína ok sveit nokkra, hafði þó lítinn her; hann reið austr um Smáland ok í Eystra-Gautland, svâ í Svíþjóð, reið bæði dag ok nótt, ok kom óvart Sveini, snemma um morgun. Þeir tóku á þeim hús, ok slóu í eldi, ok brendu þat lið, er inni var; Þjófr hèt lendr maðr, er þar brann inni; hann hafði áðr fylgt Blót-Sveini; Sveinn gekk út, ok var drepinn. Ingi tók svâ konúngdóm at nýu yfir Svíum, ok leiðrètti þá enn kristnina, ok rèð ríkinu til dauðadags, ok varð sóttdauðr. Hallsteinn hèt son Steinkels konúngs, bróðir Inga konúngs, er konúngr var með Inga konúngi, bróður sínum. Synir Hallsteins voru þeir Philippus ok Ingi, er konúngdóm tók í Svíþjóð eptir Inga konúng gamla; Philippus átti Ingigerði, dóttur Haralds konúngs Sigurðsonar; var hann skamma stund konúngr.

---

